Mag. Joons Þorkiels Sonar Widalins

(Fordum Biskups i Skal-hollts Stifte)

# Huss-Postilla,

Innehalldande

## Gudrækelegar

# Predikaner

yfer øll Haatijda og Suñudaga

## Gudspiøll.

---

## Sijdare Parturenn,

Fraa Trinitatis Haatijd til Adventu.

Editio X.

Hoolum i Hiallta-Dal,
Þryckt af Joone Joons Syne,
1798.

# A Trinitatis Hátijd.

## Gudspialled, Joh. 3. Cap.

I Pañ Tijma, var þar eirn Madur af Phariseunum, Nicodemus ad Nafne, eirn Hofdinge Gydinga. Hañ kom til Jesu a Nœttarþele, og sagde til hanns: Rabbi, vier vitum ad þu ert eirn Lœremeistare komeñ af Gude, þvi eingeñ gietur giort þau Teikn sem þu giorer, utañ Gud sie med honum. Jesus svarade og sagde til hañs: Sañlega, sannlega seige eg þier, þad eingeñ nema hann, sa ed fœdest ad nyju, fær ad sia Guds Rijke. Nicodemus sagde til hañs: Hverneñ ma Madureñ endurfœdast þa hañ er gamall? Hvert gietur hañ horfed aptur i siñar Moodur Kvid, og fœdst so ad nyju? Jesus svarade: Sañlega, sannlega seige eg þier, nema þad nockur verde endurfœddur wt af Vatne og Anda, þa kañ hañ ecke inn ad gañga i Guds Rijke. Hvad af Hollde er fœdt, þad er Holld; Eñ hvad af Andanum er fœdt, þad er Ande. Undrast þu ecke, ad eg sagde þier, ad ydur byriar ad fœdast ad nyju. Vindureñ blæs hvar er hañ vill, og þu heyrer hañs Þyt, eñ eige veitst þu hvadañ hann kiemur, eda hvert hañ fer. So er og sierhver af Andanum fœddur. Nicodemus svarade og sagde til hañs: Hverneñ ma þetta skie? Jesus svarade honum, og sagde: Ertu eirn Meistare i Israel, og veitst ecke þetta? Sañlega, sañlega seige eg þier, ad vier seigium þad vier vitum, og vitnum hvad vier sied hofum, og vorn Vitnisburd medtaked þier ecke. Hafe eg sagt ydur jardneska Hlute, og þier trwed ecke, hverneñ munud þier þa trwa, ef eg segda ydur himneska Hlute? Eingeñ uppstijgur til Himens, utañ sa sem ofañ stie af Himne, Mañsins Sonur, sa sem er a Himne. Og so sem Moyses upphoof Hoggormeñ a Eydemorkeñe, lijka so byriar Mañsins Syne upp ad hefiast, so ad aller þeir sem a hañ trwa, fortapest eige, helldur ad þeir hafe eilijft Lijf.

### Exordium.

Mikel var Blindne Heidingiaña fordum Daga i Guds Dijrdkan, hiner vijsustu af þeim sogdu, ad eitt miked Rijke kyñe ecke leinge ad standa fyrer utañ Einvallds-Dæme, þo skopudu þeir sier otal Gude til ad stioorna allre Ver-

Verolldenne, so sem eirn være ecke færum ad rada fyrer þvi, er þeir þo af Natturunnar-Lioose þeckia mætta, ad hann sialfur skapad hefde, og so ad þeir a einhvern Hatt feingiu smijdad sier Einvallds-Dæme i Heimenum, þa trwdu þeir ad eirn være þeirra mestur fra ed ødrum stioornade, atte þo slijkt ad vera epter mannlegum Plagsid, so ad hann þurfte þeirra vid a Stundum, eins og Agamemnon sinna Under-Konunga, þott hann hiete hia Grickium Konunganna Konungur. Þegar eg athuga þetta, þa kiemur mier i Hug þad sem Paulus skrifar, 1. Cor. 3: Ad Speke Veralldar þessarar sie Heimska hia Gude, og under eins brennur mitt Hiarta i mier af Elskunne til mijns Skapara, ad hann hefur opennberad oss sijnum Vesælingum, þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum, þar vier trwum a einn Gud þrennann i Einingu og einann i Þrenningu, hver ed einkis vid þarf, enn aller hanns, og er Sialfræde allra Hluta, bæde a Himne og Jordu, so sem David seiger i Psalm. 115. Vor Gud er a Himnum, og giorer hvad honum lijkar. Þessarar haleitu Guddoomsins Þrenningar veglega Hatijd eigum vier nu i Dag ad hallda, a hverre oss verdur predikad þad Evangelium sem innebindur þa hellstu Velgiorninga, er Fader, Sonur og heilagur Ande hafa veitt oss syndugum Monnum til Myskunar, þad er Endurgietningenn og Endurlausnenn, af hveriumm allt annad hanger, sem hinn nadunge Gud vill lata oss þioona til Saaluhialpar. Umm sialfa Hlutena hefe eg adur i þessare Book vijda talad: Enn þad er merkelegt i þessu Gudspialle, ad hier kiemur einn Hofdinge Gydinga, einn Meistare i Jsrael til ad læra þessa himnesku Fræde af honum, sem til þess var sendur wr Fodursins Skaute, ad opennbera hana syndugum Monnum. Þvi vilium vier nu hier af athuga einn froomann, enn þo favijsann Læresvein, og under eins einn goodann og so alvijsann Meistara, med þeim Lærdoomum er þeirra Samtal med sier færer. Styrk oss til þessa Verks goode Gud med Nad þijns Anda, fyrer Sonarens Forþienustu, A M E N.

## Utleggingenn.

Þar Var Einn Madur Af Pharisæunum, segier Textenn: Hvilijkann Vitnisburd Drottenn giefur þessum Flock, ma allvijda sia i Gudspiallamannanna Bookum, og þo ecke sijdst hia Matth. 23. Cap. Hvar hann medal annars kallar þa Eitur-Orma og Nodru-Kyn, þo fanst þesse gudhrædde Madur medal þeirra; Þad Ord stendur stodugt umm Æfe, ad þecker Gud þa sem hanns eru, seiger Postulenn.

Lær þad af þessa gooda Manns Dæme, christenn Madur, ad ei samlager þu þig vondre Verolldu þessare, þo þu hlioter i henne ad lifa. Þar var þo einn Abraham i Gerar, einn Loth i Sodoma, einn Hobadia i Achabs Hwse, einn Simeon, einn Zacharias, þesse Nicodemus og Joseph af Arimathia a Christi Døgum, hverier hiner sijdustu tveir ecke samþycktust Gydingum i Lijflate Drottens, Luc. 23. So vared ydur og, Børn mijn, þier sem lifed i hreckvijsre Olld þessare medal vor, enn vilied þo Drottenn ottast, ad ecke draged þier Ok med henne, so þier ei medtaked af hennar Plagum, hell-

 ur

ur skijned so sem Lioos i myrkvum Stad a medal þessarar prettvijsu Kynslooðar, og treysted þvi, ad sw alvollduga Bæn er Frelsarenn beidde fyrer sijnum Læresveinum, hun nær og til ydar, ef þier otteſt Gud, þar hann sagde: Joh. 17. Eg bid þig Fader, ecke ad þu taker þa burt wr Heimenum, helldur ad þu vardveiter þa fyrer hinum vonda. Siooren er salltur, enn Fiskarner sem þar inne lifa, þeir eru þo ecke sallter. So eiga Guds Born ad vakta sig fyrer Spillingu þeirre sem i Heimenum er af Gyrndenne, so sem Petur ad Orde kiemst; þoott þau verde ad synda i giegnum þenna fwla Damm, a medann Gud vill reyna þau med þvi, ad horfa uppa alla þa Ohæfu, sem þar inne framenn verdur. Þesse Madur, var einn Hofdinge Gydinga, an Efa einn af þeim 70. Olldungum þess mikla Rads, samt var honum so miog giefed um Velferd Saalar sinnar, ad hann þoottest ecke of-goodur til ad læra af Jesu, hvern hanns Lagsmenn kolludu Vijnsvelg, Vin Tollheimtumanna og bersyndugra. Hvad giora þeir hier, a moot, er sig kalla Hofdingia medal vor? Og eru þo Vesælingar ad reikna hia Nicodemo; Eg voga ad segia, þeir vita ecke sumer hvad þeir eiga ad trwa, Frædenn hafa þeir lært ad sonnu, enn eg þecke þa sem ecke skilia ollu meir i þeim, helldur enn Gieldingur Drottningarennar Candaces i Spaadoome Esajæ, enn hvert þeir eru so leidetamer til ad laata sier undervijsa so sem hann var, þegar Philippus til hanns kom, Act. 8. Þad bid eg þa ad hugleida, sem jafnvel hata sijna Saalusorgara fyrer heilsusamlegar Kienningar, og þoott sumer af þeim meige vita ad nockru leite, hvad þeir eiga ad trwa og giora, þa meiga þeir þo ecke Sannleikann heyra af Prestsins Munne Reidelaust: Medann hann þeiger yfer Lijtum þeirra og Skommum, þa er hann Guds Engell, enn tale hann um nockra Ohlutrendne, þa sturlar hann Jsrael eins og Elias, 1. Reg. 18. Hann flytst under Caldæos eins og Jeremias, Jer. 37. Og verdur allt til Saka funded, Gud bettre þessa Tijma, taled þad sem oss er þocknanlegt sogdu Judar fordum, sw Olld er apturkomenn, Spaadoomur St. Paals er rættur, þeir samannhrwga sier Lærendum epter þvi sem Eyrun klæa, Menn laata so vænt ad Loftum sijnum, eins og Mooder ad einasta Syne, jafnvel þo þeir sieu bæde marger og liooter, Menn elska sinn eigenn Þreck, eins og Siaalldur Auga sijns, so eru Menn vidkvæmer, nær hann snertur er, so sem væru þad Saar, og ad mestu Leite eru vorer Hofdingiar so lynder eins og Joachim Konungur, þa hanns Þienare Judi hafde lesed honum þriu eda fiogur Blod af Spaadoome Jeremiæ, þa skar hann Bookena i sundur og kastade henne i Elldenn, Jer. 36. Eg ætla þa einu gyllte þo allar Bækur være brendar sem hliooda um Guds Otta, og alls er Munnar tilbyrgder sem þar um tala.

Nicodemus kom til Jesum a Nættar-Þele, an efa fyrer Otta saker eins og Joseph af Arimathia, er var heimuglegur Christi Læresveinn, sokum Hræðslu vid Gydinga, Joh. 19. Veikleike fannst nockur hia þessum goodu Monnum i slijku, og þo var þad Upphaf til þeirra Hiaalprædis; Enn þu sem eingann þarft ad ottast i þvi ad fylgia Christo epter; Tak þier Dæme af Nicodemo i þvi, ad vilia læra af honum, og þeim sem hann

hefur

hefur i siñ Stad sett, eñ ecke i þvi ad fordast Verolldena ad slijku; Pad er audrædt af Samtale Drottens vid hañ, ad hañ hefur ecke vered miøg froodur i Christeñdoom̃enum þegar hañ fyrst kom; enn ecke varde þad leinge, þar til hann vogade ad forsvara Christum berlega i Raadenu, er hañ sagde: Dæmer nockud vort Logmaal Mañeñ neina hañ sie ædur heyrdur, Joh. 7. Og mætte heyra þar fyrer: Ert þu og ordeñ Galilæus? Sem var hin mesta Smæan medal Gydinga. Pad mætte sijnast ad wte være m̃z Christ, þegar hañ var so sem Illrædis Madur til Dauda dæmdur og a Gaalgañ uppfestur, hvar hañ liet sitt saklausa Lijf; Ecke er lijklegt ad þeir Joseph mune hafa vered froodare um̃ Uppristuna helldur eñ Læresveinarner, samt vogudu þeir ad greptra hañ, og vordu þar til Fiemunum sijnum: So er Gud kroptugur i goodum Vilia, þo veikur sie, enn þu sem vordeñ ert sannfroodur um̃ Dijrd Drottens i hañs Upprisu, og veitst ad hañ situr til Kraptarens hægre Handar; Breit epter Nicodemo i þessu, og lat þier einkis Maal so skylldt vera, ad þu nfrækest riett ad giora; Lat einga Veralldar Makt so ofbiooda þier, ad þu i miñsta Maata skierder Dijrd þijns Guds i þvi ad fremia þad epter Mannaña Bode, sem hann bañad hefur. O! hversu faavijser og onijter eru aller þeir, er kalla sig ohullta nær þeir giora allt hvad hiñ volldugre bijdur þeim; Heyre þier hvad Drotteñ segier fyrer Muñ Zophoniæ, Cap. 1. Eg skal a þeim Deige straffa alla þaa sem stockva yfer Þroskullda, hverier ed uppfylla Hws Drottna sinna med Raane og Svikum. Sama er um̃ allt añad ad segia sem nockur Ofrijkis Madur bijdur a moote Guds Bode; hvert hann er hærre eda lægre Stiettar, þañig var nu Nicodemo hattad sem ædur er sagt þaa hañ kom til Jesum, eñ hvert Eyrended vered hafe, er audsært af Lausnarans Andsvare, þo ecke stande hañs Spurning wtþryckelega i Gudspiallenu, hañ hefur æn efa viliad frædast af Drottne, med hveriu moote hañ kyñe Guds Rijke ad erfa; Eñ Drotteñ sem allt visse hvad med honum bioo, hann svarar honum ecke eins og hinum rijka Yngis-Mañe, hia Matth. 19. Er friette hañ ad hvad hañ giora skyllde so hañ mætte eignast eilijft Lijf, hverium hañ vijsade til Logmaalsins, af hvers Verkum engeñ kañ þo hoolpeñ ad verda; Hvar fyrer? Af þvi hann þocktest Logmaaled uppfyllt hafa; Ecke so sem Phariseis og Herodis Þienurum, er komu til hañs med vidlijkum Formaala og Nicodemus, enn þo fuller af Underhyggiu og Flaattskap, og spurdu ad, hvert ad leyfdest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei: Ecke so sem Kieñemoñunum og Olldungunum, er spurdu hañ ad, af hverium Myndugleika hann kiende, Matth. 21. Drotteñ visse ad Nicodemus var i Logmaalenu neogu froodur ad Gydinga Plagsid, þvi hañ var eiñ Meistare i Jsrael, þar fyrer tesur hañ ecke ad undervijsa honum i þvi sem honum var Aboota vant, og opnade honum enar fyrstu Dyr Lijfsins Vegar, sem er Endurfædingeñ, med þessum Ordum: Nema Ad Einhver Fædest Ad Nyu Þaa Kañ Hañ Ecke Ad Siaa Guds Rijke. Hier af maa siaa hversu megnt Faafræde ad drottnad hefur medal Gydingaña i andlegum Efnum þegar Christur kom. Þad sijnest ad þeir hafe ecke þeckt Uppruna Syndena, jafnvel þo þeir mættu lesa hiaa

David, Pſ. 51. I Syndeñe em eg aleñ, og i Syndeñe hitnade miñe Moodur med mier: Ecke Endurfædinguna, edur ætlad ad Umſkurneñ munde vera heñar Medal af Gude tilſkickad, helldur ſo ſem nockurskonar wtvortis Teikn, med hveriu Iſraels Foolk være adgreint frꜳ odrum Þioodum, þar þo Moyſes ſegier þeim berlega, Devt. 30. Drotteñ mun umſkiera þitt Hiarta og þijns Sædis Hiarta til ad elſka Drotteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe ſo ad þu lifer, Hvar ei kañ ad vera añad meint eñ þad ſem Paulus umtalar, Rom. 2. Er hañ nefner Umſkurn Hiartans ſm er i Andanum og ecke i Book-Stafnum, hverrar Loſtijr ecke er af Moñum helldur af Gude. Ur þeſſare Villu vill nu Drotteñ fyrſt hiꜳlpa Nicodemo, og meigum vier chriſtner Meñ odaudlegar Þacker Gude kuña, ecke einaſta fyrer þad hann hefur endurgieted oſs til eiñar lifande Vonar, ſm Petur ad Orde kiemſt, 1. Pet. 1. Helldr og þad, ad hvert Barned ꜳ medal vor ꜳ Koſt ꜳ, ad nema þa himneſku Speke um Endurgietninguna og hennar Krapt, ſem þeſſe hꜳlærde Ölldungur viſſe eckert af. Gud giæfe ad bæde Kiennefedur og Forelldrar hefdu ſo mikla Aſtundan ꜳ, ad brijna þvilijkt fyrer ſijnum Bornum og hinum einfolldu, ſo ſem þad er lioost i Guds heilaga Orde, þa mundu Meñ ecke ſo optlega flecka ſitt Skijrnar-Klæde ſem Menn giora, þꜳ mundum vær hafa meira Trauſt i Mootgꜳngenum og i Freiſtingunum, af þvi ad vier erum Chriſtó iñplantader og ſetter i hañs Rijke, og Kraptur Skijrnareñar munde framar augliſa ſig i Endurnijungu Lijfdagaña, og Deydingu Holldſins helldur eñ almeñelega ſkiedur. Þad er merkelegt, ad Endurlauſnareñ brwkar þetta Ord, Ad Fædaſt Ad Niju. Skijrneñ er ecke neiñ Stundar Þvottur, er giorer Mann hreinann um Sinn fyrer Gude, helldur verdur hiñ ſkijrde nij Skiepna i Guds Auglite, og þar fyrer kallaſt þad Endurgietningar Laug, Tit. 3. Hverrar Kraptur varer um allañ þeſs Alldur, er ecke afræker ſinn Skijrnar Sꜳttmꜳla, helldur koſtar Kapps um ad endurnija hañ med Betrun Lijferneſins daglega. Siꜳed til, Born mijn, Madurenn fædeſt i Heimenn daudur i Uppruna Syndenne, blindur i ſijnum Sꜳluhiꜳlpar Efnum, þvi holldlegur Madur ſkyniar ecke hvad Guds Anda er, ſegier Paulus, 1. Cor. 12. Er þad ecke þꜳ ad fædaſt ad niju, ad heilagur Ande i Skijrnenne upplijſer Hugſkoted, endurſkapar Viliann, og giefur oſs nijar andlegar Gꜳfur, ad vier ſꜳum ſied Guds Rijke, þeckt þad i Trwnne, ſamſiñt þvi er um þad talad verdur, ad vier leitum þeſs, lꜳngar epter þvi, og odlunſt þad um ſijder, hvad omogulegt er Hollde og Bloode, ſo ſem Poſtuleñ vottar, 1. Cor. 15. Spekingarner ſegia ad Madureñ ſie Madur fyrer Sꜳlarennar Skulld; Þvi annars bere hañ eckert af Kvikiñdunum, ſo er hann og Guds Madur alleina, fyrer heilagañ Anda, er vier i Skijrneñe medtokum, añars er hañ ecke einaſta ſkynlaus, helldr og daudur i andlegañ Mꜳta; Þvi er þetta Guds Verk riett kallad Endurfæding.

I añann Mꜳta er oſs kuñugt, ad vier fædunſt i Heim þenna Born Reideñar, ſem Paulus ſkrifar; Þañeg er vor nꜳtturleg Fæding, eñ i Skijrneñe verdum vier Guds Born, þar verda oſs fyrer alls eckert alleina fyrer Jeſu Chriſti Forþienuſtu Synder-

nar

nar fyrergiefnar, eñ vier riettlætter fyrer hañs Naad, og til Arfs tekner med Guds Syne; Þvi so wtmælar Paulus Endurfædinguna, Tit. 3. Segied mier: Er ecke slijkt ad niju fæddur ad vera? J Þridia Maata, iñebindur og Skijrneñ i sier Avoxt Endurfædingareñar, sem er Endurnyungeñ, hver ed dagléga a fram ad koma og i Voxt ad fara; fyrer hveria Madureñ endurfæddur verdur ein nij Skiepna, 2. Cor. 5. skapadur i Christo til goodra Verka i Skijrnenne eñ iklædest daglega einum nijum Manne, sem endurnijast epter hanns Mynd er hañ skapad hefur, og i þessu þreñu er Endurgietningenn foolgen, hveria Drottenn vill teiknad hafa, m: þvi Orde ad fædast ad niju. Þo skal engenn so daarlegur vera, ad hann meine ad þad noog sie, ad færa Borneñ a Kyrkiuna, og laata þau þar Vatne ausa, og tala Guds Ord yfer, eñ alldrei sijdañ vekia i þeim Krapt þessa himneska Medals med gudrækelegre Uppfrædingu. Þolanlegra være ad kasta þeim wt a Morkena, og laata upp eta af Vorgum, sm þo er hiñ verste Glæpur, helldur eñ ad ala þad upp, sem Gud skapade i Moodur-Lijfe, og endurskapade med heilogum Anda i Skijrnar-Laugeñe, Fiandanum til Þioonustu og honum i Braad, sem er Guds svarenn Ovinur. Umskoreñ var Nicodemus, endurgietenn var hann epter þeirre Guds Skickan sem varde allt til Christum, eñ þo vár hañ so Ofroodur um sialfs sijns Endurfædingu. Meinar þu ad Barne þijnu, sem kañ skie alldrei fær ad heyra nema Fawitskuna, þvi mune betur farnast eñ þessum Lærda Mañe? nema þu aler þad a hiñe hreinu og skynsamlegu Mioolk Guds Orda, sm Petur um talar, 1. Pet. 2. Ef þu ert fær þar um, og siert þu ecke, sm eg dylst ecke vid ad margur mune vera, hvad Gud betre, þa skamast þijn ecke ad gaanga med Nicodemo, jafnvel a Naattar-Þele, þad er heimuglega, ef þu blygdast vid ad giora þad openberlega, þar þu ert gamall vordeñ, til Christi Þienara edur añara sem betur vita, til ad læra Fræde þa, er þu maatt ecke aan vera, so þu faaer hoolped bæde þiñe og so þeirra Saalum er þier er tiltrwad, nema þu vilier kyeliast aasamt þeim i eilijfum Helvijtis Loga, sem Gud hafde boded þier med christelegre Uppfrædingu til Himna-Rijkis ad leida. Ecke fær Nicodemus þetta so braadt skiled, er Jesus sagde honum, og þvi talar hann um holldlega Fædingu, honum þootte þad Ofgar, ad Madureñ Skyllde Hversa Aptur J Sinnar Moodur-Kvid, Nær Hañ Er Gamall, Og Fædast So Ad Niju: Eñ þoott þad være so laangt fraa hanns Þaanka og yfergeinge hañs Skynseme er Jesus talade, samt forlætur hann ecke Drotteñ ad helldur, og vill heyra meira hier um talad. Olijkur var hañ þeim sem a vorum Dogum ecke vilia laata sier i Guds Orde undervijsa, St. Paals Spaa er rætt a þeim er hañ seiger, 2. Timoth. 4. Ad þær Tijder mune koma, ad þeir mune ecke lijda heilsusamlegañ Lærdoom, þeir hlaupa i Felur nær þeirra Christeñdoom a ad rañsaka, þeir skioota Bornum sijnum undañ, nær þvilijkt skal um Hond hafa, þeir hæda ad Kieñendunum, nær þeir i slijku vilia giora sitt Embætte, og hroosa þvi hver fyrer ødrum, ad þeir a einhvern Haatt hafe gietad slopped fraa þvi ad laata Leidsegia sier til Himna-Rijkis. Þetta giora nockrer af þeim a medal vor, sem bæde eru

skijrder og gaanga til Guds Bords, þrisvar, fioorumsiñum aa Are hverin, eñ reidast Guds Þienara, ef hañ vill ecke leifa þeim og Bornum þeirra, ad eta og drecka Holld og Blood Drotteñs sier til Fordæmingar. Þu Vitfyrringur, munt þu þaa helldur vilia til Helvijtis fara, og þar eilijflega breña, enn ad lia Eyru þijn heilsusamlegre Kieñingu, so þu meiger þinna Saaluhiaalpar Medala verduglega niootande verda? Edur villt þu leida þiñ Kieñe-Fodur i hañ Saalar-Voda, ad hañ hafe Altared til ad syndga, eins og Ephraim? Þad giora þo aller þeir ed þaa vijsvitande til Altares taka, sem þess overduger eru. Ecke styggest Drottenn vid þessa Einfelldne Nicodemi, hañ vill ecke þeña braakada Reyr i sundur-briota, helldur til þess, ad uppræta þessa Faavitsku wr hañs Hiarta um lijkhamlega Fædingu, þaa segier hañ hverneg þessare andlegu Endurgietningu sie vared, med þessum Ordum: Nema Ad Eiñ Endurfædest Af Vatne Og Anda, Þa Kañ Hañ Ecke Ad Iñgaanga J Guds Rijke. Hañ blessadur hafde þa alla Reidu skijrast laated nær þetta skiede, og Johañis Skijrn hefur Nicodemo alkuñig vered, þa var og Logmaal Umskurnareñar afnaad, so ad i Christo gylldte hverke umskurn nie Yfer-Hwd, þvi Tijme Endurbootareñar var komeñ, sem Paulus um gietur, Heb 9. Eñ Skijrneñ var aptur i heñar Stad iñsett, og Drottenns Kvolldmaaltijd komu sijdar i Stadeñ Paaska Lambsens, hver ed vara mun aasamt Skijrneñe þar til Verolld þrijtur. Þess gietur Paulus, 1. Cor. 11. Er hañ bijdur, ad vier med þessu himneska Giesta-Bode skulum kuñgiora Dauda Drotteñs þar til hañ kiemur. Til þessarar alvijsu Raadsrofun er hiñar haaleitu Guddoomsens Þreñingar, vijsar nu Frelsareñ þessum sijnum Læresvein, og leggur Orsokena til, siñ þesse goode Madur hefur ecke aadur skyniad; Hvad Sem Af Holldenu Er fædt, Þad er Holld, Enn hvad sem Af Andanum Er Fædt, Þad Er Ande. Þad er Upphaf Christeñdoomsins, ad Madureñ vite ecke einasta ad hñ sie spilltur ad nockru Leite af Uppruna Syndeñe, helldr og olldunges i Syndeñe daudur, so ad vor Nattura verdur ad endurfædast med ollu, hvad omogulegt er ad skie kuñe, neima fyrer Almættis Kraft Guds er Mañeñ i fyrstu skapade riettañ edur heilagañ, so sem hiñ vijse Salomon ad Orde kiemst, Eccl. 7. Og þess vegna hefur vor goode Kieñe Fader Lutherus laated Logmaaled undañ gaanga odrum Portum christelegs Lærdooms, ad vier af þvi kyñum ad saa vorn holldlegañ Saurugleik, so þad yrde þañig vor Typtunar-Meistare til Christum. Eñ Hvad Sem Af Andanum Er Fædt, Þad er Ande; Þad er, þad sem endurfædt er, og af Gude fædt, Joh. 1. J hverium Guds Sæde er, 1. Joh. 3. Þad er Ande: Ecke so ad Hollded um breitest i Anda, helldur verdr saa hiñ same andligur Madur, eins og Adam vard ad lifande Saal, 1. Cor. 15. Þad er lifande Madur, hañ verdur eiñ Ande med Gude ef hañ aahaanger hönum, 1 Cor. 6. Og foottredur ecke Guds Saattmaala, jafnvel þoott ecke sie þess Von i þessu daudlega Hollde, ad vier aldeilis andleger verdum, þvi er sw Glijmañ aa mille Holldsins og Andans, er Paulus so optlega talar um; Þad skiedr fyrst i Upprisu riettlaatra, ad vier andleger verdum til fulls, þaa munu vorer Lijkhamer andleger og Englum

um

um jafner verda, og vorar Sáler eitt med Gude, sem verda mun allt i ollu á þvi Gledenar-Lande, þvi nefnest hun og Endurfæding hiá Matth. 19. Cap. Þad er Uppreisn allra Hluta, so sem Petur þad kallar, Act. 3. Visse Drotten ad ei munde Nicodemo skiliast þetta en nu, þvi segier hann hier strax epter, Undrast Ecke Ad Eg Sagda Þier, Ad Ydur Byriade Ad Nyu Ad Fædast; Og ecke einasta segier hann þad, helldur þar ad auke framm setur hann eitt omootmælanlegt Dæme uppá Fávitsku hanns, og annara daudlegra Manna, sem lángt eru frá þvi, ad skilia þá Hlute er þeir daglega umgángast, aukhelldur ad þeir skynia mune þá himnesku, er so lángt yfirgánga mannlegann Skilning, Vindurenn Blæs Og Þu Heyrir Hanns Þyt, etc. Drottenn blies á Læresveinana og sagde: Medtaked þier heilagann Anda. H. Ande kom i sterkum Vinde yfir Postulana á Hvijtasunnudogum. So tekur nu Frelsarenn hier Dæme af þeim Hlut sem Andanum var lijkastur, til ad hiálpa Fáfræde þessa einfallda Manns. Vier heyrum aller Vindinn þioota, vier finnum hanns Megn á Lijkhamanum, eingenn sier hann þo, eingenn veit hvar hann hefur sijn Upptok, Vindurenn blæs á somu Stundu i Imsum Stodum, af Austre og Vestre, af Nordre og Sudre. Seig mier, hvar hafa þesser Vindar sijn Upptok? Hvert fara þeir? hvar slotar þeim? Fyrst eingenn hefr enn nu fundist so vijs, ad hann giete sagt oss þad, hversu munum vier þa skynia þad sem miklu meir yfirgeingur vorn Skilning, Enn So Eru Og Aller Þeir Sem Af Andanum Eru Fædder, þeir finna Guds Anda Hræringar i Sálu sinne, þegar hann straffar Syndena, uppvekur Ydranena, lijfgar Trwna, kveiker Elskuna, efler Polenmædena, og verkar adrar christelegar Dygder. Vier vitum og ad hann er frá Gude komenn, af þvi Ritningenn hefur sagt oss þad, enn hvernig hann er frá Gude wtgeingenn og i Hiartad komenn, þad vitum vier ecke, þvi Guds Rijke kiemur so þad verdur ecke adgiætt, segier Frelsarenn, Luc. 17. Ecke helldur vitum vier hvert hann fer, þvi Andenn fer i burt og kiemur inn aptur, vier vitum ad hann færer oss inn i eilijft Lijf, ef vier slockvum hann ecke, enn þad Lijf þeckium vier ecke nema so sem fyrer Speigel og i Ráad-Gátu, þvi þad er osynelegt enn nu hvad vier verda munum, og vort Lijf er foolged i Gude, Col. 3. Þar fyrer sá sem finnur Verkaner H. Anda i Sálu sinne, og vill þo ecke Endurfædinguna trwa, þad er eins og vilde hann neita þvi ad Vindurenn bliese, enn giæte þo ecke siálfur á Jordenne staded fyrer Ofvidre. Ef vier þvi neydunst til Náatturunnar Verkan ad trwa, þoott ei skilium vier hennar Orsok eda Upptok; Þvi skylldum vier ecke giefa vora Skilningu fángna under Hlijdne Trwarennar i andlegum Efnum, sem so miklu eru oskilianlegre.

Ecke ber Nicodemus á moote þessum vijsdoomsfulla Sannleika, er Drottenn talade, enn þo vill hann frædast gior hier um, og þvi segier hann: Hverneg Má Þetta Skie? Þar fyrer tekur Lausnarenn til þess sem sterkast var, þad var hanns eigenn Vitnisburdur, sem er i Fodursins Skaute: Sannlega, Sannlega Segie Eg Þier, Vier Vitum Hvad Vier Segium, Og Vitnum Hvad Vier Sied Hofum. Eingenn Rok edur Vitne eru so sterk sem þetta, Gud hefur þad talad: Þvi sagde Jesus fordum vid Gydinga,

Joh.

Joh. 8. Þoott eg bere Vitne af sialfum mier, þaa er þo mitt Vitne stodugt, eñ þetta visse Nicodemus eñ þaa ecke; Hañ sagde ad sönu i ondverdu Samtalenu: Meistare, Vier Vitum Þu Ert Eiñ Lære-Fader Af Gude, Þvi Eingeñ Kañ Ad Giora Þau Verk Sem Þu Giorer, Nema Gud Sie Med Honum. Hefde hañ sagt i honum, þa hefde hañ riett-talad; Eñ so var hañ eñ þa ecke upplijstur, þo byriade honum ad trwa Christo, þar hañ jaatade, ad hañ være af Gude, og giorde so mikel Krapta-Verk, eñ Drotteñ liet hañ ecke leinge vada i Villu þessare, helldur skijrer honum berlega fraa, Hver hañ sie, seigiande: Eingenn Mun Uppfara Til Himens, Nema Hann Sem Ofañ Stie Af Himne, Mañsins Sonur, Hver Ad Er A Himne. Þetta Ord Ad Uppstijga Til Himens, merker i Ritninguñe, ad rañsaka Guds Leyndar-Raad, so seiger Agur um Ethiel og Ucal, Prov. 30. Þad er um hañ sem heiter Gud Med Oss og saa mattuge, þad er Christur; Hver mun uppfara i Himeneñ og ofañ þadañ? Þad er, Hver man Guds Leyndardooma rañsaka, þar um talar so Moyses, Deut. 30. Þad Bodord er eg bijd þier i Dag, þad er ecke huled fyrer þier, edur laangt i burtu, þad er ecke i Himmenum, so þu seg a þurfer: Hver mun fara fyrer oss upp i Himeneñ? Þau Ord wtleggur St. Paall, Rom. 10. Þegar hañ hefur adur talad um Leyndardoom Mañsins Riettlætingar fyrer Gude, Cap. 9. Þu skallt ecke segia i Hiarta þijnu; Hver mun fara fyrer oss upp i Himeniñ? Þad er ad toga Christum ofañ wr Hædunum: Hvar fyrer? Þvi hañ var einusinne ofañ til vor komeñ, og færde oss þessa himnesku Speke wr Skaute Fodursins, þvi þurfte eingeñ upp aptur ad fara i Himeneñ, til ad rañsaka Guds Vilia um Mañsins Saaluhiaalp, þad er hid sama sem Drotteñ segier hier Nicodemo. Eg sem ad vid þig tala i Lijkingu syndugs Hollds, ad Hegdan funddeñ sem Madur, og er ofañkomeñ af Himne af mijns Fodurs Skaute; Eg veit hvad eg segie, og vitna hvad eg sied hefe, eingeñ añar mun uppfara i Himens eñ til ad rañsaka Guds Vegu, nema eg sem nu er aa Himne, þoott eg hier vid þig tale, þvi byriar þier mijnum Ordum ad trwa, ef þu villt hoolpeñ verda. Þesse er efalaust Meining Frelsarans, þvi eingeñ hefur um Alldur Gud sienañ, saa eingietne Sonur Fodursins, sem er i hañs Skaute, hann hefur oss þad opeñberad, segier Joh. Cap. 1. Eñ Lijka Sem Moyses Upphoof Hoggormeñ A Eydemorku, So Byriar Mañsins Syne Upp Ad Hefiast, segier Frelsareñ. Einhver mætte ad-spyria; Hvad kiemur þesse Fyrermyndan hier vid; Eingeñ er betre, christeñ Madur, i ollum Fiarsiodum Ritningareñar, eingeñ sem betur hlijde uppaa þad Efne, sem hier var umtalad, þvi valde Frelsareñ hana til ad sañfæra Nicodemum med, hver hañ visse ad var uppfræddur i Logmaalenu. Paulus segier Hebr. 9. Er hañ þijder Gamla Testamentesens Foorner uppaa Christum, sialfur Eydingur fyrer odrum Eydingum: Hversu miklu framar mun þa Blooded Christi (segier hñ) sem fyrer hiñ eilijfa Anda hefur foornfært sialfañ sig oflecкadañ Gude, hreinsa Samvitsku vora af daudlegum Verkum, til ad þioona Gude lifanda. Segied mier; Hvar verda vorar Samvitskur fyrst hreinsadar? J

Skijrn-

Skijrneñe, þar fyrer kallar Petur hana Sꝏttmꝏla goodrar Samvitsku; Fyrer hvad verda þær hreinsadar? Fyrer Jesu Blood, sem vitanlegt er af Postulans Ordum, erstrax voru leseñ; Hvar gaf Frelsarenn þad wt? J Grasgardenum, i Þijna-Hwse Pilati, enn allra hellst a Krossens Gꝏlga, þvi þar blæddē sialfu Lijfenu til Olijfis, og Dande hanns var Fullkomnan vorrar Hreinsunar; Þvi sagde hann under Andlated; Þad er Fullkomnad. Hver Fyrermyndan gamla Testamentesins hlijder nu best uppa Krossfestingu Drottens? Eingeñ betur enn þesse, nær Moyses epter Guds Bode upphoof Eyrormeñ a Eydemorku; Moyses heingde Ormeñ uppa Tried, so er og Jesus a Gꝏlgañ uppheingdur, uppa Tried bar hann vorar Synder, og feste þar Handskriftena. Þa sem moote oss var, Col. 2. J þeim Orme var eckert Eitur, þo hann være hinum odrum lijkur. Guds Sonur er, ad allre Hegdan fundeñ sem Madur, þo an Syndar; Hann er fyrer oss synduga Orma Madkur og ecke Madur vordenn, ásamt þo hann være hreinn og heilagur, og framskileñ Syndurunum; Ja, þo hann ecke visse af Synd, þa giorde Gud hann ad Synd, so vier yrdum Guds Riettlæte i honum, 2. Cor. 5. Aller þeir ed litu þann Eyrorm, sem Moyses uppfeste, þeir urdu læknader af Eitur-Orma Bitenu. Þu minn Herra Jesu, ert a Tried upphafiñ, so ad aller þeir ed þig lijta Trwareñar Augum, þeir verde læknader af þvi Bite, ed hiñ slæge Hoggormur Diofulleñ beit vora fyrstu Moodur med, og oss sijdañ daglega bijtur; Þvi segier hier og i Gudspiallenu: So Byriar Mannsins Syne Upp Ad Hefiast, So Ad Aller Þeir Sem A Hann Trwa Fyrerfarest Ecke, Helldur Hafe Eilijft Lijf. Þu hefur sagt Drotteñ minn; Ef eg upphafeñ verd, mun eg draga alla til mijn, Joh. 12. Þad er ecke Gydinga einasta, helldur alla þa af ollum Þioodum, sem þinn Fader hefur þier giefed. So drag oss þa, Herra Jesu, sem bwum i þessu fatæka Lande, hveria þu eins vel leyst hefur med þijnu dijrmæta Bloode og adrar Þiooder; Drag oss segie eg under þiñ Kross, ef þier so lijkar, ja, uppa Krosseñ med þier, ef þad ma til þijnar Dijrdar gagna og vorrar Sꝏluhiꝏlpar. Þad er oss fører miñstu þijnum miñstu Besælingum; Vier vitum þu sagder vid Gydinga, þegar þier hafed Mañsins Son upphafed, þa munud þier þeckia ad eg em hañ, Joh. 8. Þvi trwum vier ad þu ert, Drotteñ minn, ad sigrudum Dauda, Diofle og Helvijte, yfer alla Himna hafeñ i þijna Dijrd, til ad bwa oss þar Vist i þijns Fodurs-Hwse. Drag oss þangad med þier, O Herra Jesu! so ad hvar sem þu ert, þar meige og þijner Þienarar vera; Þier med Fodur og heilogum Anda, sie Valld, Heidur, Dijrd og Kraptur, þu hꝏleita Guddoomsins Þrenning um Allder Allda, Amen.

# Fyrsta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 16. Cap.

 J Þañ

I Þañ Tijma. Jesus sagde til Pharisæaña: Þar var eirn rijkur Mañ, sem klæddest Perle og Purpura, og lifde hvern Dag i Vellistingum pracktuglega; Og þar var eirn Þurfa-Madur Lazarus ad Nafne, hver ed wke lä fyrer hañs Dyr-um, fullur Kauna, hann gyrntest ad sedia sig af þeim Molum, sem fiellu af Borde hiñs rijka. Þar komu Hundar og sleiktu hanns Sär. Eñ so skiede, ad hiñ volade andadest, og vard boreñ af Eng-lunum i Fadm Abrahams; Enn hiñ rijke andadest lijka, og var graf-radur. Eñ sem hann var i Helvijte og Kvølunum, hoof hañ upp sijn Augu, leit Abraham ælengdar, og Lazarum i Fadme hañs; Þvi kall-ade hañ og sagde: O Fader Abraham myskuna þu mier! og send Laz-arum hijngad, ad hañ drepe hinu fremsta sijns Fijngurs i Vatn, og kiæle Twngu mijna, þvi eg kvelst i þessum Loga. Og Abraham sagde til hañs: Sonur, hugleid þu, ad þu medtookst hid gooda i Lijfe þijnu, og Lazarus lijka hid vonda, þvi hlijtur hañ nu ad huggast, eñ þu ad kveliast. Frañ yfer allt þetta, er millum vor og ydar, miked Dimy staðfest, so ad þeir sem hiedañ villa fara til ydar, gieta þad ei, og eige þeir helldur þadañ fra ydur, upp til vor komest. Og hann sagde þa: Eg bid þig Fader, ad þu sender hañ i mijns Fødurs Hws, þvi ad eg hefe fim Brædur, þad hañ skijre þeim fra, so ad eige kome þeir i þeñañ Kvala-Stad. Og Abraham sagde til hañs: Þeir hafa Moy-sen og Spameñena, heyre þeir þeim. Eñ hañ sagde: Nei Fader Abraham, helldur ef nockur framlideña fære til þeirra, þa mundu þeir Ydran giøra. Eñ hañ svarade hønum: Ef ad þeir heyra ecke Moysi og Spamøñunum, þa munu þeir ecke helldur trwa, þo ad nockur framlideñ upprijse.

## Exordium.

Vilie ydur Audur til, þa heinged ecke Hiartad þar vid, segier David, Psalm. 61. Ecke fordæmer hañ Audeñ i sialfum sier, helldur ofmikla Eisku a hønum. Rijkdoomureñ er goodur þeim er riett kañ ad brwka hañ. Audur er Afl þeir-ra Hluta sem giora skal, segier Cicero. Orlaatur Madur Fielaus, hañ er eins og einn Kappe Vopnlaus. Eckiañ sw er lagde einn Pening i Guds Kistuna, hun lagde ad soñu meira eñ aller hiner rijku, þvi hun gaf af Fatækt siñe; Eñ hefdu þeir eins miked giefed af siñe Audlegd, epter þvi sem Tala rann til, þa munde þad og af Drottne ecke sijdur vel hafa þeiged vered. Være Rijkdoomurenn ecke Guds Blessan, þa mun-

de

de hañ ecke hafa heited hønum til Launa sijnum Elskendum, er vardvelta hañs Bodord, og ecke sæmt Astvine sijna þar med. Abraham, Jsaac, Jacob, Joseph, Barzelai, hin Sunamiska, Joseph af Arimathia, og adrer miklu fleyre voru Rijkis-Meñ og þo Guds Viner kallader: Eru þvi Audæfeñ stoor Astgiof Drotteñs; þvi segier Salomon, Prov. 10. Ad Blessan Drotteñs giore rijka, og Hörmungeñ mune ei nalgast þa, þau eru riettvijsum Mañe til mikils Heidurs, þvi segier hañ enn þar aptur, Prov. 14. Audæfe hiñs vijsa eru hanns Corona, med þeim kuñum vier Londum og Lydum ad hiálpa; med þeim fæðum vier sett Born vor og Naunga til Menta og Mann-Kosta, med þeim kuñum vier ad biarga Naunganum i sinne Angist, med þeim gietum vier ablad oss Fie-Siood a Himnum, ef vier stundum epter ad vera rijker i goodum Verkum, 1. Tim. 6. so þeir medtake oss i eilijfar Tialldbwder, ef vier giörum gott þar af i sannre Trw, og i Guds Nafne, Hvar fyrer ad sa ed fatækum giefur, hann lanar Drottne, og hafa Meñ alldrei betur vared Fie sijnu. So eru nu Audæfenn stoort Guds Laan og hañs Elsku Merke, nær þau riettfeingeñ eru og riett brwkud, enn so sem þau eru hinum froomu og riettvijsu til mikils Heidurs; so eru þau hinum ogudlega og agiarna mesta oþorf og skadsamleg, þvi segier Drotteñ, ad Ranglætesins Fie-Siooder sien Elldur i Hwsenu: Ja, þoott einn fie vel komeñ ad Aud sijnum, enn brwkar hann þo Gude til Stygdar, til Ohoofs og Metnadar, til ad underþryckia hinn vesæla og Lijtelmagnañ, og helldur hønum til Okurs; og inne fyrer Verka-Mañenum, og hinum fatæka, sem Gud hefur skipad ad ala, þa er hann Bolvanenе undervorpeñ, þess gietur hinn vijse med þessum Ordum: Sa ed prettar hina vietlatu a vondum Veige, hann mun i sinne Glotun hrapa, og hiner einfølldu munu eignast hanns Gootz. Ja soddañ Audlegd er hveriu Volæde argare; so þad er Kongdoomur ad fara a Vonar-Vol alla Æfe sijna hia soddann Rijkdoome. J þessa Dags Evangelio verda oss fyrer Siooner setter tveir Menn, eiñ rijkur, annar fatækur. Vier vilium i Guds Nafne skoda. 1. Dæme hiñs rijka, og so hanns Afdrif. 2. Hiñs fatæka, og so hanns Endalok.

Þu goode Gud, sem alleina rijkur ert, hiálpa oss med Rijkdoome Nadar þinnar, ad giora þetta Verk i þijnum Otta, fyrer Jesum Christum; AMEN.

## Utleggingeñ.

HAr Var Einn Rijkur Madur, segier Texteñ. Rijkdoomureñ kann eingum af sialfum sier ad baña iñ i Himna-Rijke, so sem i Jñgangenum sagt er, þvi sia[u]m vier, og i Gudspiallenu hiñ fatæka Lazarum i Skaute hiñs rijka Abrahams. Tokum Vanbrwkunena i burt, og mun Audureñ ecke skada, giorunst rijker i goodum Verkum, og mun þad nockud til Himna-Rijkis gagna, eñ þad vantade þenna rijka Mañ. Hañ Klæddest Pelle Og Purpura, segier Texteñ. Pell var eiñ Vefnadur forkuñar væñ og gullvægur halldeñ, hann er nu ecke ad fa i Heimenum; Sama er uñ Purpurañ ad segia, þad var eiñ Litur forkostulegur, tilbweñ wr Skiel-Fiskiar Bloode,

og er nu ecke ad finna i Verölldeñe. Hverttveggia þetta var Konunga Bwnadur, og
añara Höfdingia, og leifdest ei Mwga-Mönnum ad bera. Þañig var Aaronis Bw-
nadur, og Höfud-Presta Gydinga, Exod. 28. So var Joseph klæddr, Gen. 41. Þett-
Skart bar Daniel, Dan. 5. Þanneg var Mardochæus bwen, Est. 8. Eñ um þenna
rijka Mañ stendur ecke i Gudspiallenu, ad hann hafe nockur þesshaattar Mädr vered,
þad er og ecke lijklegt, þvi Frelsareñ munde ei hafa til þess teked, ad hañ hefde so vered i
Skart bwenn, hefde hann vered Höfdinge nockur, þeim er soomt hefde ad bera so dijr-
mæt Klæde, og var i þessu ecke lijtill Ofmetnadur, satt er þad, ad Klædenn giora eing-
ann vondann nie goodann af sialfum sier, enn Fatnadurenn er Mannenum giefenn til
ad skijla Blygdan sinne, og vardveita Lijkhamann fraa Kulldanum, þvi mætte þad sijn-
ast, ad saa sem kieppest vid ad bwa sig tiguglegar helldr enn Virdingu hanns soomer, ad
hann giore þad annadhvert fyrer Lauslætis edur Metnadar saker, og er hverttveggia
stoor Synd i Guds Auglite, fyrer þvi mun þad ei syndlaust vera, er Menn brwka til þess
ad efla þessa Leste mz, Mismunur i Klænadenum aa ad vera, og var fordum til ad adgre-
na Virdingar Manna, og so er Raad fyrer þessu giort i Lands-Lögum vorum, hvad um
þar fram yfer er, þad er Osidseme og Rangslæte, þvi þad er ad taka sinn Riett fraa þeim
sm ædre eru ad so miklu leite sem þessum Hiegooma nemur. Eg vil segia, hvert sem ad
einn er Kostum bwenn edur ei, þaa syndgar hann, ef hann klæder sig betur enn hanns
Stande soomer, sie hann vel ad sier um marga Hlute framar ödrum, þaa spiller hann
miog so Agiæte sijnu, ef hann meinar þad verde agiætara fyrer Bwningsens Skulld,
þvi Salomon i allre sinne Dijrd var ecke so skrijddur sem eitt af Akursins Liliu-Gros-
um, og vier vitum þo, ad Gud hefur meira virdt hinn aumasta og heimskasta Vesæling
aa medal vor enn þau; Enn vier eigum ad bera sömu Virdingu fyrer Hlutunum og
hann sem þaa skapad hefr; Enn sie nockr ei nema almennelega Kostum bwenn, og vill
þo leita sier Fordilldar af Klædnadenum, þaa er mikel Fawitska i þvi. Eg veit ad einn
Asne verdur þo alldrei Hestur, þo Menn setie Gull-Södul aa hann, og so verdur einn
Daare alldrei vijs, hvernig sem hann maalar sig utann. Þesse Osidur fer miog so i
Voxt i Lande voru smaamsamañ nu nockr Ar. Ambaatteñ vill eins klædd vera og Hwss-
Mooddureñ, Þienareñ eins og Herrañ, Sonureñ betur eñ hañs gamle Fader. Formeg-
uneñ, Mañskapureñ og Vijsdoomureñ eru i burtu wr Landenu, enn Bwningur og
Klæda-Snid eflest daglega: Eiñ Skoola Dreingur kostar öllu til þess ad faa vænann
Kiool, enn ad kaupa sier eina Book, hvar af hañ nockud gott meige læra, þar hyrder hañ
ecke um. Og um alla Hlute fram, þaa skulu vor Klæde skoreñ vera epter framande
Þiooda Snide, giætande lijted ad þvi sem Drotteñ segier skie skule aa sijnum Slaatru-
nar-Deige; ad hañ vilie straffa alla þaa sem bwast utlendskum Bwnade, Zoph. 1. Hvad
vill hier af verda um sijder? Eg ætla Drotteñ þurfe ecke ad leggia Hondena aa oss, vær
erum vorer eigeñ Böölar i slijku, so ad lijkast er, ef þessu skal leinge framfara, ad þad mu-
ne ganga oss eins og þad gieck Judum, er þeir tooku upp Sidu Grickia, ad þeir urdu
þeim ad Braad, hverra Sidum þeir breyttu epter, 2. Mac. 4.

Fram-

Framveigis stendur hier um̃ þenna Munadar-Kropp, ad hann hafe eted daglega skijnande Krasser. Epter Textans Ordum er þad so: Hann hiellt sig forkostulega gladværañ daglega. Þetta uꝛ skilia, ad hafe vered i Mat og Dryck og odru Ohoofe, sem heyrer til lijkhamlegs Munadar. Nu er þad hier ad segia, ad Drottenn hefr ecke bañad ad hafa Iñdæle af sijnum Skiepnum i riettañ Tijma og med Hoofe og Sidseme. Siaalfur var Frelsareñ ad Heimbode Manna aa sijnum Hiervistar-Dogum i Cana i Galilæa, hiaa Simone Pharisæara, hiaa Zachæo, og optar, hvar fyrer, þoott hann være hid fegursta Sparneytnennar og Hoofsemennar Dæme, sem nockurn Tijma hefr skined i Verolldenne, þa var hann þo af Illgiornum Phariseis Ofneyi slu-Madur og Vijnsvelgur kalladur. Jaa, hann liet sitt Blessada Hofud smyria med dijr-mætu Salve, og þo hann være allra Hluta Drottenn, bæde aa Himne og Jordu, þa munde hann þad ecke giort hafa, nema slijkt være leyfelegt nær þad er i Hoofe, og med goodre Skickan brwkad. Drottenn baud siaalfur i sijnu Logmaale um̃ Laufskaala Haatijdena, Levit. 23. Þier skulud vera glader fyrer Drottne Gude ydar i sio Daga, hvert Logmaal ad Moyses itrekar, Devt. 12. Þier skulud eta fyrer Drottne Gude ydar og glader vera, þier og ydar Hyske, af ollu þvi sem þier riettad ydar Hond til, af hveriu Drottenn Gud hefur blessad þig. Og framveigis i hinu Atianda Verse segier hann: Ad þeir skule ecke eta innann sinna Porta aa Laufskaala Haatijdenne sijnar Koru Tijunder, eda Tijunder af Mustenne edur Oliunne. Enn hann segier: Þier skulud eta þad þar i þeim Stad, sem Drottenn Gud wtvelur, þu og þinn Sonur og þijn Dootter, Þræll þiñ og Ambaatt þijn, og Levitenn, sem er innann þinna Porta, so skallt þu gledia þig fyrer Drottne Gude þijnum, hvert Logmaal Nehemias og Hezras Kieñe-madur aptur iñleiddu epter Herleidinguna, Nehem. 8. Er þeir budu Foolkenu aa Laufskaala Haatijdeñe: Eted hid feita og drecked sætañ Dryck og sended þeim eiñ Part, sm̃ eckert tilbwed hafa; Af þessu er audsært, ad hiñ goode Gud hefur ei bañad ad gledia sig i Hoofe, þo so, ad Meñ dyrke hañ med Virdingu, og gledie sig med Otta, sm̃ David bijdur, Ps. 2. Vijn og Vister eru fyrer Mañeñ skapadar, ecke forgiefens, helldur honum til Unadsemdar og skickañlegrar Brwkunar, eñ Vanbrwkuneñ kiemur af Holldenu og af Fiandanum. Vid þetta Guds Epterlæte aa nu Metnadur og Ohoof ens rijka Sælgiækings eckert skylldt. Hier stendur, ad hañ hafe hallded sig Forkostulega Gladværañ daglega; Þad er ad skilia, hañ var allur sockeñ i Munad Veralldar þessarar, hyrdte eckert um̃ Gud, eckert um̃ sijnar Synder, eckert um̃ hid komanda Lijf edur sinn Dauda, helldur hafde hañ Magañ fyrer sinn Gud, so sem Postuleñ ad Orde kiemst, Philipp. 3. Jaa, riett eins og Esajas segier i 56. Cap. Komum, laatum oss fylla oss af sterku Vijne, og Morgun-Dagureñ skal þessum lijkur verda, og enn þa kostulegre, og vantar oss ecke þaa i Lande voru, er hid sama giora mundu, hefdu þeir Raad eins og þesse. Eckert hyrda þeir um̃ sitt Embætte, eckert um̃ sitt Framferde, eckert um̃ Landsins Gagn, eckert um̃ sijna Saaluhiaalp, eckert um̃ sijna Burtfor af Heimenum, so

sem hefdu þeir Feste-Brief af Andskotanum, ad þetta skule æfinlegá vara, jaa, um eing-
ann Hlut nema um Munn og Maga, og þad sem þeir kunne ad hafa til ad þioona þeim
med, jafnvel þoott þad skule verda hripsad wt af Munne Naungans med Ofbellde og
Naargindum. Nu voru þesser Lester hinns rijka Sælkiera, so vonder og fordæmann-
leger, sem alla reidu er nockud umtalad, enn þad jook ofmiklu aa, ad hinn vesæle Lazarus,
fullur Saara og Kauna, laa hwngradur fyrer hanns Dyrum, og er lijklegt, ad hann
hafe nærsta klædfaar vered; þvi so sem eckert hafde til ad sedia med sinn hwngrada
Maga, hann mun ecke hafa miked haft til ad klæda hinn saara Lijkhama. O! Hvilijk
skielfeleg Hardydge var þetta? Eckert þurfte þesse gudlause Kroppur ad missa af sijnu
Borde, til ad sedia þenna Vesæling med, þvi hann gyrnntest ad sediast af Molunum þeim,
er fiellu þar af; Eckert af sijnu Pelle og Purpura, þoott hann hefde kastad einni Flijk
aa hann (sem hanns Prælar villdu ecke bera) til ad hilia sijn Kaun med, enn þvi var
ei so vared, Hundarner voru Myskunsamare helldur enn hann, sem Gud hafde giefed
Vit og Skyn, og þar ad auke Fullsælu Fiaar, þvi þeir komu og sleiktu Kaun hanns,
og maatte lijklegá seigiast, ad þeir mundu fyrr inngaanga i þaa himnesku Jerusalem,
Apoc. 22. Hefdu þeir þar til skapader vered, helldur enn þetta Villu-Dyr.

O Gud giæfe! ad þeir sem hann hefur blessad med Audlegd Veralldar þessarar, þeir
villdu þo, segie eg, einhvern Tijma hugleida, hvad miked þeir eru Guds voludum Lim-
um skyllduger. Seig mier, þu sem vellter þier i Maurunum, og varla veitst hvad þu
skallt af þeim giora: Þegar þier var kastad inn i Heimenn under eins og fatækis Barn-
enu, hvad hafder þu til meira unned af Gude helldur enn þad? Voru þid ecke bader
eins i Syndenne gietner? Barst þu nockud meira med þier inn i Verolldena helldur enn
hann? Edur muntu meira i burtu bera? Hvar fyrer var Gud þa skylldugur til ad
giora þig rijkann, enn hann fatækann? Ecke til þess, ad þu skuler kappala þinn syndug-
ann Bwk eins og þesse Daare, ecke til ad bwa þig i Skart eins og hann, ecke til þess
ad upphefia þitt Hiarta edur festa þad vid Audenn, enn gleymia þijnum Broodur sem
ad naudstaddur er, helldur til ad dyrka sig þar med, og leggia so miked af vid hann sem
Gud krefur, þvi hann er Hwsbondinn, enn hann krefur so mikels, sem hinum volada maa
verda hoolped med, og þu kant vel ad missa, og þad jafnann nær þu sier edur heyrer einn
naudstaddann, og nær þu þad sier edur heyrer, þaa vit, ad þar er komenn einn Skullda-
Madur fraa Gude til ad beidast þess er hann laanad hefur, og þu hefur ofmiked, enn
hann maa vel blargast vid. Þegar þu krefur Skulldar þinnar hiaa Aumingia nockrum,
og hann hefur þad ecke til sem hann skal gialld a. edur hann maa þad ei missa, aan sijns
stoors Baga, þa krefur hann þig under eins i Guds Umbode þeirrar Skulldar, er þu
aatt honum ad lwka, enn hann hefur Vesælingnum giefed; Laater þu hana ecke til, þaa
verdur þu Skullda-Prioofur Guds, jaa, Þioofur i hanns Auglite, þar þu stelur wr
sialfs þijns Hende, og hinn straange Hwsboonde mun krefia þig Avaxtar Fiaar sijns i
Tollbwdenne hiaa þeim rijka Manne, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvolunum, eins og

hann

hann, nema þu brwker Rad Daniels; er hañ gaf Nebuchadnezar Konunge, Dan. 4.
Og afplaanar Ranglæte þitt med Olmusugiordum vid fatæka; Heyr þvi Salo-
monis Ord, er hañ segier, Prov. 3. Gleym ecke ad giora þeim gott sem byriar, nær
þijn Hend hefur Efne þar a; Seig ecke til þijns Naunga, gack burt og kom aptur,
a Morgun vil eg giefa þier, og þu hefur þad þo, og laat þier þad sagt vera, ad hiñ vol-
ade hefur miklu meire Riett til þess, er þu eignar þier, helldur eñ sialfur þu til ad brwka
Guds Laan til Ohoofs og Metnadar, hvert hañ margfalldlega bañad hefur. Drotteñ
segier fyrer Muñ Hosea, um Gydingaña Samkundu, Hos. 2. Hun veit ecke ad eg er þad
sem gief heñe Korned og Mustena og Oliuna; og fæ heñe ænægañlega Silfred og Gull-
ed, er hun giörer Baal af; Þetta a mig so vel heima hia þeim, sem Gud hefur feing-
ed i Hendur alls Nægter Fiar, eñ þeir draga þad af hañs faraadum Limum, i hver-
ium hañ skipad hefur ad dyrka sig, eñ brwka þad til ad ala siñ lausláatañ Kropp, til
Nidur-Dreps honum sem Rangindeñ lijdur, til ad hefna a Ovinum sijnum. Þess-
er giora Baal wr þeim Hlutum sem geoder eru i sialfum sier, og setia hañ i Guds
Kyrkiu, sem vera ætte Hiarta þeirra, þad er hina orgustu Svijvirdingu Foreydsluñar,
i þañ Stad sem ætte ad vera hiñ allra-helgaste. O Gud betre vorar Tijder! Satan
hefur Kaupmeñ sijna i Guds Kyrkiu medal vor, þad er i Mañaña Hiortum, hveria
hañ giört hefur ad Ræningia-Bæle, ei sijdur eñ Gydingar fordum Mustered; eñ hvad
selia þeir þa og kaupa? Þeir selia hiñ riettlaata fyrer Peninga, og hiñ volada fyrer
eina Skoo, þeir troda Hofud fatækra i Saurenn, og umturna Vegum þeirra hæg-
laatu, Amos. 2. Enn um sijder selia þeir sijnar eigenn Saaler. Þess gietur Syrach i
10. Cap. Med þessum Ordum: Eckert er ranglaatara fiegiornum Manne, segier hann,
þvi hann lætur fala Saalu sijna; Þar fyrer segier Frelsarenn, ad lijted gagne þad
Mannenum, ad hann eigneft allann Heimenn, og lijde Topun a Saalu sinne, hvar um
þesse Rijke Madr maa ollum þeim lioost Dæme vera, er elska Kroppenn meir enn Saal-
ena. Ecke stendur hier i Gudspiallenu, ad hann hafe vered illa komenn ad Aud sijnum.
Þad var hanns Fordæmingar-Sok, ad hann brwkade hann til Ohoofs, enn gleymde
hinum naudstadda og faraada. Nu, ef hann fieck so skelfilegann Doom, hvad vilia þeir
þa segia a medal vor, sem ecke einasta stijnga wr sier Augun nær þeir sia einn Þarfa-
mann, edur annann, sem vinnur Bakebrothu fyrer þvi er þeir brwka til Munadar sier,
helldr og rya Guds volada Saude, og eta sitt Braud i þeirra Andlitis Sveita? Hvad
munu þeir segia vilia? Hvers munu þeir vænta sier, nær þeir eiga ad skilia vid allt þad
er þeir med Rangindum hafa samanndreged? Drottenn segier vid Konungenn af
Tyro, Ezech. 28. Þu segier; Eg em sterkur Gud, eg by i einu guddoomlegu Herberge,
um skemu sijdar verdur honum sagt: Muntu nockud segia vid þinn Vegenda; Eg
em sterkur Gud? Laangtum eru þeir miñe Maattar eñ Kongureñ af Tyro hia oss, er sig
giora nærre þvi ad Gudum, þegar þeir upphefia sig yfir Guds Ord og Konungsins Log,
þegar þeir fella hiñ saklausa, eñ hefia Skalkeñ, og þyker so sem þad stande i sijnu Vallde

ad ræda fyrer hvers Mañs Giæfu og Ogiæfu, eñ þegar Daudeñ kiemr so sem ein volld-
ug Hetia og kastar þeim i Bana-Sængena, þegar Samvitskañ tekur til ad bijta, þegar
Miñing Glæpaña tekur ad ofbiooda þeim, þegar Satan sem hefur flekad þa til allsk-
onar Odæda, þegar hañ reider Svipuna til, og sijner þeim Helvitis Loga, hvar hinn
rijke kvelst og kveliast mun uñ Allder Allda, eñ Guds Reidar-Þruma slær af Himnum
ofann, mun þa vesæl Manneskia segia; Eg em sterkur Gud? Heyred þetta; O! Þier
sem wtsiwged Hws Eckna og Fodurlausra, og leited Drottenns æ medañ hañ er ad
finna, Hiner ægiornu og Ofrijkismeñerner eru med tveñu Moote, sumer færa Foorn-
er Nete sijnu, og breña Reykelse fyrer sijnum Veidarfærum, þviad fyrer þau er þeirra
Hlutur feitur vordeñ, og þeirra Matur hinn beste, so sem Habacuc ad Orde kiemst i
1. Cap. Þettá eru þeir sem reikna þad til sinne goodre Forsioon (riettara ad segia,
Rangsleitne siñi og Underhyggiu) ad þeir eru rijker vordner, og feiter af añara Braude.
Adrer eru þeir ed segia, blessadur siert þu Drotteñ, þad eg em rijkur vordeñ, enn drepa
þo Slatur-Saudena med Ofbellde, og eingenn er sa sem ad fæde þa edur brwke
Medaumkun med þeim, eins og þesse same Spamadur ad Orde kiemst, Þetta eru þeir
sem af Gude og enu hærsta Vallde eru yfir adra setter, til þess ad þeim lijde vel, eñ giora
þo eckert þad sem Gud og Konungureñ boded hafa, helldur eta i krijngum sig eins og
Ulfar og Byrner, og sijna þeim einga Myskun er under þeirra Vallde stynia, helldur
kalla, ber hijngad, ber hijngad, og nær þeir hafa so drucked Blood Vesælingaña, þacka
þeir Gude so sem fyrer riettfeingeñ Sofn. Hverier af þessum verre sieu, er eige so aud-
vellt ad segia, nema þad, ad Hræsnenn giorer hina sijdare and styggelegre i Guds Aug-
lite, þvi af tveunu illu þa er skarra, ad eigna Hreckvijse sinne Klækena helldur eñ Gude.
Hitt veit eg, ad hann segier uñ þessa hverutveggu, Hab. 2. Vei þeim er safnar þvi
sem ecke er hañs (hvar skal þad lenda) og þeim ed samanndraga hiñ þietta Leyr. Vei
þeim sem er giefeñ fyrer rangfeingnum Abata fyrer Hws sitt, ad hañ bwe Hreidur sitt
i Hædunum, ad hañ verde frelsadur af Vallde hiñs Vonda, þu hefur eitt skamarlegt
Raad teked fyrer þitt Hws, og upprætt margt Foolk, og hefur syndgad a moote sialf-
um þier, þvi Steiñenn i Vegnum hroopar þad, og Kvistureñ i Trienu vitnar þar um:
Eg veit þar er margur er segier, eg safna ecke til þess ad giora eins og þesse Rijke Madur,
eg helld mig sparlega, eg er ecke eyd slusamur, þad er gott ef þu safnar riettelega, og giør-
er gott hinum volada, enn ef þu safnar einasta fyrer Erfingia þijna, og þad med riettu
og raungu, þa ma alijka gyllda hvert ad Moab liggur a Dregainu sijnum, edur og
ad hañ fagnar i sinne Spyu, og verdur til Athlaturs, Jer. 48. Þvi skyllde eg steypa
mier til Helvijtis fyrer minn Erfingia, i þeirre Von, ad hann skule lifa vel epter mig
daudann, og eg veit þo ecke hvert af þviverdur edur ei, þvi kannskie mijn ogudleg Bwk-
sorg giore hañ verre i þvi, ad hann misbrwke þad til Ohoofs er eg med Ranngindum saf-
nade, og eg kynne þar med ad leida hann til Helvijtis med mier, þo þad verde ecke um
sama Veg og eg foor, og hverneg sem þvi er vared, þa plagar Guds Straff ad fylgia

soddañ

soddann rangfeingnum Aud, Þar eru Þusund Meler i hveriu Alnar-Virde sem ecke verda i burtu tekner, nema Erfingenn giore sier Vine af þessum Rangloetis Mammona, og vil eg Þa helldur giora Þad sialfur medann eg life, so þeir medtake mig i eilijfar Tialldbwder, helldur enn eiga Þad under honum, sem Þo gietur ecke leyst Sælu mijna wr Helvijte, med ollu Þvi sem eg honum epterliet. Þad segiest um̃ hinn rijka Purpura Styck; ad hann hafe Pelle klæddur vered, Þad verdur ecke so greinelega sagt a vora Tungu, hvad Þad Ord Þijde, er i Textanum stendur; Enn um̃ vidlijkan Vefnad skrifar Plinius, ad hann brenne ecke i Elldinum, Þvi voru Lijk Konunganna sveipud Þar i, a hinne gömlu Brenne-Olld, ad ei blandadest Þeirra Aska med Vidar-Oskunne. Meige eg skiemta um̃ hinn oskiemtelegasta Hlut, Þa villde eg segia, ad Þesse Darre hefde giort vijslega, hefde hann teked nockud af þessum dijra Vefnade med sier til Helvijtis, hefde Þad matt hlijfa honum fyrer Loganum sem hann̄ kvalldest i: Enn Englarner voru swsare til ad bera Lazari Sal i Abrahams Skaut, helldur enn Dioflarner til ad færa hanns Pell og Purpura og allt annad Oflæte med honum. Lazarus fylde sinn Armood epter vid Dyr hinns rijka, enn hinn rijke sijna Fe-Dijngiu i sijnum kostulega Garde, og hrapade so fwll og felaus i Þad Dijked sem rijkur af Ellde og Brennesteine, so munu og aller Þeir giora er lata hanns Lattum i Þessum Heime, enn forsmæ hinn naudstadda og Oreigann̄, og lata hann jafnvel Hwngre wt af deya, a medann̄ Þeir ala sinn sialfsijkan̄ Kropp til ad verda Helvijtis Ellds-Matur og Brenne-Foorn Andskotans, og er so Þanneg wt-talad um̃ hin̄ rijka.

Nu epterfylger ad tala med fam Ordum um̃ hinn volada Lazarum. Gudspialled minnest hanns a Þenan̄ Hatt: Þar Var Einn Þurfa-Madur, Ad Nafne Lazarus, Hver Ed Ute La Fyrer Hans Dyrum, Fullur Kauna. Allt Þad Volæde sem einne Manneskiu kan̄ til ad falla, hefur a þessum Manne leiged: Hann var fatækur, Þad var mikil Vesolld, Þad er Þad sem flester af oss veria sig hvad mest fyrer, og nockrer selia sijna Arfleyfd i Himnenum til Þess, ad vera ecke fatæker i Heimenum, soddan̄ ein Hormung Þyker Orbyrgden̄ Manna a medal, Þvi segier Salomon, Prov. 15. Aller Dagar hin̄s fatæka eru iller. Texten̄ segier: Ad honum hafe vered kastad nidur hia Dijrum hin̄s rijka, eins og odru Hræe, sem eingen̄ hyrdte um̃, meir enn Þo daudum Hunde være wtkastad. So brenta Menn vid Guds Mynd, Þegar hun̄ bijr i liootu Hwse, og virda Hwsboondan̄ epter Herbergenu. Þesse Forsmaan hefur og matt auka miklu ofan̄ a Volæde Þessa fatæka Mans, og hefur Þad geinged hier eins og Salomon segier, Prov. 19. Brædur hinns fatæka hata hann, og Vinerner vijkia i burt fra honum; En̄ Þad took yfer alla hans Eymd, ad han̄ var fullur Kauna, og so aumur, ad Hundar sleiktu hans Sar. Magen̄ hefur kann skie vered heilbrigdur, og Þvi hefur han̄ gyrnst ad sediast af Molum Þeim, er duttu af Borde hin̄s rijka. En̄ aller adrer Lijkhamans Limer so plagader, ad hann gat einga Biorg sier veitt, og hefur Magans Heilbrygde ecke an̄ad giort, enn afla honum Þess meire Pijslar med Hwng-

renu og Matar-Lysteñe, þar hann fleck eckert ad sedia sig af. Sꜳ sem heilbrygdur er,
hann gietur unned sier Mat, þo hañ sie fꜳtækur. Forsmꜳn Veralldareñar, er ecke so
þwngt ad lijda, þeim er hægt ad forsmꜳ Heimeñ, sem Heimureñ forsmꜳer, og er þad
þꜳ Kaup Kaups, sem Menn plaga ad segia. Þvi vottar og Pꜳll um̃ sig, Gal. 6.
Ad hañ sie krossfestur Heimenum og Heimureñ sier, þad er, ad hver forsmꜳe añañ:
Enn þad er hverium Mootgꜳnge meira, þegar Gud tekur so Heilsuna af nockrum, ad
hann gietur ecke bored edur rꜳded siꜳlfum sier, þad geingur nærst þvi, ad vanta Hug-
svølun Guds Anda, og finna ei til heñar, nær Mañ lꜳngar þar epter, þvi soddann er
Helvijtis Pijslum lijkast. Þessu gat Satan nærre fordum Daga, er hañ sagde vid
Gud um̃ Job, Job. 2. Snert þu hanns Bein og hañs Kiøt, og siꜳ hvert hañ bolvar
þier ecke under Augun. Skule Meñ og satt segia, þꜳ fieckst þesse Guds Madur ecke
so mióg þar um̃, þo hann miste Fiꜳr-Hlute sijna, Syne og Dættur sijnar, edur þo
þeir af Saba og Chaldæa veittu honum Yfergꜳng; Eñ þegar Gud leid Andskot-
anum ad slꜳ hañ med hinum verstu Kaunum, frꜳ Hvirfle og allt til Ilia, þꜳ took
þesse Drotteñs Vinur, helldur enn ecke, ad lꜳta sier Hug fallast. So var nu Laza-
rus aumur, sem sagt er, og øll hin þijngstu Mootlæte Veralldareñar lꜳu ꜳ honum,
Orbyrgd, Klædleyse, Hwngur, Forsmꜳn, og Lijkhamans Vanheilsa. Eñ þu syndug-
ur Madur, sem ert heill og hraustur, hefur noog til ad klæda og fæda Lijkhamañ med
og ert af eingum ovirdtur i neinu, munt þu ecke hafa Orsok til ad þacka hinum lifanda
Gude? Þegar þu ꜳlijtur þetta vesæla Hræ, nidurkastad fyrer Dyrum hiñs rijka, og
eckert Auga myskunade honum, ad hann so vel giorer til þijn, ad þig vantar eckert af þvi,
sem hañ allt vantade; Munt þu nockud vera heilagre helldur eñ hann? Eg veit ecke hvi-
lijkur hann vered hefur, þad sie eg, ad hann hefur Guds Vinur vered, añars hefde ecke
Sꜳl hañs vered boreñ af Englum i Abrahams Skaut, enn hitt veit eg, ad ecke ert þu
heilagre eñ Job, hver ed hefur Guds Vitne um̃ þad, ad hañ ecke hefde siñ Lijka i Land-
enu, Job. 2. Hveriu mun þꜳ vera ad þacka, ad þu ert ecke eins plꜳgadur sem Job og
Lazarus, nema Guds orañsakañlegre Giædsku og mikln Poleñmæde, sem med Rijk-
doome siñar Lꜳnglundar, dregur þig til Ydranar? Seig þvi eins og Ephraim, eg em
rijkur vordeñ, allt mitt Erfide næger mier ecke, þeir ed syndga, bera Straff Syndareñ-
ar, Hos. 12. Miklu helldr nær þu stijgur ꜳ þijn hraustu Bein, þꜳ hugsa til þess, ad Gud
hefr ecke Velþocknan ꜳ þeirra Styrkleika, helldr ꜳ þeim, sem hañ ottast. Nær þu telur
Fe þitt, edur skodar þiñ dijra Klædnad, þꜳ hugleid, ad Lazarus ꜳ af þvi so miked, sem
hañ vid þarf, og ef þu hefur tveñ Klæde, þꜳ heyra hinum nakta oññur til; Ef þu villt
vera Johañis Baptistæ Læresveiñ, Luc. 3. Þegar þu hefur hid mesta Gaman af Skil-
ningar-Vitunum, sem Gud hefur giefed þier til naudsynlegrar Brwkunar, þegar
Tungañ, Auguñ, Eyrun og adrer þijner Limer, eru þier til hiñar mestu Skiemtunar, þa
lꜳt jafnvel þessa Guds Skapnadar Misbrwkan miña þig ꜳ Lazarum, þar hañ ligg-
ur nidurkastadur, eins og annad Daudyfle fyrer Dyrum hiñs rijka, og hefur einga

Værd

Værd fyrer Sarrum og Verkium. Þecktu hañ medañ hañ er hiꝏ þier, ad ecke þurfer þu ad kañast vid hañ fyrst, nær þu uppvaknar i Helvijte og Kvølunum, sem þu ecke þecktia villder ꝏ medañ þu liekst þier ad allre Full-Sælu i Heimenum, jꝏ, medañ þu hefur hina mestu Skiemtan af syndsamlegre Glede þessarar Veralldar, þꝏ lꝏt þier i Hug koma, hverstu ad hun sie eckert hiꝏ Sælu Lazari, þar hañ badar nu i Abrahams Skaute, þvi hañ sem best þecker þꝏ eilijfu Dijrdar-Vist, hver og hefur keypt oss hana til Handa med sijnu dijra Bloode, hañ bijdur oss, ad vier allañ þeña Hiegoodma skulum afsnijda, so vier kuñum ad eignast hana: Jꝏ, hugsa til þess, ad Sællijfe þessa Heims mꝏ ei leinge vera, og þo þu yrder allra Kalla ellstur þꝏ skal þad þrioota, og þad er ecke langvinnt, sem einhvern Tijma Enda tekur, segier Augustinus, enn Lazari Giestaboð tekur eingann Enda. Vijsleꝏa hefur hinn stoore Konungur þvi tilskickad, so sem ollu odru i sijnu Rijke, ad hañ liet Vijsler fordæmdra verda eilijfar, þvi være þar Endurlausn wr Helvijte, þꝏ efast eg ecke uñ, ad margur gudlaus Dꝏre munde viña þad til stundlegs Munadar, ad fremia alla þꝏ Ohæfu, er honum i Hug kiemur, þo hanns Hreinsunar Elldur ætte ad vara uñ allañ Helms Alldur, og so sem hañ hefur i þvi vijslega giort, so hefur hann ꝏ hina Sijduna, vægdarsamlega breytt vid þꝏ, sem hanns Ok bera hier ꝏ Jordunne, og halldner eru Afrak Veralldar, og so sem nockurskonar Hreinsunar Foorn, epter Pꝏls Ordum, þar hañ ecke einasta lofad hefur, ad þurka øll Tarenn af þeirra Augum, og ad Daudenn skule ecke framar vera til, og ecke Sorgenn og ecke Hrooped, og Mædann skule ecke vera framar, þvi ad þad uñlidna sie i burtu, so sem Johañes ad Orde kiemst, i hañs Openberunum, 21. Cap. Heilldur þar ad auke skule þesse Arfur ecke skieñast kuña, ecke saurgast og ecke rotna, so sem Vou er ꝏ, þvi Christi Rijke mun eingañ Enda taka, Luc. 1. Eñ vier munum med Christo lifa og rijkia, og med Drottne ꝏvallt vera, so sem Guds Ande hefur oss heited fyrer St. Pꝏls Munn, 1. Tess. 4. Þvi hefdum vier ecke þesse Guds Fyrerheit, þꝏ mundu þeir brꝏdlega ysirgiefa sig, sem eru Guds Børn, Enn Hiꝏ Born Veralldarennar. Taked ydur þad til Huggunar, Drottenns Viner, sem erud Stallbrædur Lazari, þier erud sꝏtæker eins og hanñ, vardar niked uñ þad, nær þier erud i Tꝏnne rijker? Hvad gillder ydur Audlegd Veralldarennar, nær þier hafed hañ eignast, sem Gud hefur giefed øll Endemork Veralldareñar til Arfleifdar? Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? segde Elkana vid Konu sijna, Moodur Samuelis: Þegar þier hafed Christum i ydar Hiortum gieted, mun ydur þꝏ nockud vanta? Mun hann ei verda ydur betre eñ øll Rijke Veralldareñar og þeirra Dijrd? Lazarus edur Eleazar, sem er hid sama Nafn, þad merker þañ, sem Gud er til Adstodar. Barn mitt, Ef Gud er med þier, hver kañ þꝏ ad vera ꝏ moote þier? Mun nockud Jꝏrned brioota þad Stꝏled af Nordenu, segier Drottenn vid Jeremiam, þegar hann heiter honum Lide sijnu ꝏ moote Jerusalems Offa, Jer. 15. So vil eg segia med David, þegar Gud er med þier, hvad vill þier Madurenn giora? Þeir vega aller minna eñ eckert, þeir kasta þier wt af Dyrunum, þeir

vilia ecke unna þier Vidtals, hvad þa? Munu þeir kunna ad banna þier ad tala vid Kong Himnanna i Bænum þijnum? Munu þeir kasta þier wt af Dyrum Himnarijkis? A medann þeir ecke þetta gieta, Barned gott, þaa ætla eg þu stander jafnriettur upp i Guds Augum, þo þu ligger flatur fyrer Dyrum hinns rijka. Hvad er nu framar? þu ert forsmaadur, lijdur Oriett, eingenn vill kannast vid þig, þad er ecke nijtt i Heiminum. Salomon sem ecke visse af mikille Ovirdingu ad segia, hann giorer Raad fyrer þvi, so sem hier ad framann er fyrer skomu sagt. Seig mier, af hveriu verdur þu ovirdtur? af vondum Monnum, þad er ecke þwngt ad vera hæddur af þeim sem jafnvel ad Gude hæda, og under eins þeir forsmaa þig, þaa forsmaa þeir Skapara þinn og þinn Endurlausnara, hvers Ok þu ber: Þu verdur af heimskum Monnum ovirdtur, þvi eingenn er Fæviska meire enn sw, ad forsmaa þann sem Gud hefur virdt med Teikne sijns Sonar, þetta sijnest mier liett ad bera, þvi eg mun ei fæst miked þar um, þo einn Skiptingur hlæe ad mier: Þu verdur af so morgum ovirdtur, eg jaata þad, þviad fleire eru vonder enn gooder, heimsker helldur enn vitrer, enn þo ecke af ollum, nockrer eru þeir sem giæta Guds og sijns Overdugleika, vitande ad þeir hafa hid sama verdskulldad, og eins þeirra Doomur aa ad gyllda meira hiaa þier, helldur enn alls hinns skynlausa Mwga, þar eru gooder Menn i Verolldenne, er sama hafa til Brunns ad bera og þu, og gietur þu þaa huggad þig med Postulans Ordum, ad þijner Brædur i Heimenum meiga lijda slijkt hid sama. Hversu laangt mun Rykte þessarar Ovirdingar wtberast? Varla leingra enn um þad Land er þu lifer i; Ef Rykte hinns stoora Alexandri, og hanns Skoolameistara Aristotelis ecke naade yfir um Fiallid Caucasum, edur Fliooted Gangem, hvad kijtell Partur mun þad verda þa af Heims-Bygdenne, sem þijn Ovirding gietur floged um? Hversu fæer eru þeir ed til hennar vita hiaa hinum oteliande Skara heilagra Eingla og Utvalldra Manna, aa medal hverra þu mubt dijrdlegur skijna, ef þu lijdur þessa Stundar Mijnkun þoleinmoodlega. Enn hvad leinge skal hun nu vara? Allt til Grafarennar, hversu minna er þad enn eitt Augnablik, ef þad er samanbored vid Eilijfdena? Eg vil ei faa mier til Orda um so margra heilagra Manna og Guds Vijsdarvotta Dæme, sem hlootu ad Ovirdingu Verolldar þessarar, enn þeirra Vegsemd og Heidur uppvaknade so epter Daudann, ad Hiaatrw fævijsra Manna hefur þaa nærre þvi ad Gudum giort, hveria Verolldenn ecke hiellt verduga til ad þurka sijna Skoo i Lijfenu, og var þo ecke þeirra verd, Heb. 11. So hlæleg er nu Alldar þessarar Virding, edur Ovirding, edur seig mier, Hver er nu meir lofadur i Heimenum, Lazarus edur hinn rijke Magans-Þræll? Eg trwe flester hroose Lazaro meir, og jafnvel þeir sem hinum eru hvad lijkaster.

Nu kiem eg til þess sem flestum saarast þyker, sem er Heilsubresturenn, hann hefur margann Kappa yfirbugad, enn þier sem Guds Hetiur erud, og strijded under Frelsarans Merkium, giæted þess, Born Drottenns, af hverium ydur er Sivokdoomurenn uppalagdur, sem er af ydar Skapara, hann hefur feinged Sæalum vorum Lijkhamena, so sem

añad Herberge til ad bwa i, og aa hñ frialst ad umbreita þvi, og jafnvel aldeilis nid-urbriota epter Villo sinne. Hvad villt þu kieppa vid soddañ Haatign? Og ecke mik-lu helldur þoleñmoodlega lijda hvad hellst hañ aaleggur; kañ skie þu hafer og sialfur vered Orsøk i þiñe Vanheilsu med giaalijfum og ovorum Lifnade, og seig mier þaa, hvad hefur þu ad klaga? Mun þaa ei raadlegast ad þu ydrest Synda þiña, og lijder þad med Christelegu Umburdar-Lynde, er þu fyrer þeirra Skulld lijda maatt, og laater þannig, jafnvel Syndena gagna þier til Saaluhiaalpar, enn ef odruvijse er, þaa vit þo ad Gud leggur eckert aa neinn fyrer sakleyse. Siert þu þvi ecke Orsøk i þiñe Vanheilsu med ovarlegum Lifnade i Mat edur Dryck, edur añare Haattseme, er plagar ad kreinkia Heilsuna, þaa hefur þu forþienad Siwkdoomeñ med odrum Syndum, þvi ef ad jafnvel hin minsta Synd viñur til Helvijtis, vilie Gud hana tilreikna, þvi mun hun þaa ecke viña til lijkhamlegra Meinlæta, sem vara so skaña Stund? Enn Tilgaangur Drotteñs er allur añar aa Stundum, kañskie Saal þijn sie vanheil, og hañ plaage Lijkhamañ henne til Heilsubootar, og þvi skyllda eg þaa reidast Læknernum, þo hann skiere þad Saar upp, sem swed er? Heilsañ er alltijd good, enn þo er hun dijrust þegar hana vantar, og þyk-er mest til heñar koma, nær hun er aptur feingeñ, þvi tekur Gud hana i burt aa Stund-um, til ad vekia vor dofeñ og sofande Hiortu til Packlætis og Lofgiordar vid sig, og tijtt leggur hann Krosseñ aa þaa sem eru hvad saklausaster, odrum til Epterdæmis, ad sijna þeim hvad þeir forþienad hafe, og hvad mikla Orsøk þeir hafe til ad lofa Gud, sm̃ þyrm-er þeim sem meira hafa syndgad fyrer þvilijkum Orkumslum. Skañast þijn ecke þar fyrer ad vera settur odrum til Poleñmædeñar Epterdæmis med Job, og vert gladur af þvi ad lijkiast Christo, sem og hefur oss til Epterdæmis lided, 1. Pet. 2. Og fyrst þu skallt þad þo lijda, þar hugleid hvad miklu betra er ad lijda eins og Guds Barn og hreppa eilijfa Sælu og Fognud til Launa, helldur eñ ad briota Oked i sundur med Moglan og Oþoleñmæde, og ecke einasta sleppa af Launumum, helldur ad hrapa wr hiñe tijmañlegu Eymd i þaa eilijfu, sem alldrei mun Enda taka. Eg vil ei hier tala um̃ þad sem Cicero skrifar, ad eingeñ Mootgaangur sie saa, ad Tijmaleingdeñ ecke line hañ, þvi vier hofum eina ædre Huggun, ad vor Lijkhame er alldrei so veikur, ad Guds Krap-tur ecke sie i vorum Breiskleika maattugre, þvi hañ er trwr, og freistar einkis yfer Megn fram̃; Og um̃ alla Hlute fram̃, þaa hugga þig vid þaa Sælu-Von og Dijrdar-Aug-lijsingu Guds Barna, hverrar ecke verd eru þessa Heims Mootlæte, so nær Verkerner stijnga þig, og þu stynur af Ofraun, þaa hugsa hvad fagur ad sie Englaña Saungur: Nær þu sier þiñ Lijkhama afmyndadañ af Saarum og Kaunum, þaa hugleid þad, ad hañ skal aa sijdañ verda Englunum jafn, jaa, samlijkur Jesu Christi dijrdlegum Lijk-hama: Nær þier eingeñ Hlutur er til Skientunar i Heimenum, þaa laat þier i Hug koma, hvad fagur ad sie Abrahams Fadmur, jaa, hin himneska Jerusalem, hverrar Sool og Tungl ad Gud er, og hañs Dijrd upplioomar hana: Paangad ad komast, og þar ad bwa um̃ eilijfar Allder, uñe oss hin heilaga Guddoomsins Þreñing, Fader, Sonur og H. Ande, hver blessud um̃ Allder Allda, Amen.

Añañ

# Añann Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 14. Cap.

J Þañ Tijma. Jesus sagde til eins af Pharisæunum, þessa Epterlijking. Nockur Madur var sa, sȳ giørdi mikla Kvølld-Maaltijd, og kallade marga þar til, og sende wt siñ Pioon um Kvølldmaals Tijmañ, ad hañ segde þeim sem bodner voru: Komed, þviad nu eru aller Hluter til reidu. Og þeir tooku aller til i einu Hljoode ad afsaka sig. Hiñ fyrste sagde til hañs: Akur keypta eg, og hlijt eg ad fara wt ad skoda hañ, eg bid þig, afsaka mig. Og hiñ annar sagde: Fiñ Pør Akneyta keypta eg, og fer nu wt ad reyna þau, eg bid þig, afsaka mig. Og eñ añar sagde: Konu hefe eg mier festa, og fyrer þvi maa eg ecke koma. Og sa Pioonustu-Madur kom, kuñgiørde þetta sijnum Herra. Þaa vard Hws-Boondeñ reidur, og sagde til sijns Pioonustu-Mañs: Far þu snarlega wt a Stræte og Gøtur Borgareñar, og leid volada, vanada, blinda og haallta hier iñ. Og Piooneñ sagde: Herra, þad er giørt hvad þu skipader, og þo er eñ meira Rwm. Og Herrañ sagde til Pioonsins: Far þu wt a Piood-Brauter og Twn-Garda, og naudga þeim hier in ad gaanga, so ad mitt Hws verde fullt. Þvi eg segie ydur þad: Ad eingenn þeirra Manna sem kallader voru, munu smacka mijna Kvølldmaaltijd.

## Exordium.

Orsøkenn til þessarar dijrmætu Epterlijkingar, sem Jesus framsetur i þessu heilaga Evangelio, var sw, ad þegar hann var ad Heimbode med einum af Phariseanna Høfdingum Brands ad neyta a Þvott Deige, þaa var þar einn af Bord-Giestunum, er sagde: Sæll Er Sa Madur, Sem Etur Braud i Guds Rijki; og er i henne sierdeiles tvent athugande: Sem er, hvad meint sie med þessare Kvølld-Maaltijd, og i annann Maata, hverier þeir sieu, sem bodner voru. Fyrer Maaltijdena kunna vel ad skiliast aller þeir andleger Velgiørningar, sem oss veitter eru i Jesu Christo, hvern Gud i Heimenn sende a Kvøllde Veralldar þessarar, og liet honum slaatra a Krossens Altare, og steikia i Bruna sinnar Heiptar Reide, i hönum hefur hann allre Verølldu alla Hlute tilreidt, sem duga til þeirrar eilijfu Veitslu i Himnenum, Sem fyrst verdur þeigenn hier i Naadenne, enn sijdar mun fullkomnast i Dijrdeñe. Hañ er Lijfsins Braud, sem af Himnum er ofañkomed, Joh. 6. Hanns Holld er sañarleg Fæda, og hanns Blood er sañarlegur Dryckur, hvert vier ecke ein-

aste

asta medtokum med Trwarennar Munne daglega, helldur og Lijkhamans i heilögu Altaresins Sacramento: Enn fyrer þvi, ad Drotteñ svar. o. þessum Gyding uppaa sitt Tal med þessare Epterlijkingu; þaa er lijklegt, ad hann hier i lage meint hafe þad himneska Bordhalld med Abraham, Isaac og Jacob, og lender þo allt i sama Stad, þvi einn og hinn same er Christur, hvern vier smöckum hier i Naadeñe, eñ munum hañs algiörlega þar i hanns Dijrdar Rijke niootande verda. Sömu eru Visternar, þad skilur alleina, ad þær eru ecke med sama Moote frañreiddar. Hier siaaum vier fyrer Speigel og i Raad-Gaatu, þar munum vier siaa Auglite til Auglitis, hier gaungum vier i Trwnne, 2. Cor. 5. Enn þarmunum vier gaanga i Siooneñe. Trwenn er Vera þeirra Hluta, sem vier vonum epter, hver ed sijner þad sem ecke sied verdur i þessu Lijfe, enn i hinu odru munum vier þeckia so sem vier þeckter verdum, og so sem Foorner gamla Testamentesins voru ei nema Skugge epterkomande Giæda, so er og For Smeckur Himnarijkis i Hiörtum Guds Barna i þessum Heime, ecke nema ein Skugg Siaa þeirrar Eilijfu Dijrdar, sem vid oss mun opennber verda. Fyrer þaa mörgu, sem ad i Gudspiallenu segier, ad kallader sieu, eiga aller Menn ad skiliast: Þvi so seg-ier Endurlausnareñ, Matth. 20. Ad Mannsins Sonur sie til þess komeñ, ad wtgiefa Saalu sijna til Lausnar-Gialldz fyrer marga, hvad Paulus so wtleggur, 1. Tim. 2. Ad Christur hafe giefed sig til Endurlausnar fyrer alla, þo er lijkast, ad hid fyrsta Bod sie þad sem kom til Gydingaña, sem voru Rijkesins Syner, jaa, kañskie til þeirra Höfdingia Pharisæanna og Skrift-lærdra, þvi Drottenn hefur aan efa bendt þeim hier med, er til Bordsins saatu, og þad er auglioost, ad Stoor-Menne hefur þar vered samannkomed, þvi annars munde hañ ecke hafa talad fyrer þeim skoñu aadur i sama siun, ad nær þeir giördu Giesta-Bod, skylldu þeir kalla faatæka, veika, hallta og blinda, Luc. 14. Enn hina sijdare meina eg ad vera faavijsann Almwga Gydinga, sem raafudu aa Strætum og Götum Borgarennar, hveria sialfer Höfdingiarner kölludu Bölvadann Lijd, sem ecke visse af Logmaalenu, Joh. 7. Enn hid sijdarsta kalla eg ad heyre oss til Börnum Heidingianna, er saatu aa Piood-Brautum og Twn-Gördum, fiarlæger Israels Borgar-Riette, og aan Guds i Heimenum, so sem Paulus talar: Ad þessu so fyrermæltu, vil eg giefa mig til ad hugleida Textann nockud giör, og af honum tvennt yfervega, sem er. 1. Hvad oss allra mest hindre fraa ad þiggia þetta Heimbod. 2. Hvad oss eige mest ad leida til ad þiggia þad. Stijr þu Maale mijnu, Drottenn minn, og Hiörtum Barna þiña til Lofs og Dijrdar þier, enn oss til Saalar Neta, i Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ:

Hiaa Matth i 13. Cap. Upptelur Drotteñ fierdeilis þrent sem bæge Mañenum fraa ad heyra Guds Ord med Avexte. Þad er Sorg Veralldareñar, Audæfe, og Gyrnder heñar: Og þettaþrent segier sa Læresveirn sem hañ elskade, ad Heimureñ sie fullur af, sem er drambsamt Lijferne, Fijsn Augnaña, og Gyrnd Hollde-

sins

ens, 1. Joh. 2. Allt þetta er ad siaa hiaa þessum fævijsum Mønnum, er ecke villdu þigg-
ia Mæltijd þessa er i Evangelio spiallenu talar um. Hinn Fyrste Segier: Bwgard Hef Eg
Mier Keyptan, Og Hlijt Eg Ad Fara Ut Ad Skoda Hann. Þad kalla eg samaog
Sorg Veralldarennar, sem Lausnarenn nefner hiaa Matthæum, enn Johannes Dramb-
samt Lijferne, þvi til hvers kaupa Menn stoora Garda edur byggia þaa, nema ad þeir vil-
ia sijnast ødrum meire, og auglijsa þar med, ad so sem þeirra Hiarta er stærra enn annara,
so skulu og þeirra Hybijle vera. Nebuchadnezar Koningur stærde sig af hinne miklu
Babylon, er hann hafde byggia læted til Heidurs vid sinn Herradoom, enn þar fyrer vard
hann ad Villu-Dijre og aat Gras med þeim. So verda og aller þeir er stæra sig af
Yferlæte Veralldar þessarar, þegar þeir vilia vera meir enn Menn, þaa verda þeir Hestum
og Mwlum argare, og þeckia ecke Gud Himnanna, hveriu eingenn er Fænsinna meire.

Þegar Mennerner uppreistu Babel, til ad giora sier Nafn aa Jordunne, so sem þar
ad kvedur, Gen. 11. Þa voru þeir straffader af Gude, so einn braut þad er annar bygde;
þeir villdu byggia hann upp til Himna, so sem þar seigier, enn Himnanna Drottenn
sloo þaa med Rædleysu, so þeir og þeirra Afkvæme skridu wt um alla Veroldena; þvi
mun þad ei Vegurenn vera til Himnarijkis, ad bwa sier fasta Bool-Festu hier i Heime.
Þetta segie eg ecke þess vegna, ad allur Metnadur sie þar i foolgenn, ad eignast Goots og
Garda, ei helldur, ad þad ecke leyfelegt sie, nær Menn eru vel ad þvi komner; helldur seiger
Lausnarenn til þessa, so sem ens hellsta, er Menn plaga ad stæra sig af, jafnvel þeir ed ød-
rum þykiast hugprwdare, þvi þeim þyker ecke til þess koma, ad stæra sig af Hiegoom-
anum, so sem af fogrum Bwninge, af Hreyste Lijkhamans, af Alite, af gøfugu For-
elldre, þvi þad sie einum nærst, sem hann siaalfur er, enn þeir ed miked Goots og Garda
eiga, þeir hafa optast Manna Forraad, og þyker i þvi Rijke nockud, enn marger af þess-
um hiaa oss, eru so lynder, ad þeir vilia ad aller þeir, sem Lond þeirra byggia, skule vera
so sem þeirra Eignar Þrælar, aa hverra þeir væru þo ecke meira enn einn af þeim, þvi
þeir eru þad sem ala Dramb þeirra aa Sveita sijnum, og skylldu hiner missa þad, þa
mundu þeir snart brioota Odd af Oflæte sijnu; þvi fæster af þessum Veralldar Sorg-
um hafa nockurn Tijma drepid Hende sinne i kallt Vatn, mundu þvi koma til ad biddia,
þar þeir ei duga til ad grafa, hvar uppaa Menn hafa og nockur Dæme, ef vel er leitad, enn
hverneg sem þvi er nu vared, þa er varla nockur Syndare fiær Himna-Rijke, enn einn
Dramblaatur. Mikelaatur Madur kann ecke ad þeckia Synd sijna, þvi hann þykest allt
riett giora, og aa medann Syndenn er ecke þeckt, þa er ecke Von aa Himnarijke, Drott-
enn mootstendur dramblaatum, Jac. 4. Enn hverneg vill sa inngaanga i Himna-Rijke,
sem Gud fyrer Ovin hefur, hver alleina aa þess vallð, enn eingenn annar. Hafe And-
skotenn vered reken wt wr Himnenum vegna Drambsemennar, þa er Lijklegt, ad saa mune
þar ecke innkoma, sem honum vill i þessum skammarlega Glæp lijkur vera. Salomon
segier, Prov. 16. Ad sa sem er stoor i Hiarta sijnu, sie Andstygd fyrer Gude, og þo hann
slaae Hønd i Hønd (þad er, þo hann take annann med sier, og alldrei so marga) þa mune

hann

hann þo ecke ohegndur verda, og til hvers skal þa sa Þootteñ, sem ei giorer nema afla Mañenum Hegningar af Gude, fra hverium omogulegt er ad flija. Nema þier verded eins og þetta Ung-Barn, þa kunned þier ecke inn ad gaanga i Guds Rijke, segier Frelsareñ, Matth. 18. Nu vitum vier ad Smaa-Bornenn eru ecke dramblaat, eins leikur Kongs Sonureñ sier vid fatækis Barnid, sem vid sinn Lijka, ef hann maa raada. O! hversu laangt er þa einn dramblaatur Asne fra Himna-Rijke, þegar honum þyker eingenn standa jafnfætis sier, hafe hann edur hanns Forfedur svælt nockud wt af odrum. Sæler eru hoogværer, þvi þeir munu Landed erfa, segier Frelsareñ, Matth. 5. Ad vijsu er þad i fyrstu meint um̃ lijkhamlega Farsælld, so sem sia maa af himum 37 Davids Psalme, hvadañ Ordeñ tekeñ eru, þvi þeir sem hæglaater eru, og ecke aaleitner vid adra, þeir hafa optast sitt i Kyrdum, jafnvel þo misjafnt bere til um̃ þad, nær Gud lijdur Fiandanum ad vada upp i Dramblæte Oflaatungañ-a, eñ verde þeir Arfe sijnum ræntir hier, og lijda þad þo med Hoogværd, þa eiga þeir hann vijsañ a Lande lifande Maña, sem alldrei mun skiemast, 1. Pet. 1. Sime hiner til, ad þo þeir blaase sig upp, eins og Nadrann, af þvi sem þeir hafa stoled fra Aumingianum, hvert þeir munu naa til ad verda Samarfar Christi, sem var hoogvær og af Hiarta lijtillaatur, Matth. 11. Þad Port er þraungt sem til Lijssens liggur, og Vegurinn er tæpur sem þangad leider, hverneg meiga þeir gaanga þar um̃, hverium ecke duger allt Landed til ad bwa i, þoott ei sieu þeir ad Lijkhamans Haattum Fyrerferdar meire eñ adrer Menn? Enn Hiartad er vaxid upp wr Skyunum, kiemst þo alldrei i Himnarijke, nema þad rijte Svip sinn i Mollduñe, aadur eñ þeir ad Mollldu verda. Hier um̃ talar Drottenn mertilega hia Esaj. Cap. 5. Vei þem er samañdraga eitt Hws til Añars, og leggia eiñ Akur vid Añañ, þangad til ad þar er ecke meira Rwm, so ad þier bwed einsamler i Landenu, þad sama er fyrer Eyrum Drotteñs Zebaoth, segier hann.

Fim̃ Vor Akneita Keypta Eg, Og Fer Eg Nu Ut Ad Reyna Þau, Eg Bid Þig Afsaka Mig, segier hinn Añar: Med þessare Grein af Epterlijkinguñe vill Drottenn teiknad hafa hina skadlegu Bwksorg og oleifelegu Aura-Eisku, og ber hañ sialfur ljoosast Vitne um̃ þad, hvad mikeñ Farartaalma Audureñ giore þeim, er hafa sest Hiarta sitt vid hañ a Reysuñe til Himnarijkis, er hann sagde vid Læresveinana um̃ hiñ rijka Yngis-Mañ, ad hægra være Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn rijkum Manne inn i Himnarijke, Matth. 19. Og er þesse same Ynglingur eitt ljoost Dæme þar uppa, hversu ad Fiegyrneñ og Elskañ til jardneskra Muna, banna Mañenum ad epterfylgia Christo inn i Guds Rijke: Hañ villde frædast af Drottne hvad hann giora skyllde, ad hañ mætte eignast eilijft Lijf: Frelsarenn neitade ecke þvi, ad hann hefde Bodordeñ hallded allt i fra Barnæsku siñe; Eñ er hañ heyrde, ad hañ skyllde selia allt þad hañ ætte, giefa þad fatækum og fylgia sier epter, þa vard hann hryggur og gieck i burt. O! hvad goodu Bode hafnade þesse faavijse Madur, lijkur var hañ miog so þessum Veralldar-Sonum, er hier talar um̃ i Gudspiallenu; Hvad

leinge ætte hañ Aude sijnum ad fagna ? Kañ skie ecke til Morguns,og þo yfergaf hañ
þid gooda Hlutskipted , og liet þenna Veralldar-Saur draga sig fra Himnarijke i
Satans Valld. Marcus skrifar, ad Lausnareñ hafe start a þeñañ rijka Mañ og elsk-
ad hañ,Marc.10. Hvad nockrer wtleggia, ad hañ hafe teked vel a moote honum,og
hafa þeir nockud til sijns Mals,eñ hvert sem var,Drotteñ miñ,þa sie eg hier þijna fod-
urlega Giædsku i þvi,ad leita allra Bragdavid Mañeskiuna. So elskader þu Saul,
minn Herra, a medañ hann gieck a þijnum Vege ; So varst þu med Jehu,allt so
leinge ad hañ rak þitt Eyrende ; So myskunader þu Achab, er hañ klæddest i Seck,
enn ecke er ad furda,Born mijn, þo Drotteñ hrygdest i Anda og talade so skorenn-
ordt til Læresveinaña hier um̃ , er hann sa þeña Vesæling adkomeñ Himnarijkis
Dyrum, falla þadañ aptur i Satans Net , og hefur hañ hier fært Soñur a Mal
sitt er hañ adur talad hafde,ad omogulegt være under eins Gude ad þioona og Mam-
ona,Matth.6. Mam̃on er eiñ vesæll Gud, og þeir honum þioona , eiga auman Hws-
boonda,hañ gietur ecke hallded sialfum sier kyrrum , þvi hversu opt siaum vier ad
stoorar Fe-Dyngiur hrapa i einu,so Eiganden̄ veit eckert af, so er hañ wtfws þegar til
vill,ad Þrælar hañs gieta ecke hallded honum,og ei þo þeir giore vid hañ eins og þeir
i Tyro giordu vid siñ Afgud Herculem , er þeim barst i Drauma,ad hañ villde fra
þeim hlaupa i Herbwder ens stoora Alexandri , ad þeir bundu hañ med Hleckium.
Þad er eins og Jeremias segier um̃ Skwrgodeñ,Cap.10.Þeir giora þau fogur med
Sylfre og Gulle,þeir festa med Noglum og Hamre ad þeir misse þau ecke,eñ Gud giæfe
Meñ villdu hudleida,hvad lijted þeir hafa mist, þegar þeir hafa tapad ollu þessu , ef Gud
vill so vera lata,þvi þa hafa þeir feinged Orsok til ad varpa allre siñe Ahyggiu uppa
Gud, sem er alleina rijkur, og vill ala þa er hann elska,jafnvel sofande. Þa munde
Laban ecke reña epter Jacob,þo hañ vantade sijna Afgude. Eg hefe talad nockud um̃
þetta Efne fyrer skomu,og þvi vil eg enda med St. Pals Ordum,er hañ segier,1.Tim.
6. Þeir ed rijker verda vilia,falla i Freistingar og Snorur og margar Gyrnder heim-
skulegar og skadvænar : Hvad langt eru þeir þa fra Himnarijke, sem alla Neidu
faster eru i þessu Satans Nete,og er hier af audsært,hversu miog ad Fie-Gyrndeñ og
of-miked Aura-Safn,bæge þeim fra Guds Rijke,er nalægt eckert añad stunda.

Konu Hefe Eg Mier Festa,Og Fyrer Þvi Ma Eg Ecke Koma,sagde hiñ Þridie.
Hañ villde ecke hafa sig undañ þeigeñ,þvi hañ þottest loglega affakadur : Hann sem
Bwgardeñ hafde keypt,gat lated bijda til Morguns ad skoda hañ,og hiñ ad reyna Uk-
Neyteñ, eñ fyrer þvi ad hier ma skiliast,Brwdkaups-Daggureñ hafe vered tilsettur,
Þa vill þesse Brwdgume ecke eyda morgum Ordum til ad affaka sig,þar hañ hafde til
añars Giestu Bods ad ganga,sem honum være hvad kiærast,og hañ mætte ecke for-
sooma. Lijklega lijtur þetta wt fyrer Mañlegum Doome,þvi Drotteñ hefur boded,ad
Madureñ skyllde jafnvel yfirgiefa Fodur og Moodur,eñ samteingiast siñe Egta-Koinu,
eñ þo mun þesse eins sekur vered hafa i Guds Auglite og hiner. Hier stendur i Text-

ánum,

anum, epter þvi sem eg hañ skil: Ad þeir afsökudu sig aller med sama Giede. Þad er ad hver þeirra villde hafa sijna Syslan meir metna eñ þessa Kvølldmaaltijd. Nu villde þo Hws-Boondenn einga af þeim gyllda taka, og þvi vard sw Alyktuneñ ad sijdurstuñe: Eingeñ Þeirra Maña Sem Bodner Voru, Skulu Smacka Mijna Kvølld-Maaltijd. Sw er þaa Meiningeñ, ad eingeñ Hlutur skule oss so kiær vera, ecke Virdingar vorar, ecke vor Audur, ecke Fader nie Mooder, ecke Systur nie Brædur, ecke vorar eigenn Konur, sem oss ættu hvad kiærastar ad vera; jaa, ecke vort eiged Lijf, ad þad hindre oss fraa þeirre stooru Kvølldmaaltijd, sem hinn Alvallde Hws-Fader hefur oss tilreidt i sijnum Syne, þad vottar Frelsareñ sialfur skomu sijdar i þessum sama Capitula, segiande: Ef nockur kiemur til mijn, og ecke hatar Fødur siñ og Mooder, og Konu og Børn, og Brædur, og Systur, og jafnvel sijna eigeñ Saal, hañ kañ ecke minn Læresveinn ad vera. Hvad er þetta Børn M. Hañ kañ ecke miñ Læresveiñ ad vera? Þad er, hann skal ecke i mitt Rijke koma. Gud gaf Mannenum Konuna i fyrstuñe honum til Epterlætis, og til ad fiølga Kyne sijnu, eñ ecke til þess ad hañ skyllde leyfa henne ad draga sig af Guds Veige, edur briota aa moote Bode sijnu, þvi segier hañ og Devt. 13. Ef þiñ Broodur, Sonur Moodur þiñar, eda þiñ Sonur eda þijn Dootter, eda þijn Kona er þu sadmar, vill koma þier til ad dyrka añarlega Gude, þaa skal þijn Hond vera hin fyrsta ad þu deyder hana. Eñ skodum nu oss, Brædur mijner, mun oss ecke verda vidtijkt og Fødur vorum Adam, ad bera Skulldena uppaa Konuna, þo þad sie med ødru Moote. Segied mier, þegar hinn volade bidur um Hiaalp, og hinn naudstadde, þeinkium vier ecke? Þad maa eg ecke fyrer Konu miñe og Børnum, ad leggia mijked af vid hañ, annars munu þau kañskie fara aa Vonarvøl. Þegar Guds Eyrende aa ad giøra og briootast nockud i moote Satan og hañs Offiñum, laatum vier þaa ecke Hugfallast? Jafnvel þeir sem hugprwder vera þykiast, og segium med sialfum oss: Giøre eg þetta, munu þeir sijdañ Konu miñe og Børnum allt Illt giøra, eins og Skaalkureñ sie ecke i Drottens Hende, og hañ kuñe ei ad vernda sijna, þaa ed setia allt sitt Traust aa hañ. Þegar vier nu þetta giørum, þaa erum vier eingu betre enn hann er sagde: Konu Hefe Eg Mier Festa, og fyrer þvi maa eg ecke koma. Eg vil ecke faa mier til Orda um þeirra Hioonaband, sem locka hvert añad til Lasta og Synda, til Agyrne, Hofmoods, Ofundar, Hardydge, og eru samlynd i þvi, eñ giæta eckert þeirrar Elsku sem þau eiga aa Gude og Naunganum ad hafa, ei helldur þeirra Haattalag, sem ad i Egtaskapnum bwa samañ eins og Hundar og Kietter, edur hiña sem ad søñu eru samañvigsd til Hioonabands, eñ lifa þar iñe riettum Skiækiu Lifnade. Laangt er fraa ad soddañ Mañeskiur hlijde Postulans Bode, i þvi ad hallda Egtaskapeñ heiderlegañ, og Hioona-Sængena oflleckada, Hebr. 13. Og munu þeir þo hafa þykiast fulla Orsøk ad ei kome þeir til Drottens Kvølldmaaltijdar, þvi þeir hafe Konur sier festar: Og kañ eg ecke añad ad segia, eñ ad þesse Afsøkun er gylld, þviad Diøfulleñ helldr med þeim Sæng og Sess, eñ Paulus segier, 1. Cor. 10. Ad vier kuñum ecke under eins ad drecka Drottens Ka-

leik og Dioflaña, og ecke under eins ad vera hañs Bords Hluttakande og þeirra. Take eingeñ so Maal mitt, ad eg laste þessa Heilogu Stiett, Hun er af Gude i Fyrstu Jñstiptud, Frelsareñ hefur prijdt hana med siñe Naalægd, med heñe hefur hañ teiknad þa guddoomligu Ast, er hañ hefur aa siñe Elskulegre Brwde Christneñe; Eñ þad laste eg, ad Meñ gleyma Gude fyrer Lijkhamans munad, og lifa þar iñe þvert aa moote hañs Bode, giorande Hioonabanded ad Frillulifnade margur hver. Frelsarenn vill og ecke Hioonabanded lastad hafa, þoott hañ segie uñ hina Gudlausu Verolld fyrer Flooded ad þeir hafe gypt sig og gypta laated, helldur hitt, ad þeir voru so druckner i Munudum sijnum, ad þeir ei hlijddu Predikun hiñs riettlaata Noe. Og er nu so wt-talad uñ hid Fyrra er eg hiet aa ad minnast.

Eñ hvad hinu sijdara vidvijkur, þaa er þad margt er oss ætte ad leida til ad taka þessu vegsamlega Heimbode. Hver er saa, ef Konungureñ bijdur honum til Bords, ad hañ þigge þad ecke Allshugar feigeñ, og munde Osviñur þykia, ef hañ dræpe Hendeñe aa moote slijkre Sæmd, eñ hier er ecke nockur jardneskur Herra, ecke Assverus, ecke Baltazar, ecke Alexander hiñ stoore, Hverra Veitingar urdu aa Stundum Giestunum ad Hefndar Giof; Enn hier er hiñ Naaduge Konungur Himens og Jardar, sa ed hefur Konungaña Hiortu i Hende sier, hañ ed sedur allar lifande Skiepnur med siñe Blessan, og allt hvad jardnesker Hofdingiar veita sijnum Giestum, þad meiga þeir af hañs Orlæte þyggia, añars væru þeir ecke megnuger uñ ad fæda sialfa sig, auk helldur Fiolmeñe so miked. Ecke sedia Veralldar Hofdingiar nema Lijkhamañ alleina, hvers fylle aa Stundum verdur ad Saalar Hwngre, eñ Drotteñ mettar Saaler vorar med so goodre og heilnæmre Fædu, ad saa ed heñar nijtur, hañ þeynker lijted uñ Veralldlegar Kræsingar, þvi hañ hefur þañ Mat og Dryck, sem adrer siaa ecke, Joh. 4. Þeir kuña ad hallda eitt Giesta-Bod i heila Viku edur leingr, sijdañ hwngrar þaa og þyrster, er bodner voru; Eñ hver sem etur og dreckur af þessum Vistum, hañ skal ecke hwngra nie þyrsta ad eilijfu: Þad skiedur i Hofdingiaña Giesta Bodum, ad þeir sem ad Veitsluñum eru, verda Mætte sijnum firnare þegar kallad er hvad best veitt, so þegar Vijned er roked wr hofdenu, villdu Meñ þar alldrei vered hafa, og ecke betala þurfa þad sem til Gooda var giort med þvi jlla sem aa epter fylger. Eñ i þessu Heimbode muñu Meñ alldrei ofmiked eta nie drecka, þess meir þeir drecka, þess vijsare verda þeir: Eingañ skal hier Dryckiañ hvessa til Bræde, ecke hreifa hañ til oþarfrar Mælge, ecke hvetia hañ til Lauslætis edur nockurrar fiblslegrar Haattseme nie Gantaskapar, sem alltijd er, þvi verr, i sumra Maña Giesta-Bodum, eñ hier er Fridur og Fognudur i Heilogum Anda, saa Fridur, sa Fognudur, sem yfergnæfer allañ Skilning.

Eg hefe nockrum siñum adur bored mig ad-tala i þessare Book uñ þa Dijrdlegu Vist Heilagra, med Gude og hañs Einglum, og maa eg medkieña, ad þar verdur ecke uñtalad af mier aa nockurn Veg, so sem verdt er, og ecke af nockurre syndugre Twngu, þvi ef Madureñ kann ecke ad siaa Gud og hallda Lijfenu, so sem Drottenn sagde vid

Moysen

Moysen, Exod. 33. Þa munu Meñ ei helldur kuña ad wtskijra hvad vegsamlegt þad sie, ad sia hañ so sem hañ er, og þeckia hañ so sem vier erum af honum þeckter. J einu Orde ad segia; Þar um̃ verdur ecke añad sagt, eñ þad sem Esajas i 64. Cap. Og Paulus, 1 Cor. 2. hafa lagt oss i Muñ, ad þad hafe ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, sem Gud hafe tilbwed þeim, er hann elska, og var þo Pꜳll uppnumenn i hinn þridia Himen, so ad lijkast er, ad eingeñ lifande Maña hafe gior sied þa Himnesku Vistar-Veru, þo mꜳtte hañ ecke med Ordum wtskijra hvilijk hun var, þvi hañ segiest hafa heyrt þar þau Ord, sem eingeñ fær wt-talad, 2. Cor. 12. Hvad segied þier nu, Brædur mijner? Fiñed þier nockra þa Affokun i Heimenum, er ydur gylld þyke til ad hafna þessu Giesta Bode? Stoorer Høfdingiar lꜳta bera Visternar og Dryckeñ fram̃ i Gull og Sylfur Kierum, þeir hafa marga Riette, og Jmislegañ Tilbwning, epter þvi sem Steikarañs Kuñꜳtta gietur hræsnad fyrer þeirra Goom, sem bodner eru.; Eñ hier er ecke nema einn Riettur, þad Saklausa Lamb Guds, hvert ed slꜳtrad er i frꜳ Heimsins Upphafe, hñ er steiktur ꜳ Krossens Altare i Guds Reide Ellde ꜳ þeim Kolunum, sem bruñed hefur af sijdañ Adam braut, þad eru Synder vorar, sem erum Nydiar hanns: hann er Lækning þeim siwku, Huggun þeim angrꜳdu, Rijkdoomur þeim volndu, Uppreisn þeim, sem Verølldeñ hefur nidurdreped, Sadning þeim, sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu. Hvar sꜳud þier soddann i einu Giesta Bode, Christner Meñ? Jꜳ, hann er eins og Esajas um̃ hann spꜳer: Syn þeim Blindu, Fætur þeim holltu, Hreinsun hinum lijkþrꜳu, Heyrn þeim daufu, Upprisa hiña framlidnu, og þad sem yfertekur, Nꜳdar Bodskapur hinum fꜳtæku, hvern Spꜳdoom hañ þijder uppꜳ sialfann sig, hiꜳ Matth. 11. Heyred þier mier nu, sem bwed i Lande þessu, erud þier marger vitrer?, Erud þier marger forsiꜳler? Erud þier marger gofuger? Ef eg mꜳ spyria ydur med St. Pꜳls Ordum: Þier munud segia Ney; ef þier taked Hende i ydar eigeñ Barm, og þo hefur hin guddoomlega Elska lꜳted oss fꜳtækum Gudspiolleñ boda, eñ hver giegner vorre Raust? Hver tekur þessu Bode? Hiñ vijse hroose sier ecke af Skynseme sinne; Hinn vollduge ecke af Vallde sinu, og hinn rijke stære sig ecke af Aude sinum, eñ sa sem vill hroosa sier, hañ hroose sier af þvi, ad hañ þecke mig og skilie, ad eg sie Jehova, sa ed giore Goodgyrne, Rietteñ og Riettvijsena ꜳ Jordu, þvi þad lijkar mier, segier Drotteñ, Jer. 9. O siꜳed nu hier! þier sem hroked ydur upp af þvi, sem eckert er i spuñed, eñ forsmꜳid þessa miklu Kvolldmꜳltijd, ad þar mꜳ ecke stæra sig i Guds Auglite af hinum mestu Hlutum, Vite, Makt og Audæfum. Enn hvad skulu Menn segia vid hina dramblꜳtu Hwsgꜳngs Herra vor ꜳ medal, þegar Vitfirringureñ hroosar sier af Danielis Speke, þegar hann sem gietur nidurdreped þeim, sem er vesælle honum, þa ætlar hann sig Konung vera, og þorer þo ecke ad geispa ꜳ moote þeim, sem honum mꜳttkare er; Ef hañ sem einhvern Tijma lꜳ vid Hwsgꜳnge, ef hañ, segie eg, med folskum Kaup-Eyre, med Þrælslegre Hondlan, Jꜳ, med allra Handa Svikum og Prettum, hefur dreiged under sig Gootz Nꜳunga sijns, og

sellt honum ꜳ stundum, annadhvert sijna eigeñ Þorf edur Fꜳvitsku, þa stærer hann sig af þeirre Audlegd er hañs Framsijne hafe aflad honum. Þetta er so Alment og opennbert, ad ei þarf epter ad grafast, so sem Drottenn segier fyrer Munn Jeremiæ: og þetta giorum vier, sem þo erum af odrum Þioodum lijtils virdter, um̃ hveria med ollum Riette mꜳ segia þau St. Pꜳls Ord, er eg fyrer skom̃u las, ad vier erum ecke marger vijser, ecke marger forsiꜳler, ecke marger gofuger, og þo tiggiunst vier og tonlunst iñbyrdis, jꜳ, bijtunst um̃ þetta Volæd̃e, er vier mille Handa hofum eins og Gadd-Hestar um̃ illt Foodur, eñ þad er allra aumast, ad þad sem verst er ꜳ hinum Farsælu Þioodunum, er lifa i þeim goodu Londunum, og þad sem Guds Bræde hvad mest uppꜳser, sem er, ad þær hyrda lijttum̃ Gud, og fꜳ sier ei Stunder fyrer Vellystareñar Saker, ad dijrka hañ sem byriar, þad segie eg, skilur ecke hélldur vid Eymder vorar, sem þo ættu ad neyda oss iñ ad gꜳnga til þessa Giesta-Bods; og so sem ad Nægternar og allra Handa tijmanlegt Epterlæte, ætte ad draga adrar Þiooder til ad elska og prijsa Skaparans Giædsku; So ætte og vor Þorf og Orbyrgd ad reka oss til ad dꜳst ad hanns Millde, ad hañ i ollu þessu hefur uñt oss þeirrar Sælu, ef vier hana riett brwkudum, sem allar Þiooder mættu ofunda oss af og alla so miog epterlꜳngar, sem er Fridur og Rooseme; Eñ Gud giæfe ad hier vantade ecke allt of miked ꜳ, og ad þeir sem hiꜳ oss eru odrum Fæte fremre, þeir ecke hæddu ad Guds Orde, forsmꜳdu og Ofiæktu hanns Þienara, so lꜳngt er frꜳ þvi, ad þeir leite Drottenns, edur kome þegar þeir bodner eru. Þa Vard Hws-Boondeñ Reidur, segier Texteñ, Og Sagde Til Þioonustu Mañsens: Far Þu Snarlega Ut A Stræte og Gotur Borgareñar, og Leid Volada, Vanada, Blinda Og Hallta Hier Jñ. Þesser munu vera Almwga Meñ Gydinga, þeir ed skipudust vid Christi Lærdoom, þvi færster voru þeir af hinum sem geingu honum til Handa, þad er bert af Phariseꜳranna Ordum, er þeir sogdu: Trwer nockur af Hofdingiunum ꜳ hañ edur af Phariseis, enn þesse Almwge sem ecke veit Logmꜳled er bolvadur, Joh. 7. Gydingum byriade og fyrst ad Predika Guds Ord, so sem Paulus og Barnabas vottudu fyrer þeim i Antiochia, Act. 13. Eñ nær þeir rꜳku þad frꜳ sier, og hiélldu sig Guds Rijkis omaklega, þa hafa þeir snwed sier til Heidenna Þiooda, so sem þar stendur, þvi segier og hier i Gudspiallenu, ad nær Þioonenn sagde ad þar være eñ meira Rwm, þa hafe Hwsboondeñ sagt: Far Þu Ut A Þioodbrauter, Og Twngarda, og Naudga Þeim Hier Jñ Ad Gꜳnga. Hverier munu þesser vera B. M.? Nema vier Heideña Maña Born, hverra Fedur voru ꜳn Guds i Heimenum, Jꜳ, ecke vier sijdst sem bwum hier under hinu ytsta Heims Skaute. A oss er ad fullu rættur Spꜳdoomur Guds, er hañ segier vid Soneñ, Es. 49. Þad er oflijted ad þu siert miñ Þienare, til ad upprietta Jacobs Kyn, og aptur ad sækia þad tapada af Israel, helldr hefe eg giort þig til Lioss Heideña Þiooda, so ad þu siert mitt Hiꜳlpræde til Veralldareñar Endemarka. Sꜳ med þvi og, þier Christner Meñ, Hvilijkañ Kiærleika ad Fadereñ hefur oss giefed, þad vier Guds Born kallader verdum, eingu sijdur

eñ

eñ Rijkesins Syner. Þesse er Jesus Christur Sonur Guds lifanda, hañ sem er vor Fridur og giorer eitt af bædum, og Gyrdingu Mid-Veggiarens hefur broted, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvad er oss þaa til hindrunar, Born Mijn, ad frammgaanga til Naadar-Stoolsens? Þar vier hofum frijañ Tilgaang fyrer hañ, segier Postulen til Hebræos. Trwed mier, ad þad er ecke lijtill Velgiorningur sem vier þeig-ed hofum i Christne-Bodenu; Eg vil ei tala um þau gledelegu Umskipte, ad vera leyster undañ Satans Vallde, eñ setter i Guds Sonar Rijke; Eñ hitt ætte oss alldrei wr Miñe ad lijda, ad hiner naatturlegu Kvisterner eru afbrotner, eñ vier iñplantader, Rijkisins Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur, enn vier eigum Kost aa ad sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob.

O Born mijn! Eg grætbæne ydur fyrer Jesu saaru Kvol og bloodugar Under, jaa, fyrer ydar eilijfrar Velferdar Saker, taked Vara aa þessare ydar Kallan, og lijkest ecke hinum i þvi, ad giora ydur Guds Rijkis overduga. Þad er dæsamlegt ad horfa aa hina alvitru Guds Raadstofun i sijnu Naadar-Rijke; Fyrst sette hann Þeckingu sijns Nafns so ad segia midt i Verolldena, þegar þeir raaku hana fraa sier, þaa hefur hun fært smaamsamañ nordur epter þessare Heimsins Alsu, so ad hun einnig er kom-enn til vor hinna ytstu Heims Bwa, og varla er hina sonnu Guds Dijrkun ad finna nu i Heimenum, nema i þessum nordustu Londum. Segied mier nu, christner Menn, ef vier nu forsmaaum þessa Guds Giof, og ei þeckia vilium vorn Vitiunar-Tijma, hvert aa Gud þaa ad fara? Eda fyrer hverium aa hañ sitt Ord ad Predika laata? A hañ ad fara wt wr Heimenum? Edur predika laata fyrer Joklunum, Biarndijrunum, og Refunum i Grænlande? Litlu minnar virdest mier hiaa morgum hverium medal vor, þar Hiarta Mañaña er so freded, so Iskallt vorded, ad þad brædnar ecke vid Guds straungu Hootaner, ecke vid hañs Naadar Bodskap, og ecke vid Miñing hiñs sijdarsta Dooms, nær Hofud-Skiepnurnar munu af Hita brædna, Kiærleikureñ og Trwskap-urenn eru burtu wr Landenu, enn Agyrne og Fe Drættur taka Yfirhond; Þeir sem meiga sier nockud, eta i krijngum sig eins og Byrner og Leon, þegar þad tekur sijna Braad, og hiner einfolldu dansa epter þeirra Pijpu, og stockva yfir hvern Proskulld, til ad uppfylla Hws Drottna siña, med Raane. Og þott vier meigum jaata oss hverre Blood heimskare, þaa erum vier þo noogu vitrer i Slægdeñe, jaa, falsker eins og Refar. Ein med hinum stærstu Syndum, hvar fyrer Gud rak sitt Foolk wt i Herleidinguna, var Flaaræde og Otrwskapur; Heyred Jeremjam þar uñ talande, Cap. 9. Eingenn trwe Vin sijnum, og eingenn trwe nockrum Broodur, þvi sierhverr Brooder er einn Svikare, og sierhver Vinur uñgeingst falsklega, og tala ecke Sannleikañ, þeir kienna Twngu siñe ad tala Lygd, og þeir erfida sig þreitta i þvi ad hondla svikssamlega. Segied mier, ef Jeremjas mætte lifna upp aptur, munde hann kunna betur ad wtmaala vora Olld, eñ med þessum Ordum? Og hvad erum vier þess, ad vier skylldum vænta oss betra af Gude nær vier uppfyllum þeirra Mæling? Nema vier ydrunst af Hiarta, og

legg-

leggium af Klæke þessa. O! hversu miked hefur oss hnignad, ecke einasta i ollum Mañskap og Hyggindum, helldur og i Sakleysenu og Rædvendneñe: Hvar er hin forna Trwfeste, Stodugleike, Rokseme, Wijsdoomur i Rædslogunum, Hugprijde i Utrietingunum, Sannsögle i Ordnum, Riettvijse i Doomunum, sem æ Dogum Forfedra vorra var so miog lofud og elskud. Þetta hofum vier i Utlegd reked: og forum dagvesnande, so ad þeir sem ecke eiga morg Ar til Baka ad telia, þeir þeckia ei Landed edur Stioornena hiæ þvi sem hun var, hvert ed sijnast mætte ad vera eitt vijst Teikn til Undergængs og Eydeleggingar. Guds Polenmæde vardveite oss fra Jeremjæ og Ezechielis Tijmum, hvorier ed bæder sau Ofarer Gydinga Lands, og bæder miog so hormulega klaga um þessa og þvilijka Stoorglæpe sem fyrer Herleidinguna, og meigum vier kannast þar vid, ad Gud hefur bendt Forfedrum vorum med vidlijku Moote, sem eg þo voga ad segia, ad voru miklu betre enn vær.

Utlegd hefur jafnañ hallden vered hid mesta Volæde, eñ eg veit ei hvad eg segia skal, betra er hvervetna wtlægur ad vera medal christeña Maña, eñ ad lifa i þvi Lande, hvar Dygdeñ er fyrer Skom halldeñ, eñ Klækerner i Forsvar tekner, jafnvel af þeim sem hvad mest ættu ad asstijra vondu Framferde. Nær eg hugleide þetta, þa giet eg ei bundest ad taka under med Jeremja, er hañ segier i Guds Orda Stad: 16. Cap. Tak þier ei Konu til Egta, og al ecke Syne nie Dætur i þessum Stad. Þar fyrer, O Guds Born! taked Vara æ Velferd ydar, længt er sijdañ þier Bodskapeñ heyrdud, og eñ nu er Rædar-Tijmeñ, eñ eingeñ veit hvert þetta Bod stendur leingur eñ til Morguns; Legged þvi af alla Illsku og Prettvijse og allañ Ohreinleik, eñ iklædest so sem Utvalder Guds heilager og elskuleger hiartgrooeñe Myskunseme, Goodgyrneñe, Lijtelætenu, Hoogværdenne og Poleñmædeñe. Eñ hiñ næduge Gud virdest ad vardveita sijn Born i Solle þessarar ogudlegu Alldar, so þau ostraffanleg fiñast mættu æ þeim Tilkomu Deige Jesu Christi; Bænheyre þad goodur Gud fyrer sijns Sonar wthellt Blood og saru Pijsler, Amen, i Jesu Nafne, Amen.

# Pridia Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 15. Cap.

A Þañ Tijma. Eñ aller Tollheimtarar og Bersynduger nalægdu sig til hañs, so ad þeir heyrdu honum. Og hiner Skriptlærdu og Phariseæi megludu og sogdu: Þesse medtekur Bersynduga Meñ, og etur med þeim. Eñ hañ sagde til þeirra þessa Epterlijking, so segiande: Hvør sa Madur af ydur sem hefur hundrad Saude, og ef hañ glatar einum af þeim, yfirgiefur hañ ecke þa niju og nijutijger æ Eydemorku, og fer epter þeim sem glatadest, þangad til hañ fiñur hañ? Og þa hañ hefur funded hañ, leggur hañ

þañ sama (med Fognude) sier a Herdar, kiemur heim, og kallar samañ Vine og Nabwa, og segier til þeirra: Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Saud aptur funded, þañ sem glatadur var. Eg segie ydur, ad lijka so mun Fognudur vera a Himnum, yfer einum syndugum sem Ydran giorer, meir eñ yfer þeim niju og nijutijger riettlatum, sem eige þurfa Yferbootar vid. Eda, hver er sw Kona, sem hefur tiju Peninga, ef hun tijner einum, er eige so, ad hun kveiker Lioos, og soopar Hwsed, og leitar vandlega, þangad til ad hun finnur hañ? Og þa hun hefur hañ funded, samañ kallar hun Vin-Konur sijnar og Grañ-Konur, segiande: Samglediest med mier, þviad eg hefe miñ Pening aptur funded, hverium eg tijnda. Lijka so og segie eg ydur, þad Fognudur mun vera fyrer Englum Guds yfer einum syndugum, þeim ed Yferboot gierer.

## Exordium!

Eg em auglijstur þeim sem ecke spurdu epter mier. Eg em fundeñ af þeim, sem ecke leitudu ad mier. Eg sagde: Siaed mig, siaed mig, vid Foolk þad, sem ecke nefnest epter mijnu Nafne, segier Drotteñ, Esa. 65. Þesse Spaadoomur a ad skiliast uñ heidnar Þiooder, þad Foolk, sem sat i Myrkrunum, og var an Christs, fraskilder Israels Borgar-Riette, framande i Saattmaalum Fyrerheitesins, hafande einga Von, og gudlauser i Heimenum, so sem Paulus vottar, Eph. 2. Hvar Postulenn meinar alleina þau Fyrerheit, sem Gydingum voru sier i Lage giefenn, so sem ad þar skyllde upprenna einn Kvistur af Root Jesse, og adrer þvilijker Spaadoomar, sem hondla þar uñ, ad Messias skyllde fædast af Gydingum, enn ecke hin almennelegu, sem ollum giefeñ voru, so sem þegar Gud hiet Abraham, ad i hanns Sæde skylldu blessast allar Þiooder, Gen. 22. Hvad lioost er ecke einasta af hinum mikla framgange Evangelij, strax epter Himna-For Drottenns, er hann ad sigrudum Dauda, Diofle og Helvijte, took Einvallds Stioorn i sinne Kyrkiu uñ allañ Heimeñ, helldur og spaer Gud þar uñ fyrer. Muñ Hoseæ, 2. Cap. segiande: Ad Tala Israelis skule verda so sem Siafar Sandur, hvern eingeñ giete mælt nie taled: Enn so sem a Dogum Hoseæ var Israel so langt nidursockeñ i Gudleysesins Afgruñ, ad hann villde þeim ecke framar innskuna, þad þeir ecke smaamsamann herleidder yrdu; So og er ad ottast fyrer a þessum verstu og sijdustu Dogum, ad Christnenn, hveria Guds Sonur hefur med sijnu Bloode afrekad, hun meige verda kollud Loruhama edur nadarlaus, og ad marger hennar sijneleger Limer mune verda Konunge Myrkranna ad Braad, nema Menn bæte sinn Christenndoom: og take sier annad Hattalag, helldur enn almennelega tijdkast. Snemma hoof Bruñur Myskunar-



eñar

eñar að auglijſa það, að eckert Mañgreinar Allit være hiá ſier, þegar hann took við berſyndugum og Tollheimtu-Moñum, hverier ed voru af Phariſæis, bolvaðar Mañeſkiur halldnar, og eingeñ villde med þeim Seſs-nie Samneyte eiga, eñ ecke ſkiede það þeſs vegna, að þeir voru berſynduger og Tollheimtu-Meñ, þvi alltijd er Gud ſamur vid ſig i þvi, að ei lijkar honum ogudlegt Athæfe, helldur hinns, að þeim ſiá hvað meſt á, og þegar aller hofdu fordæmt þá, villde hañ ecke fordæma, ſem alleina hafde Valld til, að riettlæta. So ſkulum vier og ecke meina, að vier edur Fedur vorer hafe Myſkun hloted af þvi, að þeir voru Heidingiar, þvi Heidingia og Tollheimtu-Menn leggur Drottenn að jofnu, Matth. 18. Helldur epter mikelle Myſkunſeme ſinne, hefur hann oſs hoolpna giort, ſo ſem Paulus vottar, Tit. 3. Það giorer Jeſus bert i þeſſu Gudſpialle med Epterlijkingunne uñ hinn tapada Saud og tijnda Pening. Enn ef vier afrækium þeſſa Náð, er oſs ſo leinge hefur frambodenn vered, ſumum forgiefens, kannſkie (hvad Gud náde og betre) þá dyliunſt ecke vid, að vor Doomur mune þeſs þijngre verda, helldur enn hinna náttúrlegu Kviſtanna, ſem að þeim helldur tilheyrdu Fyrerheitenn, enn oſs. Eg vil ut af Gudſpiallenu alleina hugleida i þetta Sinn. 1. Hverſu náðugur ad Gud ſie i þvi, að leita epter oſs. 2. Hverſu treger vier ſieum i þvi, að láta oſs finna.

Styrk oſs hier til Giædſkurijke Fader, med Krapte þijns Anda, fyrer Jeſu Chriſti Forþienuſtu, A M E N.

## Utleggingeñ.

Meiningeñ i þeſſum fogru Epterlijkingum hlijder ſier i Lage uppa þá, ſm Stoor-Synder hafa drijgt, eru fallner frá Guds Vináttu i hañs Oblijdu, og hañeg forbroted Guds Barna Riett og hañs Faderne, ſem ſiá má af Epterlijkinguñe uñ hinn fortapada Son, er i þeſſum ſama Capitula ſtrax á epterfylger. Nu ef vier rañſokum vora Lijfernes Háttu, chriſtner Meñ, þá mun eingeñ vera ſá af oſs, að ecke fiñe hañ i Samvitſku ſiñe, að hañ hafe Guds Náð þráfalldlega af ſier broted, og að hũ þar fyrer ſie Daudans ſekur. Ecke er það noog, að vier ei drijgium þá Glæpe ſem villa til Utſetningar af Kyrkuñe; Það er betra að vera utrekeñ af Samkúndunne, helldur enn frá Guds Náðar Stoole. Margur er ſá inſt i Kyrkiu, ſem ei mundi inn fyrer Himna-Rijkis Dyr koma, ef hañ dæe i ſama Háttalage. Hvad vardar uñ það, þo eingeñ vite, ef þijn Samvitſka veit? Lijted gagnar ad dyliaſt fyrer Moñum, þar allter þo oped fyrer Guds Auga, vilier þu þar fyrer ſiá Guds Giædſku i þvi að leita að þier, og kalla þig ſyndugañ til Yðranar, þa ſkoda hvar frá þu falleñ ert, Apoc. 2. Drotteñ ſamlijker ſoddañ tijndre Mañeſkiu glotudum Saud, og er það nærſta vel tilfunded, þvi hañ er ſá goode Hyrder, Joh. 10. Eñ vier foorum aller villt ſem Sauder, ſegier Eſajas Cap. 53. Og forum daglega. Saudunum erum vier lijker i Einfelldneñe og Fáfrædenu, eñ ecke i Meinleyſenu, Born i Vitſkuñe, eñ ecke i Hreckvijſeñe, hvert á moote þvi, ſem Poſtuleñ bijdur, 1. Cor. 14. Hier má ſiá i Gudſpiallenu, að Mad-

ureñ

ureñ hefur hallded Hiord siñe a Beit i Eydemorku, og hvad mun eiñ voladur Saud-
ur Guds vera i Eydemorku Veralldar þessarar, ef hañ villest fra hinum gooda Hyrd-
er, hver ed geingur undañ sijnum Saudum. Þegar Drotteñ var reidur Jsrael ford-
um, og hiet ad wthella yfir hañ Bræde siñe, þa segier hañ hia Hoseam i 4. Cap. Ad
hañ vilie fæda Jsrael, so sem eitt Lamb a Vijdlendenu, eñ hvad er eitt Lamb i soddañ
Plaatze, eckert añad eñ Braad Vargaña, og þo er þeim midur fared, sem med Synd-
um og Glæpum hefur giort sig vidskila hiñ osijnilega Drotteñs Sauda Flock, hvør-
ier ad þeckia siñ Hyrder, og af honum þeckter verda, Joh. 10. Þad er hin sanna Guds
Christne og Sofnudur hañs riett-tiwadra Barna. O! hvilijk er þa Giæska hiñs
blessada Hyrders, ad hañ vilrdest til ad leita ad soddañ tijndum Saud. Nakvæmlega
wtmaalar Drotteñ sitt fodurlegt Hiartalag i þessare Epterlijkingu. Ecke yfirgiefur
Gud hina riettlaatu, ei þarf hañ helldur ad yfirgiefa þa, til ad leita ad þeim sem tap-
adur er; Eñ uppa þad ad þu vita meiger, syndugur Madur, hversu giarna ad hann
vill ad hiñ ogudlege snwe sier og life, þa jafnar hann siñe brennande Elsku samann vid
þañ Mañ sem lætur sier hvad saarast vera til þess sem villt hefur fared, ja, saarara til
eins af þeim, helldur eñ til allra hiña sem vijser eru. Þessa Guds fodurlega Giædsku
ættum vier ad laata snellta Hiarta vort, þegar hañ leitar ad oss daglega i sijnu hei-
laga Orde, oss sem ad daglega syndgunst og ei viñum nema til Hegningar. Nær gior-
er hañ þetta? Þad giorer hañ nær hañ sijner oss i Logmaalenu, hversu miog vier hof-
um viked af hañs Veige, þegar hañ lætr siña Bodorda, siña straungu Hootana Þrumu
lemia um̄ Eyru Syndarans, nær hañ daufheyrest vid hiñe blijdu Raust þess gooda
Hyrders, og ecke vill laata sig med Guds Nadar Fyrerheytum leida a hiñ rietta Veg,
þad giorer hañ nær Syndaranum vid þetta Reidar-Slag ofbiooda sijner Glæper,
og hañ segier med David: Þar er eckert heillt a mijnu Hollde fyrer þiñe Ognan, þar
er eingeñ Fridur i mijnum Beinum fyrer mijnum Syndum; Mijn Saar lykta illa og
flioota af Greptre fyrer miñar Heimsku Saker. Þegar hin fraavillta Saudar-Kynd
ecke rædur sier þañig fyrer Ofbode Helvijtis Pijsla, þa mun Guds Hiarta bresta i hon-
um so hañ hlijtur honum myskunsamur ad ve·, Jer. 31. Þa mun Christi Ande bid-
ia fyrer heñe med oumræ delegum Andvorpunum, Rom. 8. Þa mun hun og braatt
heyra; Þoott ad þijnar Synder sieu raudar sem Blood, þa skal eg þær snioohvijtar
giora; Og þo þær sieu sem Purpure raudar, skulu þær Ullhvijtar verda, Esaj. 1. Og
þañig fer nu hiñ goode Hyrder ad leita epter hinum tijnda Saud. O! hvilijk fodur-
leg Giædska. O! hvilijk breñande Elska. O! þad orañsakanlega Afgruñ Drotteñs
Myskunar-Ydra: Komed hijngad aller þier sem Erfide dryged, og Þwonga eru þiad-
er, hann vill endurnæra ydur, Matth. 11.

Þar Mun Verda Meire Glede J Himnenum Yfir Einum Syndara, Sem Yd-
ran Giorer, Helldur Eñ Yfer Niju Og Nijutiju Riettlaatum, segier Drotteñ: Hia
hverium mun sw Glede vera? Hia Gude og hañs blessudum Einglum; Þar munu

glediast Einglar Friðarens, Esa. 33. Ad þeir siaa sitt Erfide hefur ecke forgiefens ver-
ed; Þar munu fagna vorer Vardhallds-Einglar, sem eru þioonustusamer Andar,
wtsender þeim, er Saaluhiaalpena erfa skulu, Heb. 1. Nær þeir merkia, ad þeirra Verk
fæer so goodañ Avoxt, ad þeir faa aptur bættañ þañ skada, er Satan vañ þeim, nær
hañ droo Pridiung Stiarnaña, þad er Einglaña þeirra Stallbrædra i Afgruñ Myrk-
raña med sier, þaa hañ fiell af Himne, ad þeir faa hañ bættañ, segie eg, med Fyllingu
utvalldra Guds Barna, sem Ydran giora; þar gledst Eingell hins mikla Raads,
nær hanns dijra Blood hrijn aa einum fortapadum Syndara, sem Ydran giorer, hann
reiknar ecke þau Bondeñ, þau Hoggeñ, þaa Hraakana, þaa Hwdstrokuna, þañ Pyrne-
Kranseñ, þann Hrakningeñ, þaa bitru Pijsl og Helvijtis Kvaler, er hañ saklaus leid
fyrer þverbrotenn Syndara, nær hann ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, so
Gledeñ yfirgnæfir, ad hañ hefur Saud siñ aptur funded þañ er glatadur var, jaa, oll
Guddoomsins Þreñing fagnar yfir Apturhvarfe Syndarans, Fadereñ, þvi hañ elsk-
ar oss i sijnum elskulega Syne, Sonureñ, af þvi hañ hefur oss Verde keypta, heilagur
Ande, af þvi hañ er Pantur Arfleifdar vorrar, þvi segier og Drottenn, Hos. 6. A
Myskunseme hefe eg Þocknan og ecke aa Offre, til hvers Lijknar-Ords Drotteñ vijs-
ade Phariseunum, er þeir mogludu uñ þad, ad hañ æte med Tollheimtu-Moñum,
Matth. 9. Fared þier, sagde hañ, og læred hvad þad er, Myskun vil eg, og ecke Offur
þvi ei kom eg ad kalla riettlaata, helldur synduga til Ydranar; Og hvad er þad sem
auglijse meir Guds guddoomlega Ast til Syndarans, helldur enn þad sem hier stendur i
Gudspiallenu? Og Þa Hañ Hefur Hañ Funded, Legg: Hañ Þañ Sama Med Fogn-
ude A Herdar Sier. Hann slær hann ecke nie lemur, ei rekur hañ med hardre Hende
undañ sier, helldur leggur hañ aa Herdar sier, þar til hañ nær til Hiardareñar, ad hann
ecke aptur tijnest. So er og Gud vid Syndarann naadugur, hann gleimer ollu þvi
sem undañ er fared, hañ skilur ecke hiñ villta Saud epter i Raadleysu og Hugar-Vijle,
helldur sijner honum med Vitnisburde heilags Anda, ad hanns Syndum sie kastad i
Hafsins-Diwp; so þeirra Miñing ei skule uppkoma ad eilijfu. Þessa grunnlausu Ast
wtmaalar Drottenn merkelega, Esa. 46. segiande: Heyred þier mier af Hwse Jacobs,
og aller hiner sem epter erud af Hwse Israels, þier, hveria eg ber i mijnu Lijfe, og med
hveria eg geing, jaa, eg mun bera ydur allt til Elle-Daga, og þaangad til þier graaer
af Hærum verded, eg vil uppheffia, bera, og frelsa. Hvad opt lesum vier i heilagre
Ritningu, ad Gud hafe ydrad þess Illa sem hañ ætlade ad leggia edur hafde lagt aa
Mannkynid (so wtmaalar hann sijn brennande Myskunar-Ydur epter mannlegum
Plagsidveñ) sialldnar skulum vier lesa, ad hañ hafe ydrad þess Gooda sem hann hafde
giort, þvi so miklu yfergnæfer Naadeñ Reidena og Myskunsemeñ Riettlæted, þar fyr-
er segier hañ og fyrer Muñ Hosea i 13. Cap. Uñ þa Naad er hañ hugde syndugu Mañ-
kyne ad veita i Christo: Ydranenn er huld fyrer mijnu Auglite, þad er, eg skal þess alld-
rei ydrast. O! hversu er Gud oss syndugum Monnum þa olijkur, honum leidest alld-

rei

rei gott ad giora, enn oss alldrei ad fremia hid illa. Hann segier hiꜳ Joel, Cap. 2. Er hann wteys sijnum diwpu Myskunar-Ydrum yfer Syndarañ: Eg em nꜳdugur og myskunsamur, mikellrar Goodgyrne, og sꜳ ed ydrar þess illa, hvar hid illa merker Guds riettferduga Hefnd yfer Glæpum Mannaña, enn Mañeskiañ lætur sig so lijtt ydra þeirra swlu Skaña, er hun reiter hañ til Reide med. O! hvilijk er þꜳ Giædska Drottens, ecke einasta i þvi, ad hañ hefur Þoleñmæde med Illgiordum vorum helldur og leitar epter oss ꜳ allar Lunder, og tekur ꜳ moote einum syndugum sem Ydran giorer med allskonar Blijdu. Mikel var Ydran Jonæ Spꜳmañs, og þo ecke miñe hanns Trw, ad hañ epter þad hañ hafde jꜳtad Misgiord sijna, vogade þo ad lꜳta kasta sier wt i hid brwsanda Haf; Enn þo var eñ stærre Guds fødurleg Giædska, er hañ sættest so brꜳdt vid hann og so algiorlega, ad hañ tilbioo honum Vist i Hvalfiskiarens Kvide. Þesse Guds undrunarleg Hiarta Giædska, ætte ecke einasta ad leida oss til ad sættast vid hañ so opt sem vier honum ꜳ moote briootum, helldur er þetta ein obrygdul Huggun fyrer þꜳ sem under sitt Andlꜳt ydrast. Stoorlega hafde þesse Guds-Madur syndgast, þar ed hann þeckte Guds Mꜳtt, og talade vid hann eins og Madur vid Mañ talar, Jon. 4. Og sette sig þo upp ꜳ moote hañs Bode; Eñ hañ er so brꜳdlega til-gaf honum þessa hrooplegu Synd, mun hañ ei bæde kuña og vilia forlꜳta þier þijnar Illgiorder, ef þu ydrast þeirra af Hiarta? Þo ei hafer þu lꜳngann Frest til Ydranar, varla mun nockur Syndare vera meire Hꜳska vidkomeñ enn hann var þꜳ, og þo vogade hañ so ꜳ Guds Myskun, ad hañ sagde, Cap. 2. Eg em wtkastadur frꜳ þijnu Auglite, eñ þo skal eg ecke lꜳta af ad horfa ꜳ Mustere þijns Helgedooms, hvert var þad Mustered? Þad var Guds Myskunar-Hiarta, hvar var þad? Þad var jafnvel i Fiskiarens Kvide; Lꜳt þier þvi sagt vera, ad þu ert alldrei i þeim Stad staddur, hverke ꜳ Sioo nie Lande, hverke i Vatne nie Ellds-Voda, ad ei sie hañ þier nꜳdugur, nær þu af Hiarta fridmælest vid hañ, og i einn Orde ad segia, þar er Mustere hañs Guddooms sem þu ꜳkallar hañ i Anda og Sañleika, enn þessa Guds Nꜳd ꜳtt þu ecke ad brwka til ad draga sialfañ þig ꜳ Tꜳlar, so sem þu villder hafa þad fyrer Lijf-Atkiere Sꜳluhiꜳlpar þinnar, ad Gud hefur epter sumum leitad alla Æfe þeirra, eñ funded þꜳ kañ skie ecke fyrr eñ ꜳ Dauda-Stunduñe, og lagt þꜳ so sier ꜳ Herdar, og bored inn ꜳ Land lifande Maña: Ertu þar fyrer rꜳngeyzdur þo hann sie goodgiarn? Þoott hann hafe so vid nockra giort sem nu er mællt, þeirra Ordsaka vegna sem hañ sialfur veit; Er hañ þar fyrer skylldugur ad giora eins vid þig, sem forsmꜳer Rijkdoom hañs Lꜳnglundar i Ostrauste hañs Nꜳdar, af þvi þu veitst hañ er myskunsamur? Spꜳmadureñ er eg strax uñigat, hañ var Guds Madur, hñ þeckte bæde Guds Giædsku og hñs Riettlæte, og þo honum yrde þad ꜳ ad syndga so stoorlega, þꜳ vard honum þad og fyrer ad ydrast strax sem Gud liet hañ þeckia Synd sijna, eñ vier mun bꜳgara uñ ad giora so flioota Ydran siñ alldrei þeinkter nema uñ Glæpena, og hvernig þu kyñer þeim sem best i Verk ad koma; Þad hender Guds Born, ad þau

falla i stoorar Synder, añadhvert af Gæleyse eins og Moyses, af Brædræde eins og
David, af Otta eins og Petur; Þetta skiedur þegar Vilieñ rædur fyrer Skynsem-
ena, Andeñ lætur sigrast af Holldenu, eñ þau ydrast aptur af Hiarta, þau væta sijna
Sæng i Tærum med David, og græta beiskliega med Petre; Eñ sæ gudlause hefur
einga Hvijld, hann þeinker ei añad eñ hvernig hañ meige hinu illa fram̃koma, og eyder
ollum Sælar og Lijfs-Kroptum til ad fylla Gyrnd sijns illsvsa Hiarta. Þoott nu
ad Guds fodurleg Ast til Mannkynsins sie jafnañ bwreñ til ad taka vid Syndaranum,
nær hañ snijr sier til Yfirbootar, þæ kañ eg ecke ad segia, ad þess hættar Mañeskium
mune vera liett um̃ Apturhvarf, þvi Guds Raust er miøg so hardtolud æ moote þeim,
er hann segier: Mich. 2. Vei þeim sem hugsa Ræanglæted, og þeim sem stunda uppæ
hid illa i Svefn-Hwsum sijnum, ad þeir vilie fram̃kvæma þad þegar byrter, nær sem
þad er i Vallde þeirra. Sioæ nu þeir til, sem ætetia ad temia sier þvilijkt Hugarfar
allt fram̃ i Daudañ, hvert þeir mune eiga Hlut i þessare Guds Giædsku, um̃ hveria eg
læt nu ad so stoddu wt-talad vera, jafnvel þo hun alldrei wt-tolud verde, edur nooglega
prijsud um̃ alla Eilijfd; Og vil so koma til hins sijdara er eg hiet um̃ ad ræda.

So er nu Gud nædugur til ad leita epter oss, sem eg hefe sagt; Enn hversu ernum
vier nu audvelldir til ad læta oss finna? Gud hroopade æ Adam, er hañ hafde synd-
gast, og sagde: Hvar ert þu? Og eñ nu hroopar hañ æ oss daglega i sijnu H. Orde,
nær vier ad Dæme þessa vors Fodur brjootum hañs Skipaner, þad fæum vier ad
fiña i hañs Tiju Laga Bodordum, sem̃ vier aller læra eigum, strax æ unga Alldre. Adam
og Eva foldu sig, er þau merktu Guds Raust i Alldengardenum, eñ strax sem hañ kall-
ade Mañeñ vid Nafn, þæ ansade hañ og jætade Synd sijna. So er þad eñ nu fyrer
oss, ad æ Ungmeñis-Arum vorum heyrum vier ad soñu Raust Drotteñs i hañs Løg-
mæle, vidlijkt og Adam Þiteñ af hañs Ferd um̃ Alldeñgardeñ, eñ þæ verdur oss þad
fyrer, ad skijla oss æ medal Eikaña, þad er i Fæviksku Barudoomsins, og meinum ad
vier kuñum ad dyliast fyrer Gude; Ef vier gietum dulest fyrer þeim, sem oss er til-triw-
ad, og vid oss eiga um̃ ad vanda, so er nu Spilling Nætturuñar frambær i þvi, ad læta
sig ecke fiña af Gude, þo epter Mañenum sie leitad, enn þess være oskande, ad þegar
vier erum komner til Vits og Ara, og Gud kallar oss med Nafne, ad vier þæ ecke
Etthlerar værum, helldur breitum epter Fodur vorum i þvi, ad dylia ecke leynge med
oss Synd vora. Þu munt adspyria hvad þad sie, ad Gud kalle eiñ med Nafne, þad
kalla eg ad vera, nær hañ i sijnu Orde straffar þær Syndernar, sem þu ert seknr i, enn
þu villt ecke vid þær kañast, añadhvert af þvi, ad þu kallar þad litla edur einga Synd,
er þu vel mætt þeckia Synd ad vera, edur og ad þu ert so forherdtur i þeim stooru
Syndunum, sem aller Glæpe kalla, ad þu ecke ydrast þeirra, Vaneñ er ordeñ so rijkur
i þiñe spilltre Nætturu, ad þu ei þecker Armood þiñ og Fætækt i Guds Auglite, edur
ad Gud er so smær i þijnum Augum, ad þu ætlar hann mune ecke forsmæ þann sem
hann vanvirder, 1. Sam. 2. Þegar Menn hafa nu Grein af einhveriu þessu, erum

vier

vier þaa ecke nærsta torvellder til ad lᴂta oss fiña ? Þegar vorer fyrstu Forelldrar, af Gyrndeñe til ad þeckia hid illa, neyttu þess Avaxtar, er þeim bañadur var, þaa hlutu þau Oss sijna, eñ þad fyrsta illt er þau þecktu, voru sialf þau og þeirra Fatleyse. Af þessare fyrstu Gyrnd hiñs Fyrsta Mañs, er iñsmogeñ til allra Maña nockurskonar Þorste til ad vita þad sem illt er, hvadañ flestar Odyggder og Lester spretta, eñ þess være oskande, ad fyrst vier einusiñe hefdum ratad i þetta Spillingareñar Hættalag, ad oss þaa yrde hid sama fyrer, eins og vorum fyrstu Forelldrum, ad vor Augu lykiust upp, so vier þecktum sialfa oss og vora Blygdan, vorn Veikleika og vora Orbyrgd, og ad vier stadfaster værum i Hugleidingu þessarar vorrar Omyndar, þaa munde hiñ goodgiørder ecke einasta fiña oss tijnda Saude, helldur mundum vier leita hañs Andlitis strax sem hañ kallar, hañ munde breita vid oss eins og þau, og klæda oss, ecke med Skiñ-Klædum eins og Forelldra vora, helldur med þeim Riettlætis Kyrtlenum, er hañ wtvegade oss þegar hann hwdflettur var: Enn fyrer þvi ad vier erum so toomlᴂter i slijku, þaa fylger þad a epter, ad vier sneydum Himeneñ þeirre Glede, sem hañ hefur af einum Syndara, sem Ydran giorer, og sialfa oss þeirra Samneyte sem i honum bwa, þar vier kioosum helldur ad eta Drafed af Svijna Tryglenum, ja, ad hverfa aptur eins og þau til Leyrvelltuñar, helldur eñ ad leita til Hybijla vors Fodur, og mettader verda med Abraham, Isaac og Jacob af Nægtum Guds Hwss Eilijflegana.

Þegar eiñ Syndare ydrast af Hiarta, og lætur af Glæpunum, þaa kallar Drotteñ ad hañ hafe Saud siñ funded; Eñ hversu tregkomed ad sie til þess morgum Mañe, þad er audsied af Glæpunum, sem Heimureñ er fullur af. Drotteñ segier fyrer Muñ Zophoniæ Cap 3. Er hañ talar uñ þaa Naad, er hañ heiter ad veita oss i Jesu Christo: Eg vil umbreyta Vorum Foolksins, ad þær sieu hreinar, og skoñu þar epter segier hañ: Epterleyfar Israelis skulu ei Ranglæted fremia, og þeir skulu einga Lijge mæla, og i þeirra Muñe skal ei fölsk Twnga fiñast. Þesse dijru Spaadooms Ord, heyra og vorum Tijdum til, og mun ei þrioota þar til Verolld þrijtur, þvi so leinge hefur Frelsareñ lofad, ad vera hia oss. Eñ hlusted til hverneg Drottenn i þessum Ordum, wtmalar hiñ Andlega Israel, Christner Meñ. Munu þeir vera af þvi Sauda-Hwse, sem lasta Gud med Orde og Verke, þeir sem eckert Lof sijngia honum med Munne sijnum; þeir ed falska Evda vinna vid hanns hrædelega Nafn, liwga, baktala, rægia og brugga Svik med Twngu siñe sijnum Broodur sem med Guds Sonar Bloode er endurkeyptur? Langt er fraa þvi, þeir eru eingu sijdur aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar-Riette, helldur eñ hiner verstu Heidingiar, uñ hveria Paulus talar, Rom. 1. Giored þvi Ydran i Jesu Nafne, O! þier hin fraasnwnu Bornenn, og leited Drottens a medañ hañ er ad fiña, so þier af honum fundner verded. Eckert er þad sem meir hindrar Gudrækne vora, helldur enn Undañdrattur Ydranareñar, hverneg kañ Guds Ast i honum ad bwa, sem ei daglega lætur sig þad angra, ad hann hafe so naduga ñ Gud styggdañ, hver ed i so morg Ar hefur leitad a allar Lunder epter hanns

Vel

Velferd, og viliad leida hañ med Giædsku siñe og Rijkdoome siñar Þoleñmæde til Apturhvarfs. Vier þeckium ad soñu Glæpe vora, vors Guds fødurlegt Hiarta koñunst vier og vid, i þvi, ad lijda þa. Vier jatum og vitum, ad ei verdur þeirra Sekt burt-tekeñ, nema þeir verde med beiskum Taarum afþvegner, enn hversu faaer eru þeir ed giora svoddann Ydran, sem þeim ad nockru leite meige samþiooda. Vær erum nærre þvi eins lynder og Guds Foolk, epter þad Gud hafde leidt þa aptur wr Herleidinguñe, um hveria skrifad stendur, Hag. 1. Þetta Foolk segier: Þar er ei komenn Tijme til ad byggia Hws Drotteñs, eñ hañ segier: Er þar Tijme til ad þier skulud bwa i þiliudum Hwsum, og þetta Hws skal so standa i Eyde? Oss hefur hiñ goode Gud af omælañligre Giætsku siñe frelsad fraa Diøfulsins Herteknïngu i Endurgietningar Laugeñe, eñ hversu treger erum vier og hikner i þvi, ad uppbyggia hañs Kyrkiu, sem er vort Hiarta, med Endurnijung vors iñra Mañs, enn fyrer voru jarnesku Hwse berum vier nooga umhyggiu, eg meina Kroppenn, þann Ham Saalarennar, þar hun sem er Hwsbooñde, enn fer þo i øllu Reidelevse. Enn hvad segier Drottenn um sitt Foolk skomu sijdar i sama Capitula: Þier sæed miked og safned litlu iñ; Þier eted, enn eingann Veigenn til Sadnings; Þier drecked og verded ecke druckner; Þier klædest og verded þo ecke varmer, og sa ed Laun tekur, hann leggur þau i rifenn Siood; Sama hender þa Haalf-Christnu a medal vor, þa Velgu, um hveria Guds Ande talar i Opennberingar Bookeññe, Cap. 3. Þeir vilia ad sonnu Guds Børn heita, enn þo forgiefens, nema þeir briooteniidur þa Satans Capellu, i hverre hinn Gamle Adam þioonar hønum, og er hanns Prestur þar inne; Enn bygge Gude eitt nijtt Mustere i sijnum Limum m: sannre Trw, lifande Trw, Saaluhiaalplegre Trw, hvør ed verke fyrer Kiærleikenn. Þeir saa miked; Þeir lesa Guds Ord, heyra þad, enn þo medhaangande Hende, þvi safna þeir litlu inn, so varla nockud þar af verdur geimt i Korn-Hlødu Hiartans, þeim til Nota nær a þarf ad hallda. Þeir eta og drecka Holld og Blood Drotteñs, enn ecke til Sadningar, miklu helldur til Fordæmingar. Christo hafa þeir ad sonnu iklædst, enn offært sig hønum aptur med gudlausu Athæfe og þverbrotnu Hiarta-Lage. Þeirra Christenndoomur er frosenn og hefur eingann naatturlegann Varma, og þau Laun er þeir meina sig ad hafa fyrer Lijking siña goodra Verka, hver þeir giora sialfum sier til Hroosunar, eñ ecke Gude til Dijrdar, þeim hella þeir i rifeñ Siood, þvi hin saña Audmykt Hiartans er langt þar fraa, og so Trwenn, aan hverrar omøgulegt er Gude ad þocknast.

Breytum ei þañeg, christner Meñ, breytum ei þanneg, helldur laatum oss ydra þess sem undannfared er, sundurkremium vor Hiørtu med Angre og Trega aan Hræsnes, og ecke um Stundar-Saker, helldur alvarlega, ydulega og daglega; þvi daglega Syndgunst vier, og viñum aavallt til Hegningar, annars mun Christeñdoomsins Nafn ad eingu gagna oss, eckert Heyrn Ordsins, og eckert vor Kyrkiu-Gaangur, vorar Ølmusur, nie øñur Goodverk, helldur mun þad verda eins og Drotteñ segier fyrer Muñ Haggai, Cap. 2. Spyried Prestana ad, ef nockur ber helgad Kiøt i sijnu Kaupu-

Skaute

Skaute, mun hann heilagur verda? Hverium Prestarner svorudu ney, og enn aptur sagde hann, ef nockur saa sem ohreinn er af Daudyfle, snerter eitthvad þvilijkt, hverium þeir svorudu: Þad mun ohreint verda. Sama mun framkoma vid þaa sem ei ydrast af Hiarta, og eru so volger og toomlaater i Verke Saalar siñar; þad Orded er þeir heyra, Guds Lijkhame og Blood er þeir medtaka, Bæuernar er þeir flapra wt af Muñenum, Kyrkiañ i hverre þeir byrtast fyrer Guds Augum, munu ecke helga þaa, Miklu helldur þar þeir eru sialfer ohreiner, og ecke þvegner med Laug sannrar Ydranar, þaa munu þeir vanhelga þessa helgu Dooma, til Fordæmingar sier og eilijfrar Glotunar, nema þeir betur vande Ydran sijna og Aptnrhvarf fraa Syndunum; Eñ vid þessu daufheyrast Meñ almeñelega, jafnvel þoott þad sie Guds eigeñ Raust i allre Ritninguñe; So tregt veiter Heilogum Anda ad koma oss i Leitena, þegar hiñ goode Hyrder ad oss leitar. O! hversu liett giora Meñ sier Ydrunar-Verked? Vier meinum ad Lygar, Stuldur, Hoordoomur, Gudlastaner, Meinsære, og hiner verstu Klæker og Skommer sem Diofullenn fær tilbwed i Vantrwareñar Bornum, verde med einu Tearefs-vegnär, og jafnvel þott ei sie þad so miog af Gruñe Hiartans; Eñ Ninive Borgar-Meñ grietu Synder sijnar i heila 40. Daga. David sem var hiinn kiæraste Guds Vinur, hann griet þo beisklega i Seck og Osku. Nebuchadnezar maatte af-þvo sitt Ranglæte med sio Ara Ydran. Eñ hvad meinar þu þier byrie ad giora, sem ert þier so margra Synda medvitande, og þo eru þær fleyre sem þu ecke veitst, ecke manst, og ecke athugad hefur, og sumar kann skie hallded fyrer litla edur einga Synd, enn ert þo ecke viss um, ad þu hafer so laangañ Frest til Ydranar, sem ad Fiollda Glæpaña sambioode. Mun þier ei Þorf a ad laata þig fiña af honum, sem ollum Stoorsyndurum, Tollheimtumoñum og Pwtum hefur til sijn boded? Neid þig ecke uppaa Olmusur Pharisæaña, jafnvel þoott Olmusur sieu af Gude skipadar, þad heiter ad vilia kaupa Saattmaalans Blood. Med Ydran og sañre Trw a hiñ krossfesta verdur þad feinged, eñ ecke med Femunum, þvi oll Verolldeñ med allre siñe Dijrd er liettare eñ Fis hia einum Dropa Guds Sonar Bloods, og onger eckert til ad Endurkaupa Saal Mañsens, so sem Frelsareñ voitar, Marc. 8. Laat þier þar fyrer allra mest hier umhugad vera, þa munu hin wt vortis Verkeñ sialfkrafa a epter fylgia. Ydraneñ og Trweñ eru þær tvær Hendur, er þu att ad breida a moote þijnum Lausnara, nær hañ fiñur þig villuraafande a Eydemorku, gior so, þa munt þu Leidetamur verda til allra goodra Verka, þvi saa sem hefur Plaagad Hiarta sitt med Miñingu siña Illgiorda, hañ mun skirrast vid, ad viña þad til hiñar raudu Vellingar, Gen 25. Er hiñ slæge Bragda Refur Diofulleñ vill kaupa hañs Frumgietningu med, ad standa wt ad nyu slijka Plaagu, er Syndeñ hafde aflad honum, edur ad pijnast eilijflega i Helvijte ad odrum Koste, og hañ sem trwer a Guds Son, og er viss um ad honum eru so margar Synder uppgiefnar, hañ elskar meir eñ so, ad hañ laate sier fiñast hañs Bodord þwng, er hañ so heitt elskade, ad hañ bar alla Guds Reide, þa hañ var Saklaus kvaleñ fyrer hañs Synd-

er. Veit eg ad hverugt þetta stendur i voru Vallde: Eingeñ kann til Jesum ad komast
nema hanns Fader drage hann, Joh.6. Og hier stendur i Gudspiallenu, ad Madureñ
hafe leitad epter þessum tijnda Saud. So leitar Jesus ad þier, þad munde hann ei
giora, nema hønum være Alvara ad hiaalpa þier; Hann leitar ecke forgiefens ad nei-
num, nema þeim sem ecke vill laata sig finna, eins og Pharisæi og Skriftlærder, þar
fyrer leitade hann ad Tollheimtumønnum og bersyndugum, sem voru tapader Sauder,
þvi hann var komenn til ad frelsa þad sem tapad var. Hann leitade ecke leinge ad Matt-
hæo, adur enn hann liet sig fiña, ecke ad Zachæo, ecke ad hinne bersyndugu, ecke ad Hoor-
Konunne, er hann afleyste i Músterenu. Eingum af þessum bægdu Syndernar fraa ad
laata sig finna, enn Pharisæi mootstoodu H. Anda, Act.7. Þvi geingu og Tollheimtu-
Menn og Pwtur inn i Guds Rijke þar sem þeir voru wtrekner. Madureñ took þenna
Saud aa Herdar sier, hvar fyrer? Þviad hann hafde so leinge raafad i Villunne, ad hañ
hefr ei sialfur gaanga kunnad. So giörer og Gud vid Syndarann, af þvi vier megnum
eckert gott af sialfum oss ad hugleida, auk helldur ad framkvæma, þaa ber hann oss aa
Hondum sier, eins og einn Madur ber sinn Son, sagde Moyses um Guds Foolk i
Eydemorkunne. Nu þar vier høfum so naadugann Gud, ad hvar sem Synden yfergnæf-
er, þar yfergnæfer þo Naadenn miklu framar, og so milldann, ad hann vill sialfur giefa
oss Krapt ad þocknast sier, þaa laat alldrei Synd þijna so vaxa þier i Augum, ad þu efest
um hanns Myskun, nie vantreyst so þijnu Maattleyse, ad þu ei strax fylger hønum epter,
þvi hanns Kraptr er i breiskum maattugur. Satt er þad, ad Drottne mislijkar Vond-
skann so miøg, ad eingenn Hlutur er ødrum so gagnstædur, Vatned er Elldsins Vinur,
og Ulfurenn Saudanna, hiaa þvi Hatre, sem Gud hefur aa þvi illa, annars munde hann
ecke hafa unned þad til ad forlijka Heimenn vid sialfann sig, ad ofurselia sinn eingietenn
Son i so bitrar Kvaler, þetta lætur hann oss skilia er hann segier: Þo ad Moyses og
Samuel stædu frame fyrer mier, þaa være ecke mitt Sinne til þessa Foolks, Jer. 15.
Enn hier er ecke Moyses nie Samuel, Drottenn minn, hier er einn faraadur Syndare,
ein ormædd Saal; Einn harmþrwngenn Ande; einn tijndur Saudur, er þinn Sonur
hefur þo aptur funded, hver ad er meire enn Moyses og Samuel, munt þu burtkasta
hønum, Drottenn, nær hann framber þad dyra Gialld, er hañs Frelsare lauk fyrer hañ
aa Trienu? Fiærre sie þad þier, Brunnr Giædskuñar, sem ecke villt Syndarans Dauda,
þad sie laangt fraa þier, Konungur alls Landsins, ad þu straffer hiñ gooda mz þeim vond-
da, sagde Abraham: Eñ eg em goodur orden, þegar Sonar þijns Blood er wtrunned i
mitt Taara-Flood, þad er laangt fraa þier, sem eingañ villt burtu-reka þañ ed til þijn kem-
ur, ad þu laater mig ecke nioota hañs Bæna, sem þu burt rakst þegar hañ kvaldest fyrer
mijnar Synder, eda munt þu taka Giolld af baadum ockr? Og þvi skyllda eg þa ei laata
mig fiña, nær miñ Hyrder leitar ad mier, þo Synder mijnar være stærre eñ Sodomæ og
Gomorræ Synder, þvi mun eg vantreysta mier ad betra miñ Lifnad, til ad fylgia hønum
epter, þar eg megna alla Hlute mz Paulo, fyrer hañ sem mig maattugañ giörer Christum,
Phil.4

Phil. 4. Og er viss um, ad hvers eg bid Fodurenn i hanns Nafne, þad mun hañ veita mier, Joh. 15. Þegar eg kiem fyrer Mangarans-Bord, þa em eg þo ecke viss uñ, ad eg fæe þad mig gyrner; Jafnvel þott eg hafe noog fyrer ad giallda, stundum skorter hañ Voruna, stundum verda Meñ ecke kaupsatter og þad ber til, ad annar bijdur meira eñ eg, vid þvi sem eg fala, eñ þegar eg kiem fyrer þijnar Nadar-Dyr, Herra miñ, þa er ecke hætt vid þvi, ad eg fare eyrendeslaus. Þess eru ecke Dæme, ad þær Bæner, sem eru i Himeneñ sendar, hafe toomar aptur komed, eg kaupe þar med Skortenum, nær eg hefe eckert af sialfum mier fram ad leggia, þa fæ eg alla Hlute fyrer alls eckert, þar brestur ecke þad hver gyrnest, þvi þar eru Nægter Guds Hwss, þar skal eingeñ hlaupa i Kaup vid mig, þvi þar er noog fyrer alla, eins fyrer Manassen, so sem fyrer David, eins fyrer Ræningiann a Krossenum, so sem fyrer Guds Moodur under Krossenum, eins fyrer þann sem ecke hefur erfidad nema eina Stund, so sem hinn er bored hefur Hita og Þwnga Dagsins, nær Menn biooda þad med sundurknosudum Anda og trwudu Hiarta, sem alleina fyrer Gude gyllder, þad er hanns Sonar Forþienusta,

I hverium honum vel þocknast. Honum med Fodur og hellogum Anda
sie Lof, Prijs, Rijke og Magt, Styrkleike og Dijrd, fra
þvi nu er og ad Eilijfu, A M E N.

# A Jons Messu Baptistæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

Og þa ed sa Tijme var komeñ, þad Elizabeth skyllde fæda, og hun fædde Son. Og er Nagrañar heñar og Frændr heyrdu þad, ad Drottenn hafde miklad Myskun sijna vid hana, samglöddust þeir henne. Og þad skiede, ad þeir komu a hinum Attunda Deige, ad umskiera Sveinenn, og nefndu hañ sijns Fodurs Nafne Zacharias. Eñ Mooder hañs svarade, og sagde: Aungvanveigeñ, heilldur skal hañ Johañes heita. Og þeir sogdu til heñar: Par er þo eingeñ i þiñe Ætt, sem ad heiter þessu Nafne. Eñ þeir bendtu Fedur hañs, hvad hañ villde ad hañ hiete. Eñ hañ beiddest Knefa-Spiallds, skrifade og sagde: Johañes er hanns Heite. Og þeir undrudust aller. Eñ jafnsnart laukst hañs Muñur upp, og Twnga hañs leidriettest, og hañ talade lofande Gud. Og Otte kom yfer alla þeirra Nagraña, og um allar Fiall-Bygder i Judæa vijdfrægdust öll þesse Ord. Og aller þeir ed þad heyrdu, settu þad sier i Hiarta, og sogdu: Hvør grunar þig ad þesse Sveirn verde? Þvi ad Hønd Drottenns var med honum. Og Zacharias Fader hanns

fyllteft af heiløgum Anda, spæde og sagde: Blessadur sie Drottenn Gud Israels, þviad hañ vitiade og giørde Frelsan sijnu Foolke. Og hañ uppreiste oss eitt Hiælpar-Horn, i Hwse Davids Þioons sijns. So sem hañ hefur talad fyrer Muñ sinna heilagra Spæmañа, fra Alldødle. Hañ frelsade oss fra Ovinum vorum, og af Hende allra þeirra sem oss hata. Hañ giørde og Myskunsemd vid Fedur vorá, og miñtest a siñ heilaga Sattmæla. Og a þad sære er hañ soor Fødur vorum Abraham, ad hañ giæfe oss þad. Ad vier leyster af Hende Ovina vorra, þioonudum hønum an Otta, i Heilagleika og Riettlæte fyrer hønum siælfum, alla vora Lijf-Daga. Og þu Sveirn munt kallast Spæmadur hinns hædsta, þviad þu munt fyrer renna Auglite Drottenns, ad tilbwa hañs Vegu. Ad giefa hañs Foolke Skilning Sæluhiælpareñar, i Fyrergiefningu Synda þeirra. Fyrer Myskunar Ydur Guds vors, i hveriun hañ vitiade vor Upprune af Hædum. Ad lijsa þeim sem i Myrkrum og Daudans Skugga sitia, til ad greida Fætur vora fram a Veg Fridarens.

## Exordium

Sia, eg mun senda minn Eingel fyrer mier, sa er tilreide Veigenn undann mier, segier Drottenn hia Malach. 3. Cap. Ad þesse Spædoomur hlijde upp a hinn fyrsta nija Testamentisins Spæmann, Johannem Skijrara, hvers Miñing vier i Dag holldum; Þad er audvitad af Vitnisburde siælfs Frelsarans, er ritadur stendur hia Matth. Cap. 11. Hvar hañ berlega þijder hiñ sama uppa hañ, þad er og lioost, ad eins og Morgun-Stiarnañ geingur undañ Sooluñe, so rañ þesse Guds Vinur undann sijnum Herra, Lausnara Heimsins. Hann var ædur gietenn i Moodur-Kvide, og ædur i Heimenn fæddur, þvi lijser Eingellenn, er hann bodade Moodur Drotteñs Gietnadeñ, Luc. 1. med þessum Ordum: Sia þu ad Elizabeth Frænd Kona þijn hefur og Barn gieted i Elle siñe, og þesse er siøtte Mænudur hennar, sem kollud var Obyria. Drotteñ var i Heimenn fæddur af hreinne og oflecкadre Meyu, og þoott þad være hid mesta Furdu-Verk, sem Gud hefur nockurn Tijma giørt i øllu Næturunnar Rijke, þa var og þad miøg so undarlegt, ad Johannes var alenn med þeirre Konu, er so miøg var til Ara komeñ. Johannes skijrde med Vatne til ad bwa Christo Veg, sem epter a kom og skijrde med H. Anda og Ellde, Matth. 3. Johañes hoof siñ Lærdoom med Ydranar Predikun, og Fyrergiefningar Syndanna, þar hann sagde: Giøred Idran, þvi Guds Rijke er nælægt; Þetta var og Inntaked i øllum Christi Lærdoome, er sijdann a epter fylgde, og so mun þad verda allt til Enda Veralldarennar; Þvi sagde hann fordum vid Læresveinana, Luc. 24.

So er þad skrifad, og so byriade Christo ad lijda, og upp aptur rijsa a þridia Deige, og predikast lꝛta i sijnu Nafne Yðran og Syndaña Fyrergiefning hia ollum Þioodum, hver Naadar Bodskapur ad eirnig er til vor komeñ. Nu giefur Frelsareñ þessum sijnum Forgaungu Manne þann Vitnisburd hia Matth. Cap. 11. Ad hann sie Meire enn nockur Spamadur. Og mætte þad sijnast, ad Drottenns alviisa Forsia hafe sett þetta stoora Lioos i ondverda Christs Kyrkiu, þad er i Fordyre nija Testamentesins, til ad sijna ollum þeim, sem þar inne eru, edur inngaanga vilia, hversu veglegt ad sie Embætte Forlijkunarennar, sem Guds Þienurum er tiltrwad. Vil eg þvi a þessare blessudu Hatijd taka mier fyrer Hendur ad yfervega. 1. Hversu vyrdugleg ad þeirra Þioonusta eige af ollum halldenn ad vera. 2. Hversu miog þeir eige sialfa sig ad vanda. Hialpa oss hier til goode Gud, fyrer Jesum Christum, AMEN.

## Utleggingeñ.

Og Þu Sveinn Munt Kallast Spamadur Hinns Hæsta: Þetta Embætte var miog so veglegt a Dogum gamla Testamentesins, so þad fylgde Kongdoomenum a stundum. Moyses var Spamadur, og þo Hofdinge yfer Guds Foolke, David var Konungur yfer ollum Jsrael, og þo Spamadur, sem lioost er af hanns Psalmum: Þeir voru og miog so tignader af gudhræddum Konungum, so var Nathan i Havegum hia David, Hazaria hia Aza Konunge og Esajas hia Ezechia. Nu eru þad Guds Kienne-Menn i nija Testamentenu, sem adur voru Spamennerner, þvi þetta Ord ad Spa, merker ecke alltijd ad segia fyrer okomna Hlute, so sem giordu þeir a gamla Testamentesins Dogum, helldur i þvi, ad flytia Guds Eyrende og vijdfrægia hanns Nafn. Hver mun giefa mier, ad allt þetta Foolk kyñe ad spa, sagde Moyses, Num. 11. Syner ydar og Dætur munu spa, sagde Joel, Cap. 2. Þad er, Gud dijrka, lofa og vegsama. Johañes Baptista verdur hier nefndur Spamadur ens hæsta, og þo gietur ecke um þad, ad hañ hafe fyrersagt ovordna Hlute, Drotteñ segier, Ad Hañ Sie Meire Eñ Nockur Spamadur, an Efa medal annara þess vegna, ad aller Spamenn spadu til Christum, enn Johañes bendte til hanns med Fijngrenum, og sijnde Moñum Guds Son Holldenu iklæddañ. Hanns Epterkomendur eru vorer Kieñe-Fedur, þeir boda oss Jesum Christum daeñ fyrer vorar Synder, og uppriseñ oss til Riettlæteres, þeir sijna oss hañ i Ritningunum fyrer Augunum afmaladañ med ollum hañs Astgiofum og Velgiorningum. Hver er sw Foorn gamla Testamentesins, er jafnast meige vid hañs diirmæta Holld og Blood, sem hañs Þienarar wtdeila i heilogu Altarisins Sacramento? Hvert er Valld so miked a Jordu, so sem ad leysa Syndena hia þeim ydrande, og ad binda hana hia þeim, sem ecke vill ydrast nie af heñe lꝛta? Joh. 20. Sied þa, Brædur mijner, hversu veglegt ad er þetta Embætte, sem þo af morgum Daara verdur lijtels meted. Ecke took Spamanns Embættid so mikla Virdingu af Valldstioorneñe, þoott eg fyrer skomu segde, ad Gud

hefde sæmt hana med þvi, nær honum so lijkade. Hvorutveggiu eru hanns Umbods Menn og Jorduñe, og eiga honum þar iñe ad þioona, epter þvi sem hañ hefur hvorium boded, þar voru og flester af gamla Testamentesens Spamönnum, sem eingeñ Mikel Meñe voru fyrer Heimenum. Elisæus var fra Ploognum tekeñ, Jeremjas var Ungliingur, þa hañ var kalladur, Amos segier i sinar Bookar Cap. 7. Ei var eg Spamadur og ecke Spamanns Sonur, helldur var eg Nauta-Hyrder, og leitade epter Morberium, þvi tekur þetta veglega Embætte eingañ Myndugleika af nockurs Mañs Persoonu, Ætt, Atgiorfe, Rijkdoome nie odrum Veralldar Hlutum; þvi þar i er oll Sæmdeñ foolgeñ, ad þeir eru Drottenns Þienarar; Allur Rijkdoomurenn, ad hann vill vera þeirra Arfur, Num. 18. Allur Myndugleikeñ i þvi, ad þeir eru Raads-Menn hañs Leyndardooma: Og er þad ecke lijted, Born mijn; Hver sem alijtur þad of komna meira eñ þad nærveranda. Eg þykest vita, ad þar er eingeñ af ydur sa er ei hallde Guds Son alls Heidurs verdugañ. Eñ hvad segier Christur vid Postulana? Hver hañ forsmaair ydur, hañ forsmaer mig. Ad vijsu er þad satt, ad vorer Kieñe-Fedur naa ei Tannum þangad, sem þeir hofdu Hælana, so sem vier plogum ad segia. Miked skorter oss a vid þeirra Hugprijde, Þoleñmæde, Kiærleika, Vindinde, Rokseme, og adrar kiennemañlegar Dygder, þo eru þeir samt Christi Þienarar, og þeir ed vaka yfir Saalum ydrum, nær þeir giora sitt Embætte, epter þeirre Naad, sem þeim veitt er, med Kostgiæfne: Mun þvi Christur ecke hallda þann saklausann, sem vanvirder hanns aumasta og veikasta Þienara, þvi hañ stendur og fellur siinum Herra. Eg vil nu i þetta Siñ ecke fa mier til Orda, hversu vier eigum þa ad elska og virda fyrer þeirra eigeñ Persoonu, þvi eg hefe einhveriu Siñe adur um þad talad, þeim er þad og fyrer minnstu, ad þeir af ydur dæmder verde, edur af mannlegum Deige, Drottenn er sa sem dæmer þa, 1. Cor. 4. Þeirra Ovirding hia Moñunum er þeim Heidur hia Gude, þad Hatur, sem Veroldeñ leggur a þa, aflar þeim Elsku i Himnenum. Sa Afdrattur, er þeim skier i sijnum Tekium, hañ verdur Rijkdoomur i Guds Fie-Hyrdslu, einn Peningur, sem þa vantar hier, aflar hundrad Peninga þar, eñ um hitt vil eg nu tala, ad þier ecke forsmaed þeirra Þioonustu, þo þeir sieu lijtelmootleger i ydar Augum sumra hverra, þad er Kienningarnar og Ordsins Predikun, þvi ef þier so giored, þa forsmaed þier ecke þa, helldur þañ sem þa sende; Og ef þier hated þa fyrer Sannleikann, þa hated þier Saaler ydar, og stofned þeim i hinn mesta Voda. Eg bid ydur Brædur, segier Paulus, 1. Tess 5. Ad þier þecked þa sem erfida a medal ydar, og standa fyrer ydar Auglite og kienna ydur, ad þier hafed þa yfirmaata kiæra fyrer þeirra Verks Saker. Hvert er þad Verked, christner Menn? Þad segier oss Zacharias hier i Gudspiallenu: Ad tilbwa Hañs Vegu: Hvers þa? Hiñs Allra Hædsta, þess Drottnarans, nær hañ kiemur til sijns Musteris, sem er þitt Hiarta, þad er, nær hañ krefur þess, og hin heilaga Guddoomsins Þreñing vill þar iñganga og Vistarveru hia þier giora. Til þess eru Guds Þienarar setter; Seig mier: Eru þeir þa Ills verder, fyrer

sitt

sitt Verk, nær þeir giora þad trwlega, og vilia saa þier soddañ Gieste til Hyfingar? Eñ þetta skilst ecke hiñe vantrwudu Kynslood, hun er eins og Skiækiañ, sm Terrentius giet- ur uñ i Skrøksoguñe, eins og hun sagde uñ hiñ dramblaata Strijds-Mañ, ad ei hefde leyfst vid hañ ad tala, nema þad sem hañ hefde aadur fyrermællt. O! jaa, taled þad sem oss er þocknanlegt, epter þvi sem Eyrun klæa. Er ecke þad hid sama sem Drottenn segier hiaa Amos, Cap. 2. Þier hafed fyrerboded Spaamoñunum, segiande: Þier skul- ud ei spaa: Þesse Guds Madur maatte og af þvi segia, Amos 7. Þegar Amatzia Jeroboams Prestur i Bethel sagde vid hañ: Þu Siaande, far burt i Gydinga Land og et þar Braud, og spaa þar, eñ hallt ecke aafram ad spaa i Bethel, þvi þad er Kongs- sens Helgedoomur, og hañs Hws. O þier Villudijr! þegar Leoned oskrar, hver mun ecke skielfast? Og þegar Drottinn skipar, hver mun ecke predika? Amos. 3. Eñ hann skipar so opt sem ad hanns Þienarar siaa, ad ydar Glæper og ogudlegar Athafner taka yferhønd, enn hver af hanns trwlyndum Þienurum mun skielfast fyrer ydar Oþocka edur Reide-Svip, nær Menn eru visser uñ hañs Vinaattu, i hvers Hende þier erud, eins og hid fwna Spaamannsins Bellte, sem þo alldrei hafde i vott komed. Eg skal giora mijn Ord i þijnum Munne so sem Elld, enn þetta Foolk so sem Trie, þau er hañ eyder, segier Drotteñ fyrer Munn Jeremjæ, Cap. 5. Enn þad Orded, sem gudhrædd- er Drotteñs Þienarar hafa i Munnenum, þad er og hañs Ord. Enn so sem þad ad Jerusalem ecke strax uppbrann vid Spaamañsins Ord, samt var Baal-Elldurenn ecke laangt i burtu. So vite hinn gudlause Heimur, sem ecke vill leysa þessum Ellde Inngaang i Hiarta sitt, til ad breña þar upp Sorp og Endeme-holldlegra Gyrnda, vite hañ segie eg, ad hiñs eilijfa Loga mun skamt ad bijda, sem uñ Allder mun brenna þaa, nema þeir ydrest af Hiarta. Aller laatunst vier til Kyrkiuñar koma, aller heyrum vier Orded, og brwkum Sacramenteñ, og so sem ein Herme-Kraaka giorum oss Læte i Christeñdoomenum, enn nær vier þetta hvad mest giorum, þaa giæfe Gud, ad ecke ætte heima hiaa sumum af oss, þad sem Drotteñ segier uñ Juda fyrer Muñ Jeremjæ, Cap. 5: Þar byrtast raangsnwner Meñ aa medal mijns Foolks, þeir sem liggia til Lagis, og setia Snorur fyrer Foolked ad veida þad, so sem þad Fuglareñ giorer med sijnum Veide-Brellum, og þeirra Hws eru af Prettum full, eins og eitt Fugla-Bwr er fullt af Taal-Fuglum, þar wt af verda þeir mektuger og rijker, feiter og friaalsleger, þeir fara med Illsku-Þor, þeir hallda eingeñ Riettinde, þeir framkvæma ecke Maalefne hiñs fodurlausa, og þad luckast þeim. Og Almwgeñ er aa stundum ecke betre ad sijnu Leite. Þad er ad sonnu grætlegt til ad vita, ad heiler Safnader heyra so margar Predikaner, so margar Aminningar af Guds Orde, eñ þegar Meñ krefia ad þeir giore Grein aa Trw siñe, þaa er varla tijunde hver, sem kuñe ad giora þad so sem christnum Mañe byriar, þad er eins og einn okuñugur Hlutur fyrer þeim, og eins og Draumur Nebuchadnezars, Dan. 2. Er hann sagde: Ad Orded være horfed sier. O! hversu lijted er þetta ad virda Embætte Forlijkunarennar? Þu segier, ad Orded sie horfed

þier,

þier, þu gieter þvi ecke i Minne hallded, med þessu dœmer þu sialfañ þig, Barn mitt,
eingeñ er so miñisslioor, ad hañ af so morgum Predikunum, so morgum Fortolum,
hvar hid sama verdur optsiñis itrekad, ad hañ ei giete so miked miñst, ef hañ vantar
ecke Eptertektena, sẽ ad duga meige hønum til Sœluhiœlpar, helldur vallda þvi Umsvif
Veralldareñar, og holldleger Pœnkar, ad Meñ ecke itreka med siœlfum sier, edur
brijna fyrer sijnum Bornum og Hiwum þad sem sagt hefur vered: Þvi kiemur
Diofulleñ og stelur Ordenu wr Hiartanu, so under eins og þu flijgur wt wr Kyrkiuñe,
so flijgur þad wr Huga þier. Nær mun Tunglkomu Hœtijdeñ lijda, ad vier
kunnum ad selia Fædsluna? Sogdu Gydingar fordum, Amos. 8. Eñ þess være oskande,
ad nockrer Gœrungar segdu ecke i Hiarta sijnu, nær þeir under Guds Orda Heyrn
sitia, nær mun þesse Ord-Snœpur hætta, so vier meigum fara ad skiemta oss wr
vorum Lijkum.? Hversu vel verdur Predikunar Embætted virdt af soddañ vitstola
Mañeskium? Giæted þess, christner Meñ, ad þau Dijreñ voru i gamla Testamentenu
einasta hrein kollud, sem ad joortrudu, sia þu og til, ad þu helger Hvijldardageñ,
enn hverneg verdur hann helgadur? Ecke er eiñ Dagur af siœlfum sier odrum helgare,
helldur verda þeir so epter Guds og Yfervalldsins Bode, enn þu helgar hañ, ef þu helgar
siœlfañ þig, ecke einasta med þvi, ad heyra Guds Ord, helldur og hinu, ad itreka
þad med siœlfum þier, er þu heyrt hefur, og vellter þvi fyrer þier eins og Dijreñ Foodrenu
i Maganum og Muñenum, og vilier þu til fulls hallda þvi og alldrei sleppa, þœ
breit epter þvi i Lifnadenum. Lœt þad vera hiœ þier so sem eitt Moot, hvar i Giorder
þijnar jafnañ steyptar sieu, þœ mun þad vera so sem Stafur sœ sem œ Bookfell er ritadur,
og þijnar Giorder munu hroosa þier, so sem eitt Bijlæte wr Gulle steypt, og nær
þu so giorer, þœ kalla eg, ad þu af Alvoru virder og elsker þetta heilaga Forlijkunareñar
Embætte; Og hvad stodar þad Manneñ, ad hañ Orded heyre, nema hañ olldungis
legge þad uppœ Hiartad, og lise þar epter, edur mun þetta heilaga Embætte vera
iñstiptad fyrer Sida-Saker? Edur eiga Guds Þienarar ad vera ydur eins og Born,
þau œ Strætum sœtu og kolludu til hiña: Vier hofum fyrer ydur i Pijpur blœsed,
og þier hafed ecke dansad, vier þuldum ydur Harma vora, og þier hafed ecke grœted?
Luc. 7. Þeir Guds Ord heyra athugalaust, og ecke hyrda um̃ ad fæsa Avoxt þar af, þeir
draga siœlfa sig magnlega œ Tœlar, ecke einasta i þvi, ad þad mun rijsa upp i Doomenum
œ moote þeim œ sijdasta Deige, Joh. 12. Hvad þo er hid skielfelegasta, og vill
giora þeirra Fordæming miklu hrædelegre eñ Sodomæ og Gomorræ, helldur eru þeir
dœrleger i þvi, ad þeir liœ Eyru sijn til ad heyra þañ Hlut sem þeim er hiñ meste Leidendi,
alleina til ad hræsna fyrer Moñum, og hafa þess þo eingeñ Not i þessum Heime, sem
er þeirra Himnarijke, enn eilijf Giolld annars Heims, so sem eg fyrer skomu sagde.

Giæted ad hvad þad er, sem Zacharias segier framvegis um̃ þeña unga Svein: Og
Til Ad Giefa Hañs Foolke Skilning Sœluhiœlpareñar Til Fyrergiefningar Synda
Þeirra. Til þess hins sama eru ydur og Kieñendurner setter, B. M. Ecke þad, at

þeir

þeir giefa ydur Skilningeñ helldur eñ Johañes. Hann skijrde med Vatne alleina, so giora og þeir, Pꜳll mꜳ planta so sem hañ vill, og Apollo vokva; 1. Cor. 3. Enn þad er þo forgiefens, nema ad Gud Avoxteñ giefe, enn samt fæda þeir Sꜳler ydar ꜳ þvi heilnæma Lijfsins Orde, sem ad er Kraptur Guds til Sꜳluhiꜳlpar ollum þeim sem trwa, og þegar Guds Ande samteingest þvi i riett-trwudu Hiarta; þꜳ kañ Mañeskiañ ecke ad fara ꜳ mis vid þad, ad vaxa epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 4. Og þyker mier so sem ad hañ ecke miog elske Sꜳlu sijna, sem ecke vill þad vinna til ad heñe hoolped verde, ad þyggia naudsynlega Uppfræding af Preste sijnum, og heyra hañ i Guds Stad talande med hiñe mestu Athygle: Ecke liggia Synderuar miog þwngt ꜳ honum, sem ad ecke med allre Sꜳlar og Lijfs Audmykt og christelegum Underbwninge framkiemur fyrer Gud i Skriptar-Stooleñ, til ad þiggia af honum Kvittun Synda siña fyrer Medalgaungu hañs Þienara; Enn Gud nꜳde! ad þad er varla nockur Hlutur sꜳ, ed sumer Menn hafa ꜳ þvilijkañ Vidbiood so sem ꜳ þessare heilsusamlegu Þioonustu; so nær ed annadhvert Hræsneni edur Ottenn dregur þꜳ under Guds Orda Heyrn; þꜳ er þad so sem þeir ættu ad gꜳnga til Pijslar, adgiætande þad lijted, ad þeir eiga þar ad finna Sꜳlum sijnum Foodur, so þeir meige umflya eilijfar Helvijtis Pijsler. Enn segied mier þo, ef Cain, Achitophel, Judas og hinn rijke Sælgiætingur mættu eiga Kost ꜳ ad hverfa wr Kvolunum, og sitia under einne Predikun, mundu þeir ecke kalla þad hiñ stærsta Velgiorning, og oska ad sw Predikun alldrei þrite, hvilijkur Dꜳraskapur er þꜳ ad fraꜳsælast þad medañ Nꜳdar-Tijmeñ er; fyrer hvert Madur gietur kvittur orded vid þær oumrædelegu Hormungar, er þeir nu pijnast i. Hlijded þvi Raustu Hroopandans i Eydemorku, giored Ydrau, þviad Guds Rijke er nꜳlægt, þockum Gude, ad hañ hefur ecke sendt oss Engla af Himnum til ad fræda oss, hverra Nꜳlægd vier mundum ei standast, helldur syndugа Menn vora Lijka, þar fyrer, sꜳ sem elskar Sꜳlu sijna, hañ elske sinn Sꜳlusorgara, og þigge hanns Þioonustu med allre Hoogværd og Undergiefne, og er þad nu so um hid fyrra wt-talad.

Af Johanne hafa aller Christi Þienarar þad fyrst ad læra, ad forsmꜳ Heimeñ med ollu þvi sem i honum er, og sierdeilis Aud og Mannvirdingar. Johannes var noogu ættstoor, Burder hanns voru til þess, ad hañ kuñe ad verda rijkur Hofdinge medal sijns Foolks. Fader hanns var eirn Kieñemadur, jꜳ, ecke eiñ almeñelegur Kieñemadur, helldur af Rod Abiæ (so sem Lucas hier um skrifar, Cap. 1.) Hver ed var hiñ ꜳttunde medal Nidia Eleazars Aarons Sonar Hofud-Prests, so sem þar um mꜳ lesa 1. Chronicu Bookareñar, 24. Hañs Mooder Elizabeth var og af Aarons Dætrum, so sem Lucas eiñig vottar, hverium Ætt-Lid ad Kieñemañs-Skapureñ fylgde, sem var ein stoor Tign medal Gydingaña. Nu þo hann være so Ætt-gofugur, sem sagt er, þꜳ wtvallde hañ helldur ad þioona Gude i Eydemorku, helldur eñ ad bera Tign Fedra siña. Ad vijsu er þad satt, Brædur mijner, ad eingeñ er skylldugur til þess, ad hafna

ollum tijmannlegum Munum, eins og Johañes, þvi hann var sier i Lage kalladur til þessa Embættis. Gud hefur breitt vægdarsamlega vid oss, og leist oss ad bwa i Landenu medal Brædra vorra; og hafa þess Not, er hañ og Konungureñ hafa oss wthlutad, enn þo ecke ad seilast þar fram yfer. Johañes yfergaf alla Hlute fyrer Christi saker, þad sama giordu og hanns Postular, so sem Petur vottar, Matth. 19. Eñ þess være ad oska, ad ei finduſt þeir aa medal vor, sem yfergiefa Christum fyrer veralldlega Hlute; Þessu vil eg til þeirra viked hafa, er lijted edur eckert hyrda um̃ sitt Embætte, enn eru aller sockner ofann i Fiaar-Ploog og Aura-Safn, brwkande jafnvel sijns Embættis Myndugleika, til sijns eigeñ Abata, enn ecke Christs Kyrkiu til Eflingar, so hætt er vid, ad þar finnest eins marger Judæ Lijkar, þeir ed selie siñ Herra fyrer faeina Peninga, so sem Petri Stallbrædur, þeir ed yfergiefe alla Hlute hanns vegna, og ad þad meige vid nockra segia, er Drottenn talar hiaa Micheam Cap. 3. Nær þeir hafa ad tiggia med Tonunum, þaa hroopa þeir Frideñ, enn þeim sem ecke lætur uppi Muñ þeirra, boda þeir Strijd. Þeir eta Synder mijns Foolks, segier Drotteñ fyrer Muñ Hoseæ Cap. 4. og þeir reisa Hug siñ vid þeirra Raanglæte. Med sama moote talar Drotteñ um̃ þessa Leigulida og um̃ Daglaunarañ, Devt. 24. Er hann segier þeir reise Hug sinn vid Launeñ, og er þad nærsta vel sagt, þvi eiñ hyrdulaus Kieñemadur, nær hañ hefur þad hañ eta skal, þaa skeiter hañ lijted um̃ Foolksins Synder, þvi reiser hañ Hug siñ alleina aa moote Laununum, enn leggur ad litlu hañs Umboot edur Framfor, sem hann þiggur Launeñ af, og fagnar jafnvel af vondu Athæfe, ef Syndareñ vill þad leysa med nockru Prestsins Gagne, giorande so Bethel ad Bethaven, þad er Guds Hws ad Hiegooma-Hwse. Eingeñ brwke þad fyrer Afsokun, ad hann neydest til þvilijkt ad giora fyrer Van-Efna og Faatæktar saker; Hver er saa af ydur, ad hann laate aptur Dyrnar, fyrer eckert, edur kveike aa mijnu Altare fyrer eckert? Segier Drottenn vid Kiennemeñena, Mal. 1. So maa og um̃ oss segia; Eingeñ er saa ed þioone Christo okeypis, þo ei sieu margra Laun so rijfleg, so sem Kyrkiu-Þienaraña i gamla Testamentenu, og vante hier nockud, mun þad þusundfalldt aptur gialldast i Upprisu riettlaatra, edur hvad mun verda af þeim Launum, er þier ætled ydur af Christo fyrer ydar Starf, ef þier taked þau fram fyrer Hendur aa honum i þessu Lijfe? Trwed mier til, ad þad mun ecke verda audvelldt, ad vera Judas hier, enn Petur þar, og er þaa betra hier lijted ad hafa, og þar fullrijkur ad vera, ef añadhvert vera skal, fyrer þvi laatum oss þad sagt vera, er Johañes sagde Strijdsmoñunum, þeim er komu til hañs Skijrnar, og þad þess helldur, sem vier erum Christi Strijds-Meñ; Giored eingum Ofrijke, og pretted eingañ, helldur vered anægder med ydar Maala, Luc. 3.

2. Þad añad sem Guds Kieñemeñ eiga ad nema af Johañe, er hañs skynsamlegt Vandlæte i hañs Embætte, þar komu til hañs Skijrnar Tollheimtumeñ, Luc. 3. sem halldner vóru hid versta Foolk, þeim sagde hañ med Hæglæte, ad þeir skylldu eckert giora fram yfer þad sim boded være: Þar komu til hañs Strijdsmeñ, þeim sagde hñ og

með Spekt það sama, er eg fyrer skommu umgat: Eñ þar komu og til hañs Skijrnar Pharisæi, sem halldner voru hiner vijsustu, hiner heilogustu, og Saducæi, hiner riettlatustu, þesser voru eingver Smælingiar; þvi allt Foolked hnie ad þessum tveñum Flockum, voru og marger Hofdingiar Gydinga af þeim; Eñ af þvi ad þeir voru Hræsnarar, þa vogade þesse Guds Madur ad segia vid þa: Þier Nodru-Kyn, hver hefur kient ydur ad umflyia tilkomande Reide? Giored þvi verduga Avextu Ydranenne, og segied ei med sialfum ydur, Abraham hofum vier fyrer Fodur: Hañ vogade ad segia hinum gudlausa Herodi Konunge, þier byriar ecke ad hafa þijns Broodurs Egta-Kviñu. Teliande munu þeir nu vera medal vor, Brædur mijner, sem so alvarlega tale til þeirra, er sig kalla Hofdingia a medal vor; Jafnvel þo ad Missmijdeñ sieu so morg i Fare sumra þeirra, ad ecke þurfe skoonhagañ Mann til ad þeckia þau. O Gud vere oss lijknsamur! og giæfe ad Menn villdu til þess hugsa, hversu Landed er fullt af Svijvirding: Agyrnd, Rangslæte, Gripdeillder, Foroktun Guds, Forsmaan hañs Orda, Lauslæte, Hatur til Naungans, Lygar og Roogur ganga Skyñum hærra og hroopa i Himeneñ, so ad nærre þvi sijnest liggia, ad hinn almattuge mune itreka þau Ord fyrer Eyrum vorum, er hañ i fyrstu talade vid Ezechielem, Cap. 7. Haf Snoruna til reidu, þvi Landed er fullt af Hofud-Giorningum, og sialf Borgenn af Ofrijke, og þetta verdur þo annadhvert ecke, edur med hangande Hende straffad, af þeim, sem þo eiga ad giora Reikning hinum alvallda Doomara fyrer Saal hins Odudlega a sijdarsta Deige, allra sijdst hia þeim, sem mektuger eru, jafnvel þo þeir añadhvert sieu fremster i Flocke, bæde ad æfa þvilijkt, edur og ad forsvara þad ed þad giera. Þier segied, þad gyllder ecke, ei ad sijdur heyra þeir oss eins og Dvergmaal Fiallaña. Eñ hvad vited þier af þvi, Brædur mijner? Hafed þier til þess reynt? Hafe þier hlijdt Bode Pauls i þvi, ad kalla i Akafa og vægia ecke, ad straffa, ogna og amiña i Tijma og Otijma, med allre Poleñmæde? 2. Tim. 4. Nema þier so giored, þa vited þier ecke hvad Gud kann fyrer ydar Pioonustu ad wtrietta. Ætled ei til ad þad sie noog ad leggia Hondena a Ploogeñ, enn lijta so aptur til þess, sem til baka er, þeir ed so giora, eru ei hæfer til ad leida sialfa sig nie adra til Himnarijkis. Gud vill ecke lata hætta vid sitt Verk þo lijted orkest. Skodum, Dæme Eliæ, skodum Jonæ Dæme, Gud vill lata sitt Ord vondum og goodum predika, so þad annadhvert frelse edur fordæme. Heyred hvad hann segier vid Ezechielem, Cap. 2. Eg mun senda þig til þeirra, og ad þu segier þeim: So segier Drottenn, hvert helldur þeir heyra þad, edur þeir Mootstodu veita, þvi þeir eru eitt þverbroted Hws; Ottast ecke, þo þeir sieu mootvilluger, og Þyrnum vapner, og ad þu bwer a millum Hoggorma. Enn Gud giæfe, ad Ottenn edur Fegyrneñ hiellde ecke Sverde Andans i Skeidunum, hia oss a stundum, so Menn ecke vanhelgudu Gud fyrer einn Hnefa Bygg-Miols, og eiñ Bita Brauds, og saumudu so Kodda under hvern Armlegg, eins og hinar folsku Spakonur giordu under Jerusalems Eydeleggingu, Ezech. 13. Til ad teikna þar med

Lll 2 Frid,

Frid, hvar þo eingenn Fridur var. O Brædur mijner! því skylldum vier þo hrædast þann riwkande Elldebranda? Og ecke miklu framar hinn lifanda Gud? Hvers Umbod vier aa Hende hofum, laatum oss heyra þad hann segier vid Jeremiam, Cap. 1. Vert ecke ottasleigenn fyrer þeirra Augum, ad eg ei sundurmerie þig i þeirra Auglite, hvert er þaa nu betra, ad sia Skaalkenn ygla sig, og hann fæte þo eingu til Vegar komed, ellegar ad mæta Guds Oblijdu, og ad hann sundurmerie oss ad þeim aasiaaendum? Gud kann ad troda Andskotann under Fætur hinns minnsta Vesælings, sem honum treyster, og giorer Verk sinnar Kallanar i hanns Otta, auk helldur þaa Smaa-Pwkana, sem vier hofum ad beriast vid; Upphefium því vorar Radder sem adrar Basunur, segium Israel til sinna Synda, og Jacob til sinna Misgiorda, so ei verde þeirra Bloods af oss krafest aa hinum mikla Deige alls Holldz, nær hver einn mun hafa noog med sijnar Synder, þo ei giore hann sig hluttakande i annarlegum.

3. J þridia Maata hefur Johannes med sijnu Dæme kient oss, ad vier skulum vera aarvakrer og kostgiæfner i Lærdoomenum, hanns Kyrkia var Eydemørkenn, því Jerusalems Mustere hofdu þeir giort ad Ræningia-Bæle, hann foor i kriingum allt þad Land er laa vid Jordan, og predikade Skijrn Ydrunarennar til Fyrergiefningar Syndanna, Luc. 1. Ut þaangad foor til hanns Jerusalem og allt Gydinga-Land, so sem Matthæus vottar, Cap. 3. Þetta var stoor Sookn, Brædur mijner, fyrer einn Mann, og skulum vier ecke meira, ad hanns Verk hafe einasta vered ad skijra, því Lucas segier, so sem eg strax aaminntest, ad hann hafe predikad Ydranar-Skijrnena, þad skilst mier ad sie, ad hann hafe wtlagt og wtlistad fyrer þeim er komu til hanns Skijrnar; hvilijkur ad være sa Lærdoomur, uppaa hvern þeir skijrdust, og hvernig epter honum ætte ad lifa, þad sijna þesse Ord af hanns Predikun; Giored Ydran, þviad Guds Rijke er nalægt, item, giored verduga Avoxtu Ydranenne, so er eg viss umm, ad hann eingann hefur til sinnar Skijrnar teked, af þeim sem hafa vered komner til Vits og Ara, sem ecke hefur vered fullnuma i þessum Lærdoome; Næsta olijkur þeim af oss, sem setia vid Bord Drottens i heilagre Kvølldmaaltijd, ecke einasta Unglinga, helldur og afgamla aa stundum, sem ecke kunna ad reyna og proofa sialfa sig, nie giora Skil aa Lijkhama Drottens og annare Fædu. Stoor var þesse Sookn Johannis, Brædur M. og gaf hann þo ollum i riettann Tijma hvad þeim byriade, annars munde Drottenn ecke sagt hafa, ad fraa hanns Dogum hefde Himnarijke lided Ofrijke, Matth. 11. Vorar Sookner eru laangtum minne, þo vantar þær aa stundum hvad þær naudsynlega vidþurfa, þier segied, hvad vantar þær? Eg vil hier til svara, ecke ollum, enn þo morgum, þær vantar sialldnast Sacramentenn, þo vita Menn, ad af því ber aa stundum hiaa sumum hverium, enn þaa vantar kostgiæfna Undervijsun, bæde umm Sacramentenn og umm adrar Trwarennar Greiner, sem eru omissande til Saaluhiaalpar. Zacharias spaaer umm sinn Son, Ad Hann Mune Giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiaalparennar Til Fyrergiefningar Synda Þeirra, so eigum vier ad giora, annars er Verked onijtt. Hvad gagnar þeim

Skijrn-

Skijrneñ, sem vier hofum veitt hana, nema vier grandgiæfelega wtskijrum fyrer þeim þeñar Krapt, nær þeir dragast a Legg? Miñum þa a hvad þeir hafa þar Gude Lofad, Kieñum þeim ad Endurnya þañ giædskurijka Naadareñar Saattmaala daglega med sijfelldre Yðran og Endurnyung Lijferneſens. Hvad stodar þeim Holld og Blood Drottenns, nema vier fyrer hanns Adstod iklædum þa einu Brwdkaups Klæde, adur eñ þeir framkoma fyrer so skielfelega Haatign, Kieñum þeim ad ydrast Syndanna; Ad vita hvad þeir þar medtaka; Ad trwa þvi, og ad briota ecke framar Endurnyung sijns Skijrnar-Saattmaala vijsvitande. Þetta og añad þvilijkt, er ad giefa Guds Foolke Skilning Saaluhiaalpareñar, og nema vier þetta giorum, þaa vanhelgum vier þessa dijru Dooma, so ad þeir verda til Fordæmingar, Bæde þeim, sem þaa handtiera, og hinum, sem vidtaka. Þu villt kañ skie segia: Eg em ecke fæddur med H. Anda eins og Johañes, þvi er ei Von, ad eg so miklu af Stad kome, eg laata þad, þar heimtest og ecke so miked af nockrum einum af oss, so sem af honum, vier mundum og skamt komast med ad afkasta so miklu, samt hofum vier aller Heilagann Anda medteked, og aller hofum vier Vit og Skyn þeiged af Gude, oss hafa Forelldrar vorer til Menta sett, so vier kyñum odrum ad kieña. Hefde Gud fyrersied, ad til Mannaña Saaluhiaalpar þyrfte sier i Lage Andans Gaafur, eins og Johannes og Postularner hofdu, þa hefde sw Andans Gaafa jafnann samfara vorded Christnenne; Enn hennar Meistare, sem best veit hvad þessare Byggingu hagar, hann vill nu laata sijna Þioona nægiast med almennlegar Naattuруñar-Gaafur, hveriar hañ þo jafnañ styrker med Krapte sijns Anda, þar sem Astundan og Arvekne er fyrer. Segied mier, hver er sa af oss, ef hañ hefur einhvern kostgiæfenn Eyrendes Reka, ad ecke legge hann honum allt i Hendurnar, til ad framkvæma þad Eyrende? Vilium vier þa ætla, ad Brunnur Giædskuñar, sem so miog elskade Saaluhiaalp Mañaña, ad hñ gaf siñ Son i Daudann fyrer oss, hann mune laata sijna Þienara vanta sijna Adstod, nær hann sier þeirra Kostgiæfne, eñ þad er graatlegt til ad vita, hversu toomlaater ad sumer Menn eru i þessare Yðiu, og laata sier um allt añad meira giefed vera, enn giora Guds Verk ad Hiaaverke. Jaa, þad er aumkunarverdur Hlutur, so Almwgeñ, sem ad ecke veit Guds Riettinde, hañ fær þau ecke ad heyra sumstadar af Faavijsum edur Hyrdulausum Ordsins Þienurum, fare þeir villt, þeir verda ei Leidrietter, Syndge þeir, þar verdur ei adfunded; Forherdest þeir i Syndunum, þa verdur þo ecke þeirra forstockad Hiarta sundurmared med Guds Orde, hvert ad er eiñ Elldur og eiñ Hamar, segier hann fyrer Muñ Spaamañsens, sem ad Kletteñ i sundurmolar, Jerem. 23. Byggdeñ verdur a Stundum hotud, Lostunum hrooſad, edur þeir verda affakader, sierdeilis sieu þeir giorder oss i Vil. Mun þad ei vera hid sama og Drotteñ segier, Ezech 13. Foolked bygger upp eiñ Vegg af Leyr, og þeir klijna hañ med onijtu Kalke; Vei þeim heimsku Spaamoñum, segier Drotteñ, er gaanga epter sijnum Anda, þijner Spaameñ eru lijker Refum a Eydemorku, O Israel! segier hañ. Gud giæfe, ad þesse Pestilentia ecke dræ-

ve sier nidur hiaa oss, þad maa kalla, ad þeir fylge sijnum eigenn Anda, er tala hvad þeim i Hug kiemur, þad þeir alldrei i Ritningunne saau, edur jusu upp af Jsraels Brunne, helldur þeirra eigenn Drauma, og þo skamast þeir sijn ecke ad segia, Drottenn hefur sagt þad, þo Drottenn hafe þad alldrei talad, segier Ezechiel Spaamadur, Cap. 22. So kalla og þesser Guds Ord, hvad sem þeir Ugla, ef Munnurenn alleina freider, eins og aa skeidmæddum Hesti.

Refarner eru solltner i Eydemorkunne, so raasa og nockrer Kiennendur um þurra Stadi, og finna ecke hvar med þeir kunne sitt edur annara Lijf ad næra, þeir snijkia wt wr oþorfum og faavijsum Bookum, þad sem eingum er til Nota, Skrok Sogur, heimskulegar Samlijkingar og raangar Utleggingar aa Stundum, til ad tefia af Tijmann, so þad verdur ei vared, ad Menn meiga heyra þær sumar Predikaner, af hverium eingenn er nockru nær i sijnu Saaluhiaalpar Verke. O Guds Menn! Laated ydur þo einhverntijma til Hugar koma, ad fooſtra Hiord Drottenns, er hann afrekad hefur med sijnu eigenn Bloode, og yfer hveria H. Ande hefur ydur Tilsioonar-Menn setta, Act. 20. Pharao villde ecke giefa Jsraels Sonum Haalm edur Mwr-Stein til ad gjora þad Verk, er hann hafde boded þeim, og þo heimte hann Verked af þeim; Eins virdast mier Lynder þeir Kienne-Menn er eckert hyrda um Christi Arfleyfd, sem þeim er til Voktunar feingenn, þeir heimta af Foolkenu, ad þeir life christelega, og giore Kiærleikans Verk, enn ecke kienna þeir þeim Adferd slijkra Hluta, og ecke gaanga þeir undann odrum i þvi, sem þeir biooda, jaa, sumer jafnvel þvijnga af þeim, þad sem þeir kynne ad giora Verk Kiærleikans med. Er þetta ad vera Christi og hanns Postula Epterbreitare og Epterkomare? Af hveriu vier þo stærum oss. Laated ydur þad ecke helldur noog þykia, Brædur mijner, þoott þier hafed þeiged goodar Gaafur, til ad kienna, edur þoott ydar Kienningu sie hroosad af Monnum, þad er ad sonnu stoor Guds Astgiof, og hanns Þienurum miog so þorf, til ad uppbyggia hanns Kyrkiu, enn laate Menn sier þad i Hug koma, er sagde fordum hinn goode Hyrder vid sijna Læresveina: Fagned ei yfer þvi, ad Dioflarner eru ydur undergiefner, helldur af þvi, ad ydar Nofn eru skrifud aa Himnum, Luc. 10. So vil eg og segia i vidlijkum Hlutum, þo ecke olldungis hinum sama; Fagned ecke yfer þvi, ad Menn hroosa ydur, þvi ydur kynne ad henda hid sama og Herodem, hveru Eingillenn sloo, af þvi hann gaf ei Gude Dijrdena, Act. 12. Helldur fagned af þvi, ef Safnader ydar Leidriettast, ef þier med christelegu Dæme og Rokſamre Kienningu leided nockurn aa Guds Vega, so ad þier sieud visser um, ad þeir med ydur, og þier med þeim munud Guds Rijke erfa, glediest af þessu, þvi til þess erud þier setter, þar i eiga aller ydar Atburder, aller Saalar og Lijkhamans Kraptar ad reyna sig, og ecke til ad wtvega Hroos-Maal-Sunylleñar hiaa Monnum, þvi eige gagnade þad hinum vondu Phariseis, þoott Christus segde, ad Menn skylldu giora epter ollu þvi sem þeir toludu, og ei ad sijdur voru þeir blinder, blindra Leidtogarar, Hræsnarar, Eitur-Ormar og Nodru-Kyn, þvi kalla eg ecke þann ad vera hinn besta Prest, sem hefur hid mesta Alþijdu-Lof af sinne Tals

Gaafu,

Sæasu, helldur þañ sem hefur hina bestu Tilheyrendur, og best til Himna-Rijkis upp-
frædda, sem elske Gud og Náungañ, og vardveite siálfa sig flecklausa frá Heime
þessum, hañ les sitt Feste-Bref fyrer Himna-Rijke, so opt sem hañ sier, ad hañs Til-
heyrendur gánga á Guds Veige, og verka sijna Sáluhiálp med Ugg og Otta. O
Þu mikle Hyrder Saudaña! bid þu þiñ himneska Fodur fyrer oss, ad bæde Kieñend-
ur og Tilheyrendur, mættu so taka Vara á Sálu sinne hier i Lijfe, ad vier i
Lambsins Brwdkaup til samans innleidder verdum; Þad bænheyre hinn
náduge Gud fyrer Sonarens Forþienustu, A M E N.

# Fioorda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 6. Cap.

OG Jesus sagde til siña Lærisveina: Vered myskunsamer, lijka sem ydar Fader er myskunsamur. Aungvann skulud þier dæma, so ad þier dæmest eige; Ferdæmed ecke, so ad þier fordæmest eige. Fyrergiefed, og þá mun ydur fyrergiefed verda. Giefed, og þá skal ydur giefast. Gooda, samþryckta, helskiekna og yfirflootanlega Mæling, munu þeir giefa i ydar Skaut. Þviad med þeirre hinne somu Mælingu hverre þier mæled wt, mun ydur inn aptur mælt verda. Og hann sagde þeim eina Epterlijking: Hvert kann nockud blindur blindann ad leida? Falla þeir ecke bäder i Grøfena? Lærisveinneñ er ecke yfir sijnum Meistara, eñ hvør hellst sem fullkomeñ er, hann mun vera sem hanns Meistare. Hvad sier þu Ognena i þijns Broodurs Auga, eñ ad þeim Biálkanum sem i þijnu Auga er, giæter þu eige? Eda hverneñ máttu segia Broodur þijnum: Brooder, leif þu ad eg i burt drage Ognena wr þijnu Auga, þar ed þu sier ecke siálfur Biálkañ i þijnu Auga? Þu Hræsnare, drag fyrst wt Biálkann wr þijnu Auga, og siá þu þá so til, ad þu sier wtdreiged Ognina sem er i þijns Broodurs Auga.

Exordium.

DÆmed rietta Dooma, seger Gud til sijns Foolks hiá Zachariam Cap. 7. Hverneg segier þá Drottenn hier i Gudspiallenu? Dæmed Ei, So Þier Ei Dæmder Verded, Fordæmed Ei, So Þier Verded Ei Fordæmder. I þessu ber ad athuga, ad þegar Drottenn bijdur sijnu Foolke ad dæma rietta Dooma, þá er audsied, ad hañ giorer Raad fyrer þeim, sem ranger eru, og bannar þá; So giorer og Frelsarenn hier i Gudspiallenu. Guds er Doomurenn, segier Drottenn. Þad hefur jafnann vered Háttur Andskotans, sijdann hann datt wr

Heid-

Heidrenum, ad apa epter Guds Hátign, og so vill hann og setia sig á Doom-Stoolenn á stundum, so sem Gud situr á millum Gudanna i Doomunum, Ps. 82. So er ecke trwtt um, ad Fiandenn meige stelast þar inn; Eg vil ecke segia, ad hann gange þar berlega, þoott ei verde hann siedur lijkhamlegum Augum, samt meiga Menn þo sia hanns Verk, þegar so ber vid, þvi af þeirra Avoxtum skulud þier þeckia þá, segier Lausnarenn: Og þetta tekst honum epter þvi, sem þeir eru lynder til, sem Doomana sitia, og ad þvi leite, sem þeir hafa Gud fyrer Augum sier, og ottast hinn alvalldaHimens og Jardar Doomara. Doomurum er misfared eins og odrum Monnum: Þar situr Moyses á Doom-Stoole, þar situr og Eli, þar sat Salomon, þar sat og Achab, þar sat Lycurgus, þar sat og Pilatus, og eru þau Dæme obriootande. Gud giæfe Menn hefdu færre af Eli, Achabs og Pilati Brædrum, enn hiner væru fleire, þá mundum vier ecke so berlega siá þad Teikn hinns sijdarsta Allsheriar Dooms, sem Lausnarenn segier oss fyrer, hiá Matthæum, Cap. 24. Ad fyrer þvi, ad Naunglæted vex, þá koolne Kiærleike margra, so sem þad nu siá má af ollum þeim, sem ad þvi giæta, enn finna hvad mest af þeim, sem fyrer þvi verda. Þar eru og Doomar ymisleiger. 1. Er þar Doomara Embætte, sem tilheyrer Kyrkiunnar Þionustu-Monnum, hverium alvarlega bañad verdur, ad segia hid illa gott, Esa. 5. Og skipad, ad þeir adgreine hid laka frá þvi dijrmæta, ad ei bode þeir Frid, hvar eingenn er, til ad villa Sálernar. Þanneg dæmde og fordæmde Lausnarenn ogudlega Phariseos. 2. Er þad hiñ almennelege Laga-Riettur, hver af Gude er tilsettur, Mannkynenu til gooda og vidurhallds. 3. Eru þeir, ed Menn almeñelega kalla Dag-Dooma, hveria Frelsarenn sier i Lage bannar hier i Evangelio, um hveria eg vil nu i þetta sinn nockud framar tala, epter þvi, sem Gud giefur Náad til. Enn þu alls Hollds Doomare, Herra Jesu Christe, styrk þu mig hier til med Náad þijns Anda, fyrer þijna Forþienustu, A M E N.

## Utleggingenn

Þesser skadlegu Dag-Doomar verda med morgu Moote, og margra Orsaka vegna. 1. Fyrst þegar Meñ nidra þvi, sem Naunganum er vel giefed, og meiga ei þola, ad þvi sie á Lopt hallded; Þetta Illgrese sprettur af þeirre sivlu Drambseme og Ofund, er liggur i Bloodenu hiá oss Adams Sonum, sumum meir, eñ sumum miña; Vel sie þeim, sm gieta drepid þetta Eitur med Þeckingu sijns eigeñ Overdugleika, ádur eñ þad blæs upp Sálena, heñe til eilijfrar Glotunar, sem viss er þeim ed hrokast sier upp, og þyker ad eingeñ stande sier jafnfætes, þvi Gud mootstendur drambláatum, segier Ritningeñ, og hvar vill sá Heimvon eiga, sm hefr Konung Himnaña fyrer Ovin, nema med honum sem Drotteñ steipte af Himne i eilijfar Pijsler, vegna hiñar fyrstu Drambseme. Heyr þu mier Molld og Aska, þu vesæll Orma Seckur, er nockud annars Agiæte þijn Nidran? Ef þu ert Kostum bweñ, á ecke Gud frialst ad giora añan þier jafnañ, edur fremre, ef hañ vill? Þvi hræker þu þá Gude i Andlited, og smánar hiñs

Mynd,

Mynd, sem er Dyggdeñ, med þiñe saurugre og ohlutvandre Twngu? Eñ munt þu naa þvi, sem þu epter leitar kiære, og ecke helldur tapa Virdingu þinne med annars Nidrau, hverre þu ella munder hallded hafa? Ad vijsu. Ef Rafnenn þegde, þaa miste hann ecke Braadena aa stundum. Þegar eg heyre einn lasta þad sem vel er giort, þaa flijgur mier strax i Hug, hvad mun þesse Madur vilia losad hafa, fyrst hañ lastar gooda Hlute; Eg giet ecke annad meint, enn ad hann kunne ecke Grein ills og goods, edur ad hann tale af Hatre, þar hann ecke ann Naunga sijnum Sannmælis, edur og i þridia Lage, ad hann ugger fyrer ad honum sie hroosad framar sier, og sie eg þaa, ad hinn er fremre, jafnvel ad sialfs hanns Doome, þo ecke vilie hann Doomenn uppsegia. So skierder nu hañs Mælge Virdingu hanns ad miñe Hyggiu, aa hveria Lund sem þetta teked er; hvern eg ella hefde kannskie fyrer goodañ Mañ hallded. Eingeñ leite epter þvi sem hañs er, helldur epter þvi sem añars er, segier Paulus, 1. Cor. 10. Laangt eru þeir fraa þvi, er vilia taka Sæmdena fraa odrum, til ad auka sijna med; Eiñ Þioofur er vidurstyggelegur i Mañaña Augum, og verdur ei moote þvi sagt, ad þetta er nockurskonar Þioofnadur i Guds Auglite, þvi hañ sem nidrar odrum, hann steler Virdinguñe fraa Naunga sijnum, og er þad so miklu argare Þioofnadur, sem Heidureñ er Fienu dijrmætare. Hañ sem lastar þad sem vel er giort, hañ er Lygare, þvi hann segier Hluteñ odruvijse enn hann er; Eñ hvad segier Syrach, Cap. 20. Betre er eiñ Þioofur enn eiñ sijfelldur Lygare, þo munu þeir baader Oluckuna hreppa. Hafe hver añañ sier i Virdingu ædra, segier Paulus eñ aptur: Vel giora þeir þad, sem verda ñærre þvi siwker, ef adrer eru aagiætter jafnframt þeim, þad er vel tilfunded aa vora Tungu, ad Meñ giefa þvilijku Siwkdooms Nafn, þvi Menn kalla þañ osundsiwkañ, sem plaagadur er af þessum Diofle. Eingu eru þeir betre, sem þeygia yfer þvi sem Lofs verdt er, þeir ræna eins Dyggdena sijnum Launum, sem er Heidureñ, og være hun ecke sijn eigeñ Verdlaun, þaa munde hun verda eins og Verka Madur saa, er leidest ad viña okeypis; þad er einslags Lagaleyse og Riettar Neitun, ad villa ecke hroosa þvi sem Lofs verdt er, og ecke skilur þetta tveñt odruvijse, enn þad ad dæma raangt, og ad neyta Riettarens, og er hvertveggia Svijvirding bæde fyrer Gude og Moñum, so varla maa uppaa millum siaa, hver Skomeñ ad hærra situr i Fiandans Rijke.

2. I odru Lage eru þeir, sem drepa wt hinar minstu Naungans Avirdingar, og giora Ulfallda wr Mij-Fluguñe, þad er Stoor-Glæpe wr lijtille Ypersioon. Um þessa raangsnwnu Dooma talar Frelsareñ hier i Gudspiallenu, þar hañ segier: Hvad Sier Þu Ognena I Þijns Broodurs Auga, Enn Þann Bialkañ Sem I Þijnu Auga Er, Adgiæter Þu Ecke. Varla er nockur Lostur tijdare i Heimenum eñ þesse, Meñ eru so giefner fyrer ad leita upp añara Misgiorder, so grandskigner i ad siaa þær, so maalsmaller i ad drepa þær wt, þar vier erum þo sialfer Lijtum hladner: Ef vorar Hugsaner, Ord og Gierder ættu ad stikast aa hiñ riettvijsa allsheriar Kvarda, edur hver er saa ed segia kuñe; Mitt Hiarta er hreint? Verda maa ad þu siert ecke so lagenn aa

 þañ

þañ Lost, er þu so lastar aa odrum, eñ elur kañskie adra verre, og samsiñer þeim, sem eru þijner Stall-Brædur i slijku. Þier þyker vænt um̃ þijna eigeñ Klæke, eins og Apiniuñe um̃ Unga sijna, þo þeir sieu allra Kvikenda liootaster (ef þad maa nockud lioott kalla, sem Drotteñ skapad hefur) og þo ecke sie añad, þaa er þetta Glæpur noogu stoor, ad þu giorer þijns Naunga Avirding so stoora, enn affakar þijna eigeñ, sem kañskie er miklu stærre. Hinn dramblaate lijter hinn aagiarna, enn sig kallar hann hugprwdañ; Hiñ aagiarne lastar hinn eydslusama, sig nefner hann forsiaalañ; Hiñ eydslusame bryxlar hinum radsiaala, enn hann vill orlaatur heita, og so þyker hverium af oss siñ Fugl fagur, og ecke einasta þetta, helldur þad sem vier erum sialfer hvad mest giefner fyrer, þad drepum vier wt aa odrum, (sem er stakt Blygdunarleyse) jafnvel aa goodum Moñum og heidvirdum, ef þaa kañ eitthvad þvilijkt ad henda, sem vier sialfer hofum giort ad Handverke og daglegre Idiu, til þess, ad giora þaa eins svarta og oss, og ad þeirra Dæme skule bera Skuggañ aa vora Glæpe: Eñ maer hyrda um̃ ad draga fyrst wt Bialkañ wr sijnu Auga, ad þeir meige sijdañ wtdraga Ognena wr sijns Broodurs Auga. Þad er, ad vanda og temia fyrst sialfañ sig, ad Madur sijdañ meige aaminna siñ Broodur med þess meira Frelse og Avexte. Hier um̃ talar Paulus roksamlega, Rom. 2. segiande: J þvi ad þu añañ dæmer, þaa fordæmer þu sialfañ þig, þvi þu giorer hid sama sem þu dæmer; Eñ meinar þu O Madur, sierhver saa er dæmer þaa ed þvilijkt giora (segier hañ) og þu giorer hid sama, ad þu muner um̃flija Guds Doom? Hvert ad er samhliooda þvi sem hier stendur i Gudspiallenu: Dæmed Ecke, So Þier Verded Ecke Dæmder; Og er þad merkelegt, sem Postuleñ segier hier: J þvi ad þu dæmer añañ þaa fordæmer þu sialfañ þig, þad er, mz þvi ad þu giorer þig ad Doomara i añars Avirdingu, i hverre þu þo sialfur sekur ert, þaa aflar þu þier Fordæmingar, þvi Gud vill þijnar Synder dæma i Reide siñe, fyrer þessa Hlutseme þijna, þar þu fellur iñ i hañs Embætte, sem Doomureñ alleina tilheyrer, so sem Jacob vottar, segiande, Jac. 4. Eiñ er Log-Giafareñ, saa ed kañ ad frelsa og tortijna, enn hver ert þu, sem añañ dæmer? Og þetta skiedur optast i þeim Hlutum, sem oss aldeilis ecke vidkoma. Eg kann ecke ad segia, ad mier ei leifest ad kalla þad illa giort, sem mier er tilgiort, ef þad er illa giort, þaa vil eg helldur laata Logeñ dæma mille mijn og mijns Mootstodu-Mañs, helldur eñ leggia sialfur Doom aa hañs Tilgiord, þvi hverke gillder miñ Doomur mikid, nema ad giora mig sekañ fyrer Guds Doome, so og tek eg hañ fram fyrer Hendur aa Valldstioorneñe, hver ad er sett goodum til Forsvars, eñ vondum til Hegningar, eñ hvad aa eg med, ad dæma um̃ þad mig ei snerter i enu miñsta? Hvad vardar mig um̃ ad dæma þaa sem fyrer utañ eru? Segier Paulus um̃ Heidingiana, 1. Cor. 5. Syndgar nockur, þaa syndgar hañ moote Gude, og moote sialfum sier, moote odrum eñ mier ecke. Eg vil dæma hañ ad so miklu Leite, ad eg varest hañs Dæme, og aaminna hañ, og leidrietta, ef eg fæ þvi vidkomed, þo so ad eg drage fyrst wt Bialkañ wr mijnu Auga, eñ ecke vil eg wthroopa Synd hañs, og allra sijdst giora hana stærre eñ hun er; Hvar fraa

Gud

Gud vardveite mig; Helldur affaka, ef hun er þañeg, ad hun verdur affokud, og ſa odruviſſe dæmer ſiñ Naunga, hañ tekur Guds Riett fra honum, og giorer ſig ad þeſs Herra ſem hañ dæmer, þar hañ er þo ecke nema Samþioon. Merkelega talar Paulus hier uñ, ſegiande, Rom. 14. Hver ert þu ſm fordæmer annarlegann Þioon? Hann ſtendur og fellur ſijnum Drottne. Jacob ſegier, Cap. 2. uñ þa ſem fara i Mañvirdingar, ad þeir ſieu vordner vondra Hugſana Doomarar, eñ eckert er Mañgreinar Alit verra edur heimſkulegra eñ ad kalla ſig horſkañ og heilagañ, jafnvel þo vier aller hroſum i morgu, enn nijda ſijna Brædur fyrer ſomu Lyte, ſem vier leikum oſs ad, eins og odru: Table, edur kañſkie odrum verre, velldur þad þvi, ad Meñ giora ſier ſo annt uñ ad hnijſa epter Naungans Giordum og Ovirdingum, ad Meñ fae ecke Toom til ad rañſaka ſijnar eigeñ, til hvers Drotteñ bender hier i Gudſpiallenu, þvi ef Textans Meining er riett athugud, þa heiter þad ſo: Þu Starer a Kviſteñ, Sem Er J Þijns Broodurs Auga; Eñ Þann Bialkann, Sem J Þijnu Auga Er, Hugleider Þu Ecke. Þad er; Oſs verdur ſo ſtarſijnt a þad, ſem vier lioott' ſiaum a vorum Naunga, og hofum ſo miked Omak fyrer ad giora þad eñ þa liootara aſtundum, ad oſs kiemur ecke i Hug ad eins, ad vier ſieum i þinu ſama vallder; ſo langt er fra þvi, ad vier rannſokum vorn Lifnad, edur leitum i Filſnum vors Hiarta epter þvi, ſem þar kyñe fooled ad vera, og fyrer þvi vier horfum riett afram, þa ſiaum vier ecke Skreppuna, ſem a Bakenu hanger (ſo ſem i hinum griſka Ordshætte ſegier:) Velldur þeſſu hin bolvada ſialfs Elſka, er liggur i voru ſpilltu Bloode; Og þeſſe Grein af Dag-Doomunum, er nu þeſs ſkadlegre, ſem hun er almeñari, og varla fyrer nockra Synd halldiñ Maña a medal. Menn koma ſauañ til ſoddann Dooma, ſo ſem til annars Gieſta-Bods, og i ſialfum Gieſta-Bodunum hygg eg ad þeſſe Rietturen ſmacke hvad beſt a ſtundum; Eñ þad er ad ottaſt fyrer, ad Satan hafe tilbwed þeim eiñ Riett i Myrkra Salnum, er ſkienita ſier ad þeſſu, þad er, ad þeir ete ſijnar Twngur wt af Ofraun, Apoc. 16. Sem þær brwkad hafa til ſlijkra rangſnweña Dooma, nema þeir þecke Synd ſijna, ydreſt heñar, og late af heñe, a medañ eñ þa er Tijme til ad dæma ſialfann ſig. Hlijdum þvi Rauſtu Jacobs er hañ ſeger, Jacob. 4. Taled ecke hver a moote odrum; Sa ed talar a moote ſijnum Broodur, og ſa ed fordæmer Broodur ſiñ, hann talar a moote Logmalenu, og fordæmer Logmaled, enn ef þu fordæmer Logmaled, þa ert þu ecke Logmalſens Geymare helldur Doomare.

3. J hinne þridiu Rod eru þeir, ſem laſta og wthroopa þa Glæpe, ſem bæde eru opennberer, og ſo hroopleger, ad þeirra Liootleik gierur ad ſonnu eingenn affakad, og eingenn heidvirdur Madur vill þeim hrooſa, er ſlijkt adhafaſt, eñ þad giora ſumer ecke af þvi, ad þeir hate ſoddann Leſte, edur til ad lagfæra þañ, ſem ad þeim funden verdur, edur odrum til Vidvorunar, helldur þeſs vegna, ad eitt illt Skap hefur Gaman og Jñdæle af ad laſta, og fagnar hverre Orſok, er hañ kañ ad fa þar til; So langt er fra þvi, ad hann Mañenn elſke edur leidrietta vilie, edur og i þridia Lage, ad hann med þeſs

Fordæmingu, sem illa breiter, vill smijda sialfum sier nockurskonar Aglætis edur Afbrygdis Mynd i añara Paunkum, so hann giete sagt : Eg em ecke so sem þesse Tollheimtu-Madur, Luc. 18. So langt er hañ fra þvi, ad bera miked af þeim, sem hann dæmer uñ, þvi hann, sem þarf añarra Saurenda med til ad fegra sig, hañ ma ecke vera miøg biartur sialfur. . Þu gudlaus Madur, hafer þu Gaman af ad lasta Avirdingar þijns Naunga, þo þær stoorar sieu, hverneg ert þu þa betre eñ hañ? Þad hefur og Andskoteñ, og er hañ þo verre eñ hiñ argaste Syndare? Sa sem drygt hefur eiñ Glæp, hañ kañ ad ydrast, þvi mattugur er Gud ad reisa hañ, segier Paulus, Rom. 14. Þad sie eg af Dæme Manassis, Davids, Peturs, hiñar bersyndugu, og Hoor-Konuñar, er Drotteñ afleyste i Musterenu. Eñ hverneg villt þu, Satans Eingill, umflya Guds Reide og Fyrerdæminguna, þar þu hefur Skiemtun af añarra Lostum, þoott ei dryger þu sialfur þa? Hver verdur so hneixladur, ad eg stikne ecke? Segier Paulus, þad sagde hañ þess vegna, ad hañ hatade Lestena, eñ elskade Meñena; Eñ hver verdur so brotlegur, ad þu fagner ecke, þu elur Flugu Hatursins og Ofundareñar a Preck añarra, og geingur þañeg i Lid med Flugna-Hofdingianum Beelzebub, og sver honum Trwnad, eñ skytst undañ Merke þijns Frelsara, i hvers Hollde Gud fordæmde þijna Synd, sem Paulus vottar, Rom. 8. Med þvi ad þu fordæmer þiñ Broodur, hvern Gud hefur skipad þier ad amiña og leidrietta, eñ alldrei fieck hañ þier nockurn soddañ Doom edur Valld yfir honum. Ja, þar eru þeir til, er so rijkt Umbod hafa teked af Fiandanum, ad þeir locka Naungañ fyrst til ad syndga, ad þeir sijdañ hafa meige þad þeir kuñe ad lasta og dæma uñ: Þesse er Diofulsins Atferd, so giørde hañ i ondverdu vid vora Moodur Evu, eñ sijdañ hefur hañ ei lated af ad brixla Guds Her-Flockum, og assaka þa, so klagade hann Job fyrer Gude, so stood hann til hægre Handar Josua hinum ædsta Preste, til ad mootstanda honum, Zach. 3. Og þetta sparar hañ ecke eñ nu i Dag, ad atrietta fyrer sijna Umbods-Meñ, Vantrwareñar Born, i hverinn hañ kroptugur er, eñ Gud straffe þig Satan, hañ lifer eñ nu, sem Babylons Kongung vog a Vigt, Dan. 5. Mattugur er hañ eñ i Dag, ad þrijfa sijna Branda wr af heñar Ellde, eins og Josuam, eñ troda þig under Fætur vora, Hundureñ þiñ, og ad stockva þijnum Dalldar-Flocke : So er nu þesse rangsnwna Dooma Adferd eiñ Satans Ydia, og þeir ed sier temia hana, meiga þar uñ visser vera, ad hañ gielldur þeim i Skileyre, þad er med eilijfum Brixlum og eilijfre Sman, nema þeir gange wr Þienustuñe a medañ þar segiest eñ þa i Dag, þvi añad hefur hañ ecke sijnum Moñum i Maala ad giefa. Fleire eru ad soñu Greiner þessara Dag-Dooma, eñ eg vil hier med kyrt lata i þetta siñ. Eñ hvad skulu Meñ þa hier til segia? Eiga Meñ alla ad josnu ad leggia, og eckert uñ þad hyrda, hverneg Naungenn skickar sier? Fiærre sie þvi. Drotteñ Jesus giefur oss hier i Evangelio hin skijrustu Log, epter hverium Naungañ a og ma ad saklausu dæma, segiande; Þu Hræsnare, Drag Fyrst Ut Bialkañ Ur Þijnu Auga, Og Þa Munt Þu Sia Til, Ad Utdraga Kvisteñ Ur Þijns Brodurs.

urs Auga. Sem villde haun sagt hafa: Medañ Kvistureñ er i þijnu Auga, þꜳ ert þu ecke so skarpsyn, ad þu gieter sied hvert þad er Bialke edur ei, sem er i Auga Broodur þijns. Ecke bañar hann, jꜳ, hañ bijdur ad Madur skule ꜳtelia siñ Broodur, þegar hañ syndgar, og aftelia hañ þeim Lostum, sem hañ er giarn ꜳ, og kañ skie þecker ei siꜳlfur, edur hyggur ecke so lioota ad vera; þvi vier fyrergiefum siꜳlfuñ oss jafnañ meira eñ odrum, og þvi er þad Velgiorningur, og Gude þægt Verk, ad vanda um̃ vid siñ Broodur i slijku, eñ þo so, ad Doomureñ byriest fyrst ꜳ voru eigeñ Hwse, og þvi segier hañ: Drag Fyrst wt Bialkañ Ur Þijnu Auga. Hvad mun eiñ sem veikur er i einhveriu leidriettast vid þad, þo eiñ Glæpa-Madur deile ꜳ hañ? Mun hann ecke lꜳngtum helldur giefa honum Orsok til, ad brixla sier um̃ sijnar eigenn Skam̃er, hinn heil-fætte spotte hiñ skacka, og sꜳ sm̃ hvijtur er, Blꜳmañeñ, segier hid Latinska Skꜳlld. Hid sama er ad segia um̃ hañ, sem odrum vill segia til Glæpa siña, þo eingeñ af oss sie heilagur, og þar vante miked ꜳ, þꜳ skal hañ ad sosiu rꜳdsviñare vera, sem annañ vill ꜳmiña, hellldur enn hiñ, edur ad miñsta Koste ecke i þeim Leste fundeñ, sem hañ ꜳtelur um̃, annars mun hann brꜳdlega heyra: Lækner, hiꜳlpa siꜳlfum þier, og Paulus segier honum beiskañ Sannleika, Rom. 2. Þu kieñer odrum, segier hañ, þu predikar, ad ei skule stela, og þu stelur; þu segier, ei skule Hoordoom drygia, og þu dryger Hoor, þu hefur Andstygd ꜳ Skwr-Godum, enn stelur helgum Doomum, þu hroosar þier af Logmꜳlenu, enn vanvirder Gud med Logmꜳlsins Yfertrodslu. Af þessu siꜳum vier, hversu omissande þad er, ad vanda siꜳlfañ sig, fyrer þann sem vid añañ vill um̃vanda, og giorer hañ med þvi tvo Hlute gooda, sem er ad hañ vardveiter sig ostraffañlegañ, og ꜳviñur Gude eina Sꜳl til Himnarijkis, hveriu eingeñ er þægare Foorn honum, og ei þo einn bitade allar sijnar Eigur nidur fyrer fꜳtæka, 1. Cor. 13. So naudsynleger og Gude þecker eru nu soddañ Doomar. Og hvad segier Logmꜳled, Levit. 19. Þu skallt ecke vera eiñ Last-Muñur, eda Baktalare medal þijns Foolks, og ei helldur skallt þu hata þiñ Broodur i þijnu Hiarta, helldur skalltu ꜳtelia þinn Broodur, ad þu berer ecke Skulld hañs vegna. Hier sijnest mier ad hañ, sem rañsakar Nijrun, kalle þad ad hata siñ Broodur i sijnu Hiarta, ad segia honum ecke til Vam̃a siña, ef Madur sier þꜳ, og ad hver eiñ giore sig hluttakande i þeirre Synd, er hañ sier ad strijder ꜳ Nꜳungann, enn vill þo ecke vara hann vid. Þessa bid eg þeir giæte sem giora einn nærre þvi ad Gude, medann hann heyrer til, enn tala um̃ hann allar Skam̃er, jafnvel liwgande, nær hann snijr vid Bakinu, enn hvernig sem þvi er vared, þꜳ siꜳum vier hversu vel ad þesse Logmꜳls Grein kiemr samañ vid hid algiorda nya Testamentesins Logmꜳl, þvi hid fyrra, sem er Lastmælge og Ohroodur, þad bannar Drottenn hier i Gudspiallenu mz þessum Ordum: Fordæmed Ecke, So Þier Verded Ecke Fordæmder, enn hid sijdara, þar hann segier: Drag Sijdann Kvistenn Ut Ur Þijns Broodurs Auga. Frelsarenn giefr oss eitt Bodord, Matth. 18. segiande: Ef þinn Brooder syndgar ꜳ moote þier, þꜳ far og ꜳtel hañ millum þijn og hañs, ef þinn Brooder heyrer þier, þa

ur þu æuñed þiñ Broodur, Ef nu Drotteñ bijdur ad Menn skule so giora, nær einn brijtur ødrum æ moote, hvad miklu helldur mun hañ vilia þad skule skie til ad leidrietta þañ sem fer villur Vegar, og oss giører þo eckert æ moote i þvi sem hañ syndgar, þad er so miklu meira Kiærleiks-Verk øllum ødrum Kiærleiks-Verkum, sem ad Saalenn med Guds Sonar Bloode endurkeypt, er øllu ødru dijrmætare.

Eina Vareygdarseme hefe eg æ ad miñast, ædur eñ eg skilst vid þetta Maal, sem er, ad hvad hellst sem vier i þessu giørum, þaa framkome soddañ Doomar af Elskuñe til Naungans Velferdar, og ad þeir bere hana epter sier. Dæmium og ecke helldur epter Alþijdu-Roome, edur um þad sem vier ei skyniu, helldur um þaa Hlute sem oss al-þeckter eru, og vier høfum Vitsmune æ. Margur fer villt i þessu; Sumer ætelia eiñ, af þvi þeir vilia taka sier til nockurskonar Valld yfer hønum, og sijna þar med Stoormeñsku sijna, þad aflar opt Forsmaanar og Athlaaturs alleina, nockrer eru beiskiundader og hardmælter, jafnvel þoott þeir vilie vel; Eñ þad skilur ecke hiñ, sem vid æ ad taka, Meñ verda ad fara med eiñ villtañ Syndara, þañ sem ecke er forherdtur i Vondskuñe, eins og med hraatt Egg, sierdeilis þa sem Luckañ hossar i Verølldeñe, erte Meñ þeirra illt Skap med Berydum, þaa verda þeir eins og Hws þad er hrynur, ad þad brotnar sioalft, eñ brijtur i sundur allt þad sem under þvi verdur; Þetta vil eg þeim sagt hafa, sem Gud hefur ecke sier i Lage umboded ad segia Jacob til siña Synda, og Jsrael til siña Misgiorda; Hiner sem Guds Umbod er til-trwad, þeir hafa Frelse til ad straffa, ogna og æminna, allrahellst hina þverbrotnu, og þegar Jllskann og o-gudlegt Athæfe tekur til ad drottna i Landenu, (Og þo vill Paulus ad Guds Vand-læte skule vera med Skynseme,) Rom. 12. Þvi þeir giøra slijkt i Guds Stad, eñ ecke under siñe Persoonu, og trwe eg ad eingeñ sie so daarlegur, ad hañ þyckest vid Guds Ord, þoott þad være frambored af einum aumasta Vesæling, nema sa, sem villde Eingel fyrer Prest hafa, og giøre eiñ Drotteñs Madur þad ecke, þaa mun hañ þrædlega heyra med Jeremja; Þu skallt ecke hrædast fyrer þeirra Auglite, ella mun eg sundurmeria þig fyrer Augum þeirra, og mun eg øllu helldur kioosa, ad sia Skaalkeñ ygla sig, eñ ad Guds Reide tortijne mier ad hønum æ siaande. Edur hvad segier Paulus, Gal. 1. Hefde eg hingad til Møñum þocknast, þaa være eg ecke Christi Þienare; Eñ hinum ødrum, sem ecke hafa neinu þvilijku ad skipta vid añañ, þeim vil eg giefa þad sama Raad, er gaf fordum St. Paall þeim i Galatia, Cap. 6. segiande: Brædur, ef nockur Madur verdur yfirstijgeñ af einhverre Hrøsun, þier sem andleger erud, lejdrietted þann sama med hoogværumi Anda, gieyne eiñ Veralldar Sonur þvi med Hofmood og Forse, so sem þeirra er Venia til, og segie eins og hiñ hebreske vid Moysen, Exod. 2. Hver hefur sett þig Doomara æ millum ockar? Þa vardar þad litlu, eg hefe samt frelsad Saalu mijna, eñ hañs Blood er yfir hañs Hofde, er ei villde þola heilsusamlega Aminning, Ezech. 33. So hugleided nu þetta, christner Menn, og læted ydur Maal mitt i Eyrnm loda, aller erum vier synduger, og eingeñ sa ed gott giøre, og ecke eiñ, lætum þvi

Doomeñ

Doomeñ byriast fyrst a sialfum oss, og munum vier sijdur adra dæma, sie þad Ender vorrar Idiu a Kvolldum, og stondum upp til þess sama a Morgna, Doomareñ sten dur fyrer Dyrunum, hver mun standast fyrer hañs Doome, ef hañ vill i Doom gañga vid Þræla sijna, eñ hañ vill alla þa dæma i Bræde siñe, er siñ Broodur dæma, þvi segier hñ: Dæmed Ecke So Þier Verded Ecke Dæmder, añadhvert vill Gud dæma þa, er vier tokum oss Dooms-Valld yfer, ellegar hañ vill þa ecke dæma; Vilie hann dæma nockurn, þa gylldir vor Doomur eckert, nema til ad fordæma sialfa oss, þvi hañs er Doomureñ, vilie hañ ecke dæma, þa er þad hrædelegt ad vilia dæma þann, sem Gud helldur Saklausañ, og honum er þad giorer, er Fordæmingeñ so vijs, sem hinum er Myskuneñ. Athugum þetta, eñ gleymum þo ecke ad amiñast iñbyrdis med Hooglærum Anda, til Leidriettingar og Uppbyggingar, og Samvitskum vorum til Frelsunar, ad er giorum vier oss Hluttakara i annarlegum Syndum, edur hofum Samfelag med ofrioofsomum Verkum Myrkraña. Eñ þu stoore allsheriar Doomare; Þu sem dæmer Verolldena med Riettvijse, þu sem alleina munt riettlaatur fundeñ verda, nær þu dæmest; Gief þu ad vier so dæmum sialfa oss, ad vier ecke verdum af þier fordæmder, helldur iñgaungum fra Daudanum til Lijfsins, bænheyr þad, myskunsame Gud, fyrer þijns Sonar alls Hollds Doomara Forþienustu, AMEN.

# A Vitiunar Dag Mariæ.

Gudspialled, Luc. 1. Cap.

Nær Þeim Dogum, stood Maria upp, og foor mz Flijte til Fiall-Bygda i Borgena Juda, iñgieck i Hws Zachariæ, og heilsade Elizabeth. Og þad skiede so, þa er Elizabeth heyrde Heilsun Mariu, ad Barned spratt upp i heñar Kvide. Og Elizabeth uppfylltest af heilogum Anda, kallade hatrre Roddu, og sagde: Blessud ertu a medal Kveña, og blessadr er Avextur Kvidar þijns. Og hvadañ kiemur mier þetta, ad Mooder Drotteñs mijns kiemur til mijn? Sia þu, þa er Rodd þiñar Kvediu kom mier til Eyrna, spratt Barned upp af Fegnude i mijnum Kvide. Sæl er hun sm trwde, þvi ad þad mun fullkomnast hvad heñe var sagt af Drottne. Maria sagde: Mijn Aund miklar Drotteñ, Og miñ Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum. Þviad hañ leit a Læging Ambattar siñar. Sia, af þvi munu mig hiedañ af allar Ætter sæla kalla. Þvi ad hañ giorde vid mig mikla Hluti, sa sem mattugur er, og hañs Nafn er heilagt. Og hañs Myskunsemi varir fra einni Kynslood, til

añ.

añarar, yfer ollum þeim sem hañ ottast. Hañ framde Makt med sijnnum Arme; Sundurdreifde hañ dramblatum i þeirra Hiartans Hugsan. Volldugaa sette hañ af Stocle, og upphooflijtelata. Hrongrada fylite hañ Giædum, og hinum rijku slepte hañ orbirgum. Hañ endurmiñtest Myskunar siñar, og medtook siñ Pioon Israel. So sem hañ talade til Fedra vorra, Abrahams og hañs Afkvæmis ad eilijfu. Og Maria var hia heñe so nær sem um þria Manude, og foor sijdañ aptur til sijns Heimkyñis.

## Exordium.

Þad var Sidur a Dogum gamla Testamentesins medal Guds Fookls, ad þegar hañ hafde giort eitthvert merkelegt Dasemdar Verk a medal þeirra, þa prijsudu þeir hañ med Lof-Saungum, til þess, ad Epterkomendurner kyñu med þeim somu ad tigna hañs dijrdar fulla Nafn, þegar þeir mintust a svoddañ Guds Stoormerke. Þegar Moyses hafde leidt allañ Israel i giegnum Hafed Rauda þurrum Footum, eñ dreckt Pharaone og ollu hañs Lide þar i, þa prijsade allur Israel Gud med Nijum Lof-Saung, og Maria Spakona, Syster Aaronis took sier Bumbu i Hond, og allar Konurnar geingu wt epter heñe med Bumbum og Hlioodpijpum, og hun saung fyrer þeim: Sijnged Lof Drottne, þvi hañ hefur stoorlega miklad sig, Hestenum og Riddaranum hefur hañ i Siooeñ nidurkastad, Exod. 15. Stoort var þetta Furdu-Verk Drottenns, er hann hier giorde vid Israel, þo er þad miklu meira, sem hin Blessada Mey og Mooder ad Christo Jwngfrw Maria prijsar hier i þessu heilaga Evangelio, med þeim dijrdlega Lof-Saung, er vier strax heyrdum i Gudspiallenu. Moyses leidde Israel wt af Egyptalands Prældoome. Guds Sonur hefur oss af Syndareñar og Diofulsins Prældoome wt-leyst. Gud steypte Pharaone og hanns Her-Monnum ofann i Siooenn. Enn Jesus hefur hinn sterka Hervopnada Diofuil afklædt sinne Hardneskiu, og troded hann under sinna Barna Fætur. Sioorenn klaufst i sundur þegar Israel foor af Egypto. Enn i Holldtekiu Guds Sonar eru Himen og Jord samteingd, og ollum Guds Bornum i honum tilbwenn einn nijr og lifande Vegur, ecke inn i Canaan, helldr til Himna-Rijkis, a þad Land lifande Manna, hvar ad er Gnoogt Fagnadarens og gledelegt Lijferne til Fodursyns hægre Handar. Anna Elkana Hwss-Frw saung Gude einn Packlætis Saung, fyrer þann Son, er hun hafde feinged med Bæn af Gude. Enn Guds Mooder prijsar Nafn ens allra hæsta, fyrer þann Son, er hverke hun nie nockur synduga Manna kunne um ad bidia. Lea Jacobs Hwss-Frw sagde Fordum, er Silpha Olheñe Asser: Nu munu allar Konur mig sæla kalla; Eñ Maria seger hier med ollu meira Riette; Hiedann Af Munu Mig Allar Ætter Sæla Kalla, þvi hun bar i þann i sijnum Kvide, i hverium allar Ættkvijsler Jardar blessadar eru. Og fyrer þvij

Brædur mijner, ad vier hofum eiñig af hanns Fyllingu medteked, þa lœtum oss nu sagna med Moodur Drottenns, og skoda œ þessu Stundarkorne hvad œgiætt þad sie, ad mikla hann, og ad gledia sig i Gude siinum Heilsugiafara. Hver Ord eg vil nu alleina hugleida i þetta sinn. Styrk oss hier til, o þu Brunnur alls Fridar og Fagnadar! med Naad þinnar Giædsku, i Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Dyrdeñ og Vegsemdeñ er so stoor Hlutur, ad flester gyrnast hana framar odrum Hlutum; Jafnvel þeir, sem eckert lofsverdt viña, þeir vilia þo lœta tigna sig, og so er Manneskiañ giefeñ fyrer Heidrenum, ad sumer tapa hinum rietta Heidre, til ad utvega sier hœgomlegan Hroos, eñ sumer vilia lœta sier hroosa, jafnvel af Odyggdunum: So er þo Æringyrndeñ rijk i vorre Molld og Osku; Enn eingeñ af ollum þeim, er epter Vegsemdeñe kieppast, er þo verdur heñar fyrer sialfañ sig, ef Meñ skulu Sañleikañ tala. Þier ber Dijrdeñ og Heidureñ, segier Spœmadureñ under allra Maña Persoonu, ad eingum frœskildum, eñ oss ber Blygdan vors Andlitis; Þad er ad soñu skylldt, ad hroosa Dyggdum og Mañkostum, enn eingeñ œ þo sialfum sier i þvi Vegsemdar ad leita, helldur Fodur Lioosaña, frœ hveriium ad kiemur oll good og oll fullkomeñ Giof, Jac. 1. Eingeñ er meira Lofs verdur, eñ einn goodur Konungur, sœ ed ottast Gud, og vel stioornar siinum Londum og Rijkium, enn allra hellst Guds Kyrkiu, uñ hann mœ eg segia þad, sem Pœll sagde fordum uñ þœ Olldungana, sem vel forstoodu, adur enn Guds Sofnuder hofdu christna Veralldar Hofdingia, ad þeir sieu tvofallds Heidurs verduger; Enn þo fellst eg œ þad, er sagde hiñn gamle Tobias: Leynda Dooma Konungsins er gott ad dylia, eñ Guds Verk ad byrta og jœta, er heidarlegt, Tob. 12. Konungaña Raad verdur ad dylia, þvi jafnvel þo þeir sieu ollum odrum Monnum œdre, þœ eiga þeir jafningia adra Konunga sijna Lijka: Enn Konungur Konungaña œ eingañ sier jafnañ, og þarf þvi ecke ad dylia fyrer neinum hvad hañ ætlar ad giora, so hañ vill segia til hiñar mestu Heims Maktar, þad sem hann sagde fordum til sijns Foolks, Zach. 1. Þau Ord og Setningar, er eg umbaud Þienurum mijnum Spœmoñunum, hafa þau ecke nœd ydar Forfedrum, so ad þegar þeir aptur sneru, sogdu þeir: So sem Drotteñ hugsade ad giora oss epter vorum Vegum, og epter vorum Athofnum, so hefur hañ giort. Hvern skylldum vier þœ helldur prijsa eñ hañ, er so mœttugur er og so alvalldur, ad hañ situr i Himnenum og giorer hvad hann vill? Ps. 115. Þvi hroosar Mooder Drotteñs hier i Gudspiallenu, segiande: Hañ Giorde Vid Mig Mikla Hlute, Sem Ad Mœttugur Er. J hveriu giorde hann þad? J þvi, Ad Hann Leit A Læging Ambœttar Sinnar. Þad þyker ecke miked, ad giora miked af miklu: Þad er ei ad undra, þo sœ giete bygt morg Hws, sem œ marga Skooga, þo hañ brioote morg Lond under sig, sem morgum hefr œ ad skipa, eñ þad mœ Guddoomlegt þykia, so sem þad og er, ad giora allt af eingu, so sem Gud giorde i Ondverdu

Skopunar,enn þo þad sie eckert lijted, sem ad hañ giörer,þaa var þad þo lijted, so stoort sem þad er,hiaa þvi,sem Maria prijsar Gud fyrer i þessum Lof-Saung, þad er ad Gud vard Madur; Og fyrer þvi ad hinum alvallda hafde þocknast, ad laata þad skie i heñar Kvide,sem var ein um̃komulaus Stwlka,þaa prijsar hun Gud med þessare Saung-Vijsu: Hañ Giörde Vid Mig Mikla Hlute, Sem Ad Maattugur Er: Þess hefur allt syndugt Mañkyn noted: Þad var verra enn eckert, epter þad Madureñ hrapade i Afgruñ Fordæmingareñar, þvi betra var alldrei fæddur ad vera,enn eilijflega ad kveliast. Enn hann miñtest sinnar miklu Myskunsemdar, og i sijnum diwpu Myskunar Ydrum vitiade hann vor,Upprune af Hædum. Þessu er verdt ad hroosa fram̃ yfer allar Astgiafer Drottens; Jaa, þo ad allar Engla og Manna Twngur sieu skylldar ad vegsama þeña omælañlega Velgiorning Drottens, þaa er þad oss þo skylldugt framar morgum odrum, hverra Fedur ad voru Myrkur,enn vier þeirra Syner erum vordner Lioos i Drottne, Eph.5. Aller þeir sem gaanga vilia eins og Lioossens Bornum hæfer. Joomfrwen syngur hier i Gudspiallenu: Hañs Myskunseme Varer Fraa Eiñe Kyn-Slood Til Añarar Yfer Ollum Þeim,Sem Hann Ottast. Þad maatte Israel jaata, er hanns guddoomlega Trwfeste reynt hafde aa Fedrum sijnum, allt fraa Heimsins Skopun,allt til þess Jesus kalladest JEsus, og so æ sijdañ,ecke einasta yfer Abrahams Sonum epter Holldenu,helldur yfer ollum þeim, sem nu kallast hinn andlege Israel, hveria Gud hefur Abraham af Steinum uppvaked, þad er, af þeim, sem dijrkudu Stocka og Steina,og voru þeim sialfer lijker,sem David vottar,Ps.115. Oss, sem ad ei vorum hanns Foolk,enn hann hefur þaa kallad so sem sitt, hverier ecke eiga Kyn sitt ad rekia til Israels. O! hversu meigum vier glader undertaka med hiñe sælu Guds Moodur,þar hañ hefur oss samañsafnad af Austre og Vestre,enn Rijkesins Syner eru wtrekner i hin ytstu Myrkur,so ad vier jaata meigum, ad þad hafe aa oss sannast, sem David segier um̃ Gud, Ps.103. Ad hañs Myskunseme vare ecke einasta fraa einne Kynslood til annarar, so sem Guds Mooder hier segier,helldur fraa eiñe Olld til añarar,yfer ollum þeim sem hañ ottast. Þyke ydur nu nockud koma til þessara gledelegu Um̃skipta, jaa, þyke ydur so sem Himen og Jord,jaa, allar Engla og Maña Twngur sieu of-faar til þess,ad fullþacka Drottne fyrer so haaleitañ Velgiorning, þaa laatum oss þykia þad gledelegt ad þacka Drottne, og Lof sijngia þijnu Nafne, þu hinn allra hæxste,þvi þad er þad einasta,sem hann af oss krefur,ad vier dijrkum hañs Nafn med Orde og Verke. Veralldleger Konungar skilia sier wr sijnum Londum og Rijkium þa Hlute,sem eru fagiæter,og nockrar Mætur eru aa, er vier kollum Regalia, edur Konungs Giersemar, og er þad ecke um̃ Eign þeirra, sem Dag og Noott hafa Um̃hyggiu fyrer so margre Saalu,og þar ad auke eru prijdder med nockurskonar Lijkingu Guds Haatignar,enn Konungur Konungaña hefr sier alleina Dijrdena skiled; Hañs Þegn-Skyllda var eingeñ oñur af Israel,enn ad þeir skylldu ottast hann og elska, Devt.10. Og so er hyn eñ i Dag af hinum andlega,þvi med soddañ moote verdur honum riette-

lega

lega Dijrdeñ giefeñ. Allt hvad vegsamlegt er a Himne og Jordu, þad er hañs vegna
veglegt, sem er sialf Dijrdenn, og eckert utañ Dijrd og Vegsemd: Hinn vijse hroose
sier ecke af sijnum Vijsdoome, og ecke hiñ vollduge af sijnu Vallde, og hinn rijke hroose
sier ecke af sijnum Rijkdoome, helldur hver sem vill hroosa sier, hann hroose sier af þvi
hann skilie og þecke mig, ad eg sie Jehova, sa ed fremie Goodgyrnena, Riettenn og
Riettvijsena a Jordu, þviad þar i hefe eg Velþocknan, segier Drotteñ, Jer. 9. Hver vill
þa meiga Tiltolu til nockurrar Vegsemdar fyrer utan hann, fyrst þeir meiga ecke hroosa
sier, sem ad eru hvad vegsamlegaster kallader hier a Jordu. Þessare Vegsemd, þess-
are Goodgyrne, og þessare Riettvijse hinns gooda Guds; Hroosar Maria i Lof-Kvæd-
enu, er hun segier: Dramblaatum Hratt Hann Af Stoole, Enn Upphoof Lijtelaata.
Skodid hier ydur i Spegle, o! þier stolltu Giædingar Veralldar þessarar, og hversu
saavijser þier erud, nær þier vilied troda Lijtelmagnañ under Footum, þañ sem Gude
treyster; Vited þier ecke, ad þier særed Her Drottñe a Hendur? Biooda ecke Log vor,
ad eiñ Fiaarhallds Madur skule veria Sok Omaga sijns, og sækia ef vid þarf? Ætled
þier ad Guds Fyrerheit mune binda hann minna helldur eñ Logeñ skulldbinda ydur,
hver þier riwsed, nær sem ydur bijdur so vid ad horfa, fyrer Avinnings edur Haturs
saker: Enn hversu opt lofar nu Drotteñ i sijnu Orde, ad hann vilie vera Forsvar hiñs
munadarlausa? So ad aller underþrycter, aller þeir ed Rangindeñ lijda, þeir eru O-
magar Drotteñs: Er þar nockur Limur a vorum Lijkhama, er oss sie vidkvæmare enn
Augun? Og þo sagde Gud um sijna Vesælinga, sem stundu under Ofrijke Heiding-
añna i Babylon, sem er Lijking ydar Fooſtur-Moodur Veralldareñar: Hver ed snert-
er ydur, hañ snerter Siaalldur mijns Auga, Zach. 2. Hugleided nu med ydur, o! þier
hin skynlausu Bornenn, vid hvern þier eiged ad skipta; Ecke vid hann, sem þurfe ad
setia sig nidur ad reikna, hvert hann med tiju Þusundum giete mætt þeim sem kiemur
a moote honum med tuttugu Þusund, Lúc. 14. Þviad allar Saaler eru hanns, helldr
vid hann, vid hvers einasta Bendingu ad Sodoma brann til Ösku, Jericho hrapade,
Jerusalem vard ad Stein-Hrugu, Tyrus hrunde i Gruñ nidur; Hver ed dreckte
Pharaone med hanns Lide i Hafenu rauda, hver ed droo hañs Epterkomara wt wr
sijnu Fliote, med ollum þeim Fiskunum sem loddui hañs Hreistre, Ezech. 29. Hver ed
sette siñ Krook i Senacheribs brennande Naser, hver ed hañs Epterkomara Konung-
ana af Assyria, þeir ed voru eins og eiñ kostulegur Vijn-Vidur, so ad allar Eykur-
nar i Gardenum Heden ofunduðu hañ, hver ed þa, segie eg, upprætte a eiñe Stundu,
hver ed sedur Fugla Loptsins og Dijr Merkureñar med Hollde Ovina sinna, og upp-
fyller Dalena og Vatnsfollenn med þeirra Blood, Ezech. 32. Og þo þier ætla kunn-
ed, ad þetta ei mune fram vid ydur koma, þa maa ydur þad alkunnugt vera, ad hañ er
sa sem Valld hefr til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfann Elld, sm ber so laangt af þeir-
ra Hormungum, sem þier nidurdreped med Ofrijke ydar, so sem Guds Barna Sæla,
sem þeim er ætlud, ber af allre ydar Fullsælu. O! hversu erud þier þa saavijser, nær

þier hefied Orlog aa moote slijkum Herra? Vei ydur, þier munud ofkra og ylfra, þier munud eta ydar Tungur wt af Ofraun, Apoc. 16. Nær hiner munu skijna so sem Sool i Rijke sijns Fodurs, O! hversu gott være ydur þaa, ad Lijkhamer ydar, hveria þier so kappsamlega aled hafed aa Bloode hins volada, ad þeir, segie eg, alldrei upprijse til Doomsins. Enn nu er þvi ei so vared, þvi Gud segier fyrer Munn Ezechielis, Cap. 32. Ad ydar Raanglæte ligge i ydar Beinum epter Daudann.

Heyred þvi Ord Drottenns, þier sem meined ad þier hafed bwed ydur Hreidur i Skyunum, heyred, segie eg, Ord Drotteñs af Davids Muñe, sem var miklu mektugre enn þier, og þo miklu lijtelaatare: Giefed Drottne Dijrdena, þier Syner hinna sterku, giefed Drottne Dijrdena og Prijseñ, giefed Drottne Dijrdena hañs Nafns, bugted ydur segiande: Drottne sie Heidur i Prijdenne sijns Helgedoomis, jaa, giore so øll Verolldenn, haaer og laager. Hinn lijtelmootlege Brooder hroose sier i sinne Upphefd, þad er, i þvi, ad Gud hafe hann þess virdt, ad lijkia hann Syne sijnum; hvered giørdest faatækur þar hañ var þo rijkur, segier Postuleñ, 2. Cor. 8. Enn saa hinn rijke i Audmijkt sinne, þvi eins og Bloomstur Grassins mun hañ forgaanga, segier Jacob. Og þañeg giefum vier best Drottne Dijrdena, christner Menn. Ecke er þad noog ad sijngia honum Lof med Munnenum, eñ afneita honum med Verkunum. Eg elska Rietteñ, segier Drotteñ; Eg hata Raaned, þad sem teingest vid Breñe-Foornena, Esa. 61. Eingenn af oss, sem vill Hlut sinn vanda, hann skeiter miog um̃ þad, ad honum sie hroosad af einhverium ornadvondum, og hvad mun Gud þaa dijrdkadur verda af Skaalkenum, ef hann þylur honum eina Saung-Vijsu, kann skie sialfum sier til Gamans, og til ad skiemta sier med Raustenne, sem eg hygg, þvi verr, ad opt mune henda, jafnvel þaa, sem ecke miog vonder eru, enn Hiartad er þo ecke alltijd bwed til Guds Dijrdar. Lof sijng þu Ond mijn Drottne, og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafni, segier David: Þad er allt hvad oss fylger, og Gud hefur oss giefed, þad aa ad prijsa Gud. Hiartad med Elskunne, Munnurenn med Ordunum og Raustenne, hiner adrer Limerner med wtvortis Utriettingum, so ad allt hvad vier giørum med Ord og Verk, þad giørum vier i Nafne Jesu Christi, og þockum Fodurnum fyrer hann. Jafnvel hiner ungu Hrafnarner aakalla Drotteñ, segier David, Ps. 147. Af þvi hañ hefur skapad þaa, og munum vier þaa ecke vera margra Hrafns-Unga virde, sem ecke eingsta vorum epter Guds Mynd i fyrstu skapader, og eigum Kost aa ad endurnyast epter henne, helldur og med hañs Sonar Dauda fraa Helvijte endurkeypter. A þessa Skylldu vora miñer oss Paall segiande: 1. Cor. 6. Þier erud Verde keypter, dijrdked þvi Gud i ydrum Lijkhama, og i ydrum Anda, hverier ad eru Guds: Nu þar vier erum Guds Eign, bæde epter Riette Skopunareñar og Endurlausnareñar, þaa erum vier hiner mestu Drotteñs Svikarar, ef vier ecke af fremsta Megne kostgiæfum ad fylla þessa Skylldu vora: Eñ hvad er þaa ad dyrdka Gud i sijnum Lijkhama? Þad segier hañ oss, Col. 3. Deyded ydar jardneska Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, vonda Gyrnd og Agyrne, sem er Skur-

goda

goda Dyrdkan, og i einu Orde ad segia, ad Meñ stijnge wt þad Augad, og affnijde þaa Hond edur Foot, sem hneixlar, þad er ad deyda fyrer Andann Holldsens Gyrnder. Hvad er ad dyrdka Gud i sijnum Anda? Hier meinar Postuleñ Saalena, þvi hun maa fyrst og sijdarst heita Verde keypt, hefiar Dijrdkun skilur Gud sier hvad mesta, þvi seger hiñ heilaga Mey: Mijn Aund miklar Drotteñ, hun giorde og so bæde med Orde og Verke, þvi nema so vered hefde, þa munde ecke hiñ alskigne Gud hafa valed henn ar Lijkhama Syne sijnum til Bwstadar, hun segier: Þvi hanns Nafn er heilagt. Thugan þessara Orda gagnar oss til tveggia Hluta, sem baader eru christnum Mañe omissande. Þad er vitanlegt, ad med þessum Guddoomsins Haatignar Eigenlegleika, Heilagleikanum, wtmaalar Ritningeñ optlega hañs Yferburde yfer allar hanns Skiepnur, þar fyrer kallast hañ saa heilage i Israel: Þess vegna eru aller Hluter, sem honum vidkoma edur eignader eru, heilager kallader, so sem er hañs Ord, hanns Kyrkia, hañs Frumburder i gamla Testamentenu, þad er alltsamann heilagt kallad. Guds dijrdarfullu Herskarar, sem þar uppe eru, þeir hafa eingann Loffsaung, sem vier afvitum, Fegre enn þenna: Heilagur, heilagur, heilagur ert þu Drottenn Gud, Esa. 6. Nu, þar hann er so heilagur, ad syndugra Manna Skynseme fær þad ei griped, þa aa þesse Thugan ad gagna oss til ad dyrdka hañs Haatign med Blygdan vors Andlitis, og af þvo Daglega vorn Saurugleika med Taarum Yðrunar vorrar, þar vier Daglega framkoma skulum med vorar Bænar Foorner fyrer þenna fortærandaElld, vid hvern ecker Saurugt maa bwa, og i odru Lage, þar hañ so heilagur er, sem adur er sagt, þa meigum vier kañast vid Skilldu vora, ad oss byriar af fremsta Megne ad burtkasta ollum Ohreinleika, ef vier viliuni hanns Þiconar vera, sem so yfermaata hreinn og heilagur er, og ad vier lifum hoossamlega, riettvijslega og Gudrækelega i Heime þessum, Tit. 2. Hañ Enourniñest Myskunar Siñar, Og Medtook Siñ Þioon Israel, Seger Guds Mooder. Þad giorde saa blessade Herra, þegar hañ sende siñ Son i Heimeñ til ad frelsa þad sem tapad var, til ad giora hina blindu heilskigna, til ad lækna hina holltu, hreinsa hina lijkþraau, til ad giefa daufum Heyrn, og til ad uppreisa hina daudu, enn allra hellst til ad predika snauðum Evangelium. Laatum nu og siaa til, ad vier minnunst vorra Heit-Orda, er vier giordum i Skijrnar-Saattmaalanum, ad trwa aa hina heilogu Guddoomsins Þrenningu, enn afneita Dioflenum og ollum hanns Svikum og Vielum. Ef vier nu þetta med allre Kostgiæfne og Alvoru holldum, ad so mikluleite, sem vier afkastad faaum fyrer Adstod H. Anda, þaa vegsomum vier Drotteñ riettelega i vorum Lijkhama og i vorum Anda, og eigum fulla Von aa mz Jomfrw Maria, ad gledia oss i Gude vorum Heilsugiafara, hvar um nu framveigis er nockud ad tala. Minn Ande Gledst I Gude Heilsugiafara Mijnum: Þetta er Saalarennar Glede, Born mijn, enn ecke Lijkhamans Sælgiæte, þad er i Gude, segier hin blessada Mey, hver ad er Brunnur og Uppspretta allrar Sælu, og sialfur alleina sæll, þvi kalla eg þañ alleina fullsælañ, eñ eingañ añañ, sem smackad hefur hvad sætur ad hañ er.

hvad eru nu vorar Offer i Heimenum? Margar eru þær, og flestallar heimskulegar, skadsamar, fullar af Sorg og Armædu, enn allar lwta þær þangad, ad vier bidium um þa Hlute, sem oss epterlanngar. Eñ hvad segier David? Haf þijna Unadsemd i Drottne, og mun hañ giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest, hvad er þad, Born mijn? Eckert añad eñ hann sialfur, þvi so sem holldlegar Gyrnder verda alldrei saddar, Fyllenn aflar þeim er þær elska, æ meira Hwngurs, so er og Laungunenn epter Drottne þvert a moote sijn eigenn Sadning, og þeir ed vellta sier i holldlegum Munade, þeir gyrnast nu þetta, nu hitt, þegar Sadningenn ablar þeim Leida a einum Hlut, so lanngar þa i annann, enn sa sem er i Gude gledur, og til fulls hefur smackad Krapt epterkomande Alldar, Heb. 6. Hañ gyrnest ecke añad eñ Gud, hañs Matur og Dryckur er ad giora hañs Vilia, sem hañ elskar umfram alla Hlute, þvi þar er allur sem uner, segier Ordshattur gamall. Verollden kallar Aud, Metord, Sælgiæte og annad þvilijkt hina mestu Sælu, enn eg hefe adur nockrum sinnum med Rokum synt ad i þessu er eingeñ riett kollud Sæla, helldur blondud med Angre, Erfide, Hugsijke, Otta, Þræl-doome, og jafnvel hiñ mesta Saalar-Haaska vidteingslud. Eñ hvad segier David? Psalm. 1. Sæll er sa Madur sem hefur sijna Lyst i Logmaale Drottenns, og talar um hañs Vegu Daga og Nætur. Hvar fyrer, Brædur mijner? Þvi hann sem ad Guds Ord og hañs Riettinde so miog idkar, og so miog kiær hefur, hann gietur ecke fared a Mis vid þad ad elska Gud, hia hveriu allur añar Fegnudur og Gladvære er Sorg og Armæda ad reikna, þvi sa er þessu Hlutskipte naad hefur, þeim heiter Lausnareñ, ad hañ og hañs Fader vilie til hañs koma, og Vistarveru hia honum giora, Joh. 14. O! Hvernig maa þar vanta alla Gnoogt Fagnadarins, hvar þvilijkir Giestir eru ad Heimbode, jafnvel þoott einhver være i Daniels Lioona-Grof. Þeir Hebresku Sveinar Chananja, Misael og Hazarja, hverier ad Leyfe Stallarans i hinu Babyloniska Hofe neyttu alleina Jardar Avaxta, so ad ecke britu þeir a moote siins Guds Logmaale, þeir urdu þo sællegre og fegre Ilits enn adrer, Dan. 1. So eru og þeir sem i Hiarta sijnu lijta Guds Asioonu, yfer hverra iñra Mañ hun fegur skijn, enn nockur oreyndur kañ nærre ad gieta, jafnvel þoott þa vante Epterlæte Heims þessa, og sijnest aumer og sorgbitner, samt bwa þeir vid hinn mesta Fognud og Roosemie Hiartans, sem eingeñ maa af þeim taka. Þegar Drottenn Gud sætte Mannkyned vid sialfann sig i annad siñ, þa tilbioo hañ sinn Boga i Skyenu, til eins Saattmaals a mille sijn og Jardarennar, Gen. 9. Þad er allra þeirra, sem a Jordu bwa. Ezechiel segier, Cap. 1. Ad Lijking Dijrdar Drotteñs, er hañ sa vid Fliooted Cebaris hafe vered eins og Boge sa, sem verdur i Skyunum þegar rigner. Dijrdleg var þesse Openberan, er Spaamadureñ sa, enn miklu er su vegglegre, ædre, og inndælle, sem byrtest i Christens Mañs Hiarta, nær hañ sier Gud naadugañ, nær hañ gledur sig i þeim Saattmaalanum, sem giordur er a millum hañs og Drottenns i Guds eingietnum Syne, hvers Ummynninge Johañes Regnboganum samlijker, Apoc. 10. Hver ed giorer hañ þess fullorugan,

uggañ,

ugganñ, ad hañs Synder sieu hønum fyrergiefnar. Drotteñ segier, Gen. 9. Ad hañ vilie miñast siins Saattmaala, þegar Bogeñ siest i Skyenu; Enn hversu feigenn mun Syndareñ verda, Drotteñ miñ, þegar hañs Augu rigna Taarum Ydranarennar, og þiñ Naadar Saattmaale myndast i þessu Skye fyrer Verkan H. Anda, sem ber hañs Anda Vitne uñ, ad hañ sie Guds Barn, sem kallar Abba, þad er Fader, sem hroopar, vert þu hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar. Þegar Guds Menn saau þessar dijrdlegu Siooner, þaa urdu þeir maatt-þrota, so þar var ei Megn i þeim framar, so sem Daniel uñ sig talar i hañs Maala-Bookar 10. Cap. Enn þegar Guds Naadar-Lioome skijn i ydrande Manns Hiarta, þaa fær hann nyañ Dug, þad geingur hønum eins og þad gieck Ezechiel, er hañ saa þessa miklu Syn, er eg fyrer komu umgat, ad hañ lifnade vid aptur, og stood upp aa sijnar Fætur þegar Drottenn baud hønum, eins bregdur sann-ydrande Manne vid Guds Anda Blijdlætis Avarp, nær hann telur hønum Trw uñ, ad hvar sem ad Syndeñ ysirgnæfer, þar ysirgnæfe þo Naadeñ miklu framar. Hinn nye Madur sprettur upp af Fagnade i hañs Hiarta, eins og Johañes i Moodur Kvide, nær hønum til Eyrna kiemur þesse Kvedia, og kañ eingenn jardnesk Fognudr ad komast i nockurn Samjøfnud vid þessa himnesku Glede; Eg maa vel kalla hana himneska, ecke einasta þess vegna, ad hun fraa Himnum kiemur, helldur og hins, ad meire Glede er i Himnenum yfir einum Syndara sem Ydran giorer, helldur enn yfir niju og nijutyu riettlaatum. Mooder Drottenns segier hier Orsokena til þessa guddoomlega Fagnadar: Þvi Hann Leit A Læging Ambaattar Sinnar. Stoora Orsok hafde hun til þessa, þvi margar munu hafa gøfugre og meire-haattar verid enn hun, sem ecke var meir metenn af Heimenum enn so, ad hun ei fieck annad Rwm i Giesta-Herbergenu, helldur enn einn Stall til ad leggia i Himens og Jardar Skapara; Hun maatte segia eins og Gedeon fordum sagde vid Eingelenn: Jud. 6. Hvernig skal eg frelsa Jsrael, þar mijn Ætt er hin minsta i Manasse Kyne, og eg hiñ minnste i Hwse mijns Fodur.

Ecke er þad Ossøgum sagt uñ hinn maattuga Gud, sem Petur segier, ad dramblaatum mootstendur hann, enn upphefur lijtelaata. Hversu mørg Dæme høfum vier þar uppaa, ad hann hefur wtvaled þad, sem eckert er fyrer Heimenum, so sem hann valde Gedeon, til ad frelsa Jsrael af Hende Madianitanna, sem var hinn minnste medal sijns Foolks, so kiøre hann og þessa ørsnauda og saaraada Stulku til Moodur allrar Veralldareñar Frelsara, og var þvi øll Von, ad hun fagnade slijkre Upphefd, hiaa hverre allrar Veralldareñar Høfdingskapur er Þrældoomur ad reikna, eñ hverneg sem þessu er vared, þaa hugsa med þier, syndugur Madur, hversu audvirdeleg ad sie Saala þijn i Guds Auglite, þegar þu giorer hana ad Þræl Andskotans med Jdkun verstu Glæpa og Misgiørda, sem upptendra Guds riettferduga Reide. Gud naade, ad hun gietur ei sagt, eins og Maria vid Eingeleñ sagde: Eg Em Ambaatt Drotteñs, Verde Mier Epter Orde þijnu, helldur verdur hun ad jaata; Eg hefe vered Fridla Satans, og

drygt

drygt Hooraner med mørgum Elskuga, straffa mig ecke i Reide þiñe, og typta mig ecke i þiñe Bræde. Seig mier, hver er þaa so laag sem Saala þijn, og hver hefur meire Uppreist hloted eñ hun, nær hañ segier til hañar? Kom þu aptur til mijn, þoott ad Synder þijnar sieu raudar sem Blood, þaa skal eg giora þær hvijtar sem Snioo, og þoott þær sieu Purpura raudar, skal eg þær ull-hvijtar giora, Esa. 1. O! Hversu miklu meire Ordsøk hefur þu þaa til ad glediast i Hiarta þijnu, helldur eñ Guds Mooder, af þvi ad hun var hañs lijkhamleg Mooder, hun var alltijd Guds Barn, þu hefur optlega giort þig ad Diofulsins Barne; Hañ var heñar holldgieteñ Sonur, eñ hañ bijdur þier, ef þu villt laata af illu, og læra gott ad giora, ad hañ vilie myndast i þier aptur ad nyu, sem Paulus ad Orde kiemst, Gal. 4. So þu verder hañs andleg Mooder, og er þesse Fognudur ædre ollum Skilninge, ef þu kañt vid ad taka og med ad fara so sem Guds Barn; Þetta vottar hañ sialfur, er hañ sagde fordum vid Konuna, er prijsade Sælu Moodur hanns, hvad um̃ þad? Sæler eru þeir sem heyra Guds Ord og vardveita þau. Nu so sem þesse Fognudur i Gude er so gott Hlutskipte, ad eckert er þvilijkt, þaa er þad ecke i hvers Manns Hiarta ad finna, þvi Trwenn er ecke allra, segier Paulus, 2. Thess. 3. Jafnvel þoott þad stande ollum til boda, sem vilia þad til þess vinna, ad hafna Glede Veralldarennar, og ecke selia þessa Sælu fyrer stundlegt Epterlæte Syndarennar. Þad er ecke noog, christner Menn, ad vilia naa þessum Fognude, miked skal til mikels viña, segier hiñ forne Ordskvidur. Kieppest vid ad gaanga iñ um̃ hid þranngva Hlided, segier Frelsareñ, Luc. 13. Þvi eg segie ydur, marger vilia þar iñgaanga, og faa þad ei komest. O! hversu miog syndgum vier, jafnvel i voru gudræknis Verke, margur hver. Ef ad Gud veiter oss einhvern lijkhamlegañ Velgiorning, sem hann daglega giorer, þaa elska þeir hañ kañ skie, og þacka honum þar fyrer, sem gudhrædder vera vilia, og er þad skylldugt ad soñu; Eñ þau himnesku Daasemdarverkenn, so sem Utsending hañs Sonar, Afsgiafer heilags Anda, Fyrergiefning Syndañа, þetta allt, segie eg, so miked sem þad er, sem þo er yfir allann Maata miked, þad orkar ecke so mikils hiaa oss, ad vier fyrer hanns Skulld, er oss allt þetta hefur giefens veitt, vilium forsmaa alla Veralldar Mune, hvad ætle þier ad hinn alskygne, hvad ætle þier ad Hiartnanna og Nijrnaña Rannsakare mune dæma um̃ soddañ Gudrækne? Eg vil segia þad eg meina, ad hann vill segia vid þaa, sem alleina finnst til þess sem Kroppnum gagnar, og duger til ad lifa vel og rijkmannlega i þessum Heime, enn meta lijtels þad sem þar uppe er, þau Stoormerke guddoomlegrar Elsku, sm̃ ei maatte afreka nema m̃z hañs Sonar Dauda, vid þaa vill hann segia, segie eg, eins og vid Pharisæos aadur, Matth. 23. Vei ydur Skriftlærdum og Pharisæis þier Hræsnarar, þier ed tijunded Myntu, Anis og Cumen, enn gleymed þvi sem meira er i Logmaalenu, Trwnne, Doominum og Myskunsemenne, þetta byriar ad giora, enn hitt ecke epter ad skilia. So eigum vier Gude ad þacka, hann ad elska og dijrka fyrer lijkhamlega Hlute, og þad af allre Alwd, enn þo laangtum framar ad mikla hann, elska, heidra, og gledia oss i honum fyrer þau dijru Stoor-

Merke

Merke hañs fodurlegrar Gladsku, fyrer hver hañ hef: þrifed Sæler voræ tot af Andskotans Vallde. Heyred hvad Drotteñ segier fyrer Muñ Hoseæ, Cap. 7. Þeir ækalla mig ecke af Hiarta, þegar þeir emia i Svefn-Hwsum sijnum, fyrer Kornedog Mustena samañsafnast þeir, enn eru mier þo ohlijduger: Hid sama er ad segia uñ alla adra Guds Þionustu, er vier lætunst veita honum, alleina fyrer tijmañlega Mune, so blanda Menn samañ Guds Þionustu og Mamonæ, Vatne og Vidsmiere, sem alldrei kuña ad þijdast hvert añad. Meñ sveria vid Nafn Drotteñs, og þo under eins Malcom, eins og Judar, og dijrdkum Gud i hanns Kyrkiu, enn sierhver færer Foorner sinu Skurgode æ Hædunum, eins og þeir, þad er sierhverium þeim Hlut, er hañ metur meir edur jafnt vid Gud. Soddañ Christeñdoomur er lijkur Footunum æ Nebucadnezars Lijkneskiu, er sumpart var af Leyr, og sumpart af Jarne. Drottenn sagde vid Ezechiel, Cap. 44. Þessar Dyr (hann meinte hinns allra helgasta) skulu læstar vera, eingenn gange iñ uñ þær, þviad Drotteñ Israels Gud hefur þar uñ inngeinged. Þu skallt og miñast þess, sem ert einn andlegur Israels Madur, hvad Gud lofad hefur uñ sinnar Kyrkiu Vijgslu, sem er þitt Hiarta; Eg skal giefa ydur nijtt Hiarta, og einn nijañ Anda skal eg setia medal ydar. Þetta ender Gud ad vijsu vid alla þæ sem honum eru helgader i Skijrneñe, og ecke saurga aptur hanns Mustere med ydrunarlausu Frañferde; Enn sijdañ þu hefur hanns Hæsæte, og Stad hañs Feota, Ezech. 43. Þad er Guds Rijke, iñe hiæ þier, þæ lwk þeim Dyrum aptur, hvar hañ iñgieck, og leyf eingum þar iñ ad koma til Gistingar, nema honum og hañs Christe, sem er hiñ ædste Prestur, og hañs Uñbods-Moñum (þvi himiñ ypparsta Preste, og hanns Uñbods-Mañe, leyfdest iñ ad ganga i þad allra helgasta) læt þar þvi innkoma gudrækelegar Aminningar, og holla Lærdooma Guds Ords Þienara, og annarra, gudhræddra Mana: Med þvilijkum Giestum mæ hañ giarna Sess eiga. Þu munt kañske segia: Hvernig mæ eg fæ þvi vidkomed, ad hugsa eckert añad eñ uñ Gud, æ medañ eg ber epter mier þetta veika Hollð? Hallt kyrru uñ Stund, Barn mitt.

I Jerusalems Mustere voru Stader Heidingiunum ætlader, fyrer utañ þañ Mid-Veggeñ, er Drotteñ nidurbraut, þegar hañ kom til sijns Musteris, þar var og Stadur fyrer þæ, sem Gydingar hofdu giorst, fyrer Foolked, og fyrer Levitana og Kieniñeñena, sem voru af hiñe lægre Rod, eñ hiñ ypparste Prestur, edur og hañs Uñbods-Madur, gieck alleina inn i þad allra-helgasta; Þar eru og i Guds Mustere, sem er þitt Hiarta, margar Verur, þar kañ ad vera fyrer Hiegooma Veralldareñar, er þu daglega heyrer; Læt þær alldrei komast inn fyrer Mid-Veggeñ, helldur hallt þær fyrer eiñ Heidingia, sem ei meige saurga Guds Mustere; Þar er og Stadur fyrer naudsynlega Uñhyggiu þessa sallvallta Lijfs, fyrer Naunganum, og fyrer Embættis Utriettingum vorum, enn hid innsta af Hiarta þijnu skallt þu Drottne helga, þad skallt þu daglega hreinsa med sanne Ydran, þad skallt þu uppfylla med Reykelse Bænareñar, þad skallt þu prijda med Skarte Vonareñar, Trwareñar, Kiærleikans; Eñ uñ

 alla

alla Hlute fram̃ med Elskuñe til hañs, þa vill hañ til þijn koma, og Vistarveru hia þier giora, þar munt þu sia hañs Dijrd, so sem i nockurskonar Skugg-Sia, þar mun hann lata þig smacka hvad sætur hañ er, og þar mun hañ jafnvel i hinu mesta Volæde kieña þier, ad Mootlætingar þessara Tijma sieu ecke verdar þeirrar Dijrdar, sem vid oss mun fram̃koma i eilijfu Lijfe; Hverrar niootande ad verda, oss unne og veite hinn naduge Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrer Jesum Christum, Amen.

# Fimta Suñudag epter Trinitatis.

## Gudspialled, Luc. 5. Cap.

A þañ Tijma. Og þad skiede, þa ed Foolked flycktest ad hønum til ad heyra Guds Ord, og hañ sialfur stood vid Siooeñ Genezareth, og hañ leit tvø Skip standa vid Siooeñ: Enn Fiskararner voru stigner af Skipunum og þvodu Neteñ. Hañ stie þa uppa añad Skiped, þad sem var Simonar, og bad hañ ad draga nockud fra Lande. Og hañ sat og kiende Foolkenu af Skipenu. Og sem hañ gaf upp ad kieña, sagde hañ til Simonar: Drag þu wt a Diwped, og leysed upp ydar Net til Fiskedrattar. Simon svarade, og sagde til hañs: Meistare, i alla Noott høfum vier erfidad, og feingum eckert; Eñ i þijnu Orde mun eg Netenu wtkasta, og þa þeir høfdu þetta giørt, iñelucktu þeir mikla Mergd Fiska, so ad þeirra Net rifnudu. Og þeir bentu sinum Fieløgum sem voru a hinu ødru Skipenu, þad þeir kiæme þar, og hialpudu þeim. Og þeir komu og hloodu bæde Skipeñ full, so ad þau sucku ad mestu. Þa ed Simon Petur sa þetta, fiell hañ til Kniaña Jesu, og sagde: Gack fra mier Lavardur, þviad eg em Madur syndugur, af þvi ad Felmtur var yfer hañ komeñ, og alla þa sem med hønum voru, af þeim Fiskedrætte er þeir feingu til samans, lijka og eirneñ yfer Jacobum og Johañem, Sonu Zebedæi, sem ad voru Lags-Meñ Simonar. Og Jesus sagde til Simonar: Ottast þu eige, þviad hiedañ i fra skalltu Meñ veida. Og þeir droou sijn Skip ad Lande, yfergafu alltsam̃añ, og fylgdu hønum epter.

### Exordium.

Blessan Drottens giorer rijkañ fyrer utañ Mædu, segier Salomon, Prov. 10. Ecke meinte hinn vijse Konungur þad, ad ei skylldu synduger Menn hafa Omak og Erfide fyrer Næringu sinne, þad var ecke hañs, ad raska þvi Løgmale,

le, er hinn alvallde Konungur sette strax epter Synda-Falled, ad med Erfide skyllde Madureñ sig af Jordune næra, og i Sveita sijns Andlitis Brauds sijns neyta, Gen. 3. Þitt er hañs Meining, ad hvert sem hiñ goode Gud lætur einum Aud edur Armood tilfalla, þa sie hann samt rijkur, ef hann ottast Drottenn, leitar hanns Blessunar, og Næringar siñar i hañs Nafne, hinn rijke ad sonnu, þvi þoott honum Audur hlotnest, þa fester hañ ecke Hiarta sitt þar vid, so sem David bijdur, Ps. 62. Ef hañ er Guds Barn, helldur stundar epter ad vera rijkur i goodum Verkum, so sem Paulus fyrer mæler, 1. Tim. 6. Og etur so Braud sitt med Glede, og goodre Samvitsku, hayns Erfide fellur honum liett, og hañ þiggur Blessan Drotteñs med Audmykt og Þacklæte, af hañs Orlætes Hende: So giorde Abraham, Isaac, og Jacob Forfedur, og marger af þeirra Nidium hafa fetad i þeirra Spor. Eins er hinum fatæka vared, ef hann elskar Gud, hann stundar ad verda i honum rijkur, þegar hann hefur Drottenn, þa skeiter hann hverke um Himen nie Jord, honum þyker sier borged vera, þegar hann hefur eignast hann, sem alla Verolldena hefur ad Erfdum teked, Christum, Psalm. 2. Þvi temur hann siet med Paulo, bæde hæar og lægur ad vera, bæde noog ad hafa, og Skort ad lijda: Þanneg hroosar hiñ audvirdilege Brooder sier i Upphefd sinne, og hinn rijke i sinne Nidurlægingu, Jac. 1. Dæme uppa soddann Rijkdoom og fatækt hofum vier i þessa Dags H. Evangelio, a St. Petre og hanns Fielogum, þar þeir hofdu alla Noottena erfidad, og eckert feinged; Enn sijdann innelucktu þeir mikla Mergd Fiska. Hier wt af vil eg tvennt athuga i þetta Sinn. 1. Ad oss borie þolenmoodum ad vera i Orbyrgdenne. 2. Þacklatum og audmiwkum i Velgeingnenne. Hiælpa oss til ad hugleida þetta so sem ber, þu alleiña rijke Konungur, og Skapare Himens og Jardar, fyrer Jesum Christum, A M E N.

## Utleggingeñ.

Alla Noott Hofum Vier Erfidad, Og Feingum Eckert, segier Petur. Texteñ brwkar hier þad Ord, sm merker ad erfida sig þreittañ, og fyrer þvi hefur Guds Madur hier nockra Afsokun, og villde so, sem hafa sig undañ-þeigeñ, ad reyna til framar, nema Drotteñ hefde honum þad boded. Vidlijk Freistne hender jafnvel margañ þañ sem vill ottast og elska Gud, þegar hañs Erfide og Athafner luckast ecke, hañ þeinker med sier; Eg viñ Bake brotnu, eg bid Gud mier til Hiælpar; Eg slæ einveñ Vind-Hogg i mijnum Atburdum, so eg skyniad fæe, og er fraasneiddur allre oræadvendne, ad eg vilie taka mijns Næunga Braud fra hanns Munne, edur eta mitt Braud i añara Sveita, þo luckast ecke mitt Verk; Eñ añarra sem midur bera sig ad, hefur goodañ Framgæng, og þeim ærorkast þoott þeir yrke ecke, og hiñ almættuge hañ elur þa sofande, Gud mun mier æn Efa reidur vera, og hañ setur mijnar heimuglegar Synder fyrer sitt Auglite. Þvilijkt kañ Meñum i Hug ad flwga, jafnvel þoott Guds Viner sieu, þegar ecke verdur framgeingt þad þeir hyggia sier til bestu Nota. Eñ læred þad af Dæme Peturs, christner Meñ, og hñs Verkanauta, ad þier ei lated slijka Þan-

ka koma i ydar Hiortu. J ödrum af þessum Fiske-Bátum var Petur og Brooder hans Andreas,eñ i odrum þeir Zebedæi Syner Frændur Drottens,Marc.1. Hvert-su dæmt han hafe elskad þessa Fiskara,þad gaf sijdar Raun Vitne um,og medal añarra,þegar han þvode Fætur þeirra,þegar hann talade fyrer þeim hina hiartnæmu Predikun, sem ritud stendur,Joh.14.15.16.Cap. Epter Kvöllmaaltijdena,þegar hann leysde þeim ad sofa og hvijlast,þa hann sveittest Bloodenu under þeirra og allra Mañа Synduin,þegar han bad þeim Ordlofs,wr Mordingia Hondunum,þegar han leitade ad þeim,uppriseñ af Dauda,er han þo skomu ædur yfergiefed hofdu,og sierdeilis Petre er mest hafde tilunned,þo lætur hann þaa hier alla Noottena forgiefens erfida. Og ef han breitte so vid þaa,þvi meigum vier þa kunna hin alvijsa fyrer þad, ad han sijner oss somu Naad, sem hinum klærustu Vinum sijnum , hverra Skoo Þveinge vier erum ei verduger upp ad leisa,edur ad þurka af Dupt Foota þeirra: Ætle þvi eingen, ad sa mune vera hin beste Gud Vinur,sem han laanar mest af Veralldar-Munum , en ad han hafe skoted hinum fraa sier,er han lætur þaa vanta,añars badade Nabal i Guds Skaute ; En David,sem nærre þvi foor aa Vonar-Vol med Sveit sine fyrer Ofriske Sauls Konungs,han være wtrekeñ fraa hans Auglite,Lazarus være burtkastadur,en hin rijke Sælkiere iñtekeñ i Guds Vinaattu. Dæmum þvi ecke epter Holldenu,Joh. 8.Christner Meñ,helldur lærum af þessum Guds Hetium ad varpa allre vorre Ahyggiu uppaa han,þvi han mun þvi vel til Vegar koma,Ps.37. Hvad sem han lætur oss til Handa bera. Þad hiaalpar ecke til ad hlaupa,ad vera skiootur,ecke til Bardaga,ad vera sterkur, so hiaalpar þad og ecke til Rijkdooms,ad vera aahyggiusamur , þvi þad er satt sem Syrach segier,Cap.11. Ad Lucka og Olucka,Lijf og Daude kome af Drottne,og han giefur þad hverium han vill. Hver vill segia vid han: Hvad giorer þu ? Meistare,J þijnu Nafne Mun Eg Netenu Utkasta , stendur i Gudspiallenu : Þetta Ord MEistare , þijder Verkstioora , epter Textanum , edur og Hofdingia , edur formaada Mann: Ef han er Herrann, maa þa banna honum ad skipa mier ad erfida, jafnvel forgiefens, ef honum so lijkar? Eg aa ecke meira af Idiu minne,helldur en han mier skamta vill,so sem odrum Verk-Þræl,en eg veit ad han er trwr,og freistar einkis yfer Megn fram,og ecke maa eg so vid han breita,so sem sumer af vorum Verka-Moñum vid Hwsbændur sijna,nær þeir þykiast þreytter vera,vilia þeir ekkert Verk framar viña: ecke maa eg helldur so raangeygdur vera, ad sia Ofsioonum yfer þvi, ad hann lienar odrum meire Hamingiu i sijnu Erfide,þvi hann took þad ecke af mijnu,sem han gaf honum frekar en mier,sierdeilis þar eg veit ecke hanns Tilgaang,hann hefur Tijma og Hentugleika sett i sijnu Vallde,Act.1. En ecke mijnu ; Hver hefur nockurn Tijma hans Raadgiafe vered? Rom.9. Hitt sie eg af Dæmunum, bæde fornum og nyum, ad Gud lienar Auden sumum Monnum,til þess,ad hans Þoleñmæde og Giædska drage þaa til Ydrunar ; Enn nockrum,þad er þeim Feitingiunum,sem upp hafa fyllt Mæler Syndana,til Straffs og Hegningar, so sem Meñ ala eiñ Uxa til Slaaturs. Apt-

ur

ur maa þad þeckia, ad Gud svipter siin Born þessum Veralldar Hiegoomа, til þess, ad deyda þar med Holldsins Gyrnder, til þess, ad reyna Stodugleik Trwar þeirra, eins og Jobs; Ecke fyrer þvi, ad hañ þecke hañ ecke sialfur best, helldur ad þeir sem hñ elskar, lære ad þeckia sialfa sig, og treysta ecke ofmiog Mætte siinum i andlegum Efnum, og lære ad segia med Paulo: Þaa eg em veikur, þaa em eg maattugur. Þad giorer sa blessade Herra og so til þess, ad venia oss af Briostum hiñar flaarraadu Skiækiu Veralldarеñar, og ad Meñ þecke, ad allt þad sem i Heimenum er, þad er ecke añad enn Fysn Holldsens, Lysting Augnanna, og drambsamt Lijferne, 1. Joh. 2. Og læra ad skynia þad sem þar uppe er, og ad vor Borgar-Riettur er aa Himnum, hvadann vier væntum Frelsarans Jesu Christi, Phil. 3. Hver þoott hann være rijkur, segier Postuleñ, gioreſt hañ faatækur, so ad vier fyrer hanns Faatækt rijker yrdum, 2. Cor. 8. Þvi skyllda eg mögla aa moote honum, sem ad veit alla Hlute, aller eru þeir opner og nakter fyrer honum, segier Postuleñ; Eru þetta ecke Guds Sonar Ord hiaa Matth. 6. Ydar himneskur Fader veit ad þier hafed alls þessa Þorf? Og ecke einasta veit hañ þad, helldur og skorter hañ ecke Maatt til ad hiaalpa; Er hañs Hond nockud stutt ordeñ, so hann ei hiaalpa kunne? Esa. 59. Jordeñ er hañs og allt hvad þar i er, Jardarkrijnglañ, og aller þeir ed aa heñe bwa, Ps. 24. Nær hañ talar; So skiedur þad, nær hañ bijdur verdur þad, Ps. 33. Edur mun hañ Giædskuna bresta til ad vilia hiaalpa, hafe hañ skapad Saal og Lijf, og furdulega þeim vidhallded allt til þessa Dags, og giefed oss þad besta er hañ aatte, siun eingietenn Son, til ad frelsa oss wr Kvolunum, sinn H. Anda til ad helga oss, ad hañ sie Pantur vorrar Arfleyfdar og eilijfs Lijfs; Mun hañ þa ecke giefa oss þad vier vidþurfum til þessa Lijfs Næringar, þo hañ laate stundum misbrest aa þvi verda, þeirra Orsaka vegna, er hañ sialfur veit, eñ vier faavijsar Mañeskiur skyniun ecke: Eda segier ecke Postuleñ berlega: Hañ sem gaf oss Soneñ, mun hañ ecke giefa oss alla Hlute med honum? Hañ hefur sialfur laated oss bwa vid þañ Kost er hann vill, er oss skapad, endurleyst og helgad hefur. Ef hann nu elur Fuglana under Himnenum, so ad einn Titlingur af þeim fellur ecke aa Jordu aan hanns Vilia, ef hañ prijder Grased þad i Dag er aa Akre, framar enn Salomon Konung i allre siñe Dijrd, og verdur þo aa Morgun i Ofn kastad, Matth. 6. Munde hañs Giædska þaa neyta oss þess, er vier skulum neyta og klædast med, oss sem fyrer hanns Sonar dijra Blood og saaru Kvol erum hañs Born vordner? Munde hañ, segie eg, neita oss þessara Hluta, nema ad hañ visse ad oss gagnade aa stundum ad missa þaa, og jafnvel þo hañ tæke Lijfed af oss, med hveriu moote sem honum þocknast, þaa verum þess fullorugger, ad hañ giorer þad til þess, ad vier skulum finna þad eilijflega, þvi þad skal skie, ad hver hañ trwer aa Soneñ, þoott hañ deye, þaa skal hañ samt lifa, Joh. 11. Og hofum þad fyrer vijst, ad hverke Lijf nie Daude, hverke Englar nie Hofdingia-Dæme, hverke hid nalæga nie hid epterkomanda, hverke Hæd nie Dypt, nie nockur añar skapadur Hlutur mune faa oss skiled vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo Jesu Drottne vorum,

Rom.8. Hversu ovænlega sem oss horfa þyker; Eñ þo ad Gude þocknest ad lꜳta vort Erfide og Astundan misfalla, christner Menn, þꜳ letiunst ecke i þvi, ad hvad vier giorum, þad giorum vier i Nafne Jesu Christi, og þockum Fodurnum fyrer hann.

Þo Petur hefde ecke fiskad alla Noottena, nie hanns Felagar, og voru so afstigner Skipunum, wrkula Vonar um frekare Fiske-Veidar i þad sinn; Samt heyrdu þeir Guds Ord, og hina ægiætu Drottens Predikun: Breytum og þanig, þo vort Erfide luckest ecke ꜳ stundum, þꜳ gleymum ecke Gude, þvi eitt er naudsynlegt, leitum þar fyrer hañs Rijkis, og hañs Riettlætis, þꜳ mun oss allt añad tilleggiast, Matth. 6. Ef ecke so sem vier vilium, þꜳ so sem hañ vill, hvers Vilie ad vier daglega bidium ad verda skule, og giorum Verk vorrar Kallanar i Otta Drottens epter hañs Bode; So giorde Petur, J Þijnu Orde, þad er, epter Skipan þinne, Vil Eg Netenu Utkasta. Mꜳttugur var Jesus ad lꜳta Fiskana hlaupa lifande upp i Skiped, ecke sijdur enn ad lꜳta Petur finna Peningeñ i Fiskiarens Munne, Matth.17. Þo skipade hann honum ad draga wt ꜳ Diwped, epter þad hañ hafde hlijdt Guds Orde. Tvent er hier ad læra: Eitt þad sem eg fyrer skomu ꜳminntest, ad Meñ byrie oll sijn Verk i Guds Nafne, og ad honum med sier tilkolludum, so giorde Petur, þvi ꜳ virkum Deige hefur þetta vered, añars hefdu þeir ecke fared til Fiske-Veida: Hitt añad, ad Meñ brwke þau Medol, sem Gud hefur kieñt og boded, i Utvegum Næringar siñar, enn grijpe ecke til oleifelegra Hluta, þegar ecke vill ꜳorkast. J Þijnu Orde Vil Eg Netenu Utkasta. Net þijder marga Hlute i H. Ritningu, þad merker Svikræde og Vielar orꜳdvandra og gudlausra Manna, þeir ed stela, liwga, svijkia, ræna, kwga, hræsna og ꜳ Tꜳlar draga einfalldar Sꜳler, til Abata sier. Þesser kasta Netenu wt i Andskotans Nafne, og þo þad meige luckast um Stund, þꜳ niunu þeir um sijder Oluckuna veida. Um suma af þeim talar Salomon, Prov. 29. Sꜳ sem hræsnar fyrer Vin sijnum, hann breider Net fyrer hanns Gang. Eñ David segier hver Utforeñ mune verda, Ps.9. J þvi Nete er þeir faled hafa, er þo Footur þeirra fangeñ. Þad merker og Ofbellde þeirra, er draga alla Hlute til sijn, med Vallde og Ofrijke, so segier Ritningeñ um Konungeñ af Babylon, Habac.1. Ad hañ hafe fært Foorner fyrer Nete sijnu, þad er, hañ hafe þackad Maktsinne og Atburdum allañ sinn Sigur, og þad Valld er hañ feinged hafde yfer odrum Konga-Rijkium, hver ed hañ droo til sijn, so sem þegar Fiskar veidder eru. Þesser kasta Netenu wt i sijnu eigeñ Nafne, og eru hinum forre eingu betre, þvi þeir gleyma Gude Himnaña, frꜳ hverium ad Sigureñ kiemur, enn treysta ꜳ Mꜳtt sinn og Meigeñ. Þetta Ord þijder og Guds brꜳda Hefnd, yfer hinum stolltu Veralldar-Sonum, hver ed yfer þꜳ kiemur ꜳ stundum, nær þeir minst hyggia, so sem Neted yfer Fiskeñ, so sem Jood-Soott yfer olietta Konu, 1.Thess.5. Þetta Net er vijst ollum þeim er upphefia sig ꜳ moote Gude, og ecke giefa honum Dijrdena, þess gietur hiꜳ Ezech.17. þar ed segier: Eg skal wtþenia mitt Net yfer hañ, og hañ skal i mijnu Nete fangeñ verda; Þvi vil eg nu i hinum sijdare Part-

enum

enum med færstu Ordum hugleida, hversu ad vier eigum i Medlætenu audmiwker og packlaater ad vera.

Gudspialled segier: Ad þegar þeir feingu þeña mikla Fiske-Drætt, þa hafe Petur kroped ad Knæam Jesu. Þetta var Packlætis-Merke hañs, añad hafde hann ecke Guds Syne ad giallda, añars krefur hann ecke helldur af neinum, þvi hañ er einkis Þurfe: Þad synde hañ optlega, jafnvel i hañs Lægingar-Stande, þegar hann villde brwka Valld sitt, og þad ecke sijdst med þessare dijrdlegu Jardteikn. so sem þad Gud segier fyrer Davids Muñ, Ps. 50. Ad hann vilie ecke segia Mañeskiuñe til ef hañ hwngrar; Þviad allt Silfur og Gull sie hanns, og oll Trien a Morkeñe, og oll Dijreñ a Skoogunum. So er af þessu Dæme lioost, ad Drotteñ Jesus hefur, epter Manndoomenum, þeged af sijnum Fodur Valld yfer ollum Skiepnum Guds, og allt hvad vier medtokum af Guds Hende, þad veitest oss fyrer hanns Skulld, a honum þar fyrer skylldugar Packer ad giallda, og i hanns Nafne ad bidia um allt þad vier þyggia þursum af hinne almættugu Hende, þar fyrer segier Paulus, 1. Thess. 5. Bidied oaflætañlega, og giored Packer i ollum Hlutum, þvi þad er Vilie Guds fyrer Christum Jesum i ollu vid ydur. Petur var so packlatur vid Drotteñ fyrer eiñ Fiske-Drætt; Eñ hvad marga hofum vier nu þeiged? Satt er þad, ad hiñ stoore allsherjar Drotteñ hefur læted eitt edur tvo Ar a stundum vorar Fiske-Veidar misfalla, eins og Peturs i þetta siñ, um Noottena fyrer þetta mikla Happ, enn sijdañ hefur hann yferfliootanlega, a morgum Arum uppfyllt oss med Blessan sinne af Sioonum, so ad [illegible] vier haft Framsyne Josephs, og safnad a þeim goodu Tijmunum, þad oss og Naunganum hefde kuñad ad hiaalpa a þeim vondu, er vier so kollum, þa hefdu ecke þær hinar mogru Kyrnar uppeted þær feitu: Eñ hvert Packlæte hofum vier nu golldet Gude þar forer? Þad fiñur hver eiñ, þegar hañ athugar grandgiæfelega med sialfum sier, hversu lijtt honum hafe vered hugad uñ, ad offra Drottne Lofgiordeñe, þegar hañ hvad mesta Blessan hefur af hañs Hende medteked, jafnvel þo ad aller christner Menn vite, ad þeir sieu skylduger til ad packa honum, eins vel fyrer Mootlæte sem Medlæte. Segied mier, er hann nockrum nockud skylldugur? Hver hefur honum giefed? Hver hefur honum lanad ad fyrra bragde? Og hvad segie eg, ad fyrra bragde, hver hefur honum nockud nockurn Tijma giefed? Þvi þad er vier lætunst wtelæta vid þa er hañ skipad hefur, þad tokum vier þo ecke af voru, helldur af hañs, sem bæde a oss, og allt þad er vier kollum vort; Hvilijk er þa sw Færiñna? Ad vier ecke daglega skulum ad Guds Knæam krjwpa, til ad offra honum Packlætenu, fyrer þær ometanlegu Velgiorder, er vier a hverre Stundu þyggium af hañs Orlætes Hende, ecke einungis lijkhamlegar, er oss þyker mest tilkoma, helldur og andlegar, sem eru mikiu dijrare, ef vier hefdum Rækt edur Vitsmune moote ad taka. Ecke þockte Drottne so mikils verdt um þenna Fiske-Afla, þvi hiet hann Petre odru sem var mikiu mgiætara, er hann sagde; Hier Epter Skalltu Menn Veida. Eg skal giora

yckur

yckur ad Maña Fiskurum sagde hañ skomu sijdar vid þa Zebedæi Sonu, þad er, ad þeir skylldu bæde sig og sijna Tilheyrendur hoolpna giora, so sem Paulus sagde vid Timotheum, 1. Tim. 1. Þessa hofum vier adnoted, þar Hlioomur þeirra er og oss til Eyrna komeñ; Vier sem bwum hier a Utskiækle Veralldareñar, utlæger, so ad segia, fra odrum Londum, og þar fyrer eigum vier hinum gooda Gude hvad mestar Þacker ad giallda, og ecke einasta ad heidra hañ fyrer Korned og Mustena, þad er fyrer Mat og Dryck, epter hveriu ad leita heidnar Þiooder, Matth. 6. Helldur fyrer þad Lijfsins Brand, sem er af Himnum ofañkomed, og fyrer þad Vatn, epter hvert ad eingañ mun þyrsta, þann sem af þvi dreckur, Joh. 4. Þad er sialfur Jesus, sem Gaafur hefur Moñnunum giefed, uppfareñ i Hædernar: Eñ þad er ecke noog ad lataſt þacka Gude med Muñenum alleina, Hiartad a ad fylgia med, og hin mesta Audmykt, og Undergiefne Andans. Þegar þeir Petur hofdu feinged þeña mikla Fiske-Dratt, þa stendur i Gudspiallenu, ad hañ hafe sagt vid Jesum: Vijk Fra Mier Laagvardur: Munde hañ nockud kvedia honum Byggd so sem Gadareni, Matth. 8. Edur yfirgiefa hañ so sem Capernaums Borgar-Meñ, Joh. 6. Edur wthijsa honum so sem hiner Samarisku, er hañ ferdadest til Jerusalem giegnum Byggd þeirra: Fiærre er þvi: Hin mesta Hiartans Audmykt og Þecking sijns Overdugleika hefur þrijst honum til ad tala þesse Ord, þad er audsært af Orsokeñe, er hañ færer hier til; Þvi Ad Eg Em Madur Syndugur. So er nu mannleg Nattura veik, ad hun stendst ecke Guddoomsens Nalægd: Hun alijtur helldur i fyrstu sinn Overdugleik, helldur eñ Lausnarans Forþienustu. J heillt Ar hafde Petur þeckt Jesum, og heyrt hañs Kienningar, þegar þesse dijra Jardteikn var gior, og þo var hier so sem hañ mistreyste i fyrstuñe hañs Naad, er honum þo skomu adur hafde so naadugur vered. Þu ert inngeingeñ til mijn Guds-Madur, sagde Eckiañ i Sarepta, til ad minnast Ranglætinga miña, og deyda Son miñ, 1. Reg. 17. Hvar fyrer? Þviad hun talde sig overduga, vegna Synda sinna, og þocktest ecke so lifad hafa, sem hæfde Guds Sendeboda. Manoah sagde vid Hwsfreyu sijna, Jud. 13. Vid munum vissulega deya, þvi vid hofum sied Drottenn. Hvad velldur þessu? Þviad Samvitskañ, nær hun er skielfd og angrud vegna Syndanna, þa gleymer hun Forþienustu Medalgaangarans, enn hugleider Gud alleina, so sem straangann Doomara og Hegnara Ranglætesins: So meinte og Petur i þetta sinn, ad riettlaater einer mættu bwa med Christo, hinum odrum være hañ eirn fortærande Elldur, jafnvel þoott hann være i Heimeñ komenn til ad kalla synduga, og ecke riettlaata til Yoranar. Þetta verkar nu Umþeinking Syndaña og Riettlætesins i fyrstunne hia Guds Bornum, og þoott ad i slijku sie Veikleike nockur, þa þienar hann, so sem allt annad, þeim til gooda sem ottast Gud. Fyrer þvi, nær þu framkiemur i þinn Bæna-Stad, til ad þacka Gude fyrer Velgiorder sijnar, edur ad bidia nockurs af honum, þa ber samañ hañs Hatign og þitt Volæde, hañs Giædsku, og þijna Vondsku, hañs Riettlæte, og þijnar morgu Synder, hanns Poleñmæde, og þijna Þvermoodskil,

fu, hañs Almætte og Þiñ Vanmætt, og mun brædlega Felmtur yfer Þig koma, ecke sijdur eñ Þeâ Petur, og Þitt Hiarta smellta i Þier, so sem añad Vax, af Tilfiñingu Guds Reide yfer Syndunum og Helvijtis Kvala, sem Þær hafa unned til, og nær Þu Þañeg staddur ert millum Vonar og Otta, Þæ muntu heyra med Petre, af Guds Alfu; ottast ecke, jæ, vertu hughraustur Sönur, Þier eru Þijnar Synder fyrergiefnar. O vor Gud! Nær hin kallda og bitra Daudans Stund oss ad Hondum ber, og Samvitskañ tekur ad æklaga oss, Miñing Syndaña ofbijdur oss, Diofullenn hreller oss, med Þeirra Minningu, og giorer hvad mest wr Þeim, enn lijted wr Þijns Sonar Verdskulldan, sem Þo er ollu meire, Þæ lát Þinn H. Aunda mæla Þesse fogru Ord i Hiarta voru, og bera vorum Anda Vitnisburd Þar um, ad vier sieum Guds Born. bænheyr Þad hiñinesse Fader fyrer Jesu blessada Forþienustu, Amen.

# Siotta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspiallet, Matth. 5. Cap.

Pañ Tijma. Jesus sagde til siña Læresveina: Eg segie ydur, nema so sie, ad ydvart Riettlæte yfergnæfe meir enn Þad hiña skriftlærdu og Phariseæña, Þæ munud Þier eige inngainga i Himnarijke. Þier hafed heyrt hvad sagt er til Þeirra gomlu: Ecke skalltu Mañ vega. Eñ hvor hañ vegur Mañ, sæ verdur Dooms sekur. Eñ eg segie ydur Þad, hver hañ reidest Broodur sijnum, sæ verdur Doo]ns sekur. Eñ hver sem ad segier til Broodur sijns, Raka, hañ verdur Rænds sekur. Eñ hver sem segier, Þu Afglape, hañ verdur sekur Helvijtis Ellds. Þar fyrer, nær ed Þu offrar Þijna Gæfu til Altaris, og Þier kiemur Þar til Hugar; Þad Þiñ Broder hafe neckud æ moote Þier, Þæ lættu Þar Þijna Gæfu fyrer Altarenu, og far ædur ad sætta Þig vid Broodur Þiñ, og kom Þæ ad offra Þijna Gæfu. Vertu snarlega sambyckur Þijnum Mootstodu-Mañe, æ medañ Þu ert eñ æ Veige med honum, so ad eige selie Þig Þiñ Mootstodu-Madur Doomaranum, Doomareñ selie Þig Þienaranum, og verder sc i Dyblissu kastadur. Sañlega segie eg Þier: Ad eige muntu Þadañ wt fara, Þængad til Þu hefur borgad hiñ sijdarsta Pening.

Exordium.

Hier villest, Þar Þier vited ecke Ritningarnar, sagde Drottenn vid Saducæos, Matth. 22. Med vidsijku Moote ævarpade hann Phariseæos, Marc. 7. Þier onijted Guds Bodord, so ad Þier hallded Setninga ydar, og Þad gior er hann satt, bæde i greindum Capitula Marci, og so, hinum 23. Matthæi.

þad er hveriu Orde sañara, sem Paall skrifar, ad holldlegur Madur skynie ecke hvad Guds Anda er, og þad sie honum Heimska, 1. Cor. 2. Þad er lioost af Dæme hinna Skriftlærdu, er kolludu sig ad hafa Lykel Vitskuñar, eñ wtlögdu þo Ritninguna epter sijnum eigenn Þootta. Þad auglijser hinn stoore Biskup med þaa vellærdu Twonguna i þessa H. Dags Evangelio, þar hann sialfur wtleggur Logmaaled langtum odruvijs eñ Gydingaña Vitringar hielldu: Hver hanns Utskijring ad mestu leite er vidtekeñ af flestum þeim ed christner kallast, þo er þar i ein Grein, sem ecke kiemur ollum samañ um, þad ier þesse: Vertu Snarlega Samþyckur Þijnum Mootstodu Manne, A Medañ Þu Ert Enn A Veige Med Honum, So Ad Eige Selie Þig Þinn Mootstodu Madur Doomaranum, Og Doomarenn Selie Þig Þienaranum, Og Verder Þu So J Dyblijssu Kastadur. Ut af þessum Ordum Drottenns hafa einþycker og skynhelger Menn þad spunned, ad ei leyfest christnum Monnum ad eigast Log vid fyrer sijnu Yfervallde, og þvi verr, ad i Lande voru eru þeir, er leggia þad wt aa hinn versta Veg, ef nockur er vandlætingasamur i þvi, ad sækia Guds og Konungsins Riett, ad forsvara Virdingu sijna og Fiaar-Hlute fyrer Aasælne vondra Manna, ad styrkia Maalefne Eckiuñar, og hinns fodurlausa, og kalla ad þad kome ecke einum vid, og jafnvel þo ad Lograeningureñ sie honum vandabundeñ, og nefna slijkt Oroa og Fridar-Spiller. Enn eg mun med faam Ordum sijna, ad ei sie þad Lausnarans Meining, ad banna christnum Monnum ad sækia Riett siñ: Og þar hia, ad vor Riettargaangur eige ad vera aan alls Haturs og Reide. Þu riettlaate Fridarens Gud, gief oss Naad þijns Anda þar til, ad þetta Eyrende vel luckast meige, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Þoott ad ecke være adrar Roksemder til þess, ad Lausnareñ ei tale hier um veralldlegañ Riett, helldur um þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllder, þaa er sw noog ad hañ segier i ondverdu Gudspiallenu: Nema Ad ydar Riettlæte Yfergnæfe framar Eñ Hiña Skriftlærdu og Pharisæaña, Þaa Kuñed Þier Ecke Jñ Ad Gaanga J Guds Rijke. Vitañlegt er þad af Gudspialls-Sogunum, ad ecke hofdust þesser skynhelgu Meñ þaa Hlute ad, sem Veralldar-Riettur kyñe ad fella þaa fyrer, eñ fyrer þvi, ad Guds Doomar eru ecke eins og Mañaña Doomar, þeir dæma epter Sognum og Vitnum, eñ hañ ecke epter þvi sem hañs Auga sier, edur hañs Eyra heyrer, helldur rañsakar hañ Hiortuñ og Nyruñ, Ps. 7. Fyrer þvi, segie eg, tekur Lausnareñ til ad wtskijra hid fimta Bodord fyrst, og sijner, ad ecke einasta Mañdraap edur wtvortis Misþyrmingar sieu fyrer Gude saknæmar, helldur og Reideñ i Hiartanu, og Ovirdingar Ord þau, er framkoma af Muñenum. Ef Meñ nu þetta fyrer satt hallda, sem eg hygg ad aller giora mune, sem þessa Ritningu vel rañsaka; Hver vill þaa segia, ad Frelsareñ meine i þessum Capitula fyrr edur sijdar, veralldlegann Riettar-Gaang? Ad þessu lijtur þad, er sijdar stendur i Gudspiallenu: Nær Þu Offrar Þijna Gaafu Fyrer Al-

starenu,

tarenu, Og Þier Kiemur Þar Til Hugar, Þad Þiñ Brooder Hafe Nockud Á Moote Þier, Þꜳ Lꜳttu Þar Þijna Gꜳfu Fyrer Altarenu, Og Far Adur Ad Sætta Þig Vid Broodur Þiñ, Og Kom Þꜳ Ad Offra Þijna Gꜳfu. Segied mier: Hver ꜳ ad þyggia Offred, Gud edur Syslumadurenñ? Hvada Doomare mun þꜳ meintur i þessum Ordum: Ad Ecke Ofurselie Hañ Þig Doomaranum? Eg meina Gud, þvi ꜳ Myskunseme hefur hañ Þocknan, og ecke ꜳ Offre, Hos. 6. Enn Veralldar Hofdingiar, þvi verr, þeir hafa margur-hver Þocknan ꜳ Offre, eñ ecke ꜳ Myskun, nær þeir taka Fe til ad riettlæta hinn rꜳnglꜳta, eñ fordæma hiñ saklausa ꜳn allrar Vægdar og Myskunar, og so sem þad Drottne ecke þocknadest Offur hiña heimsku Eccl. 5. ödruvijse eñ so hañ segier, Esa. 56. Ad hver hañ slꜳtrar Naute, þad er sem hañ slæe Mañ i Hel; Hver hañ loogar Saud, þad er sem hañ afhöfdade eiñ Hund: Hver hann færer Foorn, so sem offrade hañ Svijns-Bloode, sꜳ ed Reykelse breñer, so sem hañ giæfe þad Skwrgode, so vill og Frelsareñ segia, ad öll Guds Þioonusta þess, sem er missꜳttur vid siñ Nꜳunga, þañ er hañ hefur afgiort vid, hun sie Andstygd fyrer Gude, ef hann mꜳ añars Sꜳttum nꜳ, og þvi ꜳlyktar hañ med þessare Grein: Vert Snarlega Samþyckur Þijnum Mootstödu-Mañe, Á Medañ Þu Ert Eñ ꜳ Veige Med Honum, So Ad Eige Selie Þig Þinn Mootstödu-Madur Doomaranum, etc. Ad Doomareñ sie Gud, allsheriar Konungur, þar er eingeñ Efe ꜳ, hañ eirñ ꜳ Valld ꜳ ad kasta þeim hañ fordæmer, i þad Fangelsed, hvadañ ecke er Endurlausn, sem er Helvijte, og ad þad sie hier meint, vottar Epterlijkingeñ um hiñ vonda Þioon, er ritud stendur, Matth. 18. Hañ ꜳ og alleina Himnarijkis Valld. Fyrer hvers Riettlæte vier inngaungum i Guds Rijke, er alkunnugt, ecke Phariseanna, ecke vort eiged, edur heilagra Manna, helldur hanns, sem er Jehova vort Riettlæte, Christus, enn hanns Riettlæte mꜳ eingeñ nꜳ fyrer utañ þad; ad hañ sie vid siñ Broodur sꜳttur i sijnu Hiarta, ad minsta Koste, og vilie ofgiort hafa þad afgiort var. Nu er eingeñ heilvita Madur sꜳ, ad ef hañ hefur misgiort vid nockurn, ad hañ ecke helldur leite Sꜳtta til hanns, helldur enn ad mæta fyrer Doomaranum, hver ed auk Þegnsins Riettar, feller ꜳ hañ Konungsins Sok, sierdeilis þar Konungarner hafa epter lꜳted slijkar Sꜳtter; nær Mꜳlum er so hꜳttad, ad ecke snerter Guds Æru, nie Tign þeirra. Nu hygg eg sw sie Meining Drottens i þessare Grein, þad sem Framsijne þyker i veralldlegum Mꜳlum, þvi skyllde þad ei þykia i Efne Sꜳluhiꜳlpar ydar? Frꜳ veralldlegum Doome mꜳ komast ꜳ einhvern Hꜳtt; Einhver kañ ad-gꜳnga i Borgun fyrer mig, mier kañ Arfur til ad falla, so eg giete loked Skulld mijna; Viner og Nꜳungar gieta Fridstillt miñ Mootstödu-Mañ, eñ frꜳ Guds Doome eingañ veigeñ, nema eg verde sꜳttur vid miñ Mootstödu-Mañ, ꜳ medañ eg er eñ þꜳ ꜳ Veige med honum, þad er, ꜳ medañ eg life, adur eñ eg kiem fyrer hiñ strꜳnga allsheriar Doom, og verd i Myrkvastofu kastadur, hvadañ eg mun ecke wtfara, þangad til eg hefe borgad hiñ sijdasta Pening; Þad er alldrei, þvi wr Helvijte er eingeñ Endurlausn. Þar fyrer er einsætt ad sættast vid Nꜳ-

ungañ medañ Tijmeñ er, sierdeilis þar eg veit ecke hvad miked er epter Begarens, Gud rædur mijnum sijdarsta Nætur-Stad, og ecke siaalfur eg; Og hier af hygg eg þad audsært, ad ei tale Frelsareñ i þessum Stad um verallдlegann Riett. Veit eg ad Drotteñ segier i þessum sama Capitula. Ef nockur vill vid þig Løg þreyta, og þijna Yfirhofn af þier taka, laat honum og þiñ Kyrtel epter. Eg vil nu ei faa mier þad til Orda, ad marger lærder Menn leggia þetta so wt. Vilie nockur kieppa vid þig um Yfirhofn þijna. Þad er, taka hana af þier med Ofbellde; Eg vil laata hitt standa, samt hefur þo Drotteñ ecke i þessum Ordum Laga-Rietteñ fyrerboded, þad var ecke hañs ad bañna Moñum Løg og Riett, sem ad er Høfundur Riettar og Laga, hvers ad er Doomureñ, hver og er medal Doomarañа i Doomunum, ad Vitne Josaphats Konungs, 2. Chron. 19. Helldur þeirra sem neita Moñum riettra Laga, tradka Maalum Manna med Flækium og Raangsleitne, spilla løglegum Vitnum og Stefnum ad raunarlausu, hveria Drottenn vill sijdann Dæma.

Enn eg vil aptur taka til hiñs fyrra Maals. Eingum bañar Drotteñ i þessare Grein ad beidast Riettar sijns: Þad er alkuñugt, ad Frelsarenn talar i Ordskvidum og Epterlijkingum þraalega i Kieñingum sijnum: Hañ samlijker Christnena Vijn-Garde, Akre, Brwdkaupe; Þo er Christnenn hverke Vijn-Gardur, Akur nie Brwdkaup. Hann kallar Herodem Ref, munde hann þar fyrer Refur vera? Þaa Johannem og Jacobum Þrumu Syne, mundu þeir þaa ecke vera Zebedæi Syner? Hann segier ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, helldur enn rijkum Mañe iñ i Himna-Rijke, Matth. 19. Nu er þad omøgulegt; Hvar munu þaa Abraham, Isaac og Jacob vera? J þessum sama Capitula Mattæi segier hañ: Ef þijn Hond edur Footur hneixlar þig, þaa snijd þau af, og snara þeim fraa þier: Mun hañ þaa villia ad Meñ skule meida sig edur vana eins og Baals-Prestar? Og ecke miklu helldur, ad þeir skule krossfesta sitt Holld, og deyda sijna jardnesku Limu, so sem Paulus ad Orde kiemst, Col. 3. Hann segier og i sama Capitula: Ef nockur slær þig aa þijna hægre Kyñ, þaa snw ad honum hiñe annare; Eñ ef hañ slær aa hina vinstre fyrst, þaa hefur þu ecke adra vinstre Kyñ ad biooda, segier Augustinus, og Lucas gietur hverke um hægre nie vinstre Kyñ, þvi meiga Meñ ecke alltijd haanga i Ordum Rituingareñar, helldur leita ad Meininguñe, hver ad i þessum Ordum er eingeñ oñur eñ sw, ad Meñ ei skule hefna sialfer sijn, helldur lijda Oriettеñ med Þoleñmæde, og haturslaust, þad vil eg satt giora med Frelsarans eigeñ Dæme, hver þegar hañ var Kyñ-Hest sleigeñ, Joh. 18. Þaa baud hañ ecke hina adra Kyñ, helldur aatalde med Hoogværd þañ er hañ sloo; Ei helldur St. Paall, nær Presta-Høfdingeñ baud ad slaa hañ fyrer Doome, helldur beitte hañ Løgum fyrer sig, og sagde: Gud straffe þig þu forsaagade Veggur, þu situr og dæmer mig epter Løgunum, og bijdur ad slaa mig aa moote Løgmaalenu, Act. 23. Sama vil eg nu segia um þad, ad laata þeim sinn Kyrtil epter, er vill þraatta vid nockurn um hañs Yfirhofn, þeirra Orda er eingeñ Meining oñur eñ sw, ad miñe Hyggiu, ad nær

Madur

Madur lijdur nockurn Oriett, skule hann ecke hefna sijn sialfur, helldur skule vera so Skape fareñ, ad hañ sie bwreñ til ad þola aññann stærre, Reide og haturslaust, ef hañ nær ecke Riette hiá Valldstioorneñe, þviad af Sialfs-Hefndenne kiemur Tijdunn stærre Olucka. Ellduren verdur ecke med Ellde slocktur, helldur med Vatne, so er þad eingenn Lækning Oriettarens, ad giallda illu illt, helldur ad leita Valldstiettarennar, hveria Gud hefur sett hinum froomu til Forsvars, enn rangláágum til Hegningar, enn þo Reidelaust, þvi Madur á ad snwa Vanganum i Hiartanu, og ecke á Hofdenu. Fyrer þvi bañar Frelsareñ i þessare Grein; Ecke Loglegañ Riettargang, helldur enn Pauklus þoott hañ segie, 1. Cor. 6. Þogar nockur af ydur, sa ed á Sok vid einhvern, ad eiga Doom under ranglátum, og ecke under heilogum, ad soñu er Brestur hiá ydur, ad þier hafed Dooma medal ydar, þvi lijded þier ecke helldur Orietteñ, þvi take þier ei helldur Skada? Ecke bañar Paulus hier Riettar-Gangeñ, helldur ad eiga Sok fyrer Ranglátum, (so kallar hañ Heidingia, enn heilaga nefner hann hier Christna Menn, eins og vijdar) so vill hañ þa ecke allann Riettar-Gang bañad hafa, helldur ad eiga Maal fyrer Heidingium, hvar fyrer? So ad eingum giæfu þeir neina Hneixlan, ad Þioonustugiordeñ ei lostud yrde, 2. Cor. 6. Og þeirra Hoogværd kuñug ollum Moñnum, Phil. 4. Eñ Vitne til þess, ad hañ ecke villde hafa Riettar-Gangeñ afmádann, er þad, ad hañ ei bañar, ad eigast Log vid fyrer christnum, og sijnest láta þad epter, ef vid þarf, þar hañ segier: Er eingeñ sá á medal ydar sem Vited hefur, sá ed kuñe ad dæma millum Brædra siña: Og fyrer þvi, ad christner hofdu þa eckert Valld til ad dæma opeñberlega um Veralldar-Maal, þa sijnest, ad hañ vilie ad þeir nefne Meñi af sialfum sier, til ad dæma Maal sijn, helldur enn ad bera þau under vantrwada, edur þola Orietteñ ella, helldur eñ ad giora Þrætur sijnar Augliosar þeim, er hotudu Christeñdoomenn, og logdu þeim allt til Lijta, er þa Trw og Þioonustu teked hofdu, og so sem Frelsarenn selger hier i Gudspiallenu: Nema Ydar Riettlæte Yfergnæfe Meir Eñ Hiña Skriptlærdu Og Phariseaña, Þa Kuñed Þier Ecke Iñ Ad Ganga I Guds Rijke.. So vill og Paall, ad hiner Christnu skijna skule so sem Lioos á mille ranghwerñar Heidingiaña Kynsloodar. Þesse same Guds Madur segier i odrum Stad: Lated ei sigrast af hinu Illa, helldur yfervinned hid Illa med Goodu, Rom. 12. Eñ hver þorgar ad kalla Skipan hinus Almáttuga vonda? Edur er Valldstiorneñ ecke af Gude sett? Er hun nockud so sem añad Bijlæte innsett i Christs Kyrkiu, til Prijdes allzeina? Langt er frá þvi, helldur til ad skipa Riettindum Maña, fyrer þvi kalla eg þann sigra hid vonda med goodu, sem nær Riette sijnum fyrer loglegum Doome, enn þoler án Haturs og Moglunar, þo af þvi bere. Drottenn segier i Logmálenu, Exod. 21. Auga fyrer Auga, Tonn fyrer Tonn, þar fyrer hefur hañu þo ecke leist þeim er Auge ad misse, ad stijnga wt Augad á henum er stack, ecke helldur hefur hann teked Sverded af Doomaranum, þo hann banne þad þegnenum. Eckert nijtt Logmaal hefur Christur sett i þessum Greinum, þvi Sialfs-Hefndenn er bonnud i Logmálenu, sá sem sagdi

Doomaranum, Devt. 19. Þitt Auga skal ecke þyrma honum, Lijf fyrer Lijf, Auga fyrer Auga, Toñ fyrer Toñ, Hond fyrer Hond, Foot fyrer Foot: Hañ hefur og sagt hverium einum þar fyrer utañ, Lev. 19. Þu skallt ecke sækia epter Hefndeñe, og ecke vera minnugur Oriettarens. Hann ed segier i greindum Capitula Devt. Um̃ hiñ falska Vott: Þier skulud aldeilis giora honum so sm̃ hañ leitadest vid ad giora sijnum Brooder: Hiñ same hefur talad fyrer Muñ Salomonis, Prov. 20. Þesse Ord, um̃ alla þa sem ecke hafa Guds Umbod i Doomara-Sæte: Þu skallt ecke segia; Eg skal Endurgialldä illt, bijd epter Drottne, hañ mun frelsa þig. Þessu er Pæll samþyckur er hañ segier, Rom. 12. Þier eiged ecke ad hefna sialfer ydar, þvi skrifad er; Mijn er Hefndenn, eg vil endurgiallda: Eñ þegar Valldstiettenn hegner vondra Verka a þeim sem giort hefur a annars Hlut, þa frelsar Gud hiñ saklausa, þvi hun er hañs Þienare til Hegningar, þeim er illt adhafast, Rom. 13. Hvervetna þar sem hiñ stoore Allsherjar Doomare hefur Valldstioorneñe Rietteñ i Hondur feinged, þar hefur hañ med þad sama leift sierhverium, sem vanhallden̄ er, ad sækia Riett siñ fyrer heñe, þvi hun ber ecke Sverded forgiefens, seiger Paulus: Og Petur bijdr ad Meñ sieu undergiefner Stioornendunum, so sem þeim af Koningenum eru sender, til Straffs hinum glæpafullu, enn til Lofs hinum sem gott adhafast, 1. Pet. 2. Mun nu ecke þessa vid þurfa, christner Meñ? Edur er Verolldeñ so einlit, ad ecke finnest i heñe bæde svart og hvijtt? So heilog, ad ei fiñest bæde vonder og gooder? Þvi er einsætt fyrer þa sem Rangindeñ þola, ad leita Forsvars hiá Valldstiettene; Edur munde ecke Paulus leita Lids i Logunum, þegar Lysias villde hafa refst honum, Act. 22. Munde hañ ecke skioota sier under Keysarans Doom, þegar hañ ottadest Ofbellde Gydinga; Eg þore framar ad tala, þad er ecke Gude þægt, og gagnar ecke til hanns Dijrdar: Ad Menn alltijd giefe Riett sinn epter, þvi þad gioerer ohlutvanda Meñ optast þess verre og asælnare, so ad þad maa sijnast, ad sa efle Illsku þeirra, sem lætur Hlut siñ fyrer þeim, ef hañ maa na honum med Logum og Rietti: Sa sm̃ vill taka fra mier Æru mijna og gott Mañord, mun þad Gude a moote, ad eg forsvare mig Loglega fyrer A-austre hañs? Hañ lijgur uppa mig Lijtum og Skomum, sem eg aldellis ecke er valldur af; Mun mier ei leifelegt ad bera Hond fyrer Hofud mier, þar so astendur; Einhver ræner mig Fiarhlutum mijnum, Odolum og Arfa-Gotze, edur odru þvi, sem eg er vel ad komeñ, og þad afladhvert med Ofrijke, edur Yfervarpe Laga og Riettinda, so eg lijd Skort a Forsorgun miñe, og þeirra sem mier eru vandabundner, Konu Barna og Hiwa, hefe ecke þad eg meige fatækum giefa, og biarga naudstoddum med, enn hann brwkar Fe mitt til Ohoofs og Ofmetnadar, þvi so giora þeir optast, er láta Þienara sijna stockva yfer hvern Þroskulld, til ad fylla Hws Drottna siña med Rane og Svikum, Zoph. 1. Mun Gud baña mier ad veria mitt inn Logum a moote slijkum Ofstopa? Fiærre sie þvi, añars hefde hañ ecke gyrdt i krijngum Frelse mitt, og Eignr mijnar med Lagaña Mwr: Ecke sie eg ad Ritningeñ legge þad Naboth til Lijta, þott hañ neitade Achab um̃ siñ Vijn-

gard;

ſard; Enn ſꜳ giorer hid ſama, ſem ver ſitt med riettum Logum. Gud hefur boded mier, ad eg ſkule elſka minn Nꜳunga ſem ſialfan mig, enn ecke framar. Oſkande være, ad Menn giætu þad vel hallded, þad heyrer Gude einum til, ad elſka hann framar øllum Hlutum, og jafnvel Lijfenu, þad ꜳ og ad giora vid Brædurna, ſegier Johannes, hanns vegna, 1. Joh. 3. Enn ſu Elſka er i þvi foolgenn, ad hialpa hönum og forſvara fyrer omilldum Monnum, enn ecke i þvi, ad lꜳta Skꜳlkenn ræna ſig og fefletta, ef eg mꜳ Lagaunna nioota, þad er eingu betra, enn ad forſmꜳ Guds Gꜳfur, er hann veiter mier til Upphelldis, enn eg vil þær ecke nyta: Eg veit og, ad eg er ſkylldugur ad ſtyrkia Mꜳl Eckiunnar og hinns fodurlauſa, nuu eg þꜳ ei meiga gꜳnga i Riett fyrer þau, kunne þeim þar med hoolped ad vera, ef mier þad Logenn leifa? Af ollu þeſſu hygg eg nu audſært vera, ad þad ecke einaſta er leifelegt, helldur og gott Verk ꜳ ſtundum, ad leita Laga og Riettar ꜳ moote Areaſum vondra Manna; Enn þad ꜳ ad ſkie med allre Hoogværd, ꜳn Haturs og Reide, ſo ſem ꜳdur er ſagt, þvi hann ſem Rietten ſett hefur, hann hefur og ſagt: Elſked Ovine ydar, Matth. 5. Og nær þad ecke ſijdur til Riettargꜳngſins, helldur enn til hvers annars Vidſkiptis vors, og Umgeingnis i Heimenum. Sꜳ ſem elſkar Ovin ſinn, hann elſkar ſialfan ſig, þvi under eins og hann fyrergiefur ſijnum Broodur hanns Misgiorder, þꜳ auglijſer hann ſig þar med ad vera Barn ſijns Fodur, ſem ꜳ Himnum er, hann tekur under eins Aflꜳt og Kvittun af Gude fyrer ſijnar eigenn Synder, ef hann giorer þad af Hiarta, Marc. 11.

Drotten hefur ecke bannad ſialfann Hlutenn, helldur rꜳnga Atferd Hlutarens, þad er, ad brwka Rietten til ad hefna ſijn, enn ecke til ad nꜳ Riette ſijnum, ad bera Fe i Dooma, ad wtvega folſk Vitne, ad brwka Laga-Krooka, og adſkiliannlega Rꜳngs-Leitne; Ad erta upp allt Skap med Brixlum og Skwt-Yrdum; jafnvel i riettu Mꜳle, til þeſs, ad fꜳ meire Hefnd yfer ſijnum Mootſtodu-Manne, enn hann i fyrſtu hafde tilunned, allt ſoddann er af hinum vonda, þad hefur Gud og alldrei leift i neinum Riettar-Gꜳnge ad brwka, helldur ſtreingelega bannad, enn allra hellſt ad hataſt vid ſinn Mootſtodu-Mann, og ſꜳ þad giorer, hann verdur eins ſekur fyrer Gude, ſo ſem hinn; þo alldrei eige hann ſo gott Mꜳl, og hvad hefe eg þꜳ gott af þvi, ad eg ſpille Myſkun Guds yfer mier, til ad hataſt vid hann, er vid mig afgiorde, þvi Gud kann ad myſkuna honum, ef hann ydraſt, enn eg ꜳ eingrar Vægdar Von, ſo leinge ſem eg el Hatur til hanns. Drotten ſegier og ad ſonnu hier i Gudſpiallenu, ad ſꜳ ſem hefur giort ꜳ annars Hlut, hann ſkule ſættaſt vid Broodur ſinn, ꜳdur hann offrar Gꜳfu ſijna; Enn um hinn ſem misgiort er vid, ſegier hann med ꜳlijka moote, Marc. 11. Og þegar þier ſtanded bwner til ad bidiaſt fyrer (þad er ad offra Gude Bæn ſijne) þꜳ tilgiefed, ef þier hafed nockud ꜳ moote einhverium, ſo ad ydar Fader, ſem ꜳ Himnum er, forlꜳte ydur ydar Misgiorder; Skyllda eg þꜳ bera Hatur til hanns, ſem eg ꜳ Mꜳl-Stad vid, þo alldrei ætte eg um ſo ſꜳrt ad binda, þad være ærs Manns Ede, og ecke þeſs, ſem hellvita er i ſijnum Chriſtenndoome, þar ey ꜳ daglega ad bidia þeſſa Bæn: Fyrergief Oſs Vorar Skullder, So Sem

Vier

Vier Fyrergiefum Vorum Skulldunautum, og veit, ad eg ecke fæ Kvittun Synda miña, æ medañ eg hondla ecke reidelaust vid miñ Naungæ, hvert þad er i Riettar-Gange, edur utañ Riettar-Gangs: Þad er og vijst, ad vor beste Riettur, er eingenn Riettur fyrer Gude, ef hañ vill dæma epter sijnu Riettlæte, so segier Job, Cap. 9. Eg veit vel, ad eingeñ Mañeskia kañ riettlaat ad standast fyrer Gude, og þvi skyllda eg þa hata Ovin miñ, fyrst hañ hefur skipad mier ad elska hañ, sem-æ so mikil Raad æ mier, ad hañ gietur fordæmt mig, nær hañ vill. Þess er og ad giæta, ad ecke hlaupe Menn til Doomarans um hvern Hiegooma, þad kieñer Agyrne og Oroa, ad vilia þrætta um Smæmunne, og sæmer ecke þeim, sem vill laata sig hugprwdañ kalla, aukhelldur riett christnum Manne, hveriuni ad byriar ad vera liwfum æ ad sættast, jafnvel med nockrum Skada sijnum, helldur eñ ad draga sinn Moot-Part fyrer Doomarañ, honum til meire Skada, og Hneisu þeirrar, er hinn hefur ecke Gagn af, Þo ei hafe Menn alltijd halldenn Hlut, sierdeilis ef ad kieppa er um þæ Hlute, sem Lijfs-Næringu ei vidvijkia, hveria Paulus sijnest ei vilia hafa under Doom Heidingianna, 1. Cor. 6. Einkum þar Frelsarenn hefur bannad oss ad syrgia fyrer henne, Luc. 21. Og brwkar þad sama Ord i þeim Stad, sem Postulenn hier, og þvi aminner hann alla christna Menn med þessum Ordum, Col. 3. Iklædest so sem utvallder Guds heilager og elskannleger hiartgrooenne Myskunseme, Lijtelætenu, Hoogværdenne, Polennmædenne, umberande hver añann, og fyrergiefande hver odrum; Ef nockur hefur æ moote einhverium Akiæru, so sem Christur hefur ydur fyrergiefed, so giored og þier. Gud giefe ollum sijnum Bornum þetta Hiartalag ad stunda, og þvi fast ad hallda, þar til vier komum fyrer hinn stoora Allsheriar-Doom, hvar vorer stærstu Oviner, Synd, Daude, Diofull og Helvijte skulu oss eckert Mein giora, aukhelldur nockur Veralldar-Magt, þvi hver vill færa Kiæru-Maal i giegn utvolldum Guds, þar Gud er sa sem riettlæter, Christur er sa sem dæmdur er, ja, enn framar uppriseñ, hvor og er æ hægre Hond Gude, hver og er Medalgangare fyrer oss, Rom. 8. Þessa Hlutskiptis unn þu oss ad niota eilijfe Konungur Dijrdarennar, fyrer hanns Forþienustu, sem er alls Hollds Doomare, Jesus Christus, Amen.

# Siounda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspiallet, Marc. 8. Cap.

Æ Þeim Dogum. Þa þar var eñ margt Foolk komed samañ, og hafdi ecki til Matar. Kalladi Jesus sijna Lærisveina til sijn, og sagde til þeirra: Mig aumkar yfir Foolked, þviad i þria Daga hafa þeir hiæ mier vered, og eckert til Matar haft. Og ef eg læt þa fastande heim til sijn fara, þa vanmegnast þeir æ Leideñe; Þviad sumer vorn laangt ad komner. Og hañs Lærisveinar svorudu honum: Hvadañ faaum vier þau Braud, hier æ Eydemorku, so

so ad vier faum þat mettad? Og hañ spurde þá ad. Hversu mörg Brauð hafed þier? Þeir sögðu honum sio: Og hañ skipade Foolkenu niður ad setiast á Jördena. Og took þau sio Brauðeñ, þackade, braut, og fieck sijnum Lærisveinum, ad þeir legðu þau fram. Og þeir lögðu þau fram fyrer Foolked. Þeir hefðu og fáeina Smá-Fiska, og þá hina sömu blessade hañ, og bauð fram ad leggia. Eñ þeir neyttu, og urðu metter. Og þeir tooku upp þad yfer var sio Karfer med Afgangs Leyfar. Eñ þeir sem neytt höfðu, voru nær fioorar Þusunder, og han liet þá i burt fara.

## Exordium.

Madurenn mun ecke lifa af einusamann Braude, helldur af sierhverju Orde, sem framgeingur af Guds Muñe, sagde Moyses vid Israel fordum, Deut. 8. Þessum sömu Ordum kastade Frelsareñ Andskotanum i Naser, þegar hañ freistade hañs, til ad giöra Steina ad Braudum, Matth. 4. Þau eru og sönn, so sem aller adrer Guds Vitnisburder, þvi þad má ei Lijf kalla, sem er án Guds Orda, jafnvel þo einn hafe Holld og Hamsa, og lijte noogu sællega wt. Christi Ord eru Lijf og Ande, og án þeirra er Madurenn eins og Pæll segier um Eckiuna, þá i Gyrndum lifer, hann er Lifande Daudur, þo hefur Gud giefed Mannenum Fæduna, so sem annad Medal, til ad lifa af, þar fyrer stendur hier: Ecke af einusamann Braude. Vitannlegt er þad, ad Gude er ecke um Megn ad hallda Lijkhömum vorum vid án Matar og Dryckiar, þad sijna oss Dæme Moysis, Dæme Eliæ, Lausnarans, er fostudu i heila 40. Daga, og má sijnast, ad þeir Moyses og Elias hafe vered Drottenns Fyrernmyndan i þessu, og þvi skyllde hañ ei kuña ad ala Mannenn án Fædsluñar, sem ad i Eydemorku saddꝭ 5000. Manns med fim Bygg-Braudum og tveim Fiskum, Joh. 6. Og i þessa Dags H. Evangelio heyrum vier, ad hanns mikla Almættis Hönd mettar 4000. med eins litlum Koste. Ut af þvi fyrsta Krapta-Verkenu hefe eg nockud ádur talad i þessare Book, um þad, hverneg vier i Guds Otta eigum ad leita Næringar vorrar, hvad eg ofsa ad finne goodann Stad i Hiortum þeirra sem lesa edur heyra. Enn nu vil eg wt af þessu H. Gudspialle alleina þar um tala, hvad oss eige ad styrkia i Trwñe til ad treysta Gude, og varpa allre vorre Ahyggiu uppá hann, nær oss vantar þessarar Veralldar Mune. Hiálpa oss til þessa, Drottenn minn, fyrer þitt dijrä Nafn og Sonarens Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

Þad er grátlegt til ad vita, hversu ad Náttura Mañsins epter Spillinguna er bæg til ad treysta Gude, þegar þad er ecke fyrer Augunum sem eta skal. Moyses slooá Klettenn i Horeb, og þar flaut Vatn wt af, so ad allur Israel drack, Exod. 17.

17. Enn er Gud baud honum i Eydemorku Ziñ ad giora hid sama i añad sinn, þa efad-
est hann, og sloo tvisvar a Biarged, Num. 20. Hann sa daglega, ad Gud fædde þa
med Maña af Himnum ofann; Enn er Foolked moglade, og beidde um Kiot, enn hañ
bar þad fyrer Gud, sem hiet ad giefa þeim Kiot ad eta allt til Leidenda, þa var þo ecki
Trwenn sterkare hia sialfum Moyse, eñ so, ad hann sagde, Num. 11. Þetta Foolk er
sex Hundrud Þusund Manns, og þu segier: Eg skal giefa þeim Kiot, so þeir ete i heilañ
Maanud. Læresveinarner hofdu sied þad mikla Krapta-Verk, er Jesus hafde giort
skomu adur eñ þesse Jardteikn skiede, nærre þvi i þessum sama Stad, er hañ sadde 5000.
Mañs med fim Bygg-Braudum og tveim Fiskum, Joh. 6. Þa talde Philippus
Tormerke a Spurningu Drottenns, og sagde: Braud fyrer 200. Peninga nægia
þeim ecke; Enn hier foor ecke betur, nema midur være. Hvadann Faaum Vier Þau
Braud Hier A Eyde-Morku, Ad Vier Faaum Þaa Mettad. Og epter þad þeir hofdu
sied bæde þesse Krapta-Verk, og morg oñur fleire, þa ætludu þeir hañ munde Brauds
Þurfe vera, er hañ took þeim vara fyrer Swr-Deige Herodis og Phariseañ a
Skipenu, so sem lesa maa i þessum sama 8. Cap. Marci. Af hverium og raada maa,
ad þad hafe skied strax epter þessa dijrdlegu Jardteikn. Gud betre, ad þad hender oss
a stundum christna Menn, sem Lausnareñ segier um Heidingiana, Matth. 6. Hvad
eigum vier ad eta? Eda hvad eigum vier ad drecka? Edur hveriu eigum vier ad klæd-
ast? Enn þar til verdur ei betur svarad, enn sialfur hañ svarad hefur: Er ecke Lijfed
meir eñ Fædslañ, og Lijkhameñ meir eñ Klædnadureñ? Seig þu mier, Guds Barn,
skoop hañ þig ecke daasamlega i Moodur-Lijfe? Gaf hañ þier ecke Saal og Lijkhama?
endurleyste hañ þig ecke med sijns Sonar dijra Bloode? Hefur hann ecke endurgieted
þig daudañ i Syndunum? Hefur hann ecke foostrad þig med sijnu H. Orde? Hefur
hañ ecke aled þig a sijns Sonar Hollde og Bloode? Helldr hañ ecke ollu þessu vid Makt
eñ nu daasamlega, og undrunarsamlega a stundum? Eg vil taka til þess sem dijrast og
daasamlegast er. Hafe hañ giefed oss Soneñ, þvi mun hañ þa ecke giefa oss alla Hlute
med honum? Og ef hañ giefur oss alla Hlute, þa giefur hann oss einig Forsorgun Lijk-
hamaña. Hafe hañ aled Oñ fyrer oss, bæde i Moodur-Lijfe, og allt upp þadañ, i ande-
legañ og lijkhamlegañ Maata, mun hañ þa Onijta sitt eiged Verk? Neina ad Mañ-
eskiann giorde Guds Almætte vanmaattugt a sier med Trwarleysunne, eins og Lære-
sveinarner, er þeir gaatu ecke læknad hinn Twnglsiwka. Þu segier; Eg finn opt Brest
a Atviñu miñe: Hwngur og Dijrtijd meiga Meñ stundum þola, hvad velldur þvi?
Spyr Ezechiel ad, hañ mun svara þier Ordum Drottenns. Ef eitt Land syndgar miog
a moote mier, þa vil eg wtrietta mijna Hond yfer þad sama, og i burt svipta Brauds
Nægtunum, og eg vil senda þaangad Hallære, og uppryckia þar iñe bæde Moñum
og Fienade, Ezech. 14. Mun þad nockud raska Sañsogle Drottenns, þo Menn gio-
re sig hañs Orlætis overduga; Þegar ad allra handa Lester og Klæker, Guds Ords
Foregtun, Vanbrwkun hanns Hvijldar-Dags, Ranglæte, Meinsære, Lygar,

Þioof-

Þriosnadur, Agyrne, Drambseme, Ofbellde, Agg, Reide, Þræta, Svik og Underferle, og aññad þessu lijkt; Þegar allt þetta geingur Fiollunum hærra i Landenu, er þaa ad furda, þo hann apturlyke sinne milldu Hond aa stundum? Eda segier ecke Paulus: Ad fyrer þesshaattar Glæpe kome Guds Reide yfer Born Vantrwareñar, Col. 3. Hver vill þaa skyllda hann til, ad hañ skule naadugur vera? Leitum þvi Drotteñs aa medañ hann er ad fiña, kollum aa hañ aa medañ hañ er naalægur; Saa hiñ ogudlege laate af sijnum Veige, og Illvirkeñ af siñe Hugsau, og snwe sier til Drotteñs, þaa mun hañ myskuna honum; og til Guds vors, þviad i hiaa honum er mikel Fyrergiefning, Esa. 55. Eg skal endurgiallda ydur þau Areñ, sem Gras-Hoppañ, Kaal-Ormureñ, Tre-Madkureñ og Gras-Madkureñ hafa fraa ydur teked, segier Drotteñ, Joel. 2. O miñ Gud! Hver hefur þier nockurn Tijma giefed? Hver hefur þier laanad, þad þu kyllder honum endurgiallda? Þad meigum vier jaata i þessu faatæka Lande, ad hafe Gud einhveriu siñne straffad Synder vorar med Oaaran nockurre, þaa hefur hanns Millde oss þad endurgollded med mikelle Ar-Giædsku, bæde til Sioos og Lands. Enn hvad fylger aa epter hiaa Spaamañenum i sama Capitula? Nær þier eted oaflaatañlega, og erud metter, þaa munud þier losa Nafn Drotteñs Guds ydar; Eñ siaaum til, hvert Fader Myskunsemdaña mune ecke hafa funded Skort aa þessu hiaa morgum af oss, og hvert þad mune ecke miklu helldur eiga heima hiaa sumum, er stendur hiaa Hoseam, Cap. 13. Under eins og þeir metter urdu, þaa er Hiarta þeirra upphafed, og hafa gleymt mier. Einhver vill segia: Eg fiñ ecke þessa Glæpe hiaa mier; Eg ottast Gud og elska, so sem mier er mogulegt, og giore honum Packer, samt maa eg og mijner þola Hwngur og Þorsta, Kullda og Klædleyse. Heyr mier uñ Stund, Barn mitt. Muntu vera saa einaste af Guds Bornum, sem hann leggur þvilijkt uppaa? Maattu ecke þeir Abraham, Isaac og Jacob verda land-flootta fyrer Hwngurs-saker? Gen. 12. 26. og 46. Maatte ecke Elias fasta i 40. Daga? 1. Reg. 19. Hvad margt segiest Paall hafa maatt illt þola fyrer Evangelium? Enn þetta maattu þeir lijda til þess, ad þeir vissu hvad þeir væru, sem er syndugar Manneskiur, hvar þeir væru, þad er i Heimenum, i Utlegdeñe, og ecke i Fodur-Landenu, hverneñ þeir vera skylldu, sem er stoduger i Trwñe, þolenmooder i Hormungeñe, og glader i Voneñe; Sama giorer hañ vid þig, þvi ecke er hiaa honum mañgreinar Alit, Act. 10. Þykest þu nu betre enn so, ad þier sie fullgott ad hafa lijkañ Kost med þessum Guds Koppum, þvi angrar sig þaa Saala þijn, og þvi er hüñ orooleg i þier? Vona þu aa Drotteñ, þvi þu munt eñ nu prijsa hañ, Ps. 42. Edur villtu ecke helldur hafa Þvijngan med Guds Foolke, eins og Moyses, helldur eñ lifa i allskyns Sælu med Heimenum, og fyrerfarast med honum? Hversu betra er þier, ad þu gyrnest ad sediast af Molum þeim, er detta af Bordum hiñs rijka hier i Heimenum, eñ ad þig laange epter einum Vatns-Dropa af Fijngre Lazari i Helvijte og Kvolunum? Og hvad veitstu, hversu leinge Drotteñ vill laata þeña þinn Skort vara; Hañ er einn stoor Konungur, ecke er hañ leingur rijkañ eñ faatækann

ad giora. Jacob foor med ein̄ Staf wt af sijns Fodurs-Hwse, Gen. 32. Enn hvad mikenn Fiollda Nauta og Sauda, Geita, Asna, Præla og Ambátta kom hann heim aptur med. Dæme þessa Foolks maa furdanlegt þykia nu aa þessare kolldu og vantrwudu Old, þeir fylgdu Christo epter aa Eydemorku, til ad heyra Kienningar hañs, jafnvel Heidingiar af Tyro og Sidon, og eckert tooku þeir med sier ad neyta, so sem sia maa af Evangelio: Einhver mun segia, ad þeir hafe ei bwest vid so laangre Dvøl aa Eydemorkuñe, þo fannst eingeñ sem aptur snere, so Menn vite, og ad vijsu voru hier 4000. Mañs, sem neyttu, þad maa sijnast, ad Drotteñs Ord hafe so vel smackast þeim i Hiartanu, ad þeir haf' ei funded til Hwngurs i Maganum, og valla gietur þad oduvijse vered, eñ ad þeir hafe treyst þvi, ad Jesus munde aa einhvern Haatt sia þeim Farborda, þar til hefur aan Efa hiaalpad hid fyrra Krapta-Verked, sem enn þaa hefur ollum i fersku minne vered; Enn i þvi gietur Johañes ecke um̄ Tijmaleingdena; Hier af kalla eg þad satt, er David segier, Ps. 32. Augu Drotteñs lijta til þeirra sem hann elska og vona aa hañs Giædsku, og þo fiñast þeir, æ þvi verr, aa medal christeña Mañe, sem vidlijkt eru lyndir og Høfuds-Madurinn i Samaria, er sagdi: Þo ad Drotteñ giøre Glugga aa Himeneñ, þaa kañ þetta ecke ad skie, 2. Reg. 7. Añars mundu Meñ bijda epter Drottne, enn ecke hlaupa til ad ræna, stela, liwga, svijkia, hripsa Brauded wt af Naungans Muñe, og brwka adskiliañlega Raangsleitne i Kaupum og Solum og añare Vidhondlan. Mig Aumkar Yfer Foolked, segier Drottenn: Þvi J Þria Daga Hafa Þeir Hiaa Mier Vered, Og Ecke Til Matar Haft. Margur fastar skiemur, aadur hann verdur oþoleñmoodur. Mig Aumkar Yfer Foolked, segier hin eilijfa Giædska, hañs Myskunar-Ydur komust vid i honum, so sem i Høfud-Sprokenu stendur, so hann hlaut þeim naadugur ad vera: Þad segier ecke hier, ad þeir hafe kvartad um̄ Hwngur, hann visse vel, ad þeir hofdu þessa Þorf: Enn segied mier nu, Born mijn; Munu Ydur hanns Myskunar umbreitt vera? Mun hin rijka Orlætis-Hond stutt vordeñ? Fiærre sie þvi, samur er Gud og hañ hefur vered; Enn ef vier vilium somu Medaumkunar niota, þaa lærum tveñt hier af: Eitt af Foolkenu, añad af Lausnaranum. Af Foolkenu ad heyra Guds Ord liwflega, meta þad ollu tijmañlegu framar, og ad treysta Gude, og þacka honum midt i Skortenum og Orbyrgdenne. Af Frelsaranum, ad sia aumur aa hinum volada og naudþurftuga; Ad brioota hwngrudum vort Braud; Ecke af Fordilld, edur ad wtvega oss Nafn þar med, so sem Hræsnarar, þeir ed giora Olmusur sijnar fyrer Moñum, helldur af Trwñe, af christelegre Medaumkan, af Elskuñe til Guds og Naungans. Breyte nu nockur þannveg, ad hañ heyrer Guds Ord, og vardveiter þau, treyster Gude i ollum sijnum Vandrædum, og leitar Næringar siñar i Guds Otta, þaa vil eg þad segia, ad fyrr munu Englarner færa honum Braud af Himnum ofañ, fyrr munu Hrafnarner bera honum Fædslu, fyrr munu Steinar ad Braudum verda, og Fiskarner flytia honum Gull og Silfur i Munnenum, jaa, Christur maa fyrr afneita sialfum sier, hvad Paulus kallar o-

mogu-

mogulegt, helldur enn ad hañ lꜳte Sꜳl hins riettlꜳta Hwngur þola, Prov. 10. nema hañ vilie reyna hañ þar med, og siꜳe honum þad fyrer einhveriu goodu verda. Minn Matur og Dryckur er, ad giora hañs Vilia, er mig sende, sagde Frelsareñ, Joh. 4. Eñ ef þad er hanns Vilie, ad þu lijder um Hrijd Skort ꜳ Næringu þiñe, þꜳ vert eins lyndur og þiñ Lausnare var, og ætla þig ecke yfergiefeñ, þo þu meiger ad Guds Vilia nockud illt lijda, er vier so kollum; Eñ þad er alldrei illt, sem gott af sier giefur. Ecke verda Vijn-Bereñ samannleseñ af Þyrnunum edur Fijkiurnar af Þistlunum, Luc. 6. Viæt ad Dæmum heilagra. Hversu sꜳrlega klagar Job i sijnum Mañ-Raunum; er hann segier, Job. 30. Þu ert ordeñ hardwdigur ꜳ moote mier, epter Styrkleika Handar þinnar brwkar þu grimt Hatur i giegn mier. Munde Gud þar fyrer hafa yfergiefed hañ? Fiærre var þvi, hiñ fertugaste og fyrste Capitule somu Bookar, hañ ber þar um lioosast Vitne, og siꜳlfur Guds Madur jꜳtar Veikleika siñ og Fꜳvitsku i þvi, ad þeckia Guds Rꜳd, nær hañ endurvitkadest, og kom til siꜳlfs sijns aptur, med þessum Ordum, Job. 42. Eg auglijse ad eg skyllda þad ecke, þad var furdanlega hꜳtt fyrer ofañ mig, so eg gat ecke þeckt þad, þvi ydrar mig i Molld og Osku. Eins var David lyndur, þvi segier hañ, Ps. 77. Mun Drotteñ þꜳ eilijflega burtkasta, og einga Nꜳd framar a ydsyna? Enn nockru þar epter vegsamar hañ Gud med Fagnade, segiande: Ps. 103. Hann hefur frelsad mitt Lijf wt af Fordiorfuneñe, og mig med Nꜳd og Myskunseme coronad, þvi skyllde eingeñ orvænta um Guds Vinꜳttu, þo ei leike allt i Lynde, þar vier siꜳum hier, ad hañs bestu Viner hafa mꜳtt þvilijkt reyna. Edur meined þier, christner Meñ, ad Fadereñ hafe minna elskad sinn Son, þegar hann hroopade ꜳ Krossenum: Gud miñ, Gud miñ, þvi hefur þu yfergiefed mig? Helldur eñ þegar Christur stood ꜳ Jordanar Bockum, og Roddeñ af Himne sagde: Þesse er miñ elskulegur Sonur i hverium mier velþocknast, Matth. 3. Nei, Brædur mijner, þꜳ hafde hañ i honum hvad mesta Velþocknan sijna, er hañ ꜳ Gꜳlganum hieck, þvi fyrer hañs Dauda erum vier vid Gud forlijkter, segier Paulus, Rom. 5. Fyrer hañs sꜳru Kvol og bitrañ Dauda, hefur hañ elskad os i sijnum elskulega, Eph. 1. Gud hafde Velþocknan ꜳ sijnum Syne frꜳ Upphafe Vega siña, og i ollum Christo, frꜳ hinu fyrsta Augnablike Gietnadarens fyrer Einingu Guddooms og Mañdooms. Eñ fyrer Christi Dauda ꜳ ollum þeim sem ꜳ hañs Nafn trwa, hverjum hañ hefur og Makt giefed Guds Bornum ad verda, segier Joh. Cap. 1. Og fyrst hañ hefur nu þañveg yfergiefed hañ um stundarsaker; Eñ sijdañ aptur med Dijrd og Heidre coronad; Vilied þier þꜳ lꜳta ydur þad undra, þo hann breyte med sama hætte vid ydur, sem i honum, og þo fyrer hann erud arfleidder til eilijfs Lijfs? Nei, christner Menn, ecke þo ad Mootlæted og Skortureñ ætte ad vara alla Æfe vora: Þvi hun er so lijted ad reikna hiꜳ Eilijfdeñe, og þad vier lijdum hier ad Guds Vilia, þad verdur os endurgolldid med omælannlegrar Dijrdar eilijfre Þijngd, 2. Cor. 4. Mootlætingar þessara Tijma eru ei verdar þeirrar Vegsemdar, sem vid os mun framkoma i eilijfu Lijfe. Þad

er vijst, ad hiñ naadugе Gud speñer alldrei sijn Børn fyrer sijns Sonar Ok, nema til þess, ad þau drage þad aa þaa Leid, sem til Himnarijkis liggur, þess meiga og øll hañs Børn fullorugg vera, ad annadhvert burt-tekur hann Mootlæted, edur linar þvi, edur giefur oss Krapta til ad bera þad; þvi hann er trwr og freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Segied mier; Er hann þaa Amælis verdur fyrer þad, ad hann snijr eilijfre Fyrerdæmingu i tijmanlegañ Krossburd, til ad afreka oss eilijfa Glede? Einn Fader sender Son sinn i eitt framande Land; Ein Mooder lætur Barn sitt i Skoola, til ad lijda illt, so þad verde ad Manne; Munu þau þar fyrer hafa gleymt þeim? Kann nockud Moodureñ ad gleyma Barne sijnu, Avexte sijns Kvidar? Og þo þær gleyme, þaa skal eg samt þier ecke gleyma, segier Afgrunn Myskunarennar, hiaa Esajam, Cap. 49. Gull-Smidureñ kastar Maalmenum i Elldeñ, so hann hreinsadur verde, og giører þar af sijdann hinar kostulegustu Gersemar; So breyter Gud vid sijn Børn, hann situr og bræder, og Silfred hreinsar, og hrein giører Børn Levi, Mal. 3. Þad er hinn andlega Kieñemannskap, so ad Reynsla Trwar yckar miklu dijrmæt-are fundenn verde Gullsins Reynslu, hvert ed forgeingur, og verdur þo med Elldenum reint, til Lofs og Dijrdar og Heidurs, nær Jesus Christus opennberast, 1. Pet. 1. Þetta er nu so talad til Huggunar þeim, er lijda Skort aa Atvinu sinne, og meina sig þar fyrer vera af Gude yfergiefna, vegna Synda sinna og Overdugleika. Enn þar eru nockrer sem ecke eru anægder þar med, ad þeir hafa þad þeir skulu eta og drecka, og þad þeir meiga klædast med; hvad þo Paulus bijdur christnum Manne ad hann skule laata sier nægia, 1. Tim. 6. Vid þessa vil eg faatt eitt talad hafa.

Þad er satt sem hiñ vijse Syrach skrifar i 11. Cap. Ad Audlegd og Faatækt koma af Drottne; Ef þau koma af Gude, hver vill þaa segia vid hann, hvad giører þu? Segier nockud Leyr-Kiered til Smidsins, þvi giørder þu mig so? Rom. 9. Vill nockur efast um Vitsku hañs, ad hañ ei skynie, hvad hañs Børnum er haglegast, edur klaga yfer hañs Riettsyne, þad hañ giøre einum oriett? Visse Gud þad, ad þier gag-nade Rijkdoomureñ betur eñ Faatækteñ, þaa munde hañ þig audugañ giørt hafa, rañsaka Skap þitt, hvert þu munder hæfare vera til Guds Rijkis, þo þu hefder meira enn daglegt Braud, Gud giørde vel, ad hañ gaf ecke ægum Uxa-Horn, segier i Ordshætt-enum, margur munde brwka Audenn til Ofmetnadar, Ofrijkis, Ohoofs, til ad hefna sijn, og brioota adra under sig, ef hann rijkur være, sem ad lætur hægt, af þvi hann er faatækur. Enn þo ad Gud giefe Auden vondum Mounum aa stundum, hvad kiemur þad vid þig? Fylg þu Christo epter, hver þo hañ rijkur være, giørdest hann faatækur, 2. Cor. 8. Villtu vinna þad til Audsins, ad vera so sem einn af þeim? Visse Gud ad þier Audur gagnade, segie eg enn aptur, munde hann ecke giefa þier hañ? sem hefur giefed þier þad sem er laangtum betra. Einn naadugur Gud, good Samvitska, heilvita Saal, Ote Drottens med þvi Hugarfare, sem lætur sier sijna Lucku nægia, er þad ecke noogu stoor Audlegd? Adrer ottast fyrer þvi, ad þeir kunne ad missa Fiaar-Hlute

sijna

na, enn kynne nockur þessar Guds Gaafur af mier ad taka, þaa villda eg fyrst graata, þa villda eg bera mig hörmulega, þvi aa medañ eg þad hefe, þaa hefe eg allt, og nær eg misse þad, þaa misse eg allt, jafnvel i Allsnægtum, þvi segier David, Ps. 34. Hina rijku brast, og þeir sulltu, enn þaa sem ad Drottne leita, mun eckert gott vanta. Laate Gud mig ecke eta hvern Dag skijnande Kraaser, þaa er eg þo osolltenn, eg une betur vid daglega Fædu, helldur eñ Sælkierenn vid hañs votvolldu Riette. Skortureñ giörer mier aa stundum Mateñ sætañ, eg þarf ecke ad kaupa hañ dijrt: Eñ Fylleñ giörer honum þad leidt, sem hañ kostade til dijrum Doomum. Vefie Gud mig ecke i Pell og Purpura, þaa er mier eins heitt i minne Klæda-Vod, so sem honum i sijnu Skarlate. Faatækteñ hefur stoor Fyrerheit i Guds Orde; Er saa ecke noogu rijkur, sem hefur Gud fyrer Fiaarhallds-Mañ? Eñ hvad segier David, Ps. 9. Hañ er Forsvar hiña faatæku, Forsvar i Neydeñe, hann gleymer ecke Hroope hiñs faatæka. Hvad segier hann eiñ þaa aptur? Hann mun frelsa hiñ faatæka nær hañ kallar, og hinn auma, þañ er eingañ Hiaalpar-Mañ hefur, Ps. 72. Og so segier sialfur Drottenn, Ps. 132. Eg vil blessa Fædslu þeirra, og þeirra faatækum ænæglanlegt Braud giefa. Gud giæfe ad Meñ villdu skilia hvad mikill Skattur ad er ein ærleg Faatækt, þeim sem una vel vid þañ Kost, er Drottenn lætur þeim hlotnast, huñ varnar vid morgum Syndum, Drambseme, Ohoofe, Sialfhælne, Reide, Ofrijke, og sialfre Agyrndenne, þvi alldrei verdur hiñ rijke saddur, saa ed fest hefur Hiarta sitt vid Audeñ, vid Bwksorg og Ahyggiu, sem draga Mannenn fraa Gude i Snorur Diofulsins, og þyngia Hiarta hanns med Ottanum ad missa Eigur sijnar; þvi saa griet alldrei fyrer Gull, sem ecke aatte þad, hun giörer Reikningskapenn audvelldare fyrer hinum ædsta og straanga Doomara, þvi jafnvel þoott ad öllum verde hann noogu torvelldur, þaa ecke þeim þo sijdst, sem hafa gleymt Gude og Naunganum i Velmagt siñe, eñ sett Gull-Hnotteñ fyrer sitt Athvarf. O þu eilijfe Gud! Dijrdarennar Konungur, hiaalpa oss aa þeirre straungu Tijd, laat oss ei þyngia Hiarta vort med Sorgum þessarar Næringar, metta oss med þeim Molum, er detta af þijnu Haa-Borde; Dryckia oss med Sætleik epterkomande Allldar, so ad ei vanmegnunst vier aa Veigenum til Fodur-Landsens, og nær vier erum ad Protum komner, og tokum hin sijdustu Andvorp, þaa dreip þu aa vora ormæddu Saal med þvi Vatnenu, epter hvert eingann mun þyrsta ad eilijfu. Bænheyr þad, naaduge Fader, fyrer Lausnarans Jesu Christi Skulld,

AMEN.

# Attunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 7. Cap.

I þañ

J Þañ Tijma. Jesus sagde til sinna Lærsveina: Vakted ydur fyrer Fals Spámoñum, sem koma til ydar i Sauda-Klædum, enn hid innra eru þeir glepsande Vargar. Ut af þeirra Avortum meiged þier þeckia þá. Verda nockud Vijn-Berenn samanlesenn af Þyrnunum, eda Fijkiurnar af Þystlunum? So ber og hvert gott Trie goodañ Avort, eñ hvert roted Trie vondañ Avort. Gott Trie giefur ecke fært vondañ Avort, og ei helldur giefur roted Trie fært goodañ Avort. Og hvert þad Trie sem ecke giorer goodañ Avort, skal upphøggvast og i Eld kastast. Þar fyrer meiged þier wt af þeirra Avortum þeckia þá. Þeir munu ei aller sem til mijn segia, Drotteñ, Drotteñ, iñganga i Guds Rijke, helldur þeir sem giora Vilia mijns Fødurs, þess á Himnum er. Marger munu til mijn segia á þeim Deige, Herra, Herra, høfum vier ecke spáad i þijnu Nafne, høfum vier ecke i þijnu Nafni Diøfla wtreked, og giordum i þijnu Nafne mørg Krapta-Verk? Og eg mun þá játa þeim, ad alldrei þeckta eg ydur, fared frá mier aller illgiørda Meñ.

Exordium.

Spámadur nefnest i H. Ritningu, ecke einasta sá, sem ad oordna Hlute fyrer segier, helldur og sierhver einn, sá ed kienner riettann Lærdoom: So sagde Gud vid Abimelech um Abraham; Hann skal bidia fyrer þier, þvi hann er Spámadur, Gen. 20. Sá er spáer, hañ talar fyrer Moñunum til Uppbyggingar, til Aminningar og Huggunar, segier Paulus, 1. Cor. 14. Þeirra Apar voru Fals-Spámennerner, hveria Frelsarenn bijdur ad Menn varast skule hier i Gudspiallenu, þvi þeir kome i Sauda-Klædum, enn hid innra sieu þeir glepsande Vargar, og er eingenn Efe á þvi, ad skriftlærder og Pharisæi hafa ad nockru leite átt Sneid þessa, enn þo ecke ad ollu, þvi ecke voru þeir af Christi Sauda-Hwse, helldur meinar og Drottenn hier med þá, er sijdar uppkomu, og spilltu Kienningu Guds i Christenndoomenum, þá nefner Paulus falska Brædur, 2. Cor. 11. Og til Galat. Cap. 2. Talar hann um heimuglega innsmogna falska Brædur, sem ad villdu reyna Frelse þad, er þeir trwudu høfdu i Jesu Christo, so ad þeir hneptu þá i Þrældoom. Soddann Illgrese sáde Fiandmadurenn nidur medal Hveitesins i Christi Akre framm epter Ølldunum, so sem af Christenndooms Søgunum lioost er, og sáer enn nu vijda i Heimenum, enn þar fyrer fáum vier alldrei Gude fullþackad, ad vier vitum ecke af slijku ad segia. Eingenn er sá, ed leitast vid ad spilla riettre Trw i Lande voru, þad er stoor Velgiorningur Drottenns, ad hann hefur unnt oss ad verka Sáluhiálp vora i Einfalldleika vors Hiarta, þvi vil eg ecke hier um framar tala i þetta sinn, helldur taka

smier

aller fyrer Hendur, ad wtskijra þaa Grein af Evangelio, sem ollum ætte hugfast ad vera. sem er þesse: Þeir Munu Ecke Aller, Sem Til Mijn Segia, Herra, Herra, Inngannga J Guds Rijke, Helldur Þeir, Sem Giora Vilia Mijns Fodur, Þess A Himnum Er: Og af heñe tvennt hugleida. 1. Hvad þad merke ad kalla Herra, Herra. 2. Hvad þad sie ad giora Guds Vilia.

Styrk oss hier til, minn Gud, fyrer Jesum Christum, med Naad H. Anda, AMEN.

## Utleggingeñ.

Þad er ægiætt, sem ad Bernhardus Lærefader segier i einum Stad. Christner hafa af Christo Nafn feinged: Þad være mikils verdt, ad so sem þeir eru Erfingiar Nafnsins, so væru þeir og Heilagleikans. Eingeñ Nafn-Boot er fegre, eingeñ stærre, eñ ad heita christeñ, ef nockur ber hana riettelega. Chrjsteñ og heilagur var sama Nafn, aa medañ Christeñdoommreñ var eñ þaa i Blooma sijnum; Heilsed ollum heilogum, segier Paulus, þad er ollum christnum: Eñ ef eingeñ Renta fylger þessu vegléga Nafne, þaa er saa ecke heilagre sem þad ber, helldur eñ Vijned edur Vidsmiored, edur einhver Matur vard heilagur af þvi i gamla Testamentenu, þo ad einhver snerte þad, saa ed bar helgad Kiot i Kioel-Lafe sijnu, Hagg. 2. Saa sem ecke hefur Christi Anda, segier Paulus, hañ er ecke hañs, Rom. 8. Hver ed prijder sig med hinu fagra Christeñdooms Nafne, eñ lifer þo ecke christelegu Lijferne, hañ er lijkur Eik þeirre, er hefur græn Blød og frijd, eñ Avexte einga, þvi segier Lausnareñ i Gudspiallenu: Af Þeirra Avoxtum Skulud Þier Þeckia Þaa. Og so sem Drottenn formællte Trienu, þvi eingar voru Fijkiur aa, og ecke nema Blodeñ toom, Matth. 21. So vill hann og til hinna segia, er Rænglæted æfa, aa hinum effsta Deige: Alldrei þeckta eg ydur, so sem hier stendur i Gudspiallenu. Þeir Munu Ecke Aller Sem Til Mijn Segia, Herra, Herra, Inngannga J Guds Rijke, segier Drottenn. Þegar ad Ritningenn tvijtekur eitt Ord, þaa vill hun laata skiliast eitthvert merkelegt þar med, þeir segia: Herra, Herra; So eru þeir aakafer i hinne wtwortis Þioonustu. Ecke vantade Gud nie hanns Christ fagra Titla hiaa Gydingum, þeir nefndu Fodur hanns sinn Gud, eñ þecktu hañ þo ecke, þeir kolludu Drottenn Rabbi edur Meistara siñ, eñ sooktu þo epter ad lijflaata hañ, þeir tijdkudu langar Bæner i Samkundunum, og aa Gatnamootum, enn under Hylmingu þeirra wtsugu þeir Hws Eckna og fodurlausra, Matth. 23. Þad verdur valla med Ordum sagt, hversu ad Hræsneñ giorer alla Guds Þioonustu onijta i hanns Auglite; Þeir fostudu tvisvar i Viku, og gaafu Tijunder af ollu þvi þeir aattu, eñ lietu þad þo ogiort, sem þijngra var i Logmaalenu, Doomeñ, Myskunsemdena, og Trwna, Matth. 23. Þad olle þvi, ad so sem þeir afmyndudu Asiaaner sijnar, þaa þeir fostudu til þess ad laata siaa, ad þeir væru fastande; So afmyndade Hræsneñ þeirra þessu Verk fyrer Gude, so ad Frelsareñ segier: Ad þeir hafe sijn Laun i burtu teked, Matth. 6. Þad er, ad þeir Hluter, er i siaalfum sier gooder voru, og hofdu

Fyrerheit goodra Launa hiaa Gude, ef þeir af Trwñe giorder væru, þeir skylldu til einga Launa vinna Hræsneñar og Yferdrepskaparens vegna; miklu helldur afla þeim Dooms Afellis, er vanvirda þannveg hinn alskygna Gud, med toomre wtvortis Hegdan og Lætæde; So sem Von er aa, þviad oll Hræsne er Lijge; Enn Gud er sialfur Sannleikureñ, kann honum þvi eckert so gagnstædt ad vera; Edur hvad segier Drotteñ uñ þessa Hræsnara, Matth. 23. Þar fyrer munud þier faa þess þijngre Fordæmingu. Nu hofum vier heyrt Doomeñ yfer Gydingum, christner Meñ, af alls Hollds Doomara; Enn ef þvilijkt og skyllde finnast aa medal vor, mun vor Doomur liettare verda enn þeirra? Fiærre sie þvi, ef Gud þyrmde ecke hinum natturlegu Kvistunum, mun hann þaa oss þyrma, Rom. 11. Ef vier uppfyllum þeirra Mæling? Eingeñ er Von aa þvi hvad giora þeir þaa, ed gaanga i Guds Hws, og heyra hañs Ord, forsooma valla nockra Predikun, og hafa þad i Muñe, og tala uñ hanns Vegu? Allt þetta er gott i sialfu sier, eñ hvar eru nu Avexterner, þegar þeirra leitad verdur, hiaa allmorgum? Þegar hiñ volade Naud lijdur, byrgia Menn sitt Andlit fyrer honum, þegar Meñ siaa eitthvad gyrnelegt, hætta sumer ecke fyrr eñ þeir hafa svælt þad under sig, þegar einhver liooslar upp Ohroodre uñ Naungañ, þaa taka Meñ i þañ Streingeñ, sie nockrum af Yferbodunum, edur Forelldrunum eitthvad boded, hversu moglunarsamer, hversu treger eru Meñ i ad hlijda þvi? Hvad toomlæter eru Forelldrarner sumer hverier i þvi, ad færa Borneñ til Jesum? Til Kyrkiuñar koma þau ad sonu, þar i er ei so mikill Brestur; Eñ hversu sumum sie umgiefed, ad brijna fyrer þeim þad er þau heyrdu i Kyrkiuñe, þar ber Raun Vitne uñ, nær þau eiga ad giora Grein aa sijnum Christeñdoome, ostande være, ad ei finduft þeir, er valla hafa nockud añad fyrer þeim, eñ skamarleg Ord og fiblslegt Hial, sem sialfer þeir eru vaner til. Engelleñ sagde vid Abraham, er hann ætlade ad offra Syne sijnum: Hallt þiñe Hende fraa Sveinenum, þvi nu veit eg ad þu ottast Gud, ad þu þyrmder ecke þijnum eigeñ Syne; Eñ Andskoteñ gietur og sagt vid marga hveria, sem ecke þyrma Afkvæme sijnu vid eilijfum Pijslum, helldur laata þad uppalast i hañs Skoola: Nu sie eg ad þu elskar mig, þar eg sie ad þu so uppelur Son þiñ, ad hann giete orded einhvern Tijma mijn Foorn, hallt þvi ecke Hendeñe fraa Sveinenum, þar til hañ verdur fullur og feitur, og hæfur til ad offra. Menn blessa Gud og lætast losa hañ og dijrdka, eñ giora þo ecke þad hañ boded hefur, eñ Andskotanum formæla Meñ, og atyrda hañ, eñ giora þo hañs Verk, er ecke þetta ad segia, Herra, Herra, enn giora þo ecke Fodursins Vilia? Er þad ecke ad kalla Gud siñ Fodur, eñ ræna hañ þo Heidre sijnum? Meñ gaanga til heilags Altaresins Sacramentis þrisvar, fioorum, fiñum aa Are hveriu; Þar ætlunst vier til, ad forlijka oss vid Gud, og taka Skatt af honum fyrer Afbrot vor, og bioodum honum i Sektena Guds Sonar Dauda, og hañs Forþienustu, eñ þess er vel ad giæta, ad Meñ take ecke þaangad med sier Gieste þa, er hañ ecke maa eiga Sess med, allra sijst Hatur til Naungans, eñ ad þad hende þaa suma, er audsied af þvi Hatre og Ulfbwd, er tijdkast Maña aa medal aa stundum, ecke

laungu epter þad Meñ hafa minst vid Christ; Er ecke slijkt ad kalla, Herra, Herra, enn gleyma hañs Bode, er hañ sagde hiá Marcum, Cap. 11. Þegar þier standed bidiandi, þa tilgiefed, ef þier hafed nockud á moote einhveriumi, so ad ydar Fader, sem á Himnum er forlaate ydur ydar Misgiörder; Er þad ecke, segie eg ad bidia um Frid med reiddu Sverde? Er þad ecke ad sijdurstu, ad segia: Heill vertu Rabbi, eñ hafa Bak vid sig Sverd og Staanger? Mun þad nu noog, christner Meñ, ad kalla, Herra, Herra, þad er, ad laatast Gude þiena, eñ fremia þo allt þetta Vondskunnar Athæfe; Þar eru eingeñ Ber á þessum Vijn-Vide, eingar Fijkiur á þessu Fijkiu-Trie, jafnvel sialf Bloden eru nidurdotteñ, allt hvad eg legg vid þau, er forgiefens, segier Drottenn, Jer. 8. Hvad mörg Ar hefur þu komed, Drottenn minn, og leitad Avaxtar af oss, og eingañ funded? Hversu kroptuglega hefur Sonur þinn fyrer oss beded, ad vier mættum eñ þaa eitt Ar standa? Fyrer hañs Arñan er þad skied, ad vier ecke mz ollu erum uppræter: Þar fyrer, christner Meñ, taked Vara á ydar Vitiunar Tijma; giöred ydrañ medañ Guds Rijke er nalægt, Oxeñ er sett til Rootar Triaña, hvert þad Trie sem ecke ber Avoxt, þad skal upphöggvast, og i Elld kastast, Matth. 3. Bijdum ecke epter Jerusalems Hegningu, um hveria Gud sagde vid Spamañeñ: Þu skallt ecke bidia fyrer þessu Foolke, og ecke upphefia Raust edur Bæn, edur forbijda fyrer þaa, þvi eg munde eingvañveigeñ bænheyra þig, Jer. 7. Med mikelle Alvoru og Gaumgiæfne byriar Mañe ad rañsaka sialfañ sig, hvert ad hañ hefur Vitnisburd heilags Anda, ad hann sie Guds Barn, edur ad hann leidest af falskre Innbyrlingu, um Arfa-Riett Guds Barna, hvad margann hendt hefur, sem Gud naade, og er þad audsært, ecke einasta af Dæme Phariseaña, og hiña skriptlærdu, um hveria sialfur Frelsareñ vitnar, hvad fiarlæger þeir vered hafe Guds Rijke, helldur margra añarra, sem ad eckert efast um Guds Naad, enn lifa þo hverge nærre so sem christnum ber, jafnvel þo ad ei sieu þeir verstu Klækium hladner, hverium eckert er betra Raad, eñ þad sem Paulus giefur, er hañ segier, 2 Cor. 13. Reyned hvert þier erud i Trwnne, hvad ei gietur med betra moote skied, helldur eñ ef vier rañsokum vora Lijfernis Haattu: Þvi Trweñ er alldrei avaxtarlaus, helldur verkar hun fyrer Kiærleikañ; Allar christelegar Dygder hefr hun i sier foolgnar, hvar um eg vil nockud framar tala i sijdare Greineñe, enn laata um hid fyrra wt-talad ad so stöddu.

St. Petur sagde, ad hiá Gude være ecke Mañgreinar-Alit, helldur á ollu Foolke, af sierhverre Þiood, sem giörer hañs Vilia, hefde hañ Velþocknan, Act. 10. Nu er þad omögulegt syndugu Hollde, ad giöra Guds Vilia ad fullu, þvi þad er hid sama og ad uppfylla Logmaaled, þad er oss um Megn, sem i Syndenne erum gietner, hverrar Spilling ad daglega brijtur sig wt um þenna daudlega Lijkhama, so ad þegar vier villium giöra hid gooda, þaa loder hid vonda vid oss, þad jaatar Paulus um sig, Rom. 7. Med mikelle Harma-Klögun, og mun eingum af oss betur vared; Nu heyre eg Drotteñ tala á þa Leid hier i Gudspiallenu, ad saa meige eingeñ iñ i Guds Rijke koma,

 sem

semei giorer Fodursins Vilia; Eñ hver mun þaa hoolpeñ verda? Giæt þess nu, Barn mitt, er Paulus segier, Rom. 8. Hañ same Paulus sem talde Vankvæde siin aa, ad uppfylla Logmaaled, hann segier: Þad sem Logmaalenu var omøgulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, þad hefr Gud giort, sendande siñ Son i Lijkingu syndugs Hollds, og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Til þessarar Riettar-Bootar vijsar Drottenn oss sialfur hiaa Johannem, Cap. 6. Þad er Vilie hanns er mig sende, ad hver sa ed sier Soneñ og trwer aa hañ, hañ hafe eilijft Lijf, sem er hid sama og ad ingaanga i Himnarijke, Guds Vilia er omøgulegt ad giora, so honum lijke, þoott þier giordud allt þad þier ættud ad giora, segier Frelsareñ, þaa jaated samt, onijter Þioonar erum vier, Luc. 17. Eñ hversu miked oss breste aa þad, til þess finna aller þeir, ed rañsaka siñ Lifnad, og bera hañ samañ vid Guds H. Logmaal, jafnvel hiner riettlaatu, er vier so kollum. Noe, Abraham, Isaac, Jacob, Elias, Samuel, Job, Daniel, meiga Forlaats bidia, þegar Gud helldur Doomenn; J hvers Augum þad Himnanna Himnar ecke hreiner eru; Trweñ aa Guds Son er þad alleina, sem oss riettlæter, þvi sagde Petur fordum, ad þar være eckert annad Nafn under Himnenum Monnunum giefed, i hveriu oss byriade saaluhoolpnum ad verda. Væru ecke aller af-fallner, og allur Heimureñ sakfalleñ fyrer Gude, Rom. 3. Þaa være ecke hañs Sonur i Heimeñ komeñ, ad kalla synduga og ecke riettlaata til Ydranar; Enn alla hefur hann kallad, ollum segia laated fyrer Johannem; Giored Ydran, þviad Guds Rijke er naalægt, Matth. 3. Ollum hefur hañ i sijnu Nafne predika laated Ydran og Syndaña Fyrergiefning, er þann Hlioom heyrt hafa, sem wt er geingeñ uñ alla Heims-Bygdena, ollum hefur hañ boda laated, Giored Ydran, og trwed Evangelio, Marc. 1. Þesse er minn elskulegur Sonur i hverium mier velþocknast, sagde Guds Fodurs Raust af Himnum vid Aana Jordan, Matth. 3. Þar fyrer er sierhver sa velþockadur hiaa honum, sem trwer aa Nafn eingietens Sonar Guds, og hañ kiemur ecke til Doomsins, Joh. 5. Þad er, hann verdur ecke fordæmdur, þvi hañ hefur elskad oss i hinum elskulega, og þesse er Logmaalsins Uppfylling: Þesse er sa Guds Vilie, er Frelsarenn talar uñ i Gudspiallenu, ad trwa aa hann, enn med hvilijkre Trw, christner Menn? Ecke hañs, sem trwer ad Gud er til alleina, þvi trwa og Dioflarner, og skielfast þar af, ecke hañs sem kallar sig trwa aa Gud, eñ nær hañ sier Brooder edur Systur Skort lijda, giefur hañ þeim þo ecke þad sem Lijkhamanum gagnar, Jac. 2. Jafnvel þoott hañ hafe Audlegd Heims þessa, þvi sa sem segiest elska Gud, enn hatar siñ Broodur, segier Johañes, hañ er Lygare, þvi ef hañ ecke siñ Broodur elskar, þañ er hann sier, hverneg maa hañ Gud elska, þann er hañ sier ecke, 1. Joh. 4. Sa dregur sig aa Taalar, er hañ meinar sig ad trwa aa Gud, enn sijner einga Trwareñar Avexte. Paall segier, ad i Christo gollde hverke Umskurn nie Yfirhwd, helldur Trw sw, sem verkar fyrer Kiærleikañ, enn Kiærleikureñ er Logmaalsins Uppfylling, Rom. 13. Þad er hann iñebindur i sier allt þad, sem i Logmaalenu boded er, enn þoott hañ sie ofullkomeñ hiaa oss, þaa verkar Trw-

eñ

enn þad i honum, ad hañ gyllder i hañs Auglite, sem hefur sett Jesum Christum til eins Nꜳdar=Stools i hañs Bloode, til ad auglijsa sitt Riettlæte, ad hañ sialfur sie riett=lꜳtur, og riettlætande þann, sem er af Trwñe Jesu Christi, Rom. 3. Þad er, sialfur riettlꜳtur, i þvi ad taka ecker tofullkomed fyrer gylldt, enn riettlætande þo rꜳnglꜳtañ fyrer Trwna ꜳ Christum, og giørande þau Verkeñ gylld, sem af heñe framkoma, og i Gude giord eru; Og mꜳ hier af siꜳ, hvilijkre þeirre Trw byriar ad vera, sem er epter Guds Vilia; J einu Orde ad segia: Syned mier Lioos fyrer utañ Byrte, Sool fyrer utañ Liooma, og eina Mañeskiu fyrer utañ Sꜳl, og skal eg sijna ydur rietta Trw fyrer utañ Avexte. Toofallt er Embætte Trwareñar; Eitt er þad, ad trwa þvi, ad Gud sie Hegnare vondra Verka; Añad, ad forlꜳta sig þar uppꜳ, ad Gud mune Syndernar fyrergiefa; Enn þad er valla mogulegt, ad sꜳ trwe hinu fyrra, sem ad framfer i Glæpunum ydrunarlaust, þvi segier David, ad hinn heimske segie i Hiarta sijnu, þar er eingeñ Gud, Ps. 14. Og hañ trwer forgiefins, ad sier verde Syndernar uppgiefnar, sem liggur i þeim vijsvitande, hafande einga Vidleitne edur Atburde til ad krossfesta sitt Holld, med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Oftraust er þad Guds Nꜳdar, enn ecke sw Trw, er Manneñ hoolpeñ giører. Þu segier: Mijn Trw er veik, þvi helldur Fiollde Synda minna, ad eg er ecke aldeilis fulltrwa um̃, ad Gud mune sijns Riettlætis vegna gieta fyrergiefid mier þær, enn eg er ecke einasta ofullkomeñ, helld=ur ostødugur i mijnu Apturhvarfe, og i þvi, ad giora Guds Vilia. Heyr mier Barn; Er Lausnareñ þꜳ komeñ til ad kalla riettlꜳta og ecke synduga til Ydrunar? Þijnar Synder eru Dioefulsins Verk; Mun ei Guds Sonur komeñ til ad nidur=briota þau? 1. Joh. 3. Þetta Mistraust er eitt af þeim, þad mun Guds Sonur fyrer hvern mun i burt=taka, þvi hañ veit, ad ꜳ þvi rijdur Sꜳluhiꜳlp þijn, ad trwa ꜳ Gud, og þañ er hañ sende Jesum Christum; Mun ecke Nꜳdeñ yfergnæfa þar, sem Synd=eñ yfergnæfer? Rom. 5. Hefur ecke Gud alla under Ohlijdneñe iñeluckt, (þad er under Þeckingu Syndareñar) uppꜳ þad hañ myskunade ollum? Rom. 11. Ef þu nu þeck=er Synd þijna, og villt hana af Hiarta ofgiort hafa, hverneñ kanntu þꜳ ad efast um̃ Guds Myskunseme, edur Fyrergiefningu Syndañа, þar Gud vill ecke, ad nockur Madur tapest, helldur komest til Sannleiksins Vidurkieñingar? 1. Tim. 2. Enn þo ad Trweñ sie veik, þꜳ er þad þo Trw; Einn Neyste er eins vel Elldur, so sem miked Bꜳl; Eiñ Drope er eins vel Vatn, so sem allur Siooreñ, so var og Trw Fodur hiñs Tunglsiwka eins vel Trw, so sem hiñar Canaanisku, so sem hiñar bloodfallssiwku, so sem Hundrads=Hofdingians. Bid med Læresveinunum, Herra, auk þu oss Trwna, Luc. 17. Og med Fodur hiñs tunglsiwka, er eg strax um̃gat: Eg trwe ad soñu Herra, eñ hiꜳlpa þu Vantrw miñe, Marc. 9. Eñ þo ei bregde strax vid, sem þu bid=ur, þꜳ lꜳt þier ꜳ medañ nægiast Guds Nꜳd med Paulo, þvi hañs Kraptur fullkom=nast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og visse Gud, ad þier ecke nægde um̃ siñ þad lijted, sem þu hafa þykest, þꜳ munde hañ ꜳn efa, ad Skyndingu vid auka, þvi ꜳn Trwar=

eñar er omögulegt Gude ad þocknast. Trwen er Verk H. Anda, eñ ecke þitt, kalla þad alldrei lijted, sem Gud hefur giort, giæt þess og, Barn mitt, ad hiñ næduge Gud heimter þad ecke af syndugum Mañe i Evangelio, sem hönum er um Megn. Þad er eingeñ af öllum Adams Nidium, sem ad fullu hefur Guds Vilia giort, nema hiñ añar Adam, sem er Gud af Himnum, fra ed i Heimeñ er komeñ, ad giora hañs Vilia, hañ er ænægdur med Gudrækne Hiartans, og alvarlega Vidleitne, til ad lifa epter sijnum Vilia, þvi þeir, sem eru i Christo Jesu, þeir eru ecke under Lögmalenu, Rom. 6. Og ecke er Fordæming i þeim, Rom. 8. Gud höndlar vid þa so sem Börn, og ei so sem Þræla, þvi hann veit hvada Verkefne vier erum, og þeinker a þad vier erum Mold, Ps. 103. Sagde ecke Engelleñ vid Abraham, eg veit ad þu ottast Gud, þo hafde hann sijna Breste, er hañ tvisvar siñum missagde um Konu sijna, ad hun være hañs Syst-er; Jacob, er hañ a Tälar droo siñ biinda Fodur. Og hversumiog kvartar Paul-us um þa Synd, sem i hönum bioo, Rom. 7. Þesse Dæme hefur Ande Drottens uppteikna læted til Huggunar þeim, sem af Efasemeñe freistader verda, af þvi þeir fiña Skort a þeirre Hroosan, sem fyrer Gude gyllder. Vier höfum i Christo þañ Höfud-Prest, sem kañ ad sampijnast Veikleika vorum, Hebr. 5. Hañ er Bruñur þess Vatns, sem ad uppvellur til eilijfs Lijfs, Joh. 4. Af hañs Fyllingu höfum vier aller medtek-ed Naad fyrer Naad, Joh. 1. J hönum fiñur hinn strange allsheriar Doomare allt þad hañ brestur hia oss. Hañ er oss af Gude giefeñ til Riettlætis, til Helgunar, og til Endurlausnar. Hönum med Fodur og heilögum Anda, sie Vellde og Kraptur, Rijke og Mattur, Dijrd og Heidur, fra eirnre Eilijfd til annarrar, Amen.

# Nijunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 16. Cap.

N Þeim Tijma. Jesus sagde til siña Læresveina: Nockur Madur audugur var þar, sa ed hafde eirn Raadsmann, sa same var ofrægdur vid hañ, so sem hefde hañ eidt hañs Gotze. Og hañ kallade hañ sama til sijn, og sagde til hañs: Hvad heyre eg þetta af þier? Gior þu Reikning-skap af þiñe Raadsmeñsku. Þviad þu mætt eige leingur Raads-meñsku hafa. Enn Raadsmadureñ sagde med sialfum sier. Hvad skal eg til giora, nuñ Herra svipter af mier Raadsmeñskuñe? Eg duge ecke til ad grafa, eñ skamast mijn ad bidia. Eg veit hvad eg skal giora, nær ed eg verd settur af Raadsmeñskuñe, so ad þeir medtake mig i sijn Hws. Þar fyrer samañkallade hann eirn og sierhvern Skullda-Mann sijns Herra, og sagde til hinns fyrsta: Hversu mikid ertu

ertu skylldugur mijnum Herra? Eñ hañ sagde: Hundrad Tuñur Vidsmørs. Og hañ sagde þa til hañs: Tak þitt Brief og setst nidur, og skrifa snarlega fiñtijger; Epter þad sagde hañ til hiñs annars: Eñ hvørsu miked ertu skylldugur? Sa sagde: Hundrad Mæle-Kierolld Hveitis. Þa sagde hañ til hañs: Tak þitt Brief og skrifa Attatijge. Og Herrañ lofade þann ranglata Raadsmañ, þad hañ hafde giørt so forsiælega; Þvi þessa Heims Born eru kiænare Sonum Lioossens i þeirra Kynslood. Og eg segie ydur: Giøred ydur Vine af þeim ranglætis Mamona, so ad nær ydur þrijtur, ad þeir medtake ydur i eilijfar Tialldbwder.

## Exordium.

Marta, Marta, þu ert ahyggiusöm, og mædest i mörgu, enn eins er Þörf, Maria hefur utvaled þad Gooda Hlutskipted, sem ecke skal fra heñe takast, sagde Lausnareñ fordum, Luc. 10. Þad eru stoor Vanheilende Saalareñar hia oss daudlegum Mønnum, ad hun syrger so miog fyrer Lijkhamanum, enn lijted fyrer sialfre sier, og verdur þvi ecke a moote sagt, ad hun vellteſt nærsta miog wr Tign siñe, þegar so ber vid, þvi hvad er Kroppureñ hia heñne ad reikna, hann er Molld og Aska, hun er einn lifande Ande, hann skyniar eckert af sialfum sier, hun er full Raads og Skilnings, hañ deyr og rotnar i Grofiñe, þar liggur hann til þess hun vitiar hanns aptur epter Guds alvijsu Raadstofun, og sijdañ skulu þau bæde þess Not edur Giølld hafa, sem hun hefur sied fyrer sialfre sier og honum a medenn þau voru bæde samann i Lijfenu. Eñ Frelsareñ segier hia Matth. 16. Cap. Hvad gagnar þad Manneñum, ad hañ eignest allann Heimeñ, og lijde Tiopun a Saalu siñe. Þetta skilst ecke sumum Mønnum, so eru þeir ahyggiusamer um þad nalæga, enn syrgia lijtt fyrer hinu epterkomanda, og jafnvel finst þesse Brestur hia þeim, sem Gud vilia ottast, hveria og Frelsarenn kallar Lioossens Born i þessa Dags Evangelio, af þvi þeir eru i Skijrnne Guds Born vordner, hver ad er Fader Lioosanna, Jac. 1. Christi Brædur epter Endurgietningunne, hver ad er Lioos Heimsins, og upplijser alla Menn, sem koma i þenna Heim, Joh. 1. Og upplijster af H. Anda, sem er Lioossens Ande, og ecke Myrkursins, enn Toomlæte þeirra og Ofrañsijne straffar Drottenn hier i Gudspiallenu, med Epterlijkingunne um hinn ranglata Raads-Mann, um hveria margur hefur mørgt talad, og fært hana heim uppa oss, sem a Stundum erum otrwer Raads-Menn yfer þvi Punde, sem Gud hefur oss til Medferdar feinged, og er þad ad sönu vel til funded, enn Asetningur Frelsarans er, ad kienna Bornum sijnum Gudrækelega Framsijne i þeirra Saaluhialpar Efnum, þad sijna oss þau Ord er sijdarst standa. Og Eg Segie Ydur: Giøred Ydur Vine Af Þeim Ranglætis Mammona, So Ad Nær Ydur Þrijtur, Ad Þeir Medtake Ydur I Eilijfar Tialldbwd,

er,

er. Þesse Ord vil eg nockud gior yfervega i þetta sinn. Hvar til hinn goode Gud virdest ad hiaalpa med Styrk sijns Anda, J Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Hier stendur medal annars i Gudspiallenu, ad Herrann hafe lofad hinn raangláata Raadsmann, þad hann hafe so forsiaallega giort. Ecke er þad Meiningeñ, ad Christur hroose þessum ohlutvanda Mañe, helldur segier hañ fraa þvi i Epterlijkinguñe, ad hañs Laanar-Drotteñ hafe prijsad, ecke Raangsleitne hañs eda Prettu, þvi eingeñ af oss hroosar slijku aa sijnum Þjenara, helldur Slægvitsku hañs i þvi, ad siaa sier Farborda, nær hañ være afsettur Raadsmeñskuñe, so hverke þyrfte hñ ad erfida, nie fara aa Vonar-Vol, og þetta Dæme brukar Frelsareñ til ad eggia sijna Þienara aa christelega Framsijne i sijnu gudræknis Eyrende, ad lijka so sem þesse Veralldar Sonur var forsiaall i þvi, ad bwa um tijmañlega Atviñu sijna, so skule þeir og vera i þvi, ad siaa sier borged i andlegum Efnum; Þvi fylger Epterlijkinguñe nockurskonar Umkvortun; er so hlioodar: Þessa Heims Born Eru Kiænare Sonum Lioossens J Þeirra Kynslood, og þar aa epter Bodord Frelsarans, hverneg þeir breyta skule, sem vilia eiga Vist med Gude, og ollum heilogum i eilijfum Tiallbwdum. Gioored Ydur Vine Af Þeim Raanglætis Mañona, segier Frelsareñ: So kallar hañ Audlegd Heims þessa: Þad ber til þess, ad valla er nockurt þad Raanglæti i Heimenum, sem ad Audureñ sie ecke vidrideñ nu einhverriu moote; Hvada Raanglæte hafa Meñ ecke vid i þvi, ad afla hañs i Kaupum og Solum, med Yfervarpe Laga og Riettenda, til ad svæla under sig Eigur añara med Fiebürde i Doomu, med Raane og Stulde, med Ofrijke og Asælne, med Lygum og Prettvise? Enn so sem þad er ecke minna vert, ad giæta feingens Fiaar eñ afla þess, so skiedur og ecke minna Raanglæte i Medferd Audsens, helldur eñ i Safnenu; Edur hvad giora þeir ed brwka hann til Ofmetnadar, stæra sig þar af, þacka siaalfum sier fyrer sitt Lucku-Laan, fæga Foorner fyrer sijnu eigeñ Nete, brwka Fie sitt til ad nidurdrepa honum sem Raangindeñ lijdur, til ad riettlæta hiñ Raanglaata, eñ fella Raanglaatañ Doom yfer hiñ Saklausa, til Ohoofs i Mat og Dryck, og añars Bijlijfes, enn laata hiñ faatæka og Nakta Þorsta og Hwngur lijda, iñehallda laanudu Fie og svijkia Daglaunaraña, og þañ sem sleiged hefur Lond hiñs rijka um sitt Verdkaup, so ad þeirra Hroop er inngeinged i Eyru Drottenns Zebaoth? Jac 5. Eru þad þaa Undur, þo hann nefnest Raanglætis Mamona? Og þo ecke æse aller allt af þessu, þa er hver Partur þar af noogur til ad fordæma þañ ed þad fremur, þvi hvert ad eiñ tapar Lijfenu fyrer Lauslæte, eins og hañ er samlagade sig Skiækiuñe af Moabs Bornum, Num. 25. Edur fyrer Agyrne og Nijsku, eins og Nabal, edur fyrer Asna-Leitena, eins og Simei, edur Frumgetningu siñe med Laungunene epter hinum sæta Riette, eins og Esau, edur Himnarijke fyrer Myskunarleyse og Hardydge, þa maa einu gyllda; Litlu vardar um hvern Veg ad eirn steyper sier til Helvijtis. Nu er so aastatt um Audenn, sem eg sagt hefe, ecke þad, ad hann sie illur i siaalf-

um

um sier; Guds Blessan er hann, og nærsta þarfur þeim er vel vita med hann ad fara og brwka hann Gude til Dijrdar, og Nꜳunganum til Gagns, og til þess ad vera rijkur i goodum Verkum, annars er hann skadlegur, sokum Vanbrwkunarennar, og þvi segier Paulus, ad þeir ed rijker vera vilia falle i Diofulsins Snorur, þar fyrer sogdu og hiner gomlu; ad hinn rijke være annadhvert rꜳnglꜳtur edur rꜳnglꜳts Arfe. Nu gietur þad ecke ad ollu leite satt vered, þvi ei veit eg hversu stoor-rijkur ad Abraham var, þegar hann foor wt af Ur i Caldæa Lande, ꜳdur enn hañ kom til Haran, Gen. 11. Ecke var Jacob rijkur, þegar hañ kom med einsamlañ Gaungu-Staf sinn til Labans, og ecke var David fiolskrwdugur, þegar hañ foor Land-Flootta fyrer Ofrijke Souls, og mælltest til Matar-Verdar fyrer sig og Foolk sitt af Nabal, 1. Sam. 25. So kuña og marger ad vera eñ nu i Dag, sem vel eru komner ad Fie sijnu, so sem þeir ed audgast af Orlæte Konunga siña, og añarra Hofdingia, ef þeir ei vanbrwka Gunst þeirra odrum til Skada, þeir ed med Bindinde og Sparseme Audlegd safna, so framt ad hañ sie ecke Oþocke Fiaar sijns, edur neite hinum þurfanda um̃ þad, sem Gud hefur honum boded ad giefa. Margur verdur audugur af Embættis-Laununum og Kuñꜳttu siñe, verie hañ þar til Ydiu siñe og Astundan, og take ei framar eñ Gud og Yfervalld ed boded hefur, þꜳ mꜳ hañ eiga sitt med goodre Samvitsku. Margur græder af Hand-Afla sijnum, og brwkar Nꜳtturuna, sem et rijk til Utvega siña, þad er saklaus Groode, ef allt er añad riett: Eñ fyrer þvi, ad i ollu þessu er Hoosed vandhitt, so ad eingeñ er ad fullu viss þar um̃, ad eckert sie rꜳngfeinged i Bwe hañs, þar Audureñ er fagur, eñ Menn eru ecke alltijd adgiætner i slijku, og fyrergiefa sialfum sier miked, þꜳ kalla eg þad stoora Rꜳd fyrer alla, ad Meñ eiga Kost ꜳ, ad giora sier Vine af þessum Rꜳnglꜳtis-Mañona. Tveir liggia Veger til þess sierdeilis, sꜳ eine er, ad gialld a aptur þad sem einhver af odrum rꜳnglega droo; Añar, ad giefa Olmusur fꜳtækum, bꜳda kieñer oss Zachæus Tollheimtu-Madur, er hañ sagde vid Drotteñ; Luc. 19. Helmingeñ af Eigum mijnum gief eg fꜳtækum, og hafe eg prettad nockurn, gief eg ferfalldt aptur. Gud hialpe oss vel.; Lijtell var þesse Tollheimtu-Madur Vexte, enn morgum stoorum Mañe mun hañ kieñna meiga Adferd christelegs Apturhvarfs, Drotteñ gaf honum þann Vitnisburd, ad hañ være Abrahams Sonur; Lijkast er ad hañ hafe so tered ad Burdum, þad sijner Nafned, og marger Gydingar voru Tollheimtu-Meñ Romveria, eñ hañ hafde tapad Abrahams Barna-Riette mz Tollheimtuñe, þvi Heidingia og þꜳ leggur Frelsareñ ad jofnu, Matth. 18. Enn þvi olle Audmijkt hañs og Avexter Trwareñar, ad Drotteñ kallar hañ Abrahams Son. Eg segie eñ nu, ad þetta Smꜳmeñe gietur kieñt morgu Stoor-meñe sañañ Veg Ydranareñar, hañ dæmde sialfañ sig i Þioofs-bætur, þvi so segia Moysis Log, Exod. 22. Ad Þioofureñ skule gialld a fioora Saude fyrer einn, sem stoleñ er. Nu er þo Straffed herdt af christnu Yfirvallde, epter þvi sem Glæperner vaxed hafa; Enn þess være oskande, ad hiner stooru Þioofarner lietu ei heingia þꜳ smꜳu, eins og Hvalfiskarner gleypa litlu Fiskana; Ef

oll þvilijk Varmeñe ætte under Gaalgañ ad draga, þa munde Bodla vanta, þaa munde snorulaust verda, so ad Gaungu-Madureñ feinge valla þad hañ kyñe ad vefia um̃ Tötur sijn; Eñ hier er þo ecke so mieg hætt vid, þinn riettlaate Doomare hefur sied þvilijkum Mõñum bæde fyrer Bodle og Snoru, þar ed hver heinger annañ aa stundum, stundum kvelur einn giaalijfur Sonur, ein lauslaat Dootter sijns Fodurs Hiarta; stundum plaaga þaa opeñberer Þioofar, odrum sender hañ Elld og Vatn, Vind og Ovedur, til ad tugta þaa, eñ fyrer þvi, ad þesser Fie-Pwkar ecke taka þvi so sem af Drottens Hende komnu, añadhvert fyrer hañs Lijdun edur Tilhlutan, þaa kyrker Bwksorgeñ þaa, og Aura-Elskañ, jafnvel midt i Daudanum; Nema þeir aadur sieu af huga Heimenum, og hafe golldeð þad aptur aa einhvern haatt, er þeir med raungu fraa odrum tooku, so fyrerfarast þesser Aumingiar, og verda heingder, jafnvel fyrer utañ Bodul og Snoru, og i Sañleika, christner Meñ, þaa er þad einsætt hverium einum ed erfa vill Himnarijke, ad giallda þad aptur, er hañ hefur svælt under sig fraa odrum, þvi jafnvel hiñ miñste Peningur, er hañ veit sig med oriettu hallda, hañ er Pantur Andskotans uppaa hañs Saalu, sem giefur honum Riett til heñar, so fliott sem hun skreppur wt af Kroppnum, nema hiñ hafe aadur bætt fyrer sig, ef hañ maa þvi vidkoma, og fyrer þvi ad eingeñ veit hvad mikil Um̃svif ad Daudeñ lætur honum epter, þaa er ei Raad nema i Tijma sie teked; Gud hefur alldrei heited þeim Kvittun Syndaña, sem ecke lætur af illu, og lærer gott ad giora, Es. 1. Saa ed stoled hefur hann stele ecke meir segier Paulus, Eph. 4. Tak ecke so Ord hañs, ad hañ bañe alleina ad stela fram̃vegis, enn leife ad fela þad sem allareidu stoled er, þvi Gud bijdur ecke alleina ad laata af illu, helldur og ad giora hid gooda, og skyllde þad vera fyrst af Goodgiordunum, ef so maa kalla, ad giefa þad aptur, sem einn raanglega innehelldur, og saa sem ecke hefur Leida aa Syndeñe, hañ gietur valla ætlad til Fyrergiefningar; Eñ hañ sem ecke hefur Andstyggd aa þvi Fe, er hañ raanglega took, hann hefur og ecke helldur Leida aa hinum raanglaata Giorninge: Menn vilia segia, ad þad sie omogulegt, ad giallda ollum aptur, þad sem med oriettu teked var: Hann er daudur er þu tookst fraa, þaa lifa þo kañskie Erfingiar hañs, gialld þeim slijkt er þu varst honum skylldugur, añars ertu eingu betre eñ hañ, ed svæler under sig añars Arf. Vera maa þu viter ei hvar hañ er ad fiña, edur Arfa hañs, þaa hofum vier þo fataæka jafnañ hiaa oss, þeir taka vid Arfinum, þegar eingeñ er Erfingeñ, þu manst ecke hvad morgum, edur um̃ hvad miked sierhverium þu hefur oriett giort, þetta er lijklegt, sierdeilis hafer þu til margra Ara samañ safnad, þetta er lijklegt, segie eg, þvi vier skrifum þad ecke so aa Miñis-Tobluna, sem vier tokum fraa odrum, eñ þad sem fraa oss kann teked ad vera, þvi gleymum vier ecke so braadlega: Enn aattu þar fyrer ad vera hyggiulaus hier um̃? Nei, Barn mitt, þess meira sem þu hefur fraa odrum raanglega teked, þess fleyrum sem þu hefur oriett tilgiort, þess meire Hug skalltu leggia aa Maal þitt, þad er og ecke omogulegt ad giora nockurn Jofnud i slijku: Til Dæmis; Þu veitst hversu frekt þu hefur byggt Lond þijn, hvad mikid þu hefur dregid

af

af Verkamoñum þijnum, hverſu ofmikeñ Abata þu haft hefur ⱥ þvi þu ſellder og keypter, giør ſo ſnꜹſmuglegañ Reikning vid ſialfañ þig hier uñ, ſem þu kañt, añars vill Gud reiknaſt vid þig, dæmer þu ecke ſialfañ þig, þⱥ verdur þu af honum dæmdur, 1 Cor. 11. Hañ hefur ecke gleymt þo þu gleymer, og nær þu hefur ſo giort, þⱥ kaſta nockru frañ yfer, og þo meira enn miña; ſo þu ſiert viſs uñ, ad Satan hafe ecke eina Klauf epter i Bwꝛ þijnu, helldur enn Iſrael ⱥ Egyptalande; Sie þⱥ nockud ofgollded, þⱥ er þvi ecke ſpillt, þad verdur ad Fieſiood ⱥ Himnum, þad verdꝛ ad Olmuſu, og þad er riett, Ad Giora Sier Vine Af Himum Rꜹnglꜹta Mammon. Ecke einaſta gallt Zachæus aptur þad hann ꜹnglega teked hafde, helldur og gaf hañ Helming Eigu ſinnar fátækum, þad giedjadeſt Frelſaranum ſo vel, ad hañ ſagde: A þeſſum Deige er Hwſe þeſſu Heilſa ſkien. Hallt Sꜹl þijna ſo dijrmæta, Barn mitt, ad þu ſiꜹer ecke epter nockrum forgeingelegum Alnum, til ad niota ſomu Bleſſunar, þvi jafnvel þo ecke vinne vorar Olmuſur edur onnur Verk til neins hiꜹ Gude, þar vier giorum eckert frañ yfer þad, ſem vier eigum ad giora, þⱥ eru þær Gude þo hvad kiæraſtar af ollu þvi vier bioodum honum, nær þær af Trwñe framkoma, og af Kiærleikanum, añars gyllda þær ecke, þvi þo eg bitade allar Eigur mijnar nidur ſyrer fatæka, og hefde ecke Kiærleikañ, þⱥ være eg eckert, ſegier Paall, 1. Cor. 13. Þar ſyrer ſiꜹe Menn til hvernig Menn Olmuſur giefa, ef þeir vilja ad þeir take þⱥ i eilijfar Tialldbwder, ſem þær þiggia: Ecke til Fordilldar ſier eins og Phariſæi, þad heiter ad lꜹta blꜹſa i Baſunur fyrer ſier, ad giefa Olmuſur til ad taka Vyrding af Moñum, og ſierdeilis þeir ed wtſiwga Hws Ecknâ og fodurlauſra, meinande þo ad afþvo allt ſoddañ med nockrum Olmuſugiordum, þo þad ſie beſt wr vondu ad rꜹda, ad giefa af þvi, ſem illa er feinged, eins og Zachæus giorde, og lꜹta ſo af Rꜹnglætenu eins og hañ, þⱥ ætla ecke ad þijnar Olmuſur mune gyllda miked, ef þu helldur ⱥfram i Prettunum. Lꜹt þier umhugad vera, ad þad ſie vel feinged, ſem þu giefur af: Eg elſka Riettenn og hata Rꜹned, þad er ſamteingeſt vid Brennefoornena, ſegier Drottinn hiꜹ Eſajam, Cap. 61. Hier af kunna Menn ad ſiꜹ, hvad þær Olmuſur gyllda mune i Auguñe Drottenns, ſem eirn ætlar ad betala ſialfum ſier aptur med Fe-Rꜹne af Nꜹunganum, þær eru eingu betre enn Hunds-Verd edur Skiækiu, ſem Gud villde ecke lꜹta bera inn i Helgedoomeñ ⱥ Tijmum gamla Teſtamenteſins, Deut. 23.

Þar ſyrer, nær þu Olmuſu giefur, þⱥ ſiꜹ til ad hun ſie i Gude giord. Sier tu rijkur, þⱥ gief rijkuglega, og giæt þeſs, af hverium þu Aud þiñ feinged hefur, þo ſo, ad þijn vinſtre Hond vite ecke hvad hin hægre gaf. Giæt og þeſs, ad þu giefer ecke ꜹſijted ef þu mꜹtt vel; Þad er ſtoor Synd ad hafa alls Nægter, eñ lꜹta hiñu volade ſo frꜹ ſier fara, ad hann hafe valla Magann fullann, aukhelldur til nærſta Mꜹls. Þier ſundurmerjed Andlit hinna fatæku, ſegier Drotteñ, Eſ. 3. Þoott þad ſie talad i añare Meiningu i þeſſum Stad, þⱥ heiter þad riett, ad ſundur mola Andlit hinns volada, ad lꜹta hañ horfa ⱥ Audlegd ſijna, eñ ſkamta honum ſo naumt, ad hañ ſie litlu nær; Ecke

giorde þad Drotteñ, er hañ sadde 5000. Mañs i Eydemorku, þvi Gudspiallamadurenn segier, hann hafe giefed so sem hver villde hafa, Joh. 6. Ef þu villt segia þad Nydskuñe til Umbootar, ad hañ hafe haft betre Rꜳd enn þu, þꜳ vil eg segia; Gietur þu ecke trwad honum, er þad giorde, ad hañ kuñe ad giefa þier tijufalldt aptur, vid þad sem þu gafst Vesælingnum, siertu fꜳtækur, þꜳ gief þo af Fꜳtækt þinne, slijkt er þu af matt leggia, og lꜳt þad vera af Gnægd Hiarta þijns, þvi Gud ꜳlijtur Hiartad. Lausnarenn sagde: Ad Eckiañ sw, er lagde tvo Smꜳ-Peninga i Guds Kistuna, hun hefde meira lagt enn aller hiner rijku, þvi hun gaf af Leifum sijnum alla Lijfs-Næringu sijna, Marc. 12. Vit þvi, ad þad lijted, er þu gafst, þad er Gude eins þægt, og hid mikla, er hiñ rijke gaf, þvi bꜳda yckur giorde Gud, eñ hvernig sem þier hꜳttad er, þꜳ gief med goodu Skape, þvi hijrañ Giafara hefur Gud kiærañ, segier Salomon, Paulus bijdur þad skule gioraft, ecke med Naudung, helldur med fwsum Huga, sꜳ sem med illu Giedwtelætur þad hañ giefur, hañ hefur bæde tapad þvi er hann gaf, og so þeim Launum, er hañ kuñe ad vænta af Gude, gief strax ef þu giefur, þvi hañ sem fliott giefur, hañ giefur tvisvar; Seig þu ecke Nꜳunga þijnum, far burt og kom aptur, þvi ꜳ Morgun skal eg giefa þier, ef þu hefur þad, Prov. 3. Þad giorer Vesælingenn lꜳngeygdann epter Giofeñe, sierdeilis ef Þorf hanns er brꜳd, og Gud kann ad lꜳta þig bijda eins leinge epter Hiꜳlpeñe, nær þier ꜳliggur, þvi med þeim sama Mæler er þier mæled, mun ydur aptur mællt verda, segier Frelsareñ, Matth. 7. Olmusur hafa stoora Rꜳd i Guds Auglite, Bæner þijnar og Olmusugiorder eru uppstignar fyrer Gud til Miñis, sagde Engelleñ vid Cornelium, Act. 10. Bænenn er Offur þad sem vier eigum daglega Gude ad færa, þad eru Kꜳlfar Vara vorra, Hos. 14. sem koma i Stadeñ Foornfæringa gamla Testamentesins, Olmusurnar eiga þeim ad fylgia, ei sijdur nu enn þꜳ, Olmusan blijdkar Gud meir enn Foorneñ, þvi ꜳ Myskunseme hefur hann Þocknan, enn ecke ꜳ Offre, haf Rꜳd mitt Konungur, sagde Daniel vid Nebuchadnezar: Gior Synder þijnar ad Riettlæte, og Rꜳnglæte þitt ad Myskunseme vid hina aumu, Dan. 4. Lijklegt er ad hañ hafe þad giort, og kañskie ecke apturhorfed wr Vargs-Hamnum til mannlegrar Rænu og Skyckunar ella. Ad Endingu vil eg minnast ꜳ þad, er hier sijdarst stendur i Gudspiallenu: So Ad Nær Ydur Þrijtur, Þꜳ Medtake Þeir Ydur i Eilijfar Tialldbwder. Hverier þꜳ? Guds volader Sauder: Nær þrijtur oss? Þegar vier foram nakter burt wr Heimenum, eins og vier i hañ komum: Nær medtaka þeir oss? Vegeñ leggia þeir til þess hier i Heime, med Bænum sijnum og Andvorpunum til Guds, ad þad meige oss endurgollded verda i Upprisu riettlꜳtra, er Menn gꜳfu i Guds Nafne. Johañes sꜳ i Opeñberaneñe eiñ Engel standa fꜳme fyrer Altarenu, hann hafde Reykelsis Kier af Gulle i Hende sier, og var giefed Reykelse mikid, ad hañ offrade þvi med Bænum heilagra, Apoc. 8. Eg efast ecke uñ, ad hier med eru og teiknadar Bæner voladra Þurfa-Manna, sem eru rietter Christi Limer, þetta Reykelse skylldu Meñ dijrum Doomum kaupa, þvi þad gagnar meir eñ morg Þusund

Stycke

Stycke Gulls og Sylfurs, Nauta og Sauda, eñ um̃ sijder munu þeir medtaka oss i eilijfar Tialldbwder; Þegar Konungureñ segier a efsta Doome til þeirra, sem eru a hægra Veg: Þad sem þier giordud einum af þessum mijnum minstu Brædrum, þad giordud þier mier. Komed þier hiner blessudu mijns Fodur, og eignest þad Rijke, sem ydur er fyrerbwed fra Upphafe Veralldar; Þess niootande ad verda, unn þu oss eilijfur Gud og alleina rijkur, fyrer hann sem vor vegna fatækur giordest, Jesum Christum vorn Frelsara, AMEN.

# Tijunda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 19. Cap.

Y Þañ Tijma. Og þa ed Jesus kom nær, ad hañ sa Borgena, griet hann yfer henne, og sagde: Ef ad þu visser hvad til þijns Fridar heyrde, þa munder þu a þessum þijnum Tijma þar Vaktan a hafa, enn nu er þad huled fyrer þijnum Augum. Þviad þeir Dagar munu koma yfer þig, þad þijner Ovíner munu byggia Hervirke i kringum þig, og um̃kringia þig, og a alla Vegu ad þier þreyngia, og nidur i Grun̄ kollkasta, og þijnum Børnum med þier, og ecke munu þeir i þier lata Stein yfer Steine vera, af þvi þu þeckter ecke þinn Vitiunar Tijma. Og hann gieck inn i Mustered, og took til ad reka wt þa sem selldu og keyptu þar inne, og sagde til þeirra: Skrifad er, ad mitt Hws sie Bæna Hws, enn þier hafed giort þad sem annad Spillvirkia Inne. Og hvern Dag kiende hañ i Musterenu. Eñ Kieñemaña Høfdingiar og skriftlærder og þeir yppurstu Lijdsins, leitudu fast epter, ad fyrerkoma honum, og gaatu þad ecke funded, hvad þeir skylldu giøra honum. Þviad allt Foolked hnie ad honum, og hlijdde hañs Ordum.

## Exordium.

Vel wtmaalar H. Paulus þad Skrijmsle Agyrndena, er hann segier, 1. Tim. 6. Þeir sem ad rijker vilia verda, þeir falla i Freistne og Snorur, og i margar Gyrnder vitlausar og skadlegar, hveriar ad steipa Mañenum i Tøpun og Fordiørfun: Þetta er Deigenum lioosara, þvi under þenna Skap-Lost þienar so miked Illþijde añara Lasta, ad valla er nockur sw Odyggd, ad ei þarfe hun Lid af ad byggia, nær hun er mognud; Eins og einn Stoor-Herra þarf margra Þienara, so er og Ovættur þesse, hun tekur heila Sveit af sijñe Kynslood i Lid med sier, Lijge, Roogur, Bakmælge, Meinsære, Flaattskapur, Undethyggia, Ofrijke, og jafnvel Mord og Manndrap eru hennar Forunautar, þad vottar Postuleñ skom̃u sijdar i þessum sama

Capitula, er hann segier: Ad Agyrndenn sie Root alls Ills, i hveria þegar nockrer fijkst hafa, þa hafe þeir villst fra Trwne, og sialfa sig i giegnum lagt med Harmkvælum morgum. Hinn agiarne hefur otal Veidebrellur til Utvega sinna, enn ecke hefur Diefullenn færre Snorur, til ad veida hann: Hvad drap Achan? Jos. 7. Hvad rænte Achab Rijke og Fiore? Hvad sealgade Judæ? Matth. 27. Allt saman giorde þetta Fie-Gyrndenn, og otal fleira sem ei verdur uppreiknad, og kunnugra er, enn med morgum Ordum segia þurfe. Nu eru þo marger Veiger til ad verda rijkur, sumer leyfeleger, sumer oleyfeleger: Hiner fyrre eru Blessan Drottens, Astundan i sijnu Embætte, og christeleg Fyrerhyggia, og annad þvilijkt, sem eg hefe nockud drepid a i nærst fyrerfarande Predikun; Hiner oleyfelegu eru so marger sem Agyrndenn fær uppdyktad: Enn med þeim hættustu er oradvond Kauphondlan, hverrar vegna ad Drottenn kallar, ad Guds Hws sie orded ad Ræningia-Bæle hier i Gudspiallenu, þvi segier Syrach Cap. 27. Einn Kaup-Madur gietur valla vared sig Oriette, nie einn Kramare fyrer Syndenne. Nu fyrer þvi, ad eg hefe ecke til forna i Book þessare neitt merkelegt um þenna Hlut ritad, sem þo er harla naudsynlegt ad vita nockud um, þa vil eg taka mier Ordsok af Vandlæte Drottenns, til ad hugleida tvennt hier af, sem er. 1. Hver ad sie leyfeleg Kaup-Hondlan. 2. Hver ad sie oleyfeleg.

Hialpa oss goode Gud til þessa Verks, fyrer Jesum vorn Drotten, A M E N.

## Utleggingenn.

Þad er vijst, ad ecke gietur Verolld þesse stadest an Kaup-Hondlunar. Mismun hefur hinn alvijse Skapare giort bæde Landanna og Mannanna, enn eingum hefur hann giefed allt, þvi hann ætlade sialfum sier allt, rijkur og fatækur mætta hver odrum, segier Salomon, enn Gud hefur giort þa bada, Prov. 22. Hann meinar rijkann, rijkann, enn fatækann, fatækann, þvi hvertveggia kiemur af honum: Hvar fyrer mun nu hinn almattuge so giort hafa? Gat hann ecke alla fullrijka giort, sem a alla Jordena, og þad sem þar inne bygger? Ad vijsu gat hann; Hvar fyrer er þad so skied þa? Eingenn hefur ad sonnu hans Radgiafe vered, enn þo ma þad skilia, ad hann hefur giort þennann Mismun til ad lata dijrdka sig af badum, af þeim sem noog hafa, med Kiærleikans Verkum, af hinum sem Skortenn lijda, med Polenmæde, enn þo ecke sijdst til ad lata daudlega Menn æfa sig i Riettvisenne og Kiærleikans Verkum, i allre Hondlan og Vidskiptum, þar eingenn er sialfum sier fullnoogur um allt, ad ei sie hann annars þurfe i einhveriu: Brwke þvi nockur Kaupmannskap, þa æfer hann eingann illann Hlut, helldur naudsynlegann: Gud hefur ecke fyrerboded sialfann Hlutenn; Helldur Vanbrwkun Hlutarens: Vigt og Mæler eru þeir Hluter, sem Kaup-Hondlan ma ecke an vera, þad hefur Gud ecke bannad, enn ranga Vigt og Mæler hefur hann fyrerboded, Lev. 19. Og þetta er ecke sijdst ad taka Vara a i Vidskiptum Manna: Riett er og hverium Manne ad kaupa þa Hlute, er hann vid þarf, til þessa Lijfs-Næringar, edur skickanlegrar Brwkunar, sem Gud hefur ecke i sijnu heilaga Orde fyrerboded; So keypte

Abraham Landed af Hephron til ad grafa Kvinnu sijna, Gen. 23. Jacob keypte Land under Bw sitt af Sonum Hemors, Gen. 33. Joseph keypte Fie hinna Egyptisku til Handa Pharao fyrer Atvinnu, Gen. 47. Jeremias Akuren af Chanameels Syne Fød-urbroodur sijns, og giørde Giørning þar um, Jer. 32. Og Samuel samlijker forsiaalle Konu og ydinne vid Kaup-Skip, þvi ad hun sæke Fædslu sijna langt ad, Prov. 31. Fyr-er þvi er þad saklaust ad brwka Kaup-Hondlan um þvilijka Hlute. Aller þesser Menn, er eg strax upptalde, voru Guds Viner; og kunna Menn ecke annad um þaa ad ætla, enn ad þesse Hegdan þeirra hafe leyfeleg vered; Enn ef þeim var saklaust ad kaupa, þa var og hinum syndlaust ad giora þad, falt, er þeir selldu, þvi ecke er Kaupande nema Seliande sie. Lydia sw er Paulus skijrde i Borg þeirra Thyatirorum, Act. 16. Hun selde Purpura, og heyrest ecke ad Postulenn hafe bannad henne Hondlan sijna, og var þetta þo ecke so miog naudsynlegur Hlutur til Lijfs-Næringar, sem hun hafde med ad fara. Saa ed selur Handa-Verk sijn, hverin Nafne sem heita; Hann brwkar saklausann Kaupmannskap, þvi hann neyter Brauds sijns i Sveita sijns Andlitis, ef hann ecke fals-ar Verkefned, edur brwkar i þvi adra Raangsleitne, fyrer hvilijku munn hier epter Raad giort verda i sijdara Partenum. Hann ed selur þad, er hann missa kann wr Bwe sijnu, þeim ed vid þurfa, hann giorer goodann Hlut, sierdeilis ef hann ecke innehelldr þvi er hann maa ann vera, nær hinn er naudstaddur: So giorde Joseph, þegar Gud sende Hwngur i Egyptaland; Og þo ad Herodes Konungur Aschalonita være hinn versti Madur, þaa var þad þo Lofs verdt af honum, sem Joseph Sagna-Meistare skrifar, ad hann hafe sellt jafnvel Gersemar sijnar fyrer Atvinnu handa Þegnum sijnum. Þeirra Adferd er og saklaus, sem hafa Fie i Hondum, og kaupa naudsynlega Hlute, a medann Nægter eru af þeim, til ad selia odrum sem fatækare eru, og ei hofdu Raad til ad kau-pa til margra Ara, og þo þeir abatest nockud þar af fyrer Omak sitt, þa er þad ecke Synd, nær þad skiedur med Jofnude og ann Okurs, og þad hygg eg ad sie hid sama, sem Paulus bijdur, 1. Cor. 7. Ad þeir sem kaupa, sieu so sem ad ecke eige þeir, þad ræd eg af þvi, er hann seger strax epter, ad Menn skule brwka so Heimenn, ad Menn ecke vanbrwke hann, þad skil eg so, ad Menn fære sier i Nyt þaa Hlute, er Gud hefur lannad, þo so, ad þad ei verde med Asælne vid Naunganu, til ad giora sig rijkann enn hann fatækann, sierdeil-is þar hann i þessum Stad er ad tala um þa stuttu Tijd, er Menn eiga ad fast vid þetta tij-manlega. Þeirra Atburder eru og riettvijser, og nærsta þarfer, er færa þaa Voru yfer Hafed, sem eitt Land maa ecke ann vera, nær þeir giæta þess er St. Paall bijdur, 1. Tess. 4. Eingenn yferstijge edur asælest sinu Broodur i nockurre Hondlan, þvi Gud er Heg-nare alls þessa. Enn nær þeir giora þad til ad hafa þar af sitt ærlegt Uppbellde, enn ecke til þess alleina ad verda rijker af Þorf annarra, þa er þeirra Verk einganvegenn lastande, og maa um þaa segia eins og um hvern annann, sem ver Erfide og Ydiu sinne til ad hiaalpa Naunganum, ad verdur er Verka-Madurenn Launa sinna: Fyrer þvi a ecke Kaupand-enn ad sia Offsoonum yfer þvi, þo þeir abatest, ef þeir giora hann ecke ad Logræninge,

siердeilis þar hann vogar Lijfe og Gootze til ad slaa hinum sorged, þvi hvertveggia þetta eru dijrmæter Hlnter, og Liifed ad vijsu hinn kostulegaste af Veralldar Munum, jafnvel ad Vitne Satans, er hann sagde, Job. 2. Hwd fyrer Hwd, og allt hvad Madurenn aa, mun hann giefa fyrer sialfann sig: Þvi aa ecke ad misunna þeim nockurs Agooda, er so miked leggia i Sölurnar: Þad kann og til ad bera, ad þesshattar Kaup-Madur, giore þeim eingan Oriett, er hann selur Voru sijna frekt, ef hann maa hana annarstadar kaupa dijrum Doomum, og þad kiemur eitthvad aa mille, sem hindrar Asetning hanns, þvi þad er eins og hvert annad Tilfelle i Utriettingum vorum, og er þad margt sem Kaupande kann ecke ad vera so froodur um, ad hann vite hvert hinn giorer Oriett edur ei, maa hann þvi ei strax vijta hinn þar fyrer, og þo hann visse sier Oriett giordann, þaa giorer hann sialfann sig eins sekann, ef hann vill rietta Hluta sinn med odrum Oriette, þvi þad heiter ad giallda illu illt, hvad Gud hefur bannad. Þetta er nu so sagt um þaa Kaup-Hondlan, sem leyfeleg er, epter þvi sem i stuttu Mäle sagt verdur, hvert þo betur skiliast mun, af þvi er i hinne sijdare Greinenne talad verdur, um þad sem er oleyfelegt i nockurre Kaup-Hondlan.

Þier erud eins og Snara i Mizpa og wtþaned Net yfer Tabor, segier Gud vid Israel, Hos. 5. Af þessum Drottens Doome attu Kiennemennerner ecke hinn minsta Hlut, vegna Agyrne sinar, so sem raada maa af Textanum; Enn ecke voru þeir raadvandare, þegar sia Drottnarenn kom til sijns Musteris, sem rak wt þadan Seliendur og Kaupendur, so sem i Gudspiallenu stendur; þad verdur sannad med Ordum Hieronymi Læresodur, hverra Meiningu eg vil setia hier ad nedann, til Froodleiks þeim er epter taka vilia, enn ollum til Vidvorunar, þvi sierhver christenn Madur aa ad vera Guds Kiennemadur i Hiarta sijnu, sem er Mustere heilags Anda, hann skrifar aa þaa Leid i sinne Utskijringu yfer Matthæi 21. Capitula: Kiennemennerner uppþenktu hvernenn þeir giætu abatast af Almuganum, og selldu allann Fienad þann er þurfte til Fooriaanna, so ad þeir selldu þeim er ecke hofdu, og tækiu sialfer aptur þad þeir sellt hofdu: Enn þenna Prett þeirra hindrade Fatækt margra, sem ecke einasta ei hofdu þad þeir kynnu ad offra, helldur og ecke þad þeir mættu kaupa med, þvi tilsettu þeir þaa ed lanudu Peninga. Enn fyrer þvi ad i Logmaalenu var bannad ad taka Rentu, og lanad Fie kunne ecke ad gagna fyrer utan Avoxt, þaa uppþenktu þeir annad Bragd, ad þeir tilsettu þaa er i stadenn fyrer Peninga-Rentu tækiu adskiliannlega Avexte, so ad þad sem ei leifdest ad taka i Peningum, þaa tækiu þeir i þeim Hlutum, sem med Peningum keypter eru. Fyrer Rangsleitne þessa og Hreckvijse rak Drottenn wt þaa ed med þessu Moote selldu og keyptu i Musterenu, af hverium flester voru Þienarar Kiennemannanna, edur þeim aahangande.

Hugleided nu, christner Menn, hvad miklu gofugre og dijrdlegre ad er Guds Kyrkia medal vor, helldur enn Jerusalems Mustere, þar hun er bygd uppaa Grundvoll Spaamannanna og Postulanna, hvar sialfur Jesus Christur er Hyrningar-Steirnenn, Eph. 2. Sia þvi til hver og eirn, ad ecke verde hann wtrekenn wr hinne sonnu og osynelegu Guds

Kyrk-

Kyrkiu, fyrer soddan rangsnwen Kaupmanskap, enn þvi er æ verr og midur, ad eg hygg ad margur temie sier þessa Ohlutvendne, sem ætlar sig vel christen: Gydingum vard þeirra Hws i Eyde lated, fyrer þessa og adra Glæpe; En væru þeir aller wtrekner wr Guds Kyrkiu, sem þvilijkt adhafast nu i Heimenum, þa ugger mig ad verda munde þunnskipad þar inne; Edur hvad er þad, christner Menn, þegar ad einn selur sijnum Naunga einn Hlut, enn dylur þa Leste er hann hefur? Ja, hroosar honum i mesta maata, þo liwgande, og a stundum sver vid Guds skielfelegu Hatign, ad þad sie so sem hann segier, og hversu marger Klæker eru þa samankomner, til ad steipa eins Syndara vesælle Saalu i Helvijtis Afgrunn? Hier er Þioofnadur, hier er Lijge, hier er Meinsære ef til vill, minna næger: Sierhvert af þessu, er noog til ad fordæma Syndarann, hefur ei Gud bannad ad stela, ad liwga, ad leggia Nafn sitt vid Hiegooma? Þier skulud olldungis ecke sveria, segier Lausnarenn, enn ydar Ræda sie ja, ja, nei, nei, Matth. 5. Hvad vill þad þa verda? Ad leggia þad vid Svik og Prettu, so þad er nærsta undarlegt, ad nockur skule meta Saal sijna so lijtels, og voga henne fyrer so lijtenn Hiegooma, og nærre þvi fyrer eckert a stundum. Ad ei tale eg þar umm, ad hann sem veit ad Gud er til, skule so berlega forsmaa hanns stooru Hatign fyrer einkis verdann Hlut. Eingu betre er hann sem gyller vonda Voru med einhverin Taale, þvi jafnvel þo ecke liwge hann sialfur, þa lætur hann Hlutenn liwga, enn Þioofnadurenn er allur hinn same. Þessu er þad lijkt, ef nockur selur einhverium þad hann þecker ecke, og hefur ei Vit a ad dæma umm, hvert þad er illt edur gott, þad eru banvæn Svik, þvi sa þad giører, hann selur odrum Heimsku sijna, og veider hann i Nete Faakiænsku sinnar, þetta er altijtt þeim, er leyna þvi sem gagnlegt er fyrer hinum einfallda, enn biooda þeim hid onijta, og af þessum Prett vaxa tvær adrar stoor Skamer, sem er, ad hann er þvilijkt æfer, fagnar i Hiarta sijnu, hversu forsiaall hann vered hafe, og þackar Abatann Svinnu sinne, enn hins Osvinnu forsmaaer hann, og skammast sijn ecke ad hroosa þessu fyrer sijnum Lijkum, leggur so Drambsemennar, og Sialfshælnennar Synd til Þioofnadarens, og er þa ecke Von a odru verra, nær Diofullenn hefur so blindad einn, ad hann stærer sig af Klækiunum, eins og Lamech, er hann hroosade sier af Foolskunne vid Kvinnur sijnar, Gen. 4. Med þessum eiga þeir Sess i Andskotans Rijke, sem brwka falska Vigt og Mæler, umm hveria eg hefe noog sagt, þegar eg segie þad med Salomons Ordum: Ad þvilijkt sie Andstiggd fyrer Gude, sa þad giører, hann uppskier hvar hann ecke saade, og selur einum þad hann alldrei fieck. Þeir ed setia Voruna of dijrt, og miklu hærra enn ad svarar þeim Abata er þeir med riettu hafa meiga, fyrer Omak sitt og Umhyggiu fyrer sijnum Kaupmannskap; Þeir meina ad sonnu ad vera saklauser, og helga sig giarna þar med, ad eingann bidie þeir ad kaupa ad sier, og Vara þeirra sie osvikenn; Enn hier i er þo margt athugavert, sie so ad eg hafe einhvern Hlut, þann eg maa ecke missa ann mijns Skada, enn hann ætlade sier mikenn Hagnad af, er kauper, þa er þad ad sonnu riettvijst, ad eg selie hann nockru dijrara enn eg keypte; Enn ef eg hefe þann sama Hlut til Solu og vil hann falann laata, þegar

mier lijkar Andvirded, eñ Brooder edur Syster eru naudstodd, so þau gieta ecke ann hañs vered, og eg brwka Neyd þeirra Voru miñe til Gylldis, þa er þad stoor Synd, og eingu betra eñ þad, sem aadur er upptaled, þvi þad heiter ad selia einum Þorf sijna? Eñ hverneg kañ hann ad giora Hluteñ betre edur dijrmætare, i sialfum sier, helldur eñ hañ være þar fyrer utañ? Kañ nockud Hwngur Naungans ad giora þiñ Mat betre, og ef ecke betre, þa ecke helldur dijrmætare, edur hañs Berleike, þad Fat er þu selur honum kostulegra? Þetta er nockurskonar Hæglætis-Ofrijke, og Ulfur under Saudar-Giæru, þvi hvert eg sviik Fie wt af einhverium, sem ecke maa ræna mig þvi sem honum aliggur, edur og ræne hann Fie sijnu, þvi er eg hefe eingañ Riett til, þad er allur hinn same Oriettur i Guds Auglite. J þessum Flocke vada þeir ed kaupa upp alla Voru, þaa sem hiñ fatæke maa ecke aan vera, nær þeir hafa noog i Hondunum, eñ selia hana so dijrt aptur, sem sialfer vilia þeir, nær Neydeñ þreynger, og þo eru hiner hvad verster, sem hafa a Bodaange gyrnelega Hlute, og þo alldeilis oþarfa, enn laata þa so dijrt, sem Agyrndeñ bijdur, nær Daareñ sparar ecke fyrer ad glefa, til þess ad slockva Gyrndenna um stundar-saker, enn svelltur sijdañ. Þetta er ad selia einum Synd sijna, sem er hiñ verste Kaupmannskapur; Þetta er ein Andskotans Svipa, af morgum Streingium, morgum Syndum fliettud, þvi fyrst kauper hañ þesshaattar Voru til ad leggia Taal Beitu fyrer hinn heimska, sijdañ fletter hann Fie sijnu, og eptera hæder ad honum, eñ prijsar sialfañ sig og Kiænsku sijna, og þad er ecke ollu betra enn Bileams Raad, hver ed liet Jsraels Sonu glæpast a Moabitaña Konum, Num. 31. Aller heilvita Menn, sem þetta lesa edur heyra, þeir munu nærre gieta, hvar um eg tala, og er allt of margt af þessu Illþijde i Lande voru. Þetta er nu so talad um hañ ed selur, enn þo ad Kaupande og Seliande sieu nærre þvi hid sama, þar eingeñ selur nema hann kaupe, og eingeñ kauper nema hann selie, þa giora Meñ þo Mismun þañ i daglegu Maale, ad sa heiter Seliande, er hefur Voru til Kaups, eñ hinn Kaupande, er ad honum kauper, og þvi hefur hañ og nockurs ad giæta. Einhver kann a stundum ad selia þad hañ ecke veit hvad kostar, og er þeim þa vant, sem ad honum kauper, ad ecke aswælest hann sinn Naunga i sinne Hondlan; Ja, i Sañleika, giefe hañ miña fyrer Hluteñ eñ ad hann verdur er, þa er hañ eins sekur i Guds Auglite, so sem hiñ, er sellde þeim ofdijrt nockurn Hlut, er ei veit hvad hañ kauper. Einn neydest til ad selia Eigu sijna fyrer Hwngurs Saker, edur einhvern Atviñu-Brest, so hañ gietur ecke beded epter þeirre Tijd, sem hañ kuñe ad fa Lijfs-Næringu med odru moote. Faae hañ ecke Josnud af þeim er kauper, þa giorer Kaupmadureñ stoora Synd, og er eins sekur, og hiñ er selur odrum Þorf sijna: Baagt er allt þvilijkt upp ad telia i stuttu Maale, eñ giæte Meñ þess, er Drotteñ sagde fordum; Hvad þier vilied ad Meñerner giore ydur, þad sama giored þeim eiñeg, Luc. 6. So og þess Syrach skrifar, Cap. 27. Eins og Fleigureñ klemest a millum Mwr-Steina, so þreingest Syndeñ a millum Kaups og Sals, fyrer þvi er þeim einsætt, er giort hafa slijka Hondlan ad Handverke, kañskie leingur eñ skiemur, sunner-

hverier

hverier, þeim er einsætt, segie eg, ad rañsaka nockud Atferd sijna i þessu, og ef þeir finna Ranglæte hia sier, ad bæta þad med sañre Ydran, eñ hun er alldrei af Alvoru, nema Meñ giefe þad aptur, sem ranglega var teked, hvar uñ eg hefe nockud talad i nærst fyrerfarande Predikun, og vil þad ecke hier aptur itreka: Alleina vil eg rañsaka tvennslags Affsakaner, sem Menn plaga ad giora sialfum sier i þvilijkum Tilfellum. Ein er su, ad nockrer læitast giefa Olmusur af þessu rangfeingna Gotze, og þurfe þvi ecke aptur ad leggia, enn giæt þess, ad þad sem fatækum er giefed, þad kallast Gude lænad, eñ Gud vill ecke Þioofs Nautur vera, þad sem honum er giefed ma velfeinged vera, ef þad a honum ad lijka: Þvi er þad riett er Syrach skrifar, Cap. 34. Sa sem færer Foorn af Eigu hiñs fatæka, þad er so sem hañ slatre Synenum i Augsyn Fodursins: Braud hinns þurftuga er Lijf hins fatæka: Sa ed svijkur hann, sa er Bloodgijrugur. Olympias Mooder hins stoora Alexandri hun helgade Af-Gude sijnum þad Sverd, er Madur hennar Philippus Konungur var drepenn med. Alexander Pheræus giorde hid sama vid Leusuna, med hverre hann vo Fodur-Broodur sinn Polyphronem, og somu Atferd hafde Keysareñ Antonius Caracalla, er hañ lijfliet Broodur siñ Getam; Aller Meñ kalla þetta illa giort, eñ ecke mun vera so stoor Munur a þessum Odæda-Verkum i Guds Auglite, og hinu, ad svijkia Naungans Braud wt af hañs Muñe i Kaupum og Solum, eñ læitast giefa Gude þar af aptur, edur hañs Vesælingum, so miked sem þeim sialfum lijkar. Þad geingur nærst þvi, ad kasta Bloods-Verdenu iñ i Kyrkiuna med Juda; Eñ þo vil eg segia þad sem eg hefe adur sagt, ad ef Madur fær ecke aptur skilad þeim sama er nockur hefur Oriett tilgiort, þa er ecke añad Raad, enn ad giefa so miked fatækum, sem einn meinar sig epter sinasmuglegt Rañsak Samvitsku sinnar, ad hafa med Oriette teked. Dyliest og eingeñ vid þad, ad Syndeñ verdur ecke tilgiefeñ, nema aptur sie golldeð hid rangfeingna; Þvi so segier Drotteñ fyrer Muñ Ezechiels, Cap. 33. Ef hinn ogudlege giefur Pantenn aptur, og lætur Raaned af Hende, og geingur epter Lijfsins Bodorde, og giorer ekkert oriettvijst, þa skal hann lifa og ecke deya: Med þessum Skilmaalum hefur Gud Syndarannm Vægdenne heited, enn annars ecke: Hier uñ hefur Augustinus Lærefader vel talad i einum Stad. Ef ad annars Fie (af hverju Syndeñ kiemur) kañ aptur ad gialldast, eñ verdur þo ecke golldeð, þa er þad ecke soñ Ydran, helldur læte heñar; Syndeñ verdur ecke fyrergiefeñ, ef ei er aptur fært þad burt var teked.

Oñur er þeirra Afsbotun er segia, ad ei meige þeir aptur lata, þad þeir med rangu teked hafa, Sokum Dyirdingar þeirrar, er af þvi fylger, og ad Fiar-Hluter sieu miña verder eñ gott Mañs-Ord, eñ þesse er og so nærsta ogylld. Fyrst er þad, ad slijkt verdur alldrei af nockrum ærlegum nie gudhræddum Mañe misvyrdt, eñ Doom hinna Odvendu ma sa ad litlu hafa, sem ætlar sier Guds Barn ad verda, hann ma segia med Paale; Þad er mier fyrer miñstu, ad eg af ydur dæmdur verde, edur af mañlegum Deige, Drottenn er sa sem dæmer mig, 1. Cor. 4. Þar ad auke, eru so marger

Veiger til ad bæta þeim er Ranginden̄ lided hafa, so ei verde þad Heyrum kunnugt: Og hverneg sem þessu er vared, þa er betra ad missa Virdingu sijna hier i Tijmanum, helldur en̄ eilijflega. Þegar Drotten̄ rak wt Seliendur og Kaupendur wr Musterenu i fyrra Sin̄e, Joh. 2. Þa giorde hann Svipur af Streingium, er han̄ brwkade til þessa Vandlætis: Han̄ vantar en̄ nu ecke Svipur til ad reka wt þa er med soddan̄ Hætte kaupa og selia i han̄s Kyrkiu medal vor: Þar er Svipa Logmalsins, er seger: Þu skallt ecke stela, a henne er ein̄ Hnwtur riden̄ med þessum Hætte, bolvadur sie sa ed ecke helldur allt þad i Logmalenu ritad stendur, Devt. 27. Þar er ein Svipa jafnvel i Evangelio, er slær med þessu Hogge, giored Ydran, þvi Guds Rijke er nalægt, hvert þad Trie sem ecke ber goodan̄ Avoxt, skal upphoggvast og i Elld kastast, Matth. 3. Þar er hin skarpa Svipa han̄s Hegningar, sem er tilbwen̄ þeim ed eta a Hrygg hins vesæla og naudstadda, og eta Ranglætesins Braud i han̄s Sveita. Eg segie en̄ þa aptur, Drottenn rak wt wr Musterenu þa er selldu og keyptu: Þad var stundlegt Vandlæte, margur af þeim sonu mun sijdan̄ hafa a han̄ trwad sier til Myskunar, en̄ ad vera wtreken̄ wr þeirre himnesku Jerusalem, þad er eitt Straff ollu þijngra, þad er eilijf Sman, og obætan̄legur Skade; Fra hverium oss og alla christna Men̄ vardveite hin̄ goode Gud fyrer Sonarens Forþienustu, og giefe oss so ad ræckia þetta jardneska, ad vier ecke afrækium þad himneska, helldur stundum epter hinu gooda Hlutskipteun, sem eingen̄ ma af oss taka; Þess giefe oss niootande ad verda, hinn myskunsame Gud, fyrer Jesum Christum, Amen.

# Ellefta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 18. Cap.

A Þeim Døgum. Jesus sagde til nockra þeirra sem treystu uppa sialfa sig, lijka sin̄ mundu þeir riettlater vera og forsmadu adra, þessa Epterlijking. Tveir Men̄ geingu upp i Musterid ad bidiast fyrir, ein̄ var Phariseus, en̄ an̄ar Tollheimtu Madur. Phariseaeren̄ stood og badst nu þan̄en̄ fyrer med sialfum sier. Gud, eg þacka þier, þad eg em eige so sem adrer Men̄, Raningiar, oriettvijsir, Hoordooms-Men̄, eda so sin̄ þesse Tollheimtu-Madur. Eg fasta tvisvar i Viku, og eg gief Tisunder af ollu þvi eg a. Og Tollheimtu-Maduren̄ stood langt i burtu fra, og villde ecke upplypta sijnum Augum til Himins, helldr barde han̄ sier a Briostid, og sage: Gud, vertu mier syndugum lijknsamur. Sannlega, segie eg ydur: Þesse foor riettlatur framar hinum i sitt Hws. Þviad hver sa sem sig sialfan̄ upphefur, hann skal nidurlægiast. Og hver sem sig sialfan̄ nidurlæger, hann mun upphafen̄ verda.

Exordium.

## Exordium.

Eingenn Hlutur er so vidurstyggelegur i Guds Auglite, so sem dramblaatt Hiarta, og eingenn so þægur honum, so sem audmiukur Ande. Dramblaatum hratt hann af Stoole, eñ upphoof lijtelaata, segier Guds Mooder i Lofkvædenu, Luc. 1. Gude alleina tilheyrer Tignen, hann hefur sinn Stool a Himnum settann, enn Jordenn er hans Foot-Skor, þar situr hann uppe, og sier a þad laaga, Jehova er hanns Heite, og sijna Dijrd vill hann eingum giefa, Esa. 42. Allt hvad dyrduglegt er, hvad gott er, hvad agiætt er, hvad prijdelegt er, hvad heilagt er, þad kiemur allt fra honum: Eñ vilie nockur tileinka sialfum sier nockud af þessu, so sem sialfum sier, þad er, sem villde hann ræna Gud sijnu, þad er riett ad stela helgum Doomum, og þad er Afguda-Dyrkan, þvi valla veit eg hvert þad er meire Synd i Guds Auglite, ad falla fram fyrer Trie-Stobbanum, helldur enn ad giora sialfann sig ad Gude, og segia med Pharao; Hver er Jehova, þad eg skule ottast hañ? Exod. 5. Edur med hinum blindu Judum: Gude skeitum vier ecke, og hvad villde oss Konungurenn giora? Menn hallda sumer, ad þad hafe vered Svijvirding Foreydslunnar, sem Drottenn talar um, Matth. 24. Ad Bijlæte hiñs Roomverska Keysara hafe sett verid i Jerusalems Mustere; Enn þad er Svijvirding Foreydslunnar riett kelluð, þegar Madureñ setur sitt eiged Bijlæte iñ i Guds Kyrkiu, sem ætte ad vera hanns Hiarta, eins og Pharisæus þesse: Soddann Mañ er Glotuneñ bweñ, nema hann audmyke sig bradlega under vollduga Guds Hond, þvi Gud mootstendur dramblaatum, og þarf sa ecke ad vænta sier annars verra, sem hefur Konung Himnanna fyrer Ovin. Drotteñ talade Epterlijkingu þessa, segier Lucas, Til Nockurra Þeirra, Er Treystu a Sialfa Sig, Eñ Forsmaadu Adra: So sem eckert er vidurstyggelegra i Guds Auglite, eñ Hofmoodureñ, so er honum valla nockurt þægra, eñ audmiukur Ande; Þad sijna oss Dæme Ephraims, Dæme Manassis, og ecke sijdst Davids Konungs, allvijda i hañs Psalma Book. Eg jaatade Drottne Synd mijna, og þa fyrergafstu mier þad, segier hann, Ps. 32. Og eñ aptur, Drottenn vardveiter Litilmagnana, eg audmykte mig, og þa vard eg frelsadur: Og bed sijner oss Dæme Tollheimtu-Mañsins, hvern Lausnarenn sijnest framsetia hier i Epterlijkingunne, ollum sorgbitnum Afbrota-Monnum til Huggunar. Vilium vier þvi tvennt af Gudspiallenu hugleida.
1. Einn skynhelgann Hræsnara. 2. Einn Ydrande Syndara.
Styrk oss hier til Drottenn minn i Jesu Nafne, AMEN.

## Utleggingeñ.

Inngangur til þessa. Maals hia Gudspiallamanninum, er þannveg. Eñ Hañ Talade Til Nockurra, Er Treystu Upp a Sialfa Sig, Ad Þeir Væru Riettlaater, Eñ Forsmaadu Adra, þessa Epterlijking. An alls Efa eru hier inz Pharisæl meinter, þar fyrer setur Drotteñ eiñ Pharisæum i Epterlijkingunne, so sem Dæme

eins Sialfbyrgings, er ei þyrfte mikid af Gudi ad þyggia; Þess vegna eru þeir i Grein þessare med sijnum eigeñ Lit afmaalader. Þeir villdu vera fraaskilder odrum Moñum, þad sijner þeirra Nafn, Phariseus, þad merker adgreindañ edur fraaskileñ. J morgu var þetta foolged, sem ecke er naudsynlegt hier upp ad telia, eñ þo var þad helsta, ad þeir þootust odrum heilagre, þad dylur ecke þesse þeirra Brooder, er hann segier: Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer Menn, þvi kolludu þeir Almwgañ Jardareñar Foolk, eñ sialfer þoottust þeir himnesker vera, og Borgar-Meñ heilagra, so sem Paulus nefner christna Menn. Edur hvad var þad þeir sogdu i Raadeñu fordum, þegar Nicodemus villde hafa maellt Frelsaranum Lids Yrde? Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingunum aa hañ, edur af Phariseis? Eñ þetta Foolk, sem ecke veit Logmaaled, þad er bolvad. Þeir villdu ecke Samneyte eiga med Tollheimtu-Moñum og Syndurum, þvi lostudu þeir Frelsarañ, ad hañ giorde so, Matth. 9. Jaa, þeir meintu ad þeir saurguduft, er snertu þaa. So sagde Hraesnareñ Simon fordum, þegar hin bersynduga sat graatande vid Fætur Drottens, Luc. 7. Ef þesse være Spaamadur þaa munde hañ vita hver og hvilijk ad þesse være, er hann snerter, þvi hun er syndug. Um þvilijka Drambseme, þvilijka Skynhelge talar Esajas under soddann Mañna Persoonu, Cap. 65. Kom ecke nærre mier, og snert mig ecke, þvi eg em þier heilagre. O miñ Jesu! Er ecke þetta ad giora sig Gude lijkañ, uærre hverium eckert saurugt maa koma? Ecke breytter þu so, Drotteñ miñ, þegar þu aatst og drackst med Tollheimtu-Monnum og syndugum i Hwse Matthæi, Matth. 9. Þegar þu giorder hañ jafnvel ad þijnum Læresveine, þegar þu maellteft ad Fyrrabragde til Dag-Verdar af Zachæo, þegar aller Tollheimtu-Meñ og bersynduger flycktust ad þier, til ad heyra þig, og þu maatter lijda Brixl Phariseaña þar fyrer, Luc. 15. Þu varst Guds Mynd, sem er eiñ forterande Elldur, Devt. 4. Þo hiellstu þad ei fyrer Raan, ad þu Gude jafn varst, helldr lijtelæckadir sialfañ þig, tookst aa þig Þræls Mynd, ordiñ Moñum lijkr, Philipp. 2. Tveir Meñ Geingu Upp J Musktered Ad Bidiast Fyrer, Eiñ Var Phariseus, Eñ Aññar Tollheimtu-Madur. Vier vilium fyrst hugleida Phariseaans Bæn; Af þvi hañ þootteft vera Madureñ meire, og hvad hañ talde sier til Gylldes fyrer Gude. Hañ Stood Ut Af Fyrer Sig: Þess var og oll Von, ad hañ munde vilia odrum fraasneidder vera i þessu, sem ollu odru. Hverneg badst hañ þaa fyrer? Eg Þacka Þier Gud, Ad Eg Em Ecke Eins Og Adrer Meñ. Hvilijkur var hañ þaa? Ad vijsu betre morgum odrum i wtvortis Lijfernis Hattum: Eñ hid innra morgum verre i Guds Auglite, Þad saña eg med Ordum Frelsarans, er hañ sagde, Matth. 21. Tollheimtu-Meñ og Skiækiur munu fyrr iñgaanga i Guds Rijke enn þier, þvi Johañes kom til ydar med Veg Riettlætesens, og þier trwdud honum ecke, eñ Tollheimtu-Meñ og Skiækiur trwdu honum. Þetta er Dagsaña, þvi Tollheimtu-Moñum sagde Johañes, Luc. 3. Er þeir komu til hañs Skijrnar: Taked eckert framar eñ þad sem boded er; Eñ vid Phariseos sagde hann: Þier Nodru-Kyn, hver hefur sijnt ydur ad umflija tilkomande Reide?

de? Fyrer þvi, giored verduga Avoxtu Ydraneþe, Matth. 3. Enn þad giordu fæster af þeim, so var Hug-Þootteñ rijkur i Giede þeirra. Hvad er nu framar? Hann segiest Ecke Vera Eins Og Ræningiar: Ecke talar Frelsareñ um einn, helldur enn annañ i þessu Maale, helldur er eiñ settur til Dæmis fyrer marga, so sem i hverre añare Epterlijkingu; Munu þvi aller hafa ætt oskiled Maal af þessum Flocke. Enn hvad er þad þaa, sem Frelsareñ segier, Matth. 23. Ad þeir wtsiwge Hws Eckna og fodurlausra, under Hylmingu længra Bæna? Er þad ecke hid versta Raan? Hvad er þad hann aptur segier: Ad hid iñra hiaa þeim sie allt fullt af Raane og Ohoofe? Verda maa ad sumer af þeim hafe ei vered so miog seker i þessu, eñ faaer af þeim munu hafa skyrrst vid ad segia naudstoddum Foreldrum, þad er Corban, edur Gaafa sem eg kyñe ad hialpa þier med, Marc. 7. Eins og ad honum, sem eingum vill segia til ef hañ hwngrar hafe þægare vered Gaafa þeirra, helldur eñ Hlijdne hañs Bodords, ad heidra Fodur og Moodur. Hañ segiest ecke vera eins og oriettvijser, þad kañ ad vera; Enn hversu riettvijser voru þeir, þaa er þeir fordæmdu Guds Son aller, aflijfudu Hertoga Dijrdareñar, þegar þeir grijttu Stephanum i Hel, Act. 7. Og villdu Paal hafa af Dogum raaded. Ecke segiest hañ vera eins og Hoordooms-Meñ. Verda maa ad hañ hafe i Verknadenum Saklaus vered; Eñ mun hañ alldrei hafa lited eina Konu til ad girnast hana? Matth. 5. Edur hvad var þad, ad þeir skomudust sijn, og geingu i burtu, þegar Drottenn afleysti Hoor-Konuna i Musterenu, og sagde vid þaa: Hver ydar sem er aan Syndar, hañ kaste fyrstur Steine aa hana, Joh. 8. Þesse Oflaatungur sagdest ecke vera so sem Tollheimtu-Madur þesse, þad er satt, þvi miklu var hañ verre ad Doome sialfs Guds Sonar, sem sijdar mun sagt verda: Tollheimtu-Meñ voru halldner hid versta Foolk medal Gydinga, og ecke munu þeir Raadvander vered hafa, þvi Drotteñ tekr þaa samañ vid Heidingia; Eñ alldrei var þeim um þad kieñt, ad þeir færu i kring Land og Sioo, og giordu einn ad Gydinge, enn sijdañ ad Helvijtis Barne, ei helldur ad þeir boñudu Monnunum iñ i Himna-Rijke, Matth. 23. Nu þo ad allt þad hefde satt vered, sem Pharisæus þesse talde til Gyldis sier, þaa var þo eiñ Løstureñ, sem spillte ollum Kostunum, þad var Drambsemeñ og Sialfhælneñ i Guds Auglite; So hafde hun blindad þeña vijsa Mañ, ad hun hafde giort hañ ad Ovita, og lijkañ Smaa-Bornunum, hver ed plaga ad rijsa þad i sundr er þeim vænt um þyker, þvi vilium vier nu skoda i hverju honum afsaatt vered hafe. Hañ þoottest vera logspakur, treystande þvi ad hann være Leidtoge blindra, og Lioos þeim sem i Myrkrunum eru, Typtunar-Madur fafroodra, Lære-Meistare heimskra, hafande Form Skynsemennar og Sañleikans i Logmaalenu, og kende so odrum, eñ sialfum sier kiende hañ ecke, þvi hañ vantade þad sem mest aa reid i Underbwninge Riettlætingareñar, sem var ad þeckia Gud og sialfañ sig. Ecke þeckte hañ Gud, þvi audsæt er, ad hañ ætlad hefur, ad hañ munde aanægdur vera med hina wtvortis Helge, Fostur og Tijunda giorder: Eñ þad þeckte hañ ecke ad Gud rañsakar Hiartad, Ps. 7. Ecke helldur þad hañ hefur allt under Ohlijdnenne

iñe-

innelukt(þad er under Þeckingu Syndarennar)so ad hann myskunade ollum, Rom. 11. Og ad hann finnur jafnvel Brest hiaa Einglum sijnum, Job. 4. Sialfann sig þeckte hann ecke, þvi jafnvel þo hann være froodur i Ritningunne, þaa hafde hann gleymt þessum Ordskvid Salomonis, er ritadur stendur i 21. Capitula. Mannenum þyk-ia sijner Veiger rietter, enn Drottenn vegur Hiartad. Edur þess ed David segier: Ad fyrer Gude sie eingenn Manna riettlaatur, aller sieu þeir af-fallner, þar sie eingenn sa sem Gott giore, og eckeinn, Rom. 3. Mun þesse Hræsnare hafa þockst vera undannskilenn þessum Davids Doome? Hann var fraaskilenn ødrum Mønnum til ad æfa sig i Logmaalsens Skilninge, og þess Utskijringu; Enn miog so vard honum aa i þvi, ad hann hliop yfer þessar Greiner, og adrar miklu fleire i gamla Testamentesins Bookum, er sakfella allann Heimenn fyrer Gude, Rom. 3. Og þar ad Auke forsmaade hann, Ja, hann fordæmde sinn Naunga. Edur So Sem Þesse Tollheimtu Madur, seger Hræsnarenn: Herra Gud; Hvad munde hinn gamle Paall hafa sagt, hefde hann þetta heyrt, munde hann ecke hafa brotest wt med þessum Ordum, Rom. 2. Meinar þu, O Madur! Er dæmer þaa er þvilijkt giora og giorer þad þo, ad þu muner Guds Doom umflija; J þvi þu annann dæmer, þa fordæmer þu sialfann þig; Hver ert þu sem annarlegann Þioon dæmer, hann stendur og fellur sijnum Herra? Eg Fasta Tvisvar J Viku seger Pharisæus þesse. Ecke hafde Gud boded þad ad sonnu: Einn Fostudag hafde Gud boded aa Are i Logmaalenu, þad var hinn tijunnde Dagur hinns siounda Maanadar, þo kanna Menn ecke ad neita þvi, ad þetta var vel giort, hefde þad frammkomed af Trwnne, þvi Fastann er Gude kiær, og maa miked hiaa honum; Þvi sagde Frelsarenn: Þetta Diofla Kyn verdur ecke wtreked, nema med Fostu og Bænahallde, og hiaa Zachariam, Cap 8. Er gieted umm Fostu aa hinum fioorda, aa hinum fimta, siounda og tijunda Maanude, sem Drottenn spaaer ad skule umbreytast i Gladværdar Haatijder, enn þo bijdur hann þar jafnframt, ad þeir skule Sannleikann og Fridenn elska; Þvi seger hann hiaa Esajam, Cap 58. Hver ad sie sw Fastann sem hann wtvelur, sem er, ad Menn wthlute hinum hungrada Braude sijnu, og leide hina fatæku, sem wtrekner eru, i Hws sitt, ad Menn klæde hinn nakta, þaa Menn sia hann, og byrge sig ecke fyrer Holldе sijnu. Enn hvert ad Pharisæi edur þeirra Lijkar hafa giætt þessa, þad sijner Vitnsburdur Christi, er hann segier: ad þeir wtsiwge Hws Eckna og Fodurlausra, Matth. 23. Hann segier: Eg Gief Tijunder Af Ollu Þvi Eg A. Ei hafde Drottenn helldur þetta boded i Logmaalenu; Hann baud ad aialldа Tijunder af Korne, Vijne og Vidsmiore, Af Nautum, Saudum, og Eplum, Devt. 12. Enn ecke af ødru þvi ed Ox i Alldengordum; Þetta var þo i sialfu sier vel giort, ad þeir Tijundudu allt hvad þeir aattu, hefdu þeir ecke viliad reikna til Skulldar hiaa Gude þar fyrer; Enn þegar fara aa betur enn vel, þa fer verr enn illa, seger Maaltæked, Þvi segier Frelsarenn, Matth. 23. Vei ydur Skriptlærdum og Phariseis, þier Hræsnarar, sem tijunded Mintu Anis og Cumen, enn undannfelled þad sem þijngra er i Logmaalenu, Trwna, Doomenn og Myskunsemena, þetta byriar ad giora, enn hitt

ecke

ecke epter ad skilia; Vakte þeir sig, hverra Gudhrædsla ad er alleina þar i foolgeñ, ad gaanga i Kyrkiu, ad tala margt um̃ Gud, og hanns Ord, og christelegar Dygder, eñ under Skyne þessu fremia þeir a moote Samvitskuñe og ydrunarlaust marga þaa Hlute, sem Gud bañad hefur. Eñ lærum nu af þessum Sialfbyrging, christner Meñ, ad þegar vier giorum vort Ydrunar-Verk, þaa berum os ecke samañ vid adra, sem os verre þykia, epter vorum Doome, þvi hver eiñ mun sijna Byrde bera, segier Postuleñ: Munu nockud añars Glæper þvo mijna af, edur Ranglæte hañs riettlæta mig þoott eg ecke være so morgum Lijtum hladeñ? Fiærre sie þvi, og allra sijdst ef eg forsmaade hañ hiaa mier, þvi mattugur er Gud ad reisa hañ, þad er eins og ad skoda sig i ohreinum Spegle, ad vilia sia Mynd siña Athafna i añara Giordum, Guds Ord og hañs Logmaal eru su Skuggsia, er vier eigum ad skoda os i, þad er Lioos a vorum Vegum, og Lampe Foota vorra. Þess er og ad giæta, Born mijn, ad ef þesse Madur var fordæmdur vegna þess, ad hañ hroosade sier af Goodverkum sijnum, hvad mun þaa um hina verda, sem hroosa sier af Klækiunum, og þyker vænt um̃ þaa; Ef hinn riettlaate verdur naumast saaluhoolpeñ, hvar mun þaa hiñ ogudlege og Syndareñ byrtast, segier Petur, 1. Pet. 4. Þar eru ecke marger, sem gieta stært sig af miklum Fostum og Vindinde, hiner eru fleyre, sem gledia sig i Ofaate og Ofdryckiu siñe, edur ad miñsta Koste þyker þad lijtil Synd vera, jafnvel þo Paulus segie, ad þeir ed slijkt adhafast erfe ecke Guds Rijke, 1. Cor. 6. Ecke ætla eg ad Menn þurfe ad hroosa sier miog af Tijundargiordum i Lande voru, langtum helldur er þad forullt sumum Monnum, ad svijkia Gud og hañs volada, og Konungeñ, so vel sem Guds og hanns Þienara, med rangre Tijund; Og þykest saa goodu bættur, sem hvad mestu gietur undañskoted; Jafnvel þo valla sie meire Belvan vid nockra Synd logd i Guds Logmaale, enn vid þessa; Eg vil ei fa mier til Orda, hvad margur Dare ad hroosar sier af þvi, ad hañ hafe fieflett annañ, edur uñed Sigur a honum med raungum Doome, Laga-Flækium, og folskum Riettargange, þvilijker Snapar eru fleire eñ telia meige, um̃ hveria David fyrst talad hafa, er hañ segier, Ps. 52. Hvad stærer þu þig af Illsku þiñe, sem mektugur ert i Ranglætenu. Ei vil eg helldur margt tala um̃ þaa Gárunga, er stæra sig af Lausslæte sijnu, þad er, hroosa Synd siñe eins og Sodoma, Esa. 3. Og jafnvel smyga a sig Skomunum til ad vanvirda adra, hafe Phariseinn giort og sijn Good-Verk agylld med Hroosenu, þaa vite þesser gudlausu Menn, ad þeirra Fordæming er vijs, nema þeir ydrest af Hiarta, og ad Ydraneñ verde þeim so beisk, sem aadur var þeim Syndeñ skiemteleg. Þyckest nu nockur vera sekur i þessu, og vill þad ofgiort hafa, hañ lære sannañ Veg Ydranarennar af Tollheimtumañenum, og gange hañ, ef hann vill hoolpenn verda: Og vil eg so nockud þar um̃ tala i hinne sijdare Greineñe.

Þesse Tollheimtu-Madur gieck i Mustered, so sem Texteñ vottar, ecke fyrer Sidasaker, ecke til ad laata skoda sig edur skoda adra, nie ad sijna þar Fordilld sijna i Klædaburde, so sem kañ skie nockrer giora medal vor; Ecke er þad alltijd Gude edur Helgeñe

til Virdingar giört, ad Menn bwa sig hvad mest i Skart ꜳ þeim Døgum, edur til ad miña oss ꜳ þad, ad vier eigum ad klædast einum nyum Mañe. Hvert var hanns Eyr-ende þꜳ ? Til Ad Bidiast Fyrer, segier Textteñ : Ecke eins og Pharisæiñ, til ad hroosa sier i Bæneñe, þad sijna oss Ord hanns og Atvik , sem hier uppteiknud standa : Hann hefur adgiætt Løgmꜳls-Toblurnar, sem hiengu i Musterenu, og yfervegad þær ødru-vijse enn skriftlærder og Pharisæi, sem hiengu i Bookstafnum , og løgdu hann wt epter eigeñ Pootta sijnum , þar fyrer onijttu þeir Løgmꜳled fyrer Setninga sijna , so sem Drotteñ segier. Spꜳmennerner voru lesner hvern Sabbatsdag i Musterenu, so sem Paulus vottar, er hañ flutte Guds Eyrende til þeirra i Antiochia, Act. 13. Þar hefur hann mꜳtt heyra Utskrijringu Løgmꜳlsins ad miklu leite, og er hann þar af berlega sied hefur, ad Gud fordæmer Okur, Rꜳnginde, Underferle, Rꜳngsleitne, Gripdeilld-er, Hardydge og Myskunarleyse, og hann visse sig i øllu þessu sekañ, þꜳ hefur honum of-boded Stærd Syndaña, og Guds Heyptar Reide , jꜳ, honum hefur ognad hvad mørg volud Sꜳl ad munde hroopa i Himeninn yfer sier, og ottast ad þeirra Hroop munde inngeinged vera i Eyru Drotteñs Zebaoth, þesse þwnga Byrde hefur ꜳ hañs Hiarta leiged, sem er Bruñur allrar Illsku og oguđlegs Athæfes, Matth. 15. Þvi ber hann sier ꜳ Brioost, so sem villde hann þad straffad hafa , sem mest hafde tiluñed , og mest klagade sijna eigeñ Vondsku , med Sløgum og Bite Samvitskuñar : Illa var vared þessum Vesælinge i siꜳlfum sier : Enn Gud giæfe ad vier sem betre þykiunst, ad vier, segie eg , geingium med sama Hiartalage i Guds Hws, og sætum under hanns Orda Heyrn eins og hañ, þꜳ mundum vier ecke so kallder vera i voru Yðrunar-Verke, so sem þerlega mꜳ siꜳ ad margur er. Hañ Stood Lꜳngt Frꜳ , segier Textteñ : An efa þess vegna, ad hañ hefur reiknad sig verre eñ adra Menn, og overduguñ ad koma nærre þessum heilaga Pharisæo , hañ hefur skolfed af Kvijda vid Guds Reide, er hann hugleidde siñ Overdugleik, og hañs Løgmꜳls straungu Hootaner ; Ecke sijdur eñ Israel þegar ad dunade i Horeb, nær hid sama Løgmꜳl var wtgiefed, Exod. 19. Hvad giøra þeir þꜳ, sem jafnvel i Guds Hwse kieppast epter hinum fremstu Sætum, og wtvelia sier þau, eñ þo ei rijde so miøg ꜳ þessu wtvortis Hꜳttalage, þꜳ giætum þess, ad i Kyrkiuñe byrtunst aller vier fyrer Guds Auglite ; Þar er sꜳ mestur Madureñ, sem miñstur er i sijnum Þꜳnka, sꜳ er best bweñ, sem sundur-rijfur Hiarta sitt med Tollheimtu-Mañ-enum ; Eingeñ er so heilagur , ad ecke skilie hañs Synder mille Guds og hañs, ef hañ vill þær tilreikna , og hversu eigum vier þꜳ ad audmijkia oss under vollduga Guds Hond, nær vier iñgaungum i hañs Helgedoom, til ad fridmælast vid hañs Guddooms-legu Hꜳtign, fyrer hverre øll Verollden leikur ꜳ reideskiꜳlfe ? Enn vier erum Dupt og Aska, og hvad meira er, aller so sem hinn ohreine , og jafnvel Riettlæte vort so sem uidlags-Fat ; So ad allt Hollded er siwkt, allt Hofuded veikt, frꜳ Hvirfle, og allt til Ilia, er þar ecke nema Sꜳr, Kaun, Beniar og Þrote ; Og þessa vora Siwkdoo-ma hefur Guds Sonur bored ; Þessum Ørkumslum hefur hañ ꜳ sig hladed , so ad

vier-

er fyrer hañs Beniar heilbrygder yrdum, Esa. 53. Eñ vier hofum læted oss þad lijted til Hiarta ganga; Ecke hafa þeir Naglarner er i giegnum groofu hanns Hendur og Fætur, ecke hafa þeir eñ nu til fulls krossfest hiñ gamla Adam i oss, og ecke sw Lensañ, er opnade hañs Sijdu, vid Hiarta vort so miog snorted, ad vier hofum læted Porteñ vijdopeñ fyrer Konunge Dijrdareñar, þegar sæ Drottnareñ hefur vitiad sijns Mustervis, miklu helldur hefur optlega vid þvi leiged, ad vier mundum Hertoga Dijrdareñar ad nyu krossfesta. Æ! minn Gud, æ! minn Frelsare; Hver af oss er þæ so heilagur, so fullnoogur sialfum sier, ad ei skyllde hañ beria sier æ Brioost med Tollheimtu-Mañe þessum, og segia: Gud Vertu Mier Syndugum Lyknsamur, og med hinum tapada Syne; Fader, eg hefe syndgast i Himenenn og fyrer þier? Nu, þo ad Veselingur þesse være so lijtt stadur, þæ orvænter hann ecke: Ei grijpur hann til Knijfsens, eins og Saul til Sverdsins; Ecke til Snørunnar med Juda, og ecke ofbiooda honum so miog Syndernar, ad hann orvænte sier Guds Myskunar: Ad vijsu skammadest hann sijn ad lijta Augum sijnum til Himens, þvi hann hafde styggt hann so mootþroaanlega, sem i Himnenum bijr, enn þo rædur hann þad af, ad leita Lyknar hiæ honum, af hvers Giædsku ad oll Jordenn full er, og meinar sig væsælann Orm ecke fraskilenn vera eins og Phariseinn odrum Monnum. Gior hid sama, Barn mitt, nær þier med David ofbiooda Synder þijnar, so þu hefur ecke Frid i Beinum þijnum fyrer þeim, þæ vit þo þad og treyst þvi, ad Syndeñ kañ alldrei ad vera so stoor i Illskuñe, ad Gud sie ei meire i Giædskuñe, þad vottar Johañes, er hañ segier, 1. Joh. 3. Ef vort Hiarta fordæmer oss, þa er þo Gud meire Hiarta voru, og Paulus hefur oss eptirlæted eina dijrmæta Huggun, dijrmætare eñ Verolldenn er, þar hann segier, Rom. 5. Hvar sem ad Syndeñ yfergnæfer, þar yfergnæfer þo Nædeñ miklu framar. Christur er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, þvi mun hañ ecke og so vera fyrer þijnar, nema þu siert fyrer utañ Verolldena? J honum hefur Fadereñ alleina Velþocknan. Ef Paulus þorde ad segia vid Philemonem um Onesimum, hafe hann þier nockurn Skada giort, edur sie þier skylldugur, þæ reikna mier þad til; Eg Paall hefe skrifad þad med minne Hende, eg skal betala. Hvad miklu meire Riett hefur Guds Sonur til ad tala þañig oss til Fridar vid siñ himneska Fodur, jæ, vid sialfann sig, ad honum skule tilreiknast sæ Skadeñ, sem vier hofum giort, sw Skulldenn er vier lwka attum, þu minn Herra, þu hefur neglt þæ Handskriftena æ Krossenn, sem moote oss var, Col. 2. Hver vill þa æklaga Guds utvallda, þu ert sæ sem dæmeñ er, Rom. 8. Þu hefur eina Kvittan giefed i Umbode allrar Guddoomsins Preñingar, er so hlioodar: Hver sem trwer æ Soneñ, hañ kiemur ecke til Doomsens, Joh. 3. Jæ, sendt oss eitt Aflaat med Pienara þijnum Paulo, skrifad med Guds Fijngre, sem er heilagur Ande, ad eingeñ Fordæming sie hiæ þeim, sem eru i Christo Jesu, Rom. 8. Þu hefur betalad þad þu rænter ecke, Ps. 69. Þvi skyllde þæ eiñ Ræns-Madur kvijda fyrer þeim Betaling, sem þu hefur lofed? Þvi mun eg þæ mistreysta Gude? Er hann ecke Trwfastur?

fastur ? Kuña hañs Ord ad forgaanga, þo Himen og Jord forgaange ? Honum sie Dijrd og Heidur um̃ Allder, Amen. Nu hafed þier heyrt af Tollheimtu-Mannens um hiñ rietta Veg Apturhvarfsins fraa Vondskuñe, hver sem hañ geingur, saa mun med honum riettlaatur verda. Eg Segie Ydur, Ad Þesse Foor Riettlaatur Framar Hinum J Sitt Hws, segier Frelsarenn i Textanum: Hver Ord ecke þañveg skiliast eiga, so sem ad Phariseinn hafe ad sonnu riettlaatur heim aptur fared, enn Tollheimtu-Madurenn þo riettlaatare, helldur var saa Munur Riettlætesins, ad Pharisæus þesse var riettlaatur i sijnum Þanka, og fyrer Monnunum, um̃ hvert Riettlæte Drottenn segier, Matth. 5. Nema ydar Riettlæte yfergnæfe meir enn hinna skriftlærdu og Pharisæanna, þaa kunned þier ecke inn ad gaanga i Guds Rijke: Eñ Tollheimtu-Madurenn, sem jaatade Synder sijnar, og afneitade sijnum Verdugleik, eñ beidde um̃ Myskun, hañ vard riettlaatur fyrer Gude, med þvi Riettlæte, sem Paulus segier, ad sie af Trwñe, og þvi var hañ framar riettlaatur, ad hann hafde þad Riettlæte, sem fyrer Gude gyllde, enn hinn fyrer Moñunum. Heim aptur i sitt Hws stendur i Textanum: Nockrer meina ad hann hafe yfergiefed Tollheimtuna, þar hann foor ecke til Tollbwdareñar, helldur heim i sitt Hws: Enn ecke er þad vijst, ad hann hafe laated Syslan sijna, þess var og ecke Þorf, þvi hun var riettvijs i sialfre sier, ef þad er riettvijst fyrer Yfirvallded ad taka Skatta og Tolla, so sem þad i allann Maata riett er, þvi Paulus segier, Rom. 13. Gialdded ollum hvad þier skylduger erud, þeim Toll er Tollur heyrer, þaa er þad ecke oriettvijst fyrer Þienara þeirra ad safna Tekiunum: Ecke bañade helldur Johañes þessum Moñum Tollheimtuna, alleina, ad ei skylldu þeir taka meir enn boded være, Luc. 3. Giære þeir þess, er slijkt Starf aa Hende hafa, þvi hvad sem þar er fram̃ yfir, þad er af hinum vonda. Eñ hverneg sem þessu er vared, þaa er þad vijst, ad Kvittun Syndaña einusinne feingeñ, hun er onijt, nema Syndareñ laate af illu og lære gott ad giora, og hier til heyrer þad, ad bæta þad oriett var giort, ef bæta maa: Hvar um̃ eg hefe nockud talad i tveimur nærst fyrerfarande Predikunum, eñ miñest eñ nu aa þad hier i þridia sin̄, af þvi, ad so miked rijdur aa þessum Hlut, þvi sie þad ecke giort, þaa er Ydraneñ aldeilis onijt. Þad er ei noog, ad stijnga aa einu Meine, nema hiñ vonde Vesse, sem i þvi er samañdreigeñ, hañ verde wtdreiegeñ, so er þad ei helldur noog, ad Moñum svijde einusiñe af Brodde Logmaalsins, nema þvi illa sie fraa sier kastad: Drecke nockur Eitur iñ, þaa er honum einsætt ad æla þvi upp aptur, eñ eingeñ Olijfian er so banvæn Kroppnum, so sem raangfeingner Muner Saaluñe, þvi er þad omissande, ad skilia sig af med þaa, adur eñ þeir svalga heñe i Daudanum, þegar Meñ skulu þo vid þaa skilia, og þeir vid oss hvert sem er, eñ eingeñ veit nær hañ ber ad Dyrum; og hvad hefur þu þa þess Madur, er þu hefur med Ahyggiu og Oriette safnad. Drotteñ miñ! kieñ þu oss ad hugsa þad vier hliootum ad deya, laat oss ecke deya med Mamona, helldur med voru Frelsara i Hiartanu, gief oss ad hafa Fiesiood aa Himnenum safnad, framar eñ i Heimenum, so þegar hin forgeingelega Tialldbwd vors Lijkhams i sundur-glidnar, ad vier þaa hofum so

fyrer

fyrer oss giort i Tijmænum, ad þeir medtake oss i eilijfar Tialldbwder, bænheyr þad Drottenn minn og Gud minn, fyrer Jesu særu Kvol og blessadar Under, A M E N.

# Toolfta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Marc. 7. Cap.

Og þæ Jesus gieck i burt aptur wr Landsælfum Tyri og Sidenis, kom hñ til Siœfarens i Galilæa, i midiar Byggder þeirra tiju Stadañа. Og þeir leiddu til hañs þañ Mañ, sem daufur og mælhalltur var, og bædu ad hann legde Hendur yfer hañ. Og hañ veik hønum affsijdis fræ Foolkenu, liet sijna Fijngur i hañs Eyru, hrækte wt, og æhrærde hañs Twngu, leit upp til Himens, andvarpade og sagde til hañs: Hephatha, þad er, opna þig. Og jafnsnart upplukust hañs Eyru, þæ uppleistest og einñ Fiotur hanns Twngu, so ad hann talade riett. Og hañ skipade, ad þeir segdu þad ei neinum, eñ þvi meir sem hann fyrerbaud þeim þad, þess meir þa vijdfrægdu þeir þad wt, og þa siælfa undrade þetta nærsta miøg, segiande: Allt giørde hañ vel, þviad daufa lætur hann heyra, og mællausa tala.

## Exordium.

Margt æ vid morgu, segier i fornkvednum Ords-Hætte: Þo ad Drottenn hafe straffad Syndena epter Falled med adskiliannlegum Siwkdoomum, til ad aga vort giælijfa Holld, þæ hefur þo hañs Giædska lagt þæ Lijkn med þraut þessare, ad Natturan er rijk af þeim Hlutum, sem bætt-gieta Mein Manna, þegar þar med er skynsamlega hondlad, þvi segier Syrach, Cap. 38. Ad hiñ Hærste hafe framleidt Læknisdoomenn af Jordunne, og um Læknerañ segier hann i sama Capitula: Heidra þu Læknarañ fyrer Naudþurftarennar Saker, þvi Drottenn er hanns Høfundur, þvi aller Læknisdoomar koma af hinum hærsta. Nu misfellur þo þetta æ Stundum, þvi jafnvel þo Læknerenn kunne margt og miked ad giora, og hañs Verk sie gott, þæ er þo ecke Hellsa nie Vanheilinde, Lijf edur Daude i hañs Hende, helldur Guds, sem er allra Meina Grædare, og sæ Drottenn Drottenn, sem fræ Daudum frelsar. Enn Guds Sonur, æ sijnum Hollds-Vistar Døgum, hann auglijste þad øllum Heime, ad hañ sañnr Gud være, med þvi ad hañ læknade allrahanda Mein og Kræankleika, ecke med Natturuñar Medolum, þvi hann var Natturuñar Herra, helldur med einu Orde æ Stundum. Kona, mikil er þijn Trwa, sagde hañ vid hina Cananisku: Vert hughraust mijn Dootter, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar,

vid hina bloodfallsijki : Far þu, Sonur þinn lifer, vid Konungs-Manneñ : Verde þier epter Trw þinne, vid Hundrads-Hofdingiann : Eg vil, vertu hreinn, vid hinn lijkþræa : Fared og sijned ydur Kieñemoñunum, vid þa tiju : Og er þesse Dæme nærsta mørg ad lesa i Gudspialls Sogunum. A stundum brwkade hañ nockurs-konar Ceremoniur til ad lækna hina siwku, so sem hier i Gudspiallenu verdur fræ sagt, hveriar þo ecke munu forgiefens uppteiknadar, þvi allt hvad skrifad er, þad er skrifad oss til Lærdooms, Rom. 15. Helldur til ad þijda þær uppæ vor andleg Van-heilinde, og þeirra Lækningu : Enn nu vil eg i þetta sinn einungis hugleida þenna auma Mann, og so vort Hættalag i andlegum Efnum, sem ecke erum betur æ oss komner ad þvi Leite, helldur enn hann, margur hver. Send oss þijna Nææd og Adstod til þessa Eyrendis, vor Gud, fyrer Lausnarans Forþienustu, Amen.

## Utleggingeñ.

OG Þeir Leiddu Til Hañs Þañ Mañ Sem Daufur Og Mælhalltur Var. Þesse Manneskia hefur þwnglega hallden vered. Þegar David wtmælar Mootgæng sin, þæ segiest hañ heyra sijna Mootstødu Meñ, so sem daufur, og so sem einn Mællensingur ecke uppljwka Muñe sijnum, Ps. 38. Eins og hefde hañ valla nockurn lakare Kost vid ad jafna. Illa er hinum daufa fared i mørgum Hlutum : Eiñ Daufinge er nærre þvi eins i Verollldeñe, og wtlægur Madur i framande Lande, hvar hañ einkis Mæl skilur; Hañ hefur eckert Gagn edur Skiemtun af þvi ed adrer tala, Varer þeirra sier hañ bærast ad soñu, eñ þad mæ vera stoor Hugraun ad sia þad, eñ hafa þess þo eingeñ Not sem Gud hefur giort til ad vidhallda Selskap Mannaña i Heimenum, gæange nockud ad honum, þæ gietur eingeñ huggad hañ, eñ þo tekr þad yfer, ad þeir ei gieta Guds Ord heyrt til Sæluhiælpar sier, þvi fyrer Heyrn Guds Orda kiemur Trweñ segier Postuleñ, eñ æn heñar er omogulegt Gude ad þocknast, Hebr, 11. Og hversu er honum þæ illa vared fyrer Mañaña Sioonum, er hefur Brest æ þessu Skilningar Vite. Nu eru þeir þo med tveñu moote er þeña Skort meiga lijda. Sumum fellur þad til nær þeir komner eru til Vits og Ara, þeir meiga þess Not hafa ad soñu, er þeir numdu æ medañ þeir høfdu Hluster heilar, bæde i daglegre Umgeingne, og hvad mest æ rijdr i Verke Sæluhiælpar siñar, og satt er þad, ad ei glepur fyrer þeim Bulldran Heimsins, þeir hafa valla ad skiemta sier nema vid Gud siñ, ef þeir eru lundlægner þar æ, og bera siñ Harm i Hlioode; Og reyndar þæ er betra daufur ad vera, eñ ad heyra margañ hañ Oþarfa, sem taladur er i Heimeñum, sierdeilis skamarleg Ord og fiblslegt Hial, sem christnum sømer ecke. Adrer eru þeir ed dauser eru borner, þvi þar æ epter fylger Mællensed, hverneg kann sæ ad nema Maña Mæl, sem ei gietur heyrt æ Tal þeirra? Og hafa Meñ þess Dæme nockur hiæ oss : Þad mæ og marka ad þesse aume Madur sem hier talar um i Gudspiallenu, hañ hefur æn efa heyrt einhvern Tijma, þvi jafnvel þo hann mælhalltur være, þæ hefur hañ þo nockud talad : Þessara Kostur sijnest miklu þijngre ad vera, enn hinna i fliootu Alite, þvi sæ sem daufur er sañ hefur

þo

þo Mæled, hann gietur sagt til þess er hañ vardar um̃, og lofad Gud med Twnguñe, hafe hañ nockud af Guds Orde numed, enn hinn ecke, þo er þad hier aptur ad segia, ad eingañ længar til þess sm̃ hañ þecker ecke, so kañ og ei helldur þeim ad leingiast so miog epter ad heyra æ Tal Maña, sem þad alldrei heyrt hefur. Enn hvad Sælareñar Efnum vidvijkur, þæ hygg eg ad eingeñ kuñe ad fordæma þessa Guds Vesælinga, ja, kann vera ad þeir sieu miklu nær Guds Rijke eñ hiner sem eingañ Brest hafa æ Skilningar Vitunum, enn brwka þau Flandanum til Þioonustu, og Nææunganum til Ogagns, Gud er riettlætur, og þo under eins myskunsamur, þad er ecke lijkt honum, Fodur Giædskuñar, ad hañ mune heimta Reikningskap af þvi Punde, er hann ecke feck einum i Hendur, og hver vill efast um̃ Mætt hañs edur Vijsdoom, hañ sem gat læted Johannem fagna Tilkomu siñe i Moodur-Lijfe, Luc. 1. Mun hañ og ecke gieta verkad undarlega Hlute i þess hættar Mañeskium? Satt er þad, ad æn Trwareñar er omogulegt Gude ad þocknast, Hebr. 11. Eñ hañ sem gietur iñplantad Trwna i Hiortum Smæbarnaña, mun hañ ecke med oranñsakanlegum Hætte gieta tilbwed hana i þessara Hiortum? Þad sem ecke er af Trwñe þad er Synd; Eñ af Muñe Smæ-Barnaña og Briooft-Mylkingaña hefur hañ sier Lofid tilreidt, þvi mun hañ og ecki gieta opnad Skilning þessara Skiepna sinna, so þær þecke hann til Myskunar sier? Er nockurt Ord fyrer honum omættugt? Luc. 1. Kañ hañ ecke alla Hlute framar ad giora, eñ vier kuñum ad hugxa edur mæla? Eg vil hier um̃ segia, þad sem Christur sagde vid Læresveinana, er þeir sogdu: Hver mun þæ hoolpeñ verda? Þad sem omogulegt er fyrer Monnum, þad er mogulegt fyrer Gude Matth. 19 Nu Sokum þess, ad fyrer hinum Daufa verdur ecke talad, Gud verdur sialfur fyrer honum ad predika i hanns Hiarta, og er eingenn slijkur, þæ tala eg þetta til Huggunar þeim sem ængrast þar af, ad Born þeirra edur kiærustu Nææungar hafa slijkann Brest, og efast kannskie um̃ Velferd þeirra, og þar ad aukeleida sier i Hug, ad þetta kome fram̃ vid þæ vegna Synda sinna. Til hinns fyrra hefe eg ad nockru Leite Allareidu svarad, enn þo vil eg þessu vid auka sem eptersylger. Gud hefur skapad Afkvæme þitt i Moodur-Lijfe, Job. 10. Edur þijns Nææunga: Hver hefur Mañenum Munnenn giefed? Hver hefur giort hiñ mællausa edur dausa? Edur hinn siæanda, edur blinda? Hefe eg þad ecke sialfur giort? Segier Drottenn vid Moysen, Exod. 4. Og fyrst hañ hefur þetta sialfur giort; Mun þa ecke hann, sem vill ad aller Meñ verde sæluhoolpner, mun hañ ecke siæ þeim Farborda til Himnarijkis, sem ecki hafa Skulld i þvi, ad þeir gieta ecki Guds Ord heyrt? Hañ Sem Giorde Allt Vel, Þvi Dausa Liet Hañ Heyra Og Mællausa Tala, A Dogum Hollds-Vistar sinnar, mun honum vera apturfared sijdañ hañ sestur er til Kraptarens hægre Handar? Hañ er uppfariñ i Hædernar, og hefur Moñum Gæfur giefed, Eph. 4. Mun hañ þa ecke giefed gieta Barne þijnu Heyrn og Mæl, nema ad hañ gi[æ]fe Sælu þess Heyrn, og giorde þad vel talande fyrer sialfum sier, med þvi moote sem ecke skilur þu, eda nockur annar? Barn þitt er i Skijrneññe innteked i Guds Sættmæla; Hver sem trwer og verdur

skijrd

skijrdur, hann skal hoolpenn verda, segier Christur. Hier stendur; Hver sem trwer, enn
ecke hver sem heyrer og talar; Mun hann þꜳ kalla afbrugded Sꜳttmꜳlanum fyrer
þessa Orsok, er Vesælingenn sialfur giorde, og gietur þo Trwna i honum verkad; Gud
lꜳte oss alldrei meir afbregda, sem Mꜳl og Heyrn hofum. Seig þvi med David: Eg
vil þegia og Munne mijnum ecke upplwka, af þvi þu giorder þad, og hallt Barn þitt ad
vera eitt Lim ꜳ Christi Lijkhama, Mustere H. Anda, og Erfingia Himna-Rijkis, ef eck-
ert annad i Vege stendur, enn þesse Brestur, sem Skaparenn alleina og eingenn annar lækn-
ad gietur: Enn hvad þvi vidvijkur, ad margur freistast af, ad Vanheilende Barnanna
Orsakest af Syndum Foreldranna; Þa verdur þvi ad sonnu ecke neitad, ad allt Moot-
læte er Verdlaun Syndarennar, so sem Daudenn er, so er og allur sa Her, sem und-
er hann þioonar, enn þad heiter ecke so Straff, so sem Reynsla hiꜳ Guds Bornum, i
hverre Jacob Postule skipar oss ad taka feigens Hende, Jac. 1. Þvi orsakast þetta
ecke af þvi, ad Foreldrar þessara Vesælinga sieu verre i Guds Auglite enn adrer Menn,
þar fyrer svarade Endurlausnarenn fordum Læresveinunum, er þeir friettu hann ad, hvert
þesse hefde syndgad edur hanns Fader: Hverke syndgade þesse nie Fader hanns, sagde
hann: Helldur so, ad Guds Dijrd yrde opennber, Joh. 9. Og vidlijkt skiedur i þessu:
Gud setur oss þesse Dæme fyrer Siooner, oss sem hann giefed hefur heilbrigda Saal i
heilum Lijkhama, til ad sijna oss hvada Walld hann hafe yfer Manneskiunne, til þess, ad
þacka sier og lofa sig þar fyrer, ad oss og vorum Bornum og Nꜳungum er betur vared
Lijkhamans Hꜳttalagi, til ad minna oss þar a, ad ei brwkum vier Skilningu vora til þeir-
ra Hluta, sem Gude til Styggdar eru, miklu helldur til Vegsemdar honum, og Nꜳ-
unganum til Þarfa. Enn Gud nꜳde! ad wt af þessu ber nærsta miog ꜳ Stundum, og
þad er nu hin Andlega Deyfa, sem er miklu hættare, miklu skadsamlegre, og þo miklu
Almennare, enn sw sem ꜳ Lijkhamanum er, yfer hverre ad David klagar, er hann seger, Ps.
58. Ad þeir tilbyrge Eyru sijn, eins og Hoggormurenn fyrer Raustu Særinga Manns
sins: Margfalldt er þetta Heyrnarleyse, og i morgu fꜳlged, enn Rootenn til alls er þad,
ad Menn daufheyrast vid Guds Orde, so þad fær ecke Rwm i þeim, helldur enn Tal
Christi i Phariseis. Aller Menn lasta þꜳ fyrer þetta, sem verdt er: Enn þo ad einge
enn Madur talad hafe, edur enn nu tale so sem hann, jafnvel ad Vitne þeirra, sem voru wt-
sendarar hanns Fiandmanna, þꜳ eru þad þo Guds Ord, er hanns Þienarar tala i hanns
Umbode, nær þeir byggia Mꜳl sitt ꜳ Ordum hanns Spꜳmanna, og Postula, yfer hver-
ra Grundvoll, ad hanns Christne er byggd, þvi segier Drottenn vid Jeremiam, Cap. 1.
Eg hefe lagt mijn Ord i þinn Munn, og vid Esaiam, Cap. 59: Minn Ande sem i þier er, og
mijn Ord, er eg hefe sett i þinn Munn, þau skulu ecke wr þijnum Munne vijkia. Nu þo
ad ecke sie Andans Gꜳfa so rijk hiꜳ oss, sem hun var hiꜳ Spꜳmonnunum og Post-
ulunum, þꜳ eru þad þo Guds Ord sem hanns Þienarar tala, nær þad er af þeirra Toga
riett spunned, og þeir tala eckert ꜳn Ritningarennar: Guds Ord elldest ecke, þad blijfur
eilijflega, seger Esajas, Cap. 40. Þvi er þad eins gott i Munne hins vesælasta Jesu

Christi

Christi Þienara, nær þad er hañs Ord, so sem i Muñe Peturs, edur Paals, þvi vil eg hier uñ segia þad hid sama, sem Paulus sagde vid þaa i Tessalonica, ad þeir hafe medteked þad Guds Ord, er þeir heyrdu af honum, ecke so sem Ord Mañaña, helldur so sem þad var, eins og Guds Ord, 1. Tess. 2. Eñ ef þad Guds er, hvern forsmaaed þier þaa, þier hiner dausu Veralldar Syner, nær þier þad ecke heyra vilied af hañs Þienara Munne, nie laata undervijsa ydur og Bornum ydar i Christenndoomenum, ecke laata straffa ydar Synder, og ecke lifa epter þvi, er ydur af Guds Alfu boded verdur. Hvern forsmaaed þier þaa, segie eg, Gud edur Mennena? Segier hann ecke, Luc. 10. Hver hañ forsmaaer ydur, hañ forsmaaer mig, hver hañ heyrer ydur, hañ heyrer mier? Soddañ er rieit skielfelegt Heyrnarleyse. Munu þesse Frelsarans Ord naa alleinasta til Postulaña, edur þeirra er lifdu aa þeim Dogum, og ecke til vor sem nu lifum? Mun hañ ecke hafa lofad ad vera hiaa oss, allt til Veralldareñar Enda? Matth. 28. Hverneg er hañ þaa hiaa oss? Med sijnum H. Anda i Ordenu og Sacramentunum.

Nu, ef Meñ vilia niooта Naalægdar hañs, þvi laata Meñ þaa so tregt vid ad heyra hañs Ord? J Ordenu talar Gud vid oss, vid hañ tolum vier i Bænum vorum, eñ saa sem ecke vill heyra hañ talanda, þañ vill hañ ecke heyra bidianda, þvi hver sem forsmaaer mig, þañ vil eg forsmaa, segier hañ, 1. Sam. 2. Eg em gladur af þvi, segier David, ad til mijn verdur sagt: Vier skulum gaanga i Hws Drottens, Ps. 122. Þetta sagde hañ, sem i Ritningunne er nefndur Madur epter Guds Hiarta. Enn margur Gaarungur, margur Sælkiere, margur Fe-Pwke, sem er Madur epter sijnu Hiarta, hañ verdur þeirre Stundu fegnastur, ad hann þurfe ecke i Guds Hws ad gaanga, edur hañs Ord ad heyra, og þo þeir gaange edur heyre, þaa geingur Ordenu eins og Sædenu, þvi er Frelsareñ talar um hiaa Lucam i 8. Cap. Hvert ed fiell utañ hiaa Veigenum, ad þad verdur Footum troded, og Fuglar Himensins atu þad, Diofullen tekur þad i burtu wr Hiortum þeirra, so þeir ecke trwa skule, og verda hoolpner. Hvar fyrer? Þvi þeir hyrdtu ecke um ad taka aa sig Guds Alvepne, til ad mootstanda Prettum Andskotans, Eph. 6. Guds Ord skal til þess hafa, ad vardveita Guds Ord, enn þeir gleymdu Sverde Andans, sem ad er hid sama Ord, ad þeir kyñu ad beita þvi fyrer sig, nær Ovinureñ ad Garde gieck, til ad ræna þaa Dijrgrip þessum. Oskande være, ad ei hugsudu þeir hid sama, er Judar sogdu fordum vid Jeremiam: Vier skulum ecke heyra þvi Orde, er þu sagder oss i Nafne Drottens, helldur skulum vier giora epter sierhverju Orde, er framkiemur af vorum Munne, Jer. 44. J soddañ Gyllde er Drottenns Ord hiaa sumum Monnum. Munu þeir þaa ecke nærsta þyckheyrder vera? Heyr mier þo uñ Stund, Barned gott; Þu ert oskiertur aa Hlustum þijnum, og eñ nu ert þu so i Dag; Þar fyrer, i Dag, i Dag, ef þu heyrer Roddu hañs, þaa forherd ecke Hiarta þitt, Heb. 3. Seig mier; Hefur þu Brief fraa Gude, ad hann lijde þijn Skijlningar-Vit til Morguns, meir enn þesse dause og maalhallte Madur. Gud steypte hinne vantrwudu Verolld um Koll i einu. J einu drekte hañ Pharao med

ellu hanns Lyde. J einu fargade hann Canaanitum fyrer Hond Josuæ. J einu Augnablike sloo hann þaa med Blindne, er faalmudu epter Hwse Loths, Gen. 19. J einu Augnablike stack hañ Augun wt aa Elimas, sem mootstood Paulo, er hann foor med Christne-Boded, Act. 13. Mun hann ei kuña ad giöra hid sama vid þig, ef þu mootstendur hañs Þienurum og villt ei heyra þeim, nær þeir tala Guds Erende og ecke sitt! Eda hvad villtu giora, nema þu hafer eitthvad þier til Saala-Gagns numed af Orde Drottens, aa medañ þu hafder Eyrun heil, ef hañ kyñe ad lata þier tilfalla þvilijkañ Brest, eg vil þad i stuttu Maale segia, þu hefder eckert til ad kieña þier ad þeckia Syndena, eckert til ad faa Boot hennar, og eckert til ad hugga þig i þessu Volæde? Og fyrer þvi, ad þu alldrei hafder smackad hid gooda Guds Ord, so sem þad er, þaa gietur ecke aa þier sannast Maalshaattur saa, ad eingeñ vite hvad hañ aatt hefur fyrr eñ hañ miste. Einhver vill segia: Eg giet lesed Guds Ord, þo ecke heyre eg þad; Þvi er verr, ad þeir eru so faaer, sem lesa kuña, jaa, þo sialfer kunne, þaa hyrda sumer ecke um ad kieña þad Börnum sijnum, og er þad gudlaust Ræktarleyse, enn hverneg sem þvi er vared, hvad veitstu nema Gud take under eins fraa þier Sioonena og Heyrnena; Og hvar stendur þu þaa, ef þu hefur forsmaad Rijkdoom hanns Laanglundargieds, Rom. 2. J þvi, ad vilia ecke hanns Ord heyra þier til Saaluhiaalpar, og þo Gud spare Eyru þijn allt fram i Daudañ, þaa vita Menn, ad ecke siaa þaa Augunn leingur, og ecke heyra þaa Eyrun leingur, Hiartad verdur þaa ad tala vid Gud, og heilagur Ande ad vera vor Prestur i sijnu Mustere; ef Meñ hafa styggt hañ med Vanrækt Guds Orda og slockt hañ med Forogtun þeirra, hvar i aa hañ þaa ad lifa, ef eckert var numed sem hañ kuñe ad lifa i, og er þetta eitt skadlegt Heyrnarleyse. Margur leggur þad ad litlu, ad gaanga i Guds Hws, og helldur þad fyrer eintoomis Ceremoniu, þvi er verr, kañ skie þad sie og so hiaa allmörgum, sem þar byrtast, alleina fyrer Sida-saker, eñ giæte Meñ þess, ad fyrer utañ þad, ad Gud hefur skulldbunded sig til ad vera midt aa millum tveggia edur þriggia, sem eru samañsafnader i hañs Nafne, Matth. 18. Þaa er þad ei so miög vijda i Lande voru, ad Almenningur faae Guds Ord heyrt nema i Kyrkiuñe; O! hvad mikilu goodu fyrrer saa Madur sig, er byrger Eyrun fyrer Guds Orde, þau eru Lijf og Ande, segier Frelsareñ, Joh. 6. Þvi er hañ andlega daudur sem aan þeirra er. Vier trwum, ad fyrer Trwna verde Madureñ hoolpeñ aan Verkaña, segier Paulus: Eñ Trweñ er af Heyrneñe, eñ Heyrneñ af Guds Orde, segier hañ, Rom. 10. Hvar vill hann lenda þaa, sem er trwarlaus, nema i eilijfre Glötun? Utañ hann betre sig. Mijner Sauder heyra mijna Raust, segier Frelsareñ, Joh. 10. Enn hvers munu þeir vera, sem ei vilia heyra Roddu hañs? Munu þeir ecke setter verda med Hofrunum aa vinstre Hlid, og þaa um siider heyra hina skielfelegu Raust alls Hollds Doomara; Fared fraa mier bolvader i eilijfañ Elld, sem fyrerbweñ er Dioflenum, og öllum hanns Arum, Matth. 25. Saa sem er af Gude, hann heyrer Guds Ord, segier Lausnareñ, Joh. 10. Eñ þeir sem þad ecke heyra vilia, og þo heyra kuña, af hverium eru þeir? Af Fodur þeir-

ra

ta Andskotanum, so sem Drottenn sagde vid Gydinga fordum. Nu af þessare Deysu, sædest margsalldur Eyrna-Dose. Hvad giora þeir ed heyra Vein hins naudstadda og volada, enn byrgia sig þo fyrer siinu eigenn Hollde? Þad er fyrer þeim sem ad eru somu Náttúru og vier, og giefa þeim eckert, jafnvel þo sumer hafe Audlegd Heims þessa. Eingeñ hefur um Allder sitt eiged Holld hatad, segier Guds Ande, helldur fostrar hann þad og nærer; Og hvad er þad þa, ad eg skule sia mitt eiged Holld, eñ Guds Vesæling, miñ Brooder i Christo, ad eg skule sia hañ friodsádur svellta i Hel, þar eg hefe þo noog, jafnvel til ad kosta uppa Munade mijna? Þetta er stakt Heyrnarleyse. Sa sem Oskunda og Oretteñ lijdur, hañ flijr til Doomarans, og bidur um Adstod, eñ hañ sem af Gude og Konunge nnm er settur til ad skipa Riettendum Maña, hañ stijnger Fingrenum i bæde Eyrun, og vill ei heyra Kvein Log-Ræningsins, aðad hvert fyrer Lite, fyrer Vinattu, fyrer Hrædslu edur Agyrnes saker, so hinn ser jafnnær fra honum: Verr er honum fared eñ hinum ranglata Doomara, er Frelsareñ talar um i Eptirlijkinguñe hia Luc. 18. Hver þo hann ottadest hverke Gud nie Menn, þa liet hann sig þo samt leida af þrá-Beidne Eckiuñar, til ad alijta Mal hennar. Ein gomul Kona beidde Augustum Keysara eitt siñ, ad heyra Mal sitt; Eñ hañ svadst ecke Toom hafa; Hun svarade: So legg þa af Stoorrnena: Vid þesse Sañ-Orde bra so þeim vijsa Hofdingia, ad hañ leit strax a Mal heñar, og dæmde þad, eñ þad være rádlegt, ad þesse Varmeñe, sem adur er umtalad, ad þeir legdu af sier þetta Starf, þar þeir valla eru hæfare til þess, eñ Asneñ til Horpu-Slattar. Menn nema þañ Lim i burtu af Kroppnum, sem er daudur, og lijklegur til ad spille odrum; læmra være og þeim er so þyckheyrder eru, sem nu hefe eg sagt, ad Eyru þeirra være afskoreñ, helldr eñ þau stædu þeim til Vanheidurs, eñ eingum til Gagns a Hofdenu. Þar er eingeñ kiendur siñ hañ kiennur ecke: Ef þier blinder værud, þa hefdud þier ecke Synd, eñ nu segied þier: Vier siaum, þar fyrer blijfur Synd ydar, sagde Lausnareñ vid Phariseos, Joh. 9. So være og hinum betra, ad Hluster þeirra byrgdar være, helldur eñ ad hafa Eyru og heyra ecke, eins og oñur Lijkneskia. Margt mætte hier um fleyra tala, þo læt eg þetta duga ad so stoddu: Eñ þad eg hefe ad framañ talad um Heyrnar-Skorteñ, þad sama vil eg um Mal-Helltena tala, ad sonnu er hun stoor Vanse Lijkamans; Margur ohlutvandur forsmaer þañ, sem er so Malefáreñ, þeir hæda ad honum, herma epter þeim, og lata miklu verr optast, enn hiner sem þeir epter herma: Þetta heiter ad lasta Skaparañ, þvi hañ hefr Mañenum Maled giefed, og sa ed fremur þvilijkt Gudleyse, hañ er nærsta illa talande i hañs Eyrum, sem allt heyrer, hañ giorer Mal-Snylle sijna þusundsiñum argare eñ Brest hiñs malhallta. Ecke helldur bañar Tungu-Hasted nockrum ad ganga fram fyrer Rædar-Stooleñ, sem Gud hefur sett i hañs Bloode, hañ siñ ecke upplauk sijnum Muñe, helldur eñ eitt Lamb til Slatrunar leidt, hañ gietur vorkient þessum sijnum Vesælingum, er hañ sialfur skapad hefur, giete hañ ecke odrum kieñt, giete hañ ecke brukad Maled til ad tala Male Eckiuñar og

hiñs fodurlausa, þaa gietur hañ þo lofad Gud, hañ skilur Maal hañs, sem adgreinde Twngurnar, og allar hefur giört af eiñe, hann gietur beded Gud sier til Hiaalpar og Myskunar, hañ er noogu sniallur i Guds Eyrum, sem bidur i Anda og Sannleika, Joh. 4. Eins vel aakalla hiner wngu Hrafnarner Gud og Svanureñ, og hverutveggiu þessa fæder hañ, þvi stendur nu einguni þesse Twngu-Brestur fyrer neinu goodu hia honum, sem bæde hefur skapad hinn maallausa, og hiñ vel-talande: Hin er Maal-Hellteñ meire og skadlegre, þegar Meñ brwka Muñeñ til ad lasta Gud, hañs Nafn, hañs Ord, raangfæra þad, og ad Haade hafa, til ad skieña Naaungañ, til ad rægia hañ, liwga aa hañ Lijtum og Skomum þo saklausañ, brixla honum, leggia Haft aa Twngu sijna þegar hañ aa ad forsvara, þegar Sañleikanum aa Vitne ad bera, og færa Hlutena til betre Vegar: Þetta er skielfelegt Maalleyse, þad er ein Hofud-Skomm i Guds Auglite, þarfara være þeim Mañe, ad hañs Twnga være fraa Rootum uppskoreñ, eñ ad brwka hana til slijkra Odaada, þvi so segier Frelsareñ: Betra er ad þu halltur og Handarvane iñgaanger til Lijfsins, eñ ad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur, og verder i eilijfañ Elld kastadur, Matth. 5. Hver ed vijs er þeim sem temia sier Þogn þessa, og þessa Maal-Hellte, og nema þeir ydrest af Hiarta, og laate af slijku Æde, þaa munu þeir eilijflega med honum verda, er vier Ræge-Kall nefnum, og hefur sitt Nafn af þvi, ad hañ aaklagar Guds utvallda Dag og Noott, þar ellda þeir Saalum enn eta Twngur, Elldureñ er noogur, Kostureñ er mikill, Blaastur Drottens upptendrar hañ so sem aa ad Breñesteins-Flood, Esa. 30. Fraa hverium Oskopum hiñ goode Gud vardveite alla christna Meñ: Eñ Þu Sem Allt Giorder Vel, Þu Sem Lietst Dausa Heyra Og Maallausa Tala, vijk þeim afsijdis fraa Foolkenu, fraa vondre Verolldu þessare, hverra Eyru ad allt ofmiog klæia epter hennar Glaum, hverium eckert Maal lijkar, nema þad sem henne er þocknanlegt; Rek þaa wt af Babylon, Drotteñ minn, jafnvel med Svipu þijns Krossburdar, so ad ecke medtake þeir af Plaagum heñar: Snert Eyru vors Hiarta med Fijngre þijnum, sem er þinn Ande, so ad vier hofum vora Lysting i Logmaale þijnu, og uppleys Fiotur Twngu vorrar, so ad vier tolum riett, þad sem Gude sie til Lofs og Dijrdar, hañs Kyrkiu medal vor til Uppbyggingar, enn Andskotans Rijke, og allre hanns Ydne til Nidurdreps. Bænheyr þad vor Lausnare, fyrer þijna Forþienustu: Þier med Fodur, og heilogum Anda, sie Valld og Kraptur, Rijke og Mattur, Æra og Dijrd, fraa einne Eilijfd til annarar, Amen.

# Þrettanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 10. Cap.



G Jesus hañ snere sier til siña Læresveina, og sagde þeim einslega. Sæl eru þau Augu sem sia þad, hvad þier siaed, þviad eg segie ydur, þad marger Spaameñ og Kongar villdu hafa sied hvad þier siaed, og saau þad ecke, og ad heyra hvad

hier heyred og heyrdu þad eige. Og sia, ad nockur Logvitringur stood upp, freistade hanns og sagde: Meistare, hvad skal eg giora, so ad eg eigneſt eilijft Lijf? Enn hann sagde til hanns: Hvad er skrifad i Logmalenu? Hverneñ les þu? Hañ svarade og sagde: Elska skalltu Drottenn Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Ondu þiñe, og af ollum Mætte þijnum, og af ollu Hugskote þijnu, og þinn Næunga sem siálfañ þig. Jesus sagde til hañs: Þu svarader riett, gior þad og muntu lifa. Eñ hañ villde riettlæta siálfañ sig, og sagde til Jesu: Hver er þa miñ Næunge? Jesus svarade og sagde: Madur nockur foor fra Jerusalem, ofañ til Jericho, og hrasade a medal Ræningia, hverier ad ræntu hañ Klædum, og lemstrudu hañ Saarum, geingu sijdañ i burt, og lietu hañ þar epter hálfdaudañ liggia. Eñ so bar til, ad Kieñemadur nockur foor ofañ þañ sama Veg, og er hañ leit hañ, gieck hañ fram hia honum. Slijkt hid sama Leviteñ, þa hañ kom nærre þeim Stad, og sa hañ, gieck hañ þar frañ hia. Eñ samverskur Madur nockur foor uñ fareñ Veg, kom þar nærre honum, og sem hañ sa hañ, þa hrærdeſt hañ af Myskun vid hann, og gieck ad honum, batt uñ Saar hañs, hellte þar i Vidsmiøre og Vijne, og lagde hañ uppa siñ Eyk, og flutte til Herbergis, gaf og Giætur ad honum. Eñ añars Dags þar epter þa hañ foor i burt, took hañ upp tvo Peninga, og fieck Hws-Bwandanum, og sagde til hañs: Haf þu Gaat a honum, og hvad þu leggur meira wt, þad skal eg borga nær ad eg kiem aptur. Hver þeirra þriggia sijneſt þier vera hess Næunge, sem hrasadur var a medal Ræningia? Eñ hañ sagde: Sa sem giorde Myskunar-Verked a honum. Jesus sagde til hañs: Far þu og gior slijkt hid sama.

## Exordium.

Svilijk Oeining ad vered hafe millum Gydinga og samariskra fordum, þad vottar heilog Ritning i nockrum Stodum. Hverneg bidur þu mig um ad drecka, þar þu ert Gydingur, sem er ein samarisk Kona, sagde hun er talade vid Frelsarañ hia Jacobs Brunne, þvi ecke Samneyta Gydingar Samaritanum? Joh. 4. Segium vier ecke vel, ad þu ert samverskur, og hefur Diofil, sogdu þeir Gudlastararner fordum, Joh. 8. Og so miked Hatur báru Gydingar til þeirra, ad einn Heidinge mætte Gydingur gioraſt, enn ecke samariskur, jafnvel þott þeir brwkudu marga Gydinga Sidu i Þionustu sinne, so sem einn af þeirra Meisturum skrif-

ar, og sañast hier medal añars, þad er Frelsareñ talade vid Pharisæos, ad þeir bõñudu Moñunum iñ i Himna-Rijke, eñ sialfer kiæmu þeir þar ecke, Matth. 23. Af þessu innbyrdis Hatre, sem i þaa Daga var millum Gydinga og samariskra, tekur Frelsarenn hier Orsøk til ad sannfæra þenna Løgvitring, sem Gudspialled umgietur, og maa hier rekia Spor hanns guddoomlegrar Speke, so vel, sem i ollu hanns Tale. Hefde hann ecke teked hinn samariska til Dæmis um Myskunar-Verked, helldur laated hann vera þann, sem hrasadur var medal Ræningia, þaa hefde þesse Gydingur sagt, ad hann ei hefde vered Naaunge hinns, og Gydingurenn þar fyrer ei skylldugur til ad Lid-sina hønum i neinu: Enn fyrst hann var Samaritan, sem Myskunsemena framde, enn hinn var Jerusalems Madur, þad er Gydingur, og maatte þvi Myskunar verdut þykia, þa gat hinn ecke fraa þvi geinged, ad hann være hanns Naaunge, sem giorde gott Verk a hønum. Ecke a þesse Epterlijking so ad skiliast, ad saa sie einasta Naaunge, sem giorer eins og þesse Samaritan, þad giorer Frelsarenn bert, er hann segier: Hver Laun hafed þier þess, ad þier elsked þaa, er ydur elska, giora ecke Tollheimtu-Menn hid sama? Matth. 5. Helldur er þesse Meiningenn: Fyrst þesse Samaritan giorde þetta vid einn Gyding, þaa far þu, sem ert Gydingur, og gior slijkt hid sama vid einn Samaritan, edur þinn mesta Ovin, þviad hver ein Manneskia er þinn Naaunge, nær hønum a liggur. Ut af þessu Tale Drottenns, vil eg taka mier Orsøk til ad tala um Kiærleikañ, og hvad laangt hann eige ad naa. Vert þu i Verke med oss Drottenn, so ad þetta vel luckest, A M E N.

## Utleggingeñ.

Margar Dyggder eru bodnar i heilagre Ritningu, og mørgum hroosad, þo eingum meir eñ Kiærleikanum. Nu blijfa þesse þriw, Trweñ, Voneñ og Kiærleikureñ, eñ Kiærleikureñ er þo mestr af þessum, segier Paulus, 1. Cor. 13. Þetta er stoor Vitnisburdur af hønum, er so var kiært til Ætt-Maña siña Gydinganna, ad hañ æskte sier ad vera wtrekeñ fraa Christo fyrer þeirra Skulld, Rom. 9. Hañ mun meint hafa, ef þad kyñe ad gagna þeim, og þad mogulegt være, þvi sijdarst i hinum 8. Cap. Segiest hañ vera þess fullvijs, ad eingeñ Hlutur mune gieta skiled sig vid Kiærleika Guds, sem ad er i Christo Jesu: Eñ þvi hroosar hañ nu so miog Kiærleikanum fram yfer Trwna, aan hverrar hann þo segier, ad omogulegt sie Gude ad þocknast, Hebr. 1. Og ad fyrer hana verde Meñ hoolpner, aan Verka Løgmaalsins? Þad velldur þvi, ad Trweñ er daud aan Verkaña, segier Jacob Postule, Jac. 2. Hann meinar aan Kiærleikans Verka sem þo af heñe framkoma, þvi Trweñ sijner Afl sitt hvad mest i þeim: Satt er þad, ad eingeñ verdur hoolpeñ aan þess, ad hañ trwe a Gud, og hañs Christ, og treyste þvi, ad hañ endurkeyptur sie fyrer Guds Sonar Blood, enn þvi gietur saa ecke trwad, til Saaluhiaalpar sier, sem er aan Kiærleikans; Paulus bijdur, ad Meñ skule reyna hvert þeir sieu i Trwñe; Eñ hvar med eiga þeir ad reyna þad, nema med Kiærleikanum, aan hvers Trweñ er eingeñ Trw? So sem Kiærleikurenn gietur

ecke

ecke vered ann Trwareñar, so gietur ei Trwenn ann Kiærleikans vered, þad vottar Paulus, 1. Tim. 1. Er hañ segier: Ender Logmaalsins er Kiærleikureñ af hreinu Hiarta og goodre Samvitsku, og Trw Hræsnislausre. Logmaaled er omogulegt upp ad fylla, þad vottar Paall, er hann segier: Af Logmaalsins Verkum mun eckert Holld fyrer honum hoolped verda, Rom. 3. Þo segier hann aptur i sama Pistle: Saa ed elskar añañ, saa hefur Logmaaled uppfyllt, Rom. 13. Hvad ber til þessa, christner Meñ? Ad þijsu svarade Jesus Logvitringnum, er spurde hañ ad, hvert ed være hid mesta af ollum Bodordunum, Marc. 12. Hañ svarade honum: Hid ædsta allra Bodordanna er: Elska skalltu Drotteñ Gud þiñ af ollu Hiarta þijnu, og af allre Saalu þiñe, og af ollu Hugskote þijnu, og af ollum Mætte þijnum, þetta er hid ædsta Bodord, og annad er þvi lijkt. Elska skalltu Naunga þiñ, sem sialfañ þig; Og i þessum tveimur Bodordum, segier Lausnareñ, ad foolged sie allt Logmaaled og Spaameñerner, Matth. 22. Enn so sem oss er omogulegt allt Logmaaled upp ad fylla, so er oss þad og langt um Megn fram, ad fullnægia þessum tveimur Bodordum, so sem vera byriar, med vorum Tilverknade. Hvilijkur er þaa sa Kiærleikureñ, sem er Logmaalsins Uppfylling? Þad maa eg fyrst og seinst hier til svara, ad þad er hañs guddoomlegur Kiærleike, sem gaf sitt Lijf i Daudañ fyrer Syndarann, Rom. 5. So hann mætte lifa, 1. Joh. 4. Sw Elskann, sem vard honum so sterk sem Daudeñ, og Vandlætingeñ so hord sem Helvijted, hin miklu Votneñ kunnu ecke ad wtslockva þann Kiærleika, og ecke Bylgiurnar ad kiefia hañ, segier Brwdureñ i Lof-Kvædenu, Cap. 8. Þesse oumrædelege Kiærleike og Brune Elskuñar; Hañ er fyrst og sijdarst Logmaalsins Uppfylling, þad vottar Paulus, er hañ skrifar, Rom. 8. Þad sem ad Logmaalenu var omogulegt, af þvi þad veiktest fyrer Hollded, þad hefur Gud giort, sendande siñ Son i Lijkingu syndugs Hollds, og fyrer Syndena fordæmt Syndena i Holldenu; Eñ þo ad Giædska Guds hafe so yfergnæft til vor i Christo Jesu, þar fyrer vill hañ ecke ad vier skulum hlutlauser vera af Kiærleikans Verkum innbyrdis medal vor, þvi Johañes segier med berum Ordum: J þvi er Kiærleike Guds Auglijstur vid oss, ad hañ hefur giefed Saal sijna wt fyrer oss, so eigum og vier ad wtgiefa Saalena fyrer Brædurna, 1. Joh. 4. Elskañ til Naungans er omissande, og aan heñar er eingeñ riettnefndur christenn! Hver sem segiest elska Gud, enn hatar sinn Broodur hañ er eiñ Liwgare, segier Johañes, þvi ef hañ ei elskar siñ Broodur, þañ er hañ sier, hverneg maa hañ Gud elska, þañ er hañ sier ecke? Og þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elskest iñbyrdes, segier Drottenn sialfur, Joh. 13. Hier af vill þad fylgia, ad hann sem ecke elskar siñ Broodur, hañ er ecke Læresveiñ Christi; Saa sem ecke er hañs Læresveiñ, hann er ecke christeñ, og hann sem ecke er christenn, hann hefur ecke Hlutdeild med honum: Med hverium þaa? Med vantrwudum mun hann setia hanns Hlutskipte i þvi Dijke, sem vellur af Ellde og Breñesteine, jaa, med Dioflenum og ollum hañs Arum, þeir ed hata bæde Gud og Meñ: J einu Orde ad segia: Þar er einkis goods Von aa þeim Mañi,

i hveriumm

i hverium Kiærleikureñ ecke bijr ; Jafnvel þo hann sijnest giora nockud gott, Kannskie til ad firra sig Vijtum, til Fordilldar sier, og til ad byggia Hroos af Mönnum, eins og Pharisæi giordu Olmusur sijnar : Þar um̃ tekur Paulus Tvijmæleñ af, er hann seger, 1. Cor. 13. Þo eg bitade allar Eignr mijnar nidur fyrer faatæka , enn hefde ecke Kiærleikañ, þaa gagnade mier þad ecke ; Og hier þvert aa moote ; Hver sem Kiærleikann i sier hefur blijfanda, hann er til allra goodra Verka hæfur. So segier Johannes ; Gud er Kiærleikurenn, og saa sem blijfur i Kiærleikanum, hañ blijfur i Gude, og Gud i honum, 1 Joh. 4. Þetta hefur saa Guds Madur aan Efa lært af sijnum Meistara, hver hañ elskade, þvi so segier hañ blessadur hiaa sama Gudspiallamañe, Cap. 15. Saa sem blijfur i mier fyrer Kiærleikañ, og eg i honum, hañ ber mikeñ Avoxt, þvi aan mijn gieted þier eckert. Sjaaed hversu omogulegt er aan Kiærleikans Gude ad þocknast, og hversu ad hann er Saal allra Dyggda og Mañkosta, þvi ef saa blijfur i Gude, sem i Kiærleikanum blijfur, so sem strax var sagt, þaa eru hanns Verk i Gude giord ; Þvi seger og Paulus, Col. 3. Um̃ alla Hlute fram̃ þaa hafed Kiærleikañ, þvi þad er Band Fullkomlegleikans. An Trwarennar er omogulegt Gude ad þocknast, sem aadur er sagt ; Eñ sonn Trw er alldrei aan Kiærleikans, þvi maa eg so kalla, ad þau sieu eins og Fader og Mooder allra þeirra Athafna, sem nockud eiga fyrer Gude ad gyllda.

Esaias skrifar so um̃ Gud, ad Elldur hanns sie i Zion, og hanns Ofn i Jerusalem, Esa. 31. Teiknande þar med Guds Þioonustu i þeim heilaga Stad, hvar enn allra Hæste hafde sett Miñing sins Nafns, enn sw Dijrkan hefur Enda teked, Sool Riettlætesins hefur Skuggañ afmaad, Zion er Eydelagd, Jerusalem er uppbrend, og Gydingum sitt Hws i Eyde laated, Matth. 23. Þvi kalla eg ad nu bwe Guds Elldur, og hañs Ofn i Nya Testamentesins Mustere, sem er Riett-christens Manns Hiarta, hvar Gud hvijlest yfer Cherubim, yfer þeim Naadar-Stoolnum er hañ framsett hefur i hañs eigeñ Bloode, Rom. 3. J einum glooande Anda, i eiñe lifande Trw, sem verkar med Kiærleikanum, þvi hun gyllder fyrer Gude i Christo, enn hverke Umskurn nie Yferhwd, Gal. 5. J Elskunne til Guds og Naungans, þad kalla eg hinn æfvarande Elld, og sijfellt Offur ; Þad nefne eg Guds Ofn i Mañsens Hiarta. Þesse Hofud-Dyggd, Kiærleikureñ, er nu i morgu foolgeñ, og alla Umgeingne vora upptendrar hañ til hiñs Gooda, ecke sijdur enn Twngañ til hiñs illa, nær hun er upptendrud af Helvijte, so sem Jacob ad Orde kiemst, Jac. 3. Enn Paulus hefur i stuttu Maale uppteiknad alla hanns Edles-Haattu so merkelega , ad þad verdur ecke af syndugre Twngu betur glert, so skrifar hañ, 1. Cor. 13. Kiærleikureñ er Þoleñmoodur, segier hann : Alla Hlute þola Menn fyrer þad, sem þeir elska. Hvad viña Meñ ecke fyrer Mune Veralldar þessarar, fyrer Audenn, fyrer Metordenn, til þess, ad faa Hefnd yfer Ovinum sijnum ? Þad sama giorer Kiærleikureñ vid Gud og Naungañ, Guds vegna. Hañ er goodgiarn, eckert maa hañ Aumt sjaa ; Hañ er ad sijnu Leite eins lyndur og Gud, af hverium hañ er, 1. Joh. 4. Hann giorer Gott ef hañ gietur bæde Vinum og Ovinum, Matth. 5.

Kiærleikurenn ofundar ecke, þad er ꜳ moote hanns Nꜳtturu, ad sꜳ Offioonum yfer nockurs Manns Velgeingne, sem ollum vill vel. Kiærleikurenn giorer ei illmannlega, þad er, med odru Orde ad segia, hreckvijslega; Hañ geymer eingañ vondann Mann, ei talar hañ añad med Muñenum, enn hañ hefur foolged i Hiartanu. Hañ þytur ecke upp; Hañ er ecke drambsamur, þvi sꜳ sem elskar eiñ, hañ vyrder hañ, eñ Kiærleikureñ elskar alla, so miked sem elska mꜳ med riettu. Hann er ecke osidsamur, þar er valla frꜳ ad segia hvilijks Oþocka og Mann=Haturs ad Vanskickuneñ aflar i Heimenum, og utvortis Osider, jafnvel þo sumum Monnum þyke lijted i Kurteisena spunned, samt er hun þo optast Dyggdañá Forunautur, og hun prijder þær, eins og fagur Bryning=ur Mannsins Alit, þetta vill ecke Kiærleikureñ sig vanta lꜳta, so ad eingum giefe hann neina Hneixlan. Hann leitar ecke epter þvi sem hanns er, þvi hann leitar almennelegs Gagns hvad mest, og ecke so miog sijns eigenn. Hann er ecke þrvnglyndur, verde hon=um þad, ad hann reidest, þꜳ lætur hann þo ecke Soolena undergꜳnga sijna Reide; Hañ þeynker ecke illt, ecke ꜳ hiꜳ honum heima þad gamla Ordtæke, margur ætlar mig sig, og mꜳtulega dyggvann, nie hitt, ad illur veit hvar odyggur situr: Af þvi hann ætlar eingum illt, þꜳ dylst hann vid i fremstu Log, ad Hreckvijsenn mune ætla sier þad. Hann ber allt; Allt hvad honum er uppꜳlagt, þad ber hann eins og Mꜳttar=Trie i Hwsum, þau bera allt þad sem ꜳ þau er lagt, hvadann og Mꜳlshꜳttur þesse dreigenn er; So rijs hann og under ollu, sem hann mꜳ umbera, Guds og þeirra vegna, sem hañ er hvad mest skylldugur. Hann trwer ollu, hann vill helldur trwa þvi, sem honum er saklaust ad trwa, helldur enn ad væna einn Lijge ad naudsynialausu, edur Ofyrersynju. Hann vonar allt, hann orvænter ecke um neinn, ad ei kuñe hañ ad betra sig, þo ovæn=legt meige um hann þykia; Olijkur þeim sem ecke vilia neina Tilraun giora vid eiñ, sem af einhverre Hrosun verdur yferstijgeñ, eins og Gud sie ecke mꜳttugur ad reisa hañ, og þess vegna lijdur hañ allt, hañ sparar eckert Þolgiæde til ad bijda epter Betran þeirra, þar fyrer talar Salomon vijslega er hañ segier, Prov. 10. Hatred uppvekur Þræt=ur, enn Kiærleikureñ hylur Misgiorderner. Hvad er nu lijkara Gude eñ þetta Hiartalag? Og þesser eru nu Kiærleikans Avexter, sem upp eru talder; Enn sier i Lage vill Frelsareñ hafa kieñt med þessare Epterlijkingu Myskunsemena og Goodgyrnena vid sierhvern þañ sem naudstaddur er, þvi hañ svarar hinum skriftlærda uppꜳ Spurn=ingu sijna, hver þar være hanns Nꜳunge; Þad er ꜳdur hier ad framan sijnt, hversu ad Gydingar og samarisker hafe hatast ꜳ innbyrdis, og hveruger meintu adra sijna Nꜳunga ad vera; Eñ Drottenn snart hier nockud biturt vid Kaun hiña skriftlærdu og Phariseanna, þar ed hann tekur til Dæmis i Epterlijkingunne Prestenn og Levit=añ; Þesser heilogu Menn, sialfer Gydingar, þeir geingu fram hiꜳ Gydingenum, þar hañ lꜳ so illa fareñ sem i Gudspiallenu segier. Eñ Fiandmadur hañs, hverium eink=is Gydings Auga munde myskunad hafa, hann giorde Myskunar=Verk ꜳ honum. Hann Sꜳ Aumur A Honum, segier Texteñ: Fyrst vaknade Kiærleikuren i Hiart=

 anu,

anu, so eigum vier og lynder ad vera, þvi nema ad Goodgiordet vorar framkome af Gnægd Hiartans, þa eru þær onijtar, þad er ædur vottad af Páls Ordum, er hann segier, 1. Cor. 13: Þoott eg bitade allar Eigur mijnar nidur fyrer fatæka, og hefde ecke Kiærleikan, þa gagnade mier þad ecke. Og aptur bijdur hann, ad Men skule giora gott, ecke af Naudung, helldur af frjlsum Huga; Enn hann liet Goodgyrne sijna ecke alleina vera foolgna i Medaumkunene, helldur brautst hun wt med Verkunum. Han batt Hans Saar, Hellte Par J Vijne Og Vidsmiore, med odru fleira sem Textenn upptelur, og ei þarf framar ad uppreikna? En i einu Orde vil eg þad segia: Eingenn Mooder hefde kunad betur ad giora vid Barn sitt: eingen Fader vid sin einka Son, eingen Brooder vid annan, helldur en þesse Utlendingur giorde vid Ovin sin i slijku Tilfelle. Far þu nu, christen Madur, og gior slijkt hid sama, sem Heidinge þesse giorde: Elska ecke med Orde og Tungu, helldur med Verke og Sanleika, 1. Joh. 3. Nær þu sier Broodur edur Systur nakta, og hafa Skort a daglegre Næringu, þa læt ecke þin Kiærleika vera þar i foolgen, ad þu segier: Lifed heil, vermed ydur og metted ydur, enn giefed þeim þo ecke hvad Lijkhamans Naudþurft tilheyrer, Jac. 2. Þetta er Hræsne eintoom, og þad mun eins lijted gagna Saalu þinne, nær þu skallt fara eins nakenn burt wr Heimenum, og þu i hann komst, so sem ad þijn Fagurmæle gognudu hinum nakta og hwngrada, a medan þu hafder Audlegd Heimsins: Þad er merkelegt, ad a hinum effsta Deige, þegar Reikningureñ skal halldast, þa verdur ofs þesse Pooslur sier i lage fyrer lagdur, hvert Men hafa mettad hin hwngrada, giefed hinum þyrsta ad drecka, hijst hinn framanda, klædt hin nakta, vitiad sjwkra, edur þeirra sem voru i Myrkvastofu, so sem Frelsaren kienner ofs sialfur hier Matth. 25. Cap. Og er þad ecke noog ad vitia þeirra, þad er eins gott og ad segia vid hin nakta, klæd þig, og vid hin hwngrada, mettast, enn giefa honum þo eckert. Vor Vitian a i þvi ad vera foolgen, ad hugsvala þeim, hialpa þeim med Raad og Daad, annars eru Menn ecke betre enn Presturen og Leviten; Þeir saau ad sonu hinn auma Mann er hrasadur var med Ræningia, en geingu fram hia honum. Ja, vier eigum ad hialpa þessum Krossberendum, jafnvel mz Skada vorum, og þo vier meigum nockurs i þarfnast. Hier stendur i Gudspiallenu, ad Samaritanen hafe lagt hin saara Mann uppa sin Eyk. Lijkast er hann hafe læted han sitia a Dijrenu enn geinged sialfur; Þvi i Textanum stendur, ad han hafe sett han uppa sin eigen Eyk, ja, ef vier ecke berum Kunattu edur Vitsmune til ad hialpa þeim sialfer, þa eigum vier ecke ad spara til þess Fe-Mune vora, ad þeim meige hoolped verda; Þvi ef Johannes vill ad vier skulum giefa Lifed wt fyrer Brædurna, þa er þad vijst, ad han ecke vill ad vier þyrma skulum hinum vanglæta Mamon, er ofs mun þo yfergiefa i Daudanum, þvi þad stendur fast, sem Lausnaren sagde: Ad allrijd er Lijfed meira verdt en Fædslan, og Lijkhamen meir en Klædnadurenn, og meira hofum vier ecke af ollu þvi vier eigum, og a þetta ecke ad giora so naumt, ad þeir sieu litlu nær, sem vidþurfa. Ecke var þesse goode Samaritan anægdur þar med, ad koma

þessum Vesæling til Maña-Byggda, helldur Gaf Hañ Giætur Ad Honum; Og Um Morguneñ Er Hann Reiste, Feck Hañ Hwsbondanum Tvo Peninga, Og Sagde: Haf Þu Gaat a Honum, Og Hvad Þu Leggur Meira Ut, Það Skal Eg Borga, Nær Eg Kiem Aptur. O! hvad morgum, þeim er sig christenn nefner, gietur Utlendingur þesse Kinnroda giert a þessum verstu og sijdurstu Tijmum, um hveria Drottenn hefur talad hina sonnu Spa, ad sokum þess, ad Ranglæted vex, þa mun margra Kiærleike koolna, Matth. 24. Eñ þessa Goodvilld eigum vier ecke alleina ad audsyna Naungum vorum edr Kuñingium, þad sie eg berlega af því, er Frelsareñ sagde vid þañ, er honum boded hafde, Luc. 14. Nær þu helldur Middags-Verd edur Kvolld-Maaltijd þa biood ei Vinum þijnum, edur Brædrum þijnum, edur Ættmonnum þijnum, edur rijkum Naagronnum, so ad þeir bioode þier aptur einhvern Tijma, og það verde þier endurgollded; helldur, nær þu giorer Heimbod, þa biood snaukum, vonudum, halltum og blindum, og muntu sæll verda, því þeir hafa þier ecke aptur ad giefa, því það skal þier aptur gollded verda i upprisu riettlaatra, þar fyrer, ef þu christenn Madur ert, ef þu villt i þeirra Upprisu Hlutdeild hafa, þa sia til, ad þu naaer Hlutskipte i þinne fyrre, so þu verder sæll, og sel þig ecke fyrer Hollde þijnu, það er, fyrer þijnum Naunga, hver sem hellst hann er, og nær þu sier einn naudstaddann, er þu hiaalpad gietur, þa laat so sem hid sijdarsta Lwdurs-Hliood kvede fyrer Eyrum þier, og tak það fyrer Bod fra Gude, til ad minna þig a, ad giora Skylldu þijna med Kiærleikans Verke vid hinn naudstadda: Laat eingañ vera undann skilenn, þo þier oþeckur sie; Gleymed ecke Giestrisneñe, segier Paall, því fyrer hana hafa sumer Englana hyst ovitande, Hebr. 13. Hann meinar an Efa Abraham, Gen. 18. Og vard honum það ad mikelle Blessan; Þu veist ecke hverium Guds Þocker ad giora, enn það veistu, ad hann þacka vill allt það, sem i hanns Nafne giort og giefed er.

Framande var eg, og þier hystud mig, segier Doomare alls Hollds. Þu skallt ecke giora Ofrijke hinum framande, því þu varst framande i Egyptalande, segier Gud, Exod. 22. Þu skallt og hyga það, ad þu ert framande i hinne vondu Egypto, Verolldu þessare, i þeirre Leyr-Velltuñe, því Prædooms-Hwsenu: J hinne eilijfu Canaan er þitt Fodur-Land, þangad attu inn ad ganga til hanns Hvijldar, þangad a þig ad leida, ecke Jesus Sonur Nun, helldur Jesus Sonur Davids; Forsma ecke þa, sem hann hefur med sijnu Bloode endurleyst, er sialfur framande var medal sinna eiginn, og hvad minnst vyrdtur a sinne Foostur-Jordu fyrer þijna Skulld, sem varst utlægur wr Himnarijke, og so þu viter, ad það sie ecke noog, ad giora hinum framanda, edur naudstadda eckert Mein, þa leggur Drottenn sialfur best wt sijn eigeñ Ord, þar hañ segier, Lev. 19. So sem hinn iñlende, so skal Utlendingureñ vera, sa ed reiser um hia þier; Og eñ framar: Þu skallt ecke upptaka Leifar Kornskieru þinnar: Þu skallt laata þær epter hinum snauka, og hinum utlenda, Levit. 23. Ja, Þier skulud elska hiñ framanda, því þier vorud framande i Egyptalande, segier hinn alvalde Konung-

ur, Devt. 10. Ecke eru undañ þessare Skylldu Ovíner þijner skilder, Guds Barn, helldur i þeñe tilskilder, so segier Drottēñ, Exod. 23. Ef þu fiñur Naut Ovinar þijns, edur Asna villuraafande, þaa skalltu endelega færa þad til hañs. Vilie nu Drottenñ ad einn skule vera sijnum Ovin skulldbundeñ i so litlum Hlut; Hvad þaa ecke, ef hönum meira aaliggur, og þo ekkert være annad, sem kyñe ad hræra oss til ad giæta þessarar Skylldu vorrar, þaa er hid algiørda og alkuñuga Logmaal Christi, er ritad stendur hiaa matth. Cap. 5. Elsked Ovine ydar; Blessed þaa er ydur formæla, og bidied fyrer þeim ed smaana ydur og ofsækia. Til hvers? So ad þier sieud Børn Fodur ydar, sem aa Himnum er, hver ed lætur Sool sijna upprenna yfer riettlaata og raanglaata, og rigna yfer vonda og gooda. Jesus maatte hier diarft um̃ tala, hann var i Guds Mynd, Phil. 2. Jaa, sialfur Gud, eilijfur Fader og Fridar-Hofdinge, Esa. 9. Þo lijtelæckade hañ sialfañ sig, takande Þioons-Mynd, vordeñ hlijdugur allt til Daudans; jaa, allt til Krossens Dauda, sijdañ er hañ uppfarenn i Hædernar, og hefur Moñunum Gaafur giefed: Enn hvilijkar Gaafur? Naad Guds og Vingan, Syndanna Fyrergiefning, H. Anda og eilijft Lijf. Hverium hefur hañ þessar Gaafur sendt? Ovinum sijnum, þeim sem hann hæddu, fiotrudu, hwdstrycktu, med Þyrnum koronudu, og aa Gaalgann uppheingdu, ecke einasta þeim, er stoodu ad Verkenu, helldur og øllum ødrum, hverra Synder ad Dijrdareñar Hertoga Krossfest hafa, þvi fyrer alla er hann daaenn, og øllum er Guds heilsusamleg Naad framboðeñ: Þetta giørde hann, sem er Lioome Fodursins Dijrdar, þegar allt Mannkyn var statt i hinu herfelegasta Volæde. Skamastu þiin þar fyrer, Syndarenn, nær þu sier Ovin þinn hwngra, ad giefa hönum ecke ad eta, edur þyrsta, og giefa hönum ecke ad drecka, og nema þu so giører, þaa þeink alldrei til þess, ad þu siert kvittur um̃ Synder þijnar fyrer Gude, þvi valla hefur Guds Ande i nija Testamentenu lagt so rijkt aa vid Mennena um̃ nockurn Hlut, sem þenna. Aller kollum vier Gud vorn Herra, eñ ef hañ er vor Herra, hvar er þaa hanns Heidur? Mal. 1. Hvar er Hlijdne sw, er vier eigum hönum ad audsyna? Þvi kalled þier mig Herra, og giøred þo ecke þaa Hlute, er eg bijd? Segier Christur, Luc. 6. Hañs Bodord eru ecke þwng, segier Johañes, enn eg vil segia, ad þetta er eitt af þeim liettustu, af þeim audvelldustu, fyrer þañ sem hugleider hvad lijtel sie Naungans Misgiørd vid sig, hiaa þvi sem hañ sialfur hefur giørt Gude i moot, og hversu þad er eckert, sem hañ gietur lidsiñt Broodur sijnum, hiaa øllu þvi goodu sem Gud hefur hönum giørt, og tekur hann þad þo ecke af sijnu, helldur hanns, sem aa allar Eigur. Drottenn vor

slock þu i oss Baal Illskuñar, og Heiptræknennar, enn kveik i oss
Elskuna til þijn og Naungans; Þier sie Lof Dijrd
og Heidur, um̃ Allder, Amen.

# Fioortanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 17. Cap.

I þañ

A Þañ Tijma. Og þad skiede so þa ed Jesus gieck til Jerusalem, ad hañ ferdadest i giegnum midia Samariam og Galilæam. Eñ sem hañ gieck iñ i nockurt Kauptwn, mættu honum tiju lijkþrær Meñ, hverier ad stoodu langt fra, hoofu upp sijnar Radder, og søgdu: Jesu goode Meistare, myskuna þu oss. Eñ sem hañ leit þa, sagde hañ til þeirra: Fared þier og sijned ydur Kieñemoñunum. Og þad skiede so, þa er þeir geingu þadañ, ad þeir urdu hreiner. Eñ eirn wt af þeim, nær hañ sa þad, ad hann var heilbrigdur vordeñ, snere hañ aptur, lofande Gud med hærre Raust, fiell frañ a sijna Asioonu fyrer Fætur Jesu, gjørande honum Packer, og þesse var samverskur. Eñ Jesus svarade og sagde: Hvert voru ecke tiju hreinsader? Eñ hvar eru hiner nyju? Fundust eingver þeir aptursnere, ad giefa Gude Dijrdena, nema þesse Utlendingur? Og hañ sagde til hañs: Statt upp og far hiedañ, þviad þijn Trw giørde þig hialplegañ.

## Exordium.

Hversu stoor ad sie Mismunur Guds og Maña, þad kañ eingeñ Twnga wt ad skijra, og eingeñ Hugur ad skilia: Hver Maña veit hvad Mañsins er, nema Mannsins Ande sem i honum er? So og hvad Guds er, veit eingeñ, nema Guds Ande, segier Paulus, 1. Cor. 2. Enn þo ad vor nætturlegur Skilningur nære skamt til þess, ad rañsaka Guds Underdiwp, þa kyñum vier þo a þessum Misinun nockud skijrare Grein ad giora, ef vier legdum meire Hug a, ad samañbera hañs Almætte og vorn Vanmatt, hañs Riettlæte og vort Ranglæte, hañs Vijsdoom og Fafrænsku vora. Eñ þo allra hellst hañs Poleñmæde og vora Þvermoodsku, hañs Giædsku og vort Oþacklæte. Hañs Almætte þeckium vier ecke so sem þad er. Sitt Riettlæte sijner hañ oss ecke so opt, nema i Giædskuñe, þvi velldur Rijkdoomur hañs Poleñmædis: Hañs Vijsdoom skynium vier ecke, enn hañs Langlundar Gied, hañs Giædsku og Myskunseme meigum vier hvad best þeckia, þvi hun er nij og fersk yfer oss a hverium Morgne, Jordeñ er full af heñe; a hverre vier skrijdum, synduger Ormar, og meigum daglega rekia þar hañs Spor, sem driwpa af Feite. Eg skal ecke fullkomna mijna brennande Reide, eg skal ecke tortijna framar Ephraim, þvi eg em Gud og ecke Madur, segier Giædskañ sialf fyrer Munn Hoseæ Spamañs, Cap. 11. Og þo vill Syndareñ ecke kañast vid þessa guddoomlega Elsku, Myskunseme og Polenmæde, jafnvel þo hann sie Madur, þad er, ein Gufa, ein Vatns-Boola, og ecke Gud, og ecke þacka honum edur kannast vid hanns fødurlega Giædsku, margur hver, ja, Gud giæfe ad færre være enn fleire. Dæme hier uppa siaum vier i Textanum; a þessum

um tiju lijkþraau Monnum, sem hreinsader voru, hverra einn alleina aptursnere, og gaf Gude Dijrdena, enn hiner niju gleymdu þvi ad Bragde er giortvar. Eg vil skipta Gudspiallenu i tvo Hlute, og hugleida. 1. Oþacklæte hinna niju. 2. Þacklæte hinns eina. Jesu goode Meistare, hialpa oss hier til med Krapte sins Anda, A m e n.

## Utleggingen.

Ecke er Trwen allra, segier Paulus, 2. Thess. 3. Ollum er hun þo frambooden sem Orded heyra, þvi heilsusamleg Guds Naad er opinber orden ollum Monnum, segier Postulen aptur, Tit. 2. Er han talar um Christne-Boded, i hveriu ad Trwen er eitt Hofud-Sticke; Margur trwer um stundar-saker, enn a Freistingar-Tijmanum, þa fellur han þar fra, so sem Lausnaren kiener hia Lucam, Cap. 8. Ad vijsu er þad satt, ad Freisting merker optlega i Ritninguñe þær Hormungar, er Gud lætur Bornum sijnum mæta, til ad reyna þau: Ydur hefur ecke hendt nema mañleg Freistne, segier Paulus, þad er Mootlæte þad sem Moñum er bærelegt: So nefner og Jacob Mootlæte Guds Barna, Cap. 1. Enn Gud freistar Mañsins a stundum med Epterlæte sijnu: Þegar Gud liet David allt ad Oskum ganga, þa vard hann so freistadur, ad hañ talde Foolked, 2. Sam. 24. Þegar Ezechias Konungur hafde Luck i ollu sijnu Verke, þa freistadest hañ til ad sijna Babylons Hofdingia Sende-Monum Fiar-Sioodu sijna og Gersemar, 2. Chron. 32. So ad þad ma allt synduglt Holld jata, ad ecke er miñe Freistinga Von i Medlætenu eñ i Mootlætenu, so sem Mootganguren steyper sumum i Orvænting, so þurfa og sterk Bein til ad þola gooda Daga. Morgum hefur Velgeingnen komed til Ohoofs, til Ofmetnadar, til Oþacklætes vid Gud, og jafnvel til Afgudadijrdkunar, ja, þeim og sem Gud hafa adur vel þeckt, og hañ wr Duptenu hafed hefur, enn sett til mikillrar Tignar, hvar um kloost Vitne bera Jeroboam og Jehu Israels Konungar, sem ecke voru kongborner, enn Gud þo upphof a Tignar-Stool Drottna sinna. Ecke verdur þvi neitad, ad aller þesser lijkþraau Menn, þeir hafa i fyrstunne trwad a Christ, þvi upphoofu þeir Radder sijnar, og sogdu: JEsu Meistare Myskuna þu Oss, þad hefdu þeir ei giort, nema þeir hefdu heyrt Rikred af Drottne, og treyst þvi, ad med honum være guddoomlegur Kraptur; Er eg Gud sa ed kuñe ad deyda edr lijfga, sagde Israels Konungur, þegar Konungurenn af Syria sende Naaman hiñ Syrlendska til hañs, þad eg giete hreinsad þeña Mañ af siñe Lijkþraa, 2. Reg. 5. Hvar af audsært er, ad þad hefur vered ad jofnu lagt i þa Daga, ad lækna þesshattar Siwkdoom, og ad uppvekia af daudum, sem er Guds alleina, so sem David vottar, og er þvi audvitad, ad þesser veiku Menn hafe tillagt Frelsaranum nockurskonar guddoomlegañ Heidur, þoott ei hafe þeir vered sañfrooder um hañs Persoonu, samt dugde þesse Trw til Lijkhamans Lækningar. Drotten læknade þa ecke strax, eins og hiñ lijkþraa, er gietur um hia Matth. 8. Cap. Vid hvern hañ snart og sagde: Eg vil vertu hreinn; Helldur sagde hañ alleina: Fared Og Sijned Ydur

Ydur Kiennemønnunum, og ættu þeir þo længa Leid til þeirra wr Samaria upp til Jerusalem, eñ æ Leidenne hafa þeir hreinsader vorded, þvi Gudspialled segier: Og þad Skiede Er Þeir Voru A Ferdenne, Ad Þeir Hreinsudust. Þetta sijner Trw þeirra, ad þeir efudust ecke um̃, ad giora Frelsarans Skipan, helldur i Trauste hanns Orda byriudu Ferd sijna til Kieñemannanna, sem epter Løgmaalenu ættu ad dæma um̃, hvert þeir væru hreiner edur ei. Olijker voru þeir i þessu morgum þeim, er ei vilia Gude treysta, verde þeir ecke strax Bænheyrder, um̃ þæ Hlute er þeir þurfa þykiast. Vantrwenn segier: Þo Gud giørde Glugga æ Himnenenn, þæ kann ecke þetta ad skie, hun skijtur her inn jafnvel hiæ Guds Bornum, og prediker; Hvar faum vier Braud hier i Eydemorku so ad þesser nepte, Marc. 8. Hvad tijtt hender oss þvilijkt nær oss þyker eitthvad olijklegt? Og er margur af oss i þessu miog olijkur þessum Lijkþraa Monnum: Enn i hinu erum vier þeim næsta lijker, ad þegar Drottenns almættuga Hond hefur wtrycht oss af Neydeñe, þæ erum vier þess so skam̃minnuger, og hanns Otte er valla lengur hiæ oss enn Snioorenn æ Steinunum, þegar Regned ofann kiemur, so sem Spæmadurenn segier: Og hvad er tijdara eñ þad, ad nær Angistenn þreynger ad oss, ad vier þæ kollum til Drottenns, þæ er vort Sinne til hanns, so sem Esajas ad Orde kiemst, Cap. 26. Hver er sæ, nær hann siwkur er, edur af einhverium Lijkhamans Meinum plægadur, ad ecke sie hañ reidubwenn til ad giefa Gude Handskrift sijna, ef hann mætte, uppa Betran Lijferneseins, og ad hann vilie læta af ollum þeim Syndum, er hann veit og vidkannast, ad hann hafe hinn gooda Gud styggdann med? Þetta er ad vijsu Alvara flestra Mañа, þvi eingeñ hygg eg ad vilie gabba Gud, þegar so æstendur: Asetningureñ er ad soñu goodur, og geingur þad fyrer fullt, ef Gud lætur einn burtfallast i Siwkdoomenum; Eñ þæ er Efnanna vant, þegar Heited er komed, seger Ordtæked, hvorneg þeim sie vared æ Stundum, þad siaum vier af þeim morgum sem hætt hafa leiged, eñ Guds Polenmæde og Giædska hefur aptur æ Fætur reist, ad þeir lifa eingu betur sijdann enn ædur, nema midur sie æ Stundum, og læta jafnvel ecke af þeim Løstum, er vered hafa Orsok til Meinlætis þeirra, edur añars Mootgængs, og brwka so Myskun Guds til Eflingar Syndanna, so længt er fræ þvi, ad þeir læte Rijkdoom hanns Polennmædes draga sig til Ydrunar, Rom. 2.

Meñ hafa æ medal vor eina Skrok-Sogu um̃ Barn nockurt, þad er fiell i Pitt, og er þad meinte sier Dauda-Von, beidde þad Gud ad hiælpa sier til Lijfsens, enn er þad slapp wr Dijkenu upp æ Backañ, þæ segier Æfenntijred, ad Barned hafe sagt: Ecke þarftu, eg gat; Einfalldleg er Saga þesse, eñ þo er hun mætuleg til þess, og þar til mun hun diktud vera, ad giora þeim Kiñ-Roda, sem eru Born i Skynsemeñe, eñ ecke i Hreckvijseñe, 1. Cor. 14. Og leita Guds alleina nær þeim æliggur; Enn añadhvert þacka sier, edur giallda honum litlar þacker, nær þeir sloppner eru wr Vandrædunum: Þetta er almeñara, eñ Vitne þurfe til ad leida, jafnvel hiæ þeim, sem hvad best ættu ad vita sijns Herra Vilia, Luc. 12. Og odrum ad vera til Epterdæmis, er þo mættu Ottast

fyrer

fyrer hinum flestu Slogum, nær Mæler Syndanna er uppfylltur. Til eru þeir sem meina, ad Prestarner hafe umsnwed þessum niju Gydingum, og taled þeim Trw þar um, ad Jesus hefde ei giort Jardteikn þessa af Guds Krapte, og þvi hafe þeir ecke aptur horfed. Alls var ad sonnu ills Von af þem i þaa Daga: Sierdellis þegar Christur aatte Hlutenn ad, og var ecke olijkt þvi er hann maatte heyra, ad fyrer Beelzebub ræke hañ wt Dioflana, Luc. 11. Pad gietur og skied, ad þeir hafe talad þetta fyrer Gydingum, Londum sijnum, enn ecke hyrdt so miog um hiñ wtlenda Mañ: Þeim hefur þad i eingu Rwme leiged, þo hañ snere aptur til hañs, er þeir kolludu Samariskañ og hefde Dioflen, Joh. 8. Enn Gaatu þessarar er eingenn Þorf; Holld og Blood er noogu hannvænt til ad vekia i oss Syndena, og ad letia oss til ad giora Gude Þacker fyrer Myskun sijna, er þo daglega upprennur yfer oss ryanglaatum aa hverium Morgne. A medañ þesser veiku Meñ laau under Krossenum, þaa voru þeir gooder Viner, og aller i einum Flocke, enn þegar Drotteñ hefde giefed þeim ollum Heilsuna aptur, þaa koñudust hiner niju vid þad, ad þeir voru Gydingar, enn hiñ Samverskur, þvi ecke villdu þeir verda honum samferda i Apturhvarfenu til Frelsarans; Þañveg er vort Þacklæti vid Gud, er hvad mest hefur boded ad dijrka sig med Kiærleikanum, Myskunsemenne og Eindrægneñe. Þegar Skeinkiare Pharaonis hefur naad aptur sijns Herra Gunst, þaa gleymer hañ Joseph, þvi hañ var utlendur; Þegar Skullda Þrioortureñ, sem aatte 10000 Pund ad gialldu, þegar hañ er wtgiengeñ fraa Hws-Fodurnum, sem gaf honum upp alla Skulldena, þaa griipur hañ fyrer Kverkar sijnum Verka-Naut, er honum var miklu miña skylldugur. So geingur þad til fyrer morgum af oss; Hafe Gud upphafed eiñ Vesæling til Heidurs, til Rijkdooms, til Embættis, þa vill hañ ecke kañast vid Brædur sijna, er skomu aadur voru hañs Jafningiar, og kann ske hofdu giort vel til hañs. Þegar hinn almaattuge hefur lagt einhvern under Lijma med nockru Mootlæte, annadhvert Heilsu-Breste, Fie Missu, Ofbellde og Offooknum vondra Maña, er hañ kiour ad flwga aa suma, sem miñe Maattar eru, til ad typta einhvern, eñ laated hañ þo rata wr þessu, og sett hañ aptur i siñ Stad, þaa stijngur hañ bæde Augun wt, og vill ecke Myskuna honum, sem hañ þo sier, ad maa lijda hid sama, sem hann maatte þola, og Gud hafde agad hañ med, til ad þeckia Vanmaatt siñ, og Skaparans Giædsku, og þegar hañ sier Ovin siñ, er hañ þykest eiga Heipter ad gialldа, þaa segier hañ med sialfum sier: Eg skal giera honum, so sem hann mier giorde: Soddañ er hid mesta Oþacklæte. Voru Ecke Tiju Þeir Ed Hreinsader Voru, Eñ Hvar Eru Þaa Hiner Niju? Segier Endurlausnareñ i Gudspiallenu. Betra hefde þessum Oþacklaatu Monnum vered, ad Sijwkleike þeirra hefde fylgt þeim iñ til Daudans, eñ ad þeir yrdu heilbrygder aa Lijkhamanum, eñ fyrer Vanbrwkun Drotteñs Giædsku, aa Saaluñe Vanheiler. Þeir skildu sig fraa þessum utlenda Mañe i þvi, ad þeir sneru ecke aptur til sijns Læknara, og sijndu þar med, ad ei væru þeir af hinne osijnelegu Guds Kyrkiu, þo ad þeir væru Limer hinnar sijnelegu; So vil eg segia: Ad þeir, sem eg hier ad framann hefe talad

nuñ,

um̃, er vilia fremsilder vera Christi Limum, og ecke þeckia þaa, þeir eru Stallbrædur þessara obäcklaatu Mañã, og ecke Limer aa hañs Lijkhama, sem er Hesud Safnadarens, og ecke einasta gieck krijng, giörde gott og grædde alla, helldur og leid fyrer Ovine sijna, jafnvel þaa, er hañ sialfer kvoldu. Vier vorum til forna wtlender, aan Guds i Heimenum, og fiarlæger Israels Borgar-Riette, so sem Paulus ad Orde kiemst, Eph. 2. Hvert ad þesser nyju Gydingar hafe nockurn Tijma aptur nææd sinne andlegre Hellbrygde; Þad veit hann eiñ, sem alleina veit Tolu sina wtvalldra Barna: Enn sieaum vier til Utlendingaña Syner, ad vier helldur lijkiunst þessum Utlending, helldur eñ Abrahams Sonum þessum epter Holldenu, so ad Sp aadöomur Frelsarans mætte rætast aa sierhveriũm af oss, þar hañ sagde, Marger munu koma af Austre og Vestre, og sitia til Bords med Abraham, Isaac og Jacob, enn Rijkesins Syner munu wtrekner verda i hin ytstu Myrkur, Matth. 8. Vier erum ad sönnu komner i Stadeñ Gydinga. So sem ad Drottenn wtrak Heidingia fyrer þeim, vegna Synda sinna og Stoor-Glæpa, so hefur hañ wtreked þaa fyrer oss sokum Hardydgis þeirra og Vantrwar, þeir eru afbrotner, enn vier innplantader, so sem Paulus ad Orde kiemst, Rom. 11. Enn Gud giefe, ad fleire enn eiñ Samaritan fiñest aa medal tiju Israels Mañã, þad er þeirra, sem eiga ad vera, og kalla sig Abrahams Syne epter Trwñe. Diogenes Spekingur var eitt sinn adspurdur, hver Hlutur ad mest fyrntest aa medal Mannaña, enn hann svarade; Þad væru Goodgiörderner, þvi maa ei neyta, ad hañ sagde satt, dagleg Reynsla kienner þad: Enn hverneg sem þessu er vared aa medal vor Mannaña iñbyrdis, þaa ætla eg þo, ad Velgiörningar Drotteñ, og Packlæted fyrer þaa, þau eige hiñ skiemsta Alldur hiaa sumum hveriũm, og eg maa segia, hiaa allmorgum: Þar uñ hygg eg þad sattste, er hiner spoku segia: Ad sumer vanþacke þess meir, sem þeir meira skylldugar eru, sokum þess, ad vier sieaum hver annañ, og þar sem oss er eitt sinn gott giört, þadañ væntum vier meira, þaa læatunst vier þacka Moñunum, ecke so af Hiarta sunierhverier, so sem til ad orsa þaa til, ad hallda afram Goodvilldenne, þad siest aa stundum, nær þeir eru i einhveriũm Þrautum stadder, sem hvad best hafa til vor giört: Enn Fodur Liossaña, fraa hveriũm ad kiemur oll good Giof, og oll fullkomeñ Giof, Jac. 1. Og allt hvad fraa Monnunum kiemur, þad kiemur i fyrstuñe fraa Gude; Honum þacka Meñ so lijtt, af þvi vier sieaum hañ ecke, enn þreifum þo aa hanns Giædsku, hañs Velgiörningum og Dæadsemdum, hvern Dag, hvern Tijma, og hvert Augnablik; Og skal þad nu so wt-talad uñ þad fyrra.

Nu er sijdañ ad tala uñ Packlæte Utlendingsins, og hvad vier eigum af þvi ad læra. Drottningeñ af Sudre mun upprijsa og fordæma þessa Kynslood, sagde Lausnareñ, Matth. 12. Hun var framande, og þo dæadest hun so ad Speke Salomonis, ad Lausnareñ hroosar henne i þessum Ordum; Eñ oll Salomonis Dijrd var lijtel ad reikna hiaa þessu Kraptaverke Drotteñs, þvi maa eg þad segia, ad þesse Utlendske Madur muñ gieta kieunt morgum Atferd Packlætesins vid Gud, fyrer medtekna Velgiör-

 ninga

ñinga. Hverneg giorer hann þad? Gudspialled segier: Hañ Hafe Prijsad Gud Med Hærre Roddu. Lof seig þu Ond mijn Drottne, og allt hvad i mier er hañs H. Nafne, segier David, hvar af siæ mæ, ad hann vill ad aller Partar Skapnadar vors skule Gud lofa, æ medal hverra ad Rausteñ er ecke hinn miñste. Alla Hlute hefur Gud giort sier til Dijrdar, og til vorrar Sæluhiælpar; Oskande være, ad Meñ brwkudu þæ þar epter. Hvad opt bijdur David, ad Menn skule Gude Lof sijngia? Moyses saung Gude nijañ Lofsaung, Maria Syster þeirra Arons gieck wt og prijsade Gud mz Bumbum og Hliood færum, þegar Gud hafde giort hina stooru Enduriausn sijnu Foolke af Egyptalande, Exod. 14. So er þad eñ nu hiæ os bæde skipad og venielegt, ad prijsa Gud med Psalmum og Lofsaungvum, epter Pæls Bode, Col. 3. Ecke segie eg, ad þesse Samaritan hafe kveded vid Raust; Eñ þetta, ad hann prijsade Gud med hærre Roddu, þad miñer mig þar æ, ad vier lærum Lofsaungva vora ecke alleina vera foolgna i Hlioodunum, helldur þar med i Gudrækne Hiartans, þvi hier stendur, ad hañ hafe prijsad Gud, af hveriu audsært er, ad Hugur hefur Mæle fylgt. Ecke verdur Drotteñ med þvi prijsadur, ad nælgast hann med Vørunum, ecke helldur med Raustenne alleina, hversu fem hun fogur er, hann vegur Hiartad, sem er Hiartnañа og Nijrnañа Rañsakare, giæte þeir þess, er fara med andlegar Vijsur og Psalma, alleina ad Gamne sier, brwka þær fyrer Ol-Vijsur, edur til añars Giælijfis, hygge Meñ ad, hvert ecke er i þessu nockur Gudlastan: J þetta mun þykia lijted spuñed, þvi þad er almeñt, enn Gud lætur ecke ad sier hæda, þo Ordeñ sieu good, þo Dycktureñ fallegur, þo Rausteñ sie væn, þæ eru soddañ Lofsaungvar ecke añad eñ Nyt fyrer utañ Kiarna, Sky fyrer utañ Regn, og meir til þess ad styggia Gud, enn ad prijsa hann, vilie Menn þvi sijngia Gude Lof, edur prijsa hann med Roddu siñe, þæ sijngie Meñ eins og Paulus og Silas i Fangelsenu, Act. 16. Eins og Guds Mooder, eins og St. Pæll um̃ sig segier, 1. Cor. 14. Eg skal sijngia med Andanum; Eg skal og sijngia med Hugskotenu, þad er, eg skal læta Hug Mæle fylgia, æn þessa er Rausteñ onijt til ad prijsa Gud; Miklu betur lætur Þøgn Moysis, er hann hroopade til Guds, Exod. 14. Eñ ecke gietur um̃, ad nockur hafe sied hanns Varer bæraft, miklu betur þeigiande Grætur Auñu Mooder Samuelis, og miklu betur Trw og heimugleg Andvarpan hiñar bloodfallsiwku i hanns Eyrum, sem Eyrad plantad hefur. Hañ Fiell Til Foota Jesu, segier i Gudspiallenu: Þetta var hid mesta Audmyktar Merke: Ad soñu plogudu Gydingar ad bidiast fyrer standande i Samkunduñe. Tollheimtumadureñ stood og badst fyrer, sama giorde Phariseiñ, þvi segier og Lausnareñ, Marc. 11. Nær þier standed og bidiest fyrer, þæ fyrergiefed, ef þier hafed eitthvad æ moote nockrum, so bijdur og Paulus, 1. Tim. 2. Ad Menn skule upphefia heilagar Hendur, þo var þad Sidur Gydinga, nær þeir sier i Lage villdu audmijkia sig, ad þeir kostudu sier flotum fram̃ fyrer Gud: Þanneñ giorde Josua, Jos. 7. So breytte David, og siælfur Frelsareñ i siñe mestu Angist. Audmijkteñ geingur undañ Vegsemdeñe, segier Salomon

mon, Prov. 15. Eingenn Hlutur er Gude þægare, eñ eiñ audmiwkur Ande. J vorre Audmyktt miñtest hañ a oss, segier David, Ps. 136. Ja, hañ lijtur a Tal hiñs audmiwka, og forsmaaer ecke hañs Bæn, segier hañ eñ aptur, Ps. 101. Hversu vel þocknadest Gude Audmykt Abrahams, er hann sagdest vera Duft og Aska, Auñu Hwsfrw Elkanæ, Gedeonis, er hann sagdest vera hinn minste i sijns Fodurs-Hwse, Jud. 6. Þad stendur fast sem Salomon skrifar; Hinum dramblaata fylger Nidurdreped a epter, og þañ sem audmiwkur er i Anda, mun Vegsemdeñ upphefia, Prov. 29 Og þvi skyllde Mañeskiañ ecke audmijkia sig fyrer Gude? Einn Syndare fyrer hinum heilaga; Eiñ Ormur fyrer Konunge Himens og Jardar; Einn Skullda Þriootur fyrer þeim er daglega uppgiefur honum so mørg tiju Þusund Punda, hvers Giædska ad er hærre eñ Himeneñ, hvers Reide ad breñur allt til nedsta Helvijtis yfer hinum dramblaatu, hver ed volldugum hrinder af Stoole, enn lijtelaatum giefur hañ Naad; Og hversu eru Menn ecke audmiwker i annara Manna Augsyn, jafnvel a stundum fyrer einn Bita Brauds; O! hvilijk Lotning ber þa honum, sem daglega upplijkur siñe milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur? Giorande Honum Þacker, segier i Textanum. Þesse framande Madur hafde adur sijnt Drottne gudlegann Heidur, þar hañ fiell til Foota honum, hvad Gude alleina tilheyrer, jafnvel þo sumer Veralldar-Hofdingiar hafe laated sig so Tigna, einkum Persanna Konungar i Fyrndenne, þvi ecke villde Engellenn taka slijku af Johanne; Er hann sagde: Sia til ad ei giorer þu þetta, tilbid þu Gud; Act. 19. Nu fyrst hann þeckt hanns guddoomlegann Krapt og Valld, þa offrar hann honum Þackargiordenne. So sem eingenn Hlutur meir styggar Gud eñ Oþacklæted, hvar uñ adur er nockud talad; So er og Þacklæted hañs kiæraste Skattur, og snart ad segia, sa einaste, af Moñunum, þvi ad þesse Skyllda a ad sijna sig i ollu þvi, er vier leitunst vid ad giora Gudi til Þocknunar, þar fyrer segier Paulus: Allt hvad þier giored med Orde og Verke, þad giored i Nafne Jesu Christi, og þacked Gude og Fodur fyrer hañ, Col. 3. Þacklætenu er so vared, nær þad framkiemur af Elskunne til Guds, og trwudu Hiarta, ad þad ecke einasta giealldur Gude undanfarnar Velgiorder, þvi añad heimtar hañ ecke, helldur og bijdur odrum heim af hañs Mildunar-Hende; Ecke þrijtur hia honum, ef oss þrijtur ecke þad sem hañ hefur a oss skiled, og syndugum Manne er hægast wte ad laata, sem er audmiwkt Þacklæte.

Et eg nockud Kiot hiña sterku Uxaña, edur dreck Blood Hafraña? Segier Gud fyrer Davids Muñ, Ps. 50. Offra þu Drottne Lofgiordeñe, og giallд hinum hæsta þijn Heit, og er Mañeskiann nærsta hyrdu lijtel uñ sijn eigenn Efne, ad hyn ecke skuleleggia allan Hug a þetta þar Gud kresur so lijtels Hlutar af heñe, i hveriu heñe ecke einasta eru eingeñ Utlaat, helldur er, þad i sialfsu sier hid mesta Yndæle, þeim sem vordeñ er eiñ Ande med Gude, þad er sa Fognudur i heilogum Anda, sem vier eigum ad byria hier fyrst i Guds Naadar-Rijki, eñ sijdañ skal fullkomnast i Dyrdiñi, þegar þad tekur Enda sem Hálfverked er, þvi þad mun i hiñe eilijfu Sælu verda hid mesta Epterlæte Guds

Barna, ad lofa þañ og þacka hönum fyrer allar hañs Dꜳdsemder og Velgiörninga, hveria vier þꜳ fyrst þeckium, so sem vier þeckter verdum, eñ hier ecke nema so sem fyrer Speigel og i Rꜳd=Gꜳtu, 1. Cor. 13. Nu er þad ecke noog, ad Meñ giöre Gude Þacker med Muñenum alleina, Hiartad ꜳ med ad fylgia. Hversu iñelegar Þacker ad Madur þesse hafe giört Frelsaranum, þad sijna oss Ord Drotteñs, er hañ sagde: Þijn Trwa Giörde Þig Hoolpeñ. Og ecke einasta ꜳ Þacklæted ad framkoma af Hiartanu, þad er liett fyrer þañ, sem hugleider, ad hañ er Gude um Sꜳl og Lijf skylldugur, ad þacka Gude af Alvöru, helldur ꜳ og Gnægd Hiartans ad briootast wt med Verkenu i Betran Lifnadarens, i Ydkun hiña bestu Dyggda og Mañkosta, og öllu þvi er vier Gude þocknanlegt vitum vera; þad bijdur Paulus, er hañ segier: Epter þvi Christur er dꜳeñ fyrer alla, þꜳ er þad riettvijst, ad vier ecke framar skulum lifa sialfum oss, helldur hönum sem fyrer oss er dꜳeñ, 2. Cor. 5. Eñ þo ꜳ þesse Vidurkieñing Guds Giædsku hvad mest ad lꜳta sꜳ sig i Myskunar=Verkunum, vid þꜳ sem bera Drotteñs Kross. Frelsarenn sꜳ Aumur ꜳ þessum veiku Möñum, og læknade þꜳ; Giör slijkt hid sama, vert myskunsamur, so sem hañ var myskunsamur, og nær þu sier þvilijkt eitt lifande Hræ, þꜳ hugsa til þess, og lꜳt sꜳ þad i Giörningnum, ad þu viðkanneft, ad þu ert i Skijrnenne hreinsadur, af hiñe andlegu Lijkþrꜳ Syndiñi, sem er öllum Siwkdoomum skiædare. Miñ Herra Jesu; Eg hefe ecke Glede af nöckurs Mañs Hörmungu, nema þinne; Hvar fyrer? Þviad allra Manna Harmkvæle eru Straff Syndarennar, enn nær eg sie, ad þeir eru typtader, eñ eg ein heill og hraustur, þꜳ kiemur mier i Hug, ad eg hefe hid sama forskulldad, eg, sem ad er hinn meste ꜳ medal Syndaranna; Eñ þegar eg ꜳlijt þijnar Hörmungar, Drottenn minn, er þu ecke hafder forskulldad, enn leidst þo saklaus minna vegna, þꜳ stend eg upp med þessum Utlending, þꜳ hressest Hugur miñ, þar eg trwe, ad mijnar Illgiörder sieu þar fyrer kvittar, ad Gud hefur lided i Holldenu; So Giörer Mijn Trwa Mig Hoolpeñ, og þess fullvruggañ, Ad þinn himneskur Fader hefur kastad Syndum mijnum i Hafsins Diwp, so þeirra Minning kome ei upp ad eilijfu. Þier med hönum, ꜳsamt heilögum Anda, sie Vellde og Kraptur, Dijrd og Heidur, um Allder Allda, Amen.

# Fimtanda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 6. Cap.

A Þeim Tijma. Jesus sagde til siña Læresveina: Eingeñ kañ tveimur Herrum ad þioona. Añadhvert hañ afræker þañ eina, og elskar hiñ añann; eda hann adhillist þann eina, og fyrerlijtur hiñ añañ. Eige gieted þier Gude þioona, og Mammona. Þar fyrer segie eg ydur: Vered eige hugsiwker fyrer ydru Lijfe, hvad þier skulud eta og drecka, og eige helldur

fyrer

fyrer ydrum Lijkhama, hveriu þier skulud klædast. Eda er ecke Lijfed meir enn Fædslan̄, og Lijkhamen̄ meir en̄ Klædnaduren̄? Lijted a Fugla Himens, þeir ed hverke saa nie uppskiera, og ecke helldur safna þeir i Korn-Hlødur, og ydar himneskur Fader han̄ fæder þaa. Eda erud þier ecke miklu framar enn þeir? En̄ hver ydar gietur med sijn̄e Ahyggiu auked eirnre Alen̄ vid sijna Leingd? Og hvar til erud þier hugsiwker fyrer Klædnadenum? Hygged ad Akursins Lilliu Grøsum, hvernen̄ þau vaxa, þau vin̄a ecke nie spin̄a; En̄ eg segie ydur: Þad Salomon i allre sin̄e Dijrd, var eige so skrijddur sem eitt af þeim. Og ef Gud klæder so Grased þad i Dag er aa Akre, og aa Morgun verdur i Ofn kastad; Skyllde han̄ ecke miklu framar þad sama vid ydur giora, O! þier lijteltrwader? Þar fyrer skulud þier ecke hugsiwker vera, so segiande: Hvad eignum vier ad eta, eda hvad eigum vier ad drecka, eda med hveriu eigum vier ad klædast? Þviad epter þessu øllu leita heidnar Þiooder. Og ydar himneskur Fader, han̄ veit ad þier þurfed alls þessa vid. Þar fyrer leited fyrst Guds Rijkis, og so han̄s Riettlætis, og mun ydur allt þetta til leggiast. Fyrer þvi skulud þier ecke Ahyggiu bera fyrer Morgun Deigenum, þviad Morgun-Daguren̄ mun fyrer sialfum sier Um̄hyggiu bera. Hverium Deige næger sijn Plaaning.

## Exordium.

Hvott ad Hugur vor sie hin daadsamlegasta Skiepna Guds under Sooln̄e, þaa gietur honum ecke twijskipt orded, til ad rækia þaa Hlute, sem gagnstæder eru hver ødrum; so er hann kreinktur af Spillingu þeirre, sem vier epter Adam erfdum, enn aadur en Vondskan̄ in̄kom i Heimen̄, þaa var eckert Gude mootstædelegt, allar Skiepnur hlijddu honum, þad var allt harla gott; er han̄ skoop, Illskan̄ ein er honum ohlijden̄, og þeir Hluter, sem af hen̄e framkoma, hverra Hofundur ad Diøfullen̄ er, og hanns Þienare hinn gudlause Heimur þesse. Medal Guds og hanns, er eilijfur Fiandskapur stadfestur, sijdan̄ hann var wt wr Himnenum reken̄, so er og Heimsen̄; Þvi segier Jacob, Cap. 4. Hann, sem er Heimsins Vinur, hann gioreft Guds Ovinur: Hægra er Vatne og Vidsmiore saman̄ ad blanda, enn þessa ad sorlijka, so ad hver ugs Þienarar gieta annars vered, þad vill Frelsaren̄ kien̄a oss i upplesnu Gudspialle, er hann segier: Ad Eingen̄ Kun̄e Tveim Herrum Ad Þioona, O: Ad Vier Gietum Ecke Under Eins, Þioonad Gude, Og Mam̄ona. Þetta Ord Mam̄ona, þijder Abata, epter sumra Vijsenda Manna Utleggingu; Enn allsk onar Nægter og Fullsælu Fiaar, epter sumra: Hun er ad sonnu stoor Guds Gaafa, nær hun er af honum þeigen̄, og ecke af Fiandanum edur ad han̄s Raadum wtveg-

ud, brwkud edur medfareñ, þvi segier Frelsareñ ecke: Þier Kuñed Eige Gude Ad Þioona, og þo leita Næringar ydar i Sveita ydar Andlitis, edur taka vid þvi, er Gud vill læta ydur i Skaut falla: Ecke helldur segier hann: Þier kuñed ecke Gude ad þioona, og rijker ad vera: Margur Abraham, Isaac, Jacob og Joseph, ecke einasta hañ, sem var Forista Egyptalands i Tijd Pharaonis, helldur og hiñ af Arimathia, er Drotteñ groof, þeir hefdu vered wtrekner wr Þienustu hiñs stoora Konungs Himens og Jardar, ef so være, helldur sokum þess, ad Audureñ er Gud Veralldar þessarar, og hennar Born leita hañs framar, enn Guds Rijk's og hanns Riettlætis, þa vill Frelsareñ kiennt hafa i Predikun þessare, ad omogulegt sie bádum ad þioona; og þad Ord er hier i Textanum stendur, Ad Þioona, þad merker ad vera onaudugur Þræll einhvers. Nu þarf einga adra Röksemd til þess ad sijna, ad þessu tveñu sie omogulegt samañ ad koma, helldur enn Drotteñs eigeñ Ord, þviad i hanns Muñe eru alldrei Svik fundeñ. Enn eg vil wt af Gudspiallenu tveñt hugleida, sem er. 1. Hversu gott þad sie Gude ad þioona. 2. Hvilijk Plaga þad sie, ad vera Mañons Þræll. Þu alleina rijke goode Gud, stioorna þu Hiortum vorum, þier til Þioonustu hier i Tijmanum, so vier meigum þier eilijflega þioona, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Hversu gott sie Gude ad þioona, þad kañ eingeñ nooglega ad skynia, nema sa, sem af Alvoru er Guds Þienare. Aller Menn kieppast vid ad na Þienustu hia tignum Moñum, þvi þad þyker heidarlegt: Sæler eru Meñ þijner, og Þienarar þijner, er standa yduglega frame fyrer þier, og heyra Speke þijna, sagde Drottningeñ af Saba, vid Konungeñ Salomon, 1. Reg. 10. Eñ sia, hier er meire eñ Salomon, þvi ef ad Drotteñ segier hier i Gudspiallenu: Ad Salomon J Allre Siñe Dijrd, Hafe Ecke So Skrijddur Vered, So Sem Eitt Af Akursins Liliu Grosum: Hversu langt var hañ þa fra þvi, ad koma i nockurn Samjofnud vid Himnaña Konung, hañ sem þa hefur wtþaned, og prijdt med hinum fogru Lioosum og dægelega Himensins Her, sem vier Augum lijtum; Og er þad þo so sem Myrkur ad reikna hia sialfre hañs Dijrd, sem upplioomar hina fogru Jerusalem Guds Barna Borg, sem er þar uppe, hverrar Sool og Twngl hañ sialfur er, og sialfur bijr i þvi Lioose, sem eingeñ fær tilkomest: Hañ sem Lopted hefur wtbreidt, og skapad alla Fuglana þar inne, forsorgar þa, vid helldur þeim, aefur þeim sijna Fædu i hendtugañ Tijma, so ad Lausnareñ segier hier i Gudspiallenu: Ad Ecke Eiñ Af Þeim Falle A Jordu An Sijns Fodurs Vilia, hañ hefur Siooeñ giort og alla Fiskana þar inne, smaa og stoora, og iñelykur hann i sijnum Hnefa, segiande til Hafsiñs: Hijngad skalltu komast, og hier skulu þijnar stolltu Bylgiur leggia sig, Job. 38. Hann ed sialfur hefur tilbwed Akursins Liliu-Gros, prijdt Jordena med Skoogum, Dijrum, Fiollum, Hálsum, Dolum, og árlega framleider af heñe allrahanda Avoxt og Alldine, hinum lifande Skiepnunum, og þo allra

hellst

hellst Mañenum til Nota og Upphelldis,og allra ſijdarſt ſkoop hañ hid veglegaſta og bradſamlegaſta Dijr under Soolunne,epter ſinne eigeñ Mynd, ſem er Madureñ,jaa, endurſkoop hañ i Synd og Dauda falleñ,og took hañ i Saatt aptur, endurleyſte hañ,ecke med Gulle og Sylfre,helldur med ſiins eingietens Sonar dijra Bloode, 1. Pet. 1. Helgade hañ ohreinann,af ohreinum komenn ; Endurnijar alla þaa,ſem ſiñ Skijrnar-Saattmaala ecke vijsvitande under Footum troda ; Fyrergiefur oſs dagſlega margar Synder,þvi daglega ſyndgumſt vier,og viñum ecke nema til Hegningar ; Hverium er oſs ſæmra,hverium ſkylldugra og vegſamlegra ad þioona,enn honum,i hvers Hende ad er oll lifande Saal? Hver ad er vor Styrkleike,vor Prijs,og er vordſ eñ oſs til Hiaalpræðes,Eſa. 12. Eñ ſo ſem þad er agiætt og veglet , ad þioona Konunge Dijrdarennar,ſo er þad ecke ſijdur gagnſamlegt. Þad er oſs ollum kunnugt,hverſu mikel Umſvif ad daudleger Meñ hafa fyrer þeſſa fallvallta Lijfs Næringu, ſem þo lijtels vid þarf i ſiaalfu ſier,og þrijtur nær allra miñſt Vonum varer,og þo eru ſumer Meñ ecke anægder,fyrr eñ þeir hafa Korn Hlodur ſijnar fullar,ſo þeir giete ſagt med hinum rijka Maura-Þegn,Luc. 12. Et og dreck Saala mijn,þviad þu hefur til margra Ara ſamañſafnad. Eñ hvad ſegier Frelſareñ hier i Gudſpiallenu ? Vered Eige Hugſiuker Fyrer Ydru Lijfe,Hvad Þier Skulud Eta Og Drecka,Og Eige Helldur Fyrer Ydrum Lijkhama,Hveriu Þier Skulud Klædaſt; Med odrum fleire Ordum,ſem þar a epter fylgia ; Og eru full af Guddoomlegre Speke. Med miklu Snarræde heſe eg þaa aflokid allre Ahyggiu miñe,ſem kvelur hiñ vantrwada og agiarna,þegar eg heſe kaſtad heñe uppa hann,ſem a oll Dijreñ a Morkenne,Pſ. 50. Og allt Sylfr og Gull er hañs. Mun Hugſyke mijn draga mig leingra a Leid,eñ hañs Fyrerhyggia? Og fyrſt um Matteñ er ecke ad efaſt,þaa kañ eg ecke Viliañ ad ugga. Noog er þad,ad Drotteñ ſegier,hier i Gudſpiallenu: Ydar Himneſkur Fader Veit, Ad Þier Hafed Alls Þeſſa Þorf. Ef Gud er miñ Fader,mun hañ þaa ecke forſorga mig ? Ef eg,ſem vondur er,kañ ad giefa Barne mijnu goodar Gaafur,mun þa miñ himneſke Fader giefa mier Stein fyrer Braud,edur Hoggorm fyrer Fiſk? Eñ þoott hañ a ſtundum laate mig vanta þeſſa Lijfs Næringu,epter ſijnum þægelegum Vilia, mun hañ þar fyrer hafa gleymt myſkunſamur ad vera? Mun hañ ſamt ecke vera miñn Fader ? Eg kalla þad ecke goodann Fodur,og ecke forſiaalann,ſem ad elur Barn ſitt ſo kappſamlega,ad hañ under eins elur upp i þvi Matvendne og añañ Oſooma, ma eg þaa kuña Gud fyrer þad,ad hañ neitar mier um þær Nægter,er mig ſkada ? Noog er þad,ad eg veit ad hañ er miñ Fader , trwr er hañ,og freiſtar einkis yfer Megn fram. Þegar mier allt ad Oſkum geingur,þaa fiñ eg kañſkie valla til þeſs,ad hañ er miñ Fader. Eg kyñe ad gioraſt lausl aatur þegar eg er fullur og feitur eins og Iſrael,Devt. 32. Af þvi veit eg ad eg ecke er Hiaa-Barn,ad hañ typtar mig,af þvi ſie eg ad hañ elſkar mig, Hebr. 12. I allre þeirra Angiſt,þaa angrade hañ þaa ecke,helldur verndade þaa Einſgill hañs Andlitis,og forſvarade þaa med Millde ſiñe,ſegier Eſajas Cap. 64. Hver er

ſem

saa Auglitesins Engelleñ, miñ Herra Jesu, nema þu Christe ? Þu byrtest aan Aflaats
fyrer Auglite vors Fodur aa Himnum, so sem einn eilijfur Kiennemadur, þu ert Mynd
hiñs osijnelega Guds, Col. 1. Þu ert i Fodursens Skaut, Joh. 1. Þijn Med-
algaanga verkar þad, Drotteñ minn, ad jafnvel i hinne mestu Angist, finna Born Fod-
ur þijns til einkis Angurs, þviad þiñ Vondur og þiñ Stafur hugga oss, Ps. 23. Vit-
nisburdur þijns Anda telur oss Trw þar nu, ad vier Guds Born sieum, Rom. 8. Þar
fyrer reiknum vier ecke Mootlætingar þessara Tijma verdar þeirrar Dijrdar, sem vid
oss framkoma mun i eilijfu Lijfe, og hier af kiemur þad, ad so veglegt og so þarflegt sem
þad er Gude ad þioona, so er þad og yndællt og ununarsamlegt. Hvad er þad sem
Meñ allra mest sækia epter i Heimenum ? Þad er ad vera aanægdur, og una vel Hag
sijnum, eñ þar er valla nockur saa, er naae þeirre Fullsælu af Veralldar Munum, edur
Munudum, ad honum þyke sig eckert vanta. David kienner oss eitt ædra og betra
Raad, er hañ segier: Haf þijna Unadsemd i Drottne, og mun hann giefa þier þad sem
þitt Hiarta gyrnest, Ps. 37. Satt er þad, ad vegna þeirra naakvæmu Teingda, sem
eru aa millum Saalar og Lijkhama, þaa hryggest hun edur gledst af þvi, sem honum gott
edur illt tilfellur; Eñ þo eru þau ecke so miog skylld, ad ei sie Gud henne skylldare; Ecke
er hun af sama Efne giord og Lijkhameñ, sem af Molldu var skapadur, Gud blies lifan-
de Anda i Mañsens Naser, segier Ritningeñ, Gen. 2. Hun er af eingu skôpt eins og
Englarner, hverier i Jobs Book, Cap. 1. Kallast Guds Syner: So kallar og Lucas
Adam Fodur vorn, Luc. 3. Og Paulus segier: Vier sieum hanns Kyns, þad er
lijkrar Veru, eñ þo ecke hiñar somu; Gud er einn Ande, segier Johannes: Ande hefur
ei Holld nie Bein, eins og þier sioaed mig hafa, segier Frelsarenn: Hier af kiemur þad,
ad þo Adam yfergæfe sinn Uppruna, þaa hefur hiñ allra hærste so bætt Raad vort apt-
ur fyrer hiñ aññ Adam, sem er Gud af Himnum, ad hvad elskar sier lijkt, so þegar eiñ
er vorden eiñ Ande med Gude, og ummyndadur epter hañs Mynd, er skapade hañ, þaa
fær Saaleñ Krapt af Hædum, sem er heñe miklu skylldare, og sterkare þeirre Elsku sem
hun hefr aa Lijkhamanum, so ad hun reiknar alla Hlute Dreck ad vera hiaa Jesu Christo
sijnum Drottne, eins og Paulus, hun hroosar sier af eingu, nema af hañs Krosse, fyr-
er hvern heñe er Heimurenn krossfestur og hun Heimenum, Gal. 6. So yndællt er
þad nu Gude ad þioona, ad þad er ununarsamlegt, jafnvel i Hormungunum. Paulus
talar þañig um hiñ sañna Christeñdoom, 1. Tim. 4. Ad Gudhræslañ sie til allra Hluta
nytsamleg, hafande Fyrerheit bæde þessa Lijfs, og hinns komanda. Þesse er hin rietta
Guds Þioonusta; Eñ hvad þaa ? Ecke hefur Gud i nya Testamentenu heited sijnum
Þioonustu-Monnum so mikille Veralldar Farsælld, jafnvel þo hann veite þeim hana
aa stundum. Hvar i er þaa Fyrerheited iñefaled ? J þvi ad hann giefur þeim sialf-
añ sig, sem er ollu ædra; Saa sem hañ aa, hañ hefur eignast allt, og saa sem ecke hefur Hlut-
deilld i honum, hañ hefur miña eñ ecke, hañ vantar jafnvel þad hañ hefr, þvi Guds Rijke
er ecke Matur nie Dryckur, helldur Fridur og Fognudur i heilogum Anda, þar fyr-

er

er segier Paulus eñ aptur, 1. Tim. 6. Að Gudhrædslañ sie mikell Abate med þvi Skape, sem lætur sier sijna Luckunægia. Nu er þad ecke einasta vegsamlegt, þarflegt og yndællt Gude ad þioona, helldur og er þad einsætt og omissande, so ad ann þess kunna Meñ ecke Guds Born ad heita, nie Sæluhiaalpena ad erfa, og siaa þaa aller þeir sem trwa þvi, ad Himnarijke og Helvijte sie til, þeir sia hvad miklu ad tapad er, ef Menn skiootast wr Guds Þioonustu; Bolvadur vere sa sem ecke elskar Drottenn vorn Jesum Christum, segier Paulus, 1. Cor. 16. Eñ ad Elska hann, og ad þioona honum, þad er allt hid sama, honum verdur alldrei þioonad fyrer utañ Elsku, og alldrei verdur hann elskadur fyrer utañ Þioonustu, þvi i Þioonustuñe skulu Menn sijna Elskuna, og af Elskuñe Þioonustuna. Þess vegna spurde Drotteñ St. Petur ad, adur eñ hañ baud honum ad fæda Lomb sijn og Saude sijna, hvert hann elskade sig, Joh. 21. Sama er ad segia um hvern eiñ, hvada Starf sem hañ a Hende hefur af Guds Alsu; Enn all-er hafa noog; Eingeñ er sa, ad ecke hafe sitt Pund af Gude, eins vel Boondeñ a Ak-renum, so sem Presturenn i Kyrkiunne, edur Doomarenn i sijnu Sæte, og aller þesser eru honum eins kiærer, nær þeir giora Verk siñar Kallanar trwlega i Otta Drotteñs, þvi sialfr hefur hañ þeim Verked i Hendur feinged. A ecke Smidureñ Leirsens Valld? Maa hann ecke giora þar af hvad hann vill? Rom. 9. Þvi er Einsætt ad þioona honum af allre Trw, epter þvi sem hann hefur sierhverium umboded, annars erum vier ecke hañs riettir Þioonustumenn. Eiñ Striids-Þegn a ecke þar ad standa i Fylking-uñe, er hañ sialfur vill, helldur þar sem Hofdingenn baud honum. Eg em Madur Yf-ervalldenu undergiefenn, hafande under mier Strijds-Foolk, sagde Hundrads-Hofd-ingeñ i Capernaum, vid Frelsarañ, Luc. 7. Og nær eg segie þessum kom þu, þa kiemur hañ, og hinum far þu, og hañ fer, og Þræle mijnum gior þetta og hañ giorer þad; Eins a þad ad vera i Christi Her-Tor hier a Jordunne, þar skal hver sitia, sem hann hefur hañ settañ, þar iñe skal hañ Gude þioona, ef hañ vill þocknast honum sem valde hañ til Bardagans, 2. Tim. 2. Þvi ecke er þad noog, ad leggia Hendena a Plogeñ, enn lijta aptur til þess sem til baka er, sa þad giorer, hann er ei hæfur til Guds Rijkis, segier Lausnareñ. Segied mier; Til hvers hefur Gud Mañenn skapad, nema til þess, ad hann skule þioona sier? Aller Hluter adrer eru Mañsens vegna skapader, þvi alla þa hefur hann lagt under hanns Fætur, Ps. 8. Eñ Madurenn er Guds vegna giordur, ecke þess vegna, ad hann þyrfte hanns med, helldur ad hann skyllde þioona sier, til ad lifa þar af eilijflega. Hverium er oss skylldara ad þioona, eñ honum sem oss skapade? Hefr Mañ-on nockurn skapad? Vesæll er hann til þess, vanskapad gietur hann suma Menn; Enn eingañ hefur hann skapad nie endurskapad. Kalla Meñ þad ecke gudlaust Ræktar-leyse, ef Bornenn ei vilia liaast Forelldrunum til Þioonustu? Og hvad skulum vier þa um hañ tala, sem er Fader yfer allt þad sem Born kallast bæde a Himne og Jordu? Til hvers hefur Guds Sonur endurleyst oss? Segier ecke Lutherus oss þad i Frædunum? Til ad þioona honum i Riettlæte og Heilagleika alla vora Lijfdaga. Til hvers hefur

Ande Drottens kallad oss, helgad og upplijst med sijnum Astgiofum? Mun ecke til
þess, ad vier gaungum verduglega þeirre Kallan, hvar inne vier kallader erum? Eph. 4.
Þvi ælykta eg so; ad sa sem ecke vill Gude þioona, hann er ecke hanns Barn, ecke
Christi Læresveirn, og ecke Limur Guds Kyrkiu. Hvad er hann þa? Diöfulsins
Barn, Þræll Syndarennar, og Helvijtis Elldebrandur. Nu er þetta so sagt um̃ þad
fyrra, er eg hier um̃ ad tala.

Hvad hinu sijdara vidvijkur, þa hefe eg til forna i Inngangenum sagt, hver ad sie
Meining Frelsarans i þessum Ordum, þo vil eg þvi hier vidauka um̃ sama Efne, ad þar
Drotteñ segier: Eingeñ Kañ Tveimur Herrum Ad Þioona, þa meinar hañ tvo, þa
sem eru hver odrum gagnstæder; Þioona kuña Meñ Foreldrunum, Yfirvalldenu-/
og Kongunganum, i ollu þvi sem Gud hefur boded, og þo under eins Gude; Hvar fyr-
er? Þviad soddañ Þioonusta og Guds Þioonusta eru eitt: Sa sem þioonar þeim
sem af Konungenum sender eru, hann þioonar Konungenum; Sa sem Konunge-
num þioonar i þvi sem Gud boded hefur, hañ þioonar Gude. Eins er a hina Sijdunna,
sa sem þioonar Mam̃ona, hañ þioonar Heimenum; sa sem þioonar Heimenum, hann
þioonar Syndeñe, hver ed Syndeñe þioonar, hañ er Þræll Syndareñar, eñ hañ sem
er Þræll Syndareñar, hañ er under eins Þræll Andskotans, og er þessu omogulegt
samañ ad koma, þetta vottar Paulus, er hañ segier, Rom. 6. Vited þier ecke, ad hver-
ium þier gioreſt þioonustu-bundner, til Hlijdnes, hañs Þienarar erud þier, hvert helld-
ur Syndareñar til Daudans, edur Hlijdneñar til Riettlætesins. Og þetta Ord
Herra, merket hier soddañ Yfer-Raad, nær eiñ selur sig einum so alldeilis a Valld,
ad hañ a ad mestu hañs oll Raad: Vel kañ eg ad þioona einum, þo ecke sie hañ minn
Herra, so hefur og Gud alldrei bañad, ad þioona ad Gaasum sijnum, helldur leyft ad
brwka Heimeñ, enn ecke ad vanbrwka hañ, ecke bañad ad eignast Audeñ, helldur ad
festa Hiartad vid hañ, þvi sa þad giorer, hañ er riettur Mam̃ons-Þræll, hañs Herra
er Abateñ og Audureñ, þvi alla Hlute vill hañ til hañs viña, og jafnvel ad tapa Saalu
siñe, sem morg munu Dæme giefast, og er þa eingeñ Þioonusta argare. Hun er
sierdeilis med tveñu moote. Fyrst, nær Madur safnar Audnum, med hveriu moote sem
hañ kañ, hyrdande eckert um̃, hvert þad er riett edur rangt, edur hversu þrælslegt edur
ohreinlegt þad er, þetta er Skap-Lostur sa, er vier Agyrne kollum. Paulus segier um̃
hana, ad hun sie Afguda-Dijrdkun, Eph 5. Þad er hveriu Orde sañara, þvi hinn a-
giarne hefur ecke annañ Gud, enn Mam̃ona. Hañ svijfst ecke ad ryia Guds volada
Saude, til ad fylla Pyngu siñ, ecke ad sveria vid hañs Nafn, og þo ranglega a stund-
um, ef hañ gietur abatast um̃ eitt Alnar-Virde: Ecke þyrmer hañ Kyrkium nie Kieñe-
moñum, Konungeñ svijkur hañ giarnañ, ef hañ maa, sem er ein Hofud-Skom̃, og i einu
Orde ad segia; Hañ tredur oll Guds Boderd under Fætur sier: Hvad vantar þa
til Skwrgoda-Dijrdkunareñar? Betra er af illu ad tilbidia Lijkneskiuna, enn ad vera
so selldur Mam̃ona i Þrældoom, þvi margur sa sem eiñ Afgud hefur, hañ ætlar þo, ad

hañ

hann mune hegna vondra Verka, enn launa hin goodu, og so hafa flester Heidingiar meint; Enn Agyrndenn hefur eingann Gud, og er þaa ei Von aa verra. Þu segier: Eg vil dijrdka Gud, heyra hanns Ord, sijngia honum Lof. Eg geing til hanns Bords, trwe aa hann, ydrast Synda minna, verda maa ad so sie. Enn ef þu dijrdkar Gud, þaa laat mig siaa ad þu giorer þad ei, sem hann bannad hefur, edur verdur hann nockud dijrdkadur med Raane og Stulde, med Svikum og Prettum, med Lygum og Meinsære: Ef hann er þinn Gud, ef hann er þinn Fader, hvar er þaa hanns Heidur? Þu segiest heyra hanns Ord, Hvar eru þaa Avexterner? Eru þeir þad sem strax var upptaled? Siaa til, ad þu ecke heyrer þad til Dooms Afelles þier. Þu heyrer þad, so er þetta, Saadmadurenn gieck wt ad saa, enn þad hann saade, fiell aa medal Þyrna, þar sem þu aatter Hlutenn ad, og Þyrnenn uxu upp og kiæfdu þad; Hvad þad sie, maattu læra af Utleggingu Freisarans, er hann segier, Matth. 13. Þad sem saad var medal Þyrna, er saa ed Orded heyrer, og Umsorgun þessarar Alldar, og Villa Audsins kiefur Orded, og hann verdur aavaxtarlaus. Þu losar Gud ad sönnu med Vorunum, enn Hiartad er laangt þar fraa, þad er wt aa Bwgarde þijnum, og hiaa Aknautum þijnum. Þu geingur til Guds Bords, enn tekur þo med þier Gieste þaa, sem hann ecke maa lijda; Siaa til ad ecke eter þu og drecker þier Doom. Þu trwer aa Gud, sijn mier Trw þijna af Verkum þijnum, segier Jacob. Þu ydrast Syndanna, laat þaa af illu, og lær gott ad giora, Es. 1. Annars meina eg þu vilier under eins þioona Gude og Mamona, og er þijn Guds Þioonusta þaa eingu betre enn Gydinga fordum, þeir ed færdu Gude Foorner i Jerusalems Mustere, enn offrudu þo aa Hædunum, og i ollu þessu launar Mammon Þienurum sijnum illu: Hann sedur þaa med Harma-Brande. Paall seiger, ad Agyrndenn sie Root alls ills, 1. Tim. 6. Fyrst er hun Root Lastanna, so sem aadur er sagt: Gud forsmaaer hun, hanns Nafn skyrrest hun ecke vid ad misbrwka vegna Abatans, Hvijldar-Daga Drottenns hefur hun til Avinnings; Þaa geingur hennar Ploogur hvad kappsamlegast, so ad hun jafnvel kiemur þaa odrum til ad syndga, Foreldrum, Bornum og Naafrændum þyrmer hun ecke. Margur hefur veiged Mann til Fiaar; Ecke ætla eg ad sumer Menn sieu vander ad Hlut sijnum i Skijrlijfenu, þegar Fied er i Bode. Um siounda Boodorded vil eg titala: Hun aa þar heima, og hvad er tijdara, enn ad lwga vegna Abatans, og giora sig falann til ad bera Lwgvitne; Enn ecke einasta fremur hun þetta moote Gude og Naaunganum, helldur kvelur hun sinn eigenn Þræl, so þad maa um hana segia, sem David segier um hinn ogudlega, aa medal hverra Fie-Prwkenn er hinn meste, ad hanns Plaagur sieu margar. Helvijte og Glotunenn verda alldrei fylld, segier Salomon, Prov. 27. So eru og Augu hins aagiarna, þess meira hann dreckur, þess meira þyrster hann, eins og hinar mogru Pharaonis Kyr, so er hinn aagiarne, þegar þær hofdu uppeted hinar feitu, þaa saast þad ecke, ad þær hefdu komed i Maga þeirra, segier Ritningenn, Gen. 41. Riett eins og Ovidius Skaalld kvedur um Erischthonem Gud-Nijding, ad þess meira sem hann aat, þess meira svallt hann; Fyllenn vard honum Ordsok til æ meira Hwngurs,

so Þegar hann hafde sellt Aleigu sijna fyrer Mat, þaa sellde hann Doottur sijna, og sijdarst allra took hann ad naga sijna eigenn Linu. So er og hinum aagiarna vared, þad hann fær, þad fyller hann ecke; Hann er eins sollten epter sem aadur, ecke sparar hann Vine nie Frændur, og Þegar hann nær eingu, þaa etur hann sitt eiged Hiarta, af því, ad hann gietur ei uppeted Hws Eckna og fodurlausra. Mørgum af Þessum Mamons-Prækum sijdur Drottenn ad fylla Kornhlodur sijnar, og adrar Hyrdslur med Aura-Nægt; Enn Þess vita Menn og nockur Dæme, ad Þess meira Þeir nidur saa i Raanglætenu, Þess minna uppskiera Þeir, nema i Skadsemenne, so ad Hyrdslur Þeirra eru eins og obiett Lagar-Fat, sem ecke helldur því, sem i þad er laated. Þess gietur Salomon, Prov. 11. Er hann segier: Einn wtbijter sijnu eigenn, og verdur rijkare, annar innehelldur þar sem ecke skal, og er jafnann faatækur. Þetta er riett ad eta, og verda þo ecke mettur, og ad drecka, og verda þo ecke druckenn. Hin ønnur Þioonusta Mamons, er sw, ad liggia of-fast a því, sem einn aa, eins og Moab aa Dreggium sijnum, jafnvel þo velfeinged vera kunne: Ad sønnu eru þetta adgreinder Læster ad nockru leite, enn þo nærsta skyllder hver ødrum: Til eru Þeir ad vijsu, sem taka allt fraa øllum, sem Þeir naa, enn laata þo eckert af Hende rakna vid nockurn, Þeim er hvad verst vared, og optlega plagar slijkt ad halldast i Hendur: Hins eru og Dæme, ad sumer Menn eru ecke miøg aasælner, enn vilia þo ecke ett wtlaata, Þessa kalla Menn nijdska, og er hann ad sønnu ill-skaarre enn hinn, enn þo samt Mamons-Þræll, ecki muniar þa nema i því, ad Þegar Mamon skipar, þa fer hinn aagiarni, enn Nijdingurenn hefur ecke so miked Valld yfer honum, ad hann giete reked hann wr Stad: Jafnvel þo hann eige øll hanns Raad, þaa lætur hann so daatt ad honum, so sem Mooder ad einka Syne, og vill ecke giora honum Omak. Lijker eru Þeir Sadducæis, er ecke villdu giora aa annars Hlut, ecke villdu Þeir helldur neinum gott giora, Þeir eru Brædur Nabals, er ei villde giefa David Mat, Þegar hann mællte til Þess i Naudsyn sinne, og hafde þo til Matar unned, 1. Sam. 25. Jaa, Þeir eru argare enn Nabal, því hann tijmde, ad laata epter sier og Hyske sijnu, enn Þessum er so Audurenn saar, ad Þeir neita sijnum eigenn Lijkhama um naudsynlega Hlute; Ecke hafa Þeir lesed þad er Salomon skrifar, Prov. 3. Hinn riettlaate etur so miked sem hann vidþarf, enn Maga hins ofrooma vantar alltijd, og enn sijdur þad hann ritad hefur i Predikunar Bookarennar 6. Cap. Þar er ein Olucka er eg saa under Soolunne, og hun hin mesta yfer Mønnum: Einn Madur sa ed Gud giefur Rijkdoom og Audæfe, og Heidur, hvers Hiarta ad eckert vantar, og Gud giefur honum þo ecke Makt til ad neyta Þess hinns sama; Soddann Obockar sialfs sijns eru þo nockrer, so laangt er fraa því, ad Þeir klæde edur mette Bordenn edur Systur, nær þau sien þau nakenn, edur hwngrud, og er Þetta hinn meste Þrældoomur, þad er riett kollud Afgudadyrkun, þad sem christner Menn ættu ad giora Gude til Þioonustu, sem er ad þvijnga Lijkhama sinn, og giora hann ad Þræl, þad sama giora Þeir vid Mamona; Segied mier, er hann þaa ecke Þeirra Gud? Bere Þeir nu samann sem lesa Þetta, hverium betra sie ad Þioona, Gude edur Abgudinum, hverneg ad Gud ale Onn

fyrer

fyrer sijnum Þienurum, þad er sagt i hinum fyrra Partenum, eñ hvernig Mañ-ed kare med sijna; þad hefe eg i hinum sijdara talad um, med fáum Ordum; Þvi vil eg segia vid ydur, Christi Born, hid sama og Josua sagde vid Jsrael skomu fyrer Andlát sitt, Jos. 24. Segied hvert þier vilied þioona Jehovæ Gude ydar, edur ei; Enn þeir svorudu aller: Vier vilium þioona Drottne Gude vorum: Drottenn minn og Gud miñ, gief þu oss þad Siñe, ad þad sem þeir jatudu med Muñenum, meigum vier med Hiarta, Orde og Verkum uppfylla, allt til Enda vors Lijfs, so vier meigum vor Bijtum bera Coronu Lijfsins, hveria þu Konungur Nadarennar giefa munt ollum þeim, sem elska Tilkomu þijns Sonar. Bænheyr þad fyrer hanns Skulld og Forþienustu, A M E N.

# Sextanda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 7. Cap.

I Þañ Tijma. Og þad skiede so epter þad, ad Jesus gieck til þeirrar Borgar sem kallast Nain, og hañs Læresveinar geingu marger med honum, og mikell Fiolde añars Foolks. Þa er hann kóok ad nalægiast Borgar-Hlided, sia þu, þad framliðeñ Madur var boreñ wt, einka Sonur siñar Moodr, og hun var Ekkia, og mikill Fiolde Bordar-Mañа gieck wt med henne. Eñ þa ed Drotteñ leit hana, hrærdest hañ Myskunar yfer heñe, og sagde til heñar: Grat þu eige. Og hann gieck þar ad og ahrærde Kistuna. Eñ þeir sem baru, stoodu vid. Og hauñ sagde: Þu Ung-Menne, eg segie þier, rijs þu upp. Og sa setteſt upp sem framlideñ var, og tock til ad mæla, og hann gaf hañ aptur siñe Moodur. Eñ aller urdu ottaslegner, lofudu Gud og sogdu: Spamadur mikell er a medal vor uppriseñ, og Gud hefur vitiad sijns Foolks. Og þesse Saga barst wt af honum, um allt Gydinga-Land, og uñ oll krijngum liggiande Hierod.

Exordium.

Þa komu adur eñ Drottenn giorde þetta mikla Krapta-Verk, sem þessa Dags Evangelium hermer oss, þa flutte hann þa agiætu Predikun fyrer Lijdnum, sem ritud steudur i nærst fyrerfarande Capitula, Lucæ. 6. Hver og er af Matthæo uppteiknud i hanns Gudspialla 5. Capitula. J henne standa medal annara þesse Ord: Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu hlæa. Matthæus segier oss þad a þenna Hatt: Þeir skulu huggader verda, sem er allt hid sama, þvi þar heyrer eingenn Sorg til ad giora sig gladañ, segier Ordtæked, og eingenn hlær, nema honum sie gladt i Hug, og gladur er eingenn, nema hann huggadur sie. Þad er ad-dæmañ-

legt ad hugleida, hvernig Frelsarenn a Dogum Holldsz Vistar sinnar, hefur vijslega hagad siins Embættis Utriettingum: Margt þad sem ad i greindre Predikun stendur, þad er gagnstædt Hollde og Bloode, hveriu ad oll Typtan þyker Sorg og eingenn Glede ad vera medann hun aaliggur, segier Paulus, Hebr. 12. Og giæter ecke þess, ad epter aa giefur hun fridsamlegann Avoxt Riettlætesins. Eñ til þess, ad hinn goode Meistare færde Soñur aa Maal sitt, þaa giorer hñ sier Ferd wr Capernaum til Borgarennar Nain, til ad stirkia med þessare Jardteikn, hvad hann aadur talad hafde. Eingenn skal meina ad þetta hafe skied af Hendingu, ad Drottenn mætte þessare Lijk-Forheldur fyrer þvi hann visse alla Hlute, þaa hefur saa aan Efa vered Tilgangurenn, sem nu hefe eg aadur sagt, og þar ad auke ad giefa ollum sorgbitnum Eckium og munadarlausum eitt æfenlegt Huggunareñar Dæme, og fullrar Vonar og Trwnadar-Traustsum siina hiartgroona Myskunseme yfer þeim, ad hann vilie vera Fader fodurlausra, og Forsvar Ecknanna, Devt. 10. Ps. 68. Og fyrer þvi, ad þetta heilaga Gudspiall er nærsta gledelegt ad hugleida, fyrer alla þaa sem þreya epter Astvine siina, sem þeim i Lijfenu hafa til Glede og Adstodar verad, þaa vil eg af þvi twennt yfervega. 1. Hvad Eckiurnar eige ad hugga sig vid i siinum Einstædingskap. 2. Hvad þeim eige til Huggunar ad verda, er missa Born siin, jafnvel aa unga Alldre.

Eñ þu sem ert Fader yfer allt þad sem Born kallast bæde aa Himne og Jordu, styrk þu Maal mitt, og tilbw so Hiortu Barna þinna, ad þetta þitt Eyrende meige vel takast, i Jesu Nafne, A M E N.

## Utleggingeñ.

Hier stendur i Gudspiallenu um Moodur þessa Ungmeñes, ad hun hafe Eckia vered; Þad Stand hefur jafnann hallded vered aumt og oskiemtelegt, sem og ad Lijkindum lætur, David veit valla añad lijkara ad oska, hvert helldur siinum edur Guds Ovin, enn ad Born haus skule vera munadarlaus, og hañs Kviña Eckia, Ps. 109. Vorer Omagar eru fodurlauser, og Mædur vorar so sem Eckiur, segier Jeremias i Harmagraatnum, 1. og 5. Cap. Nu er þad vijst, ad slijkt er Reidi-Teikn Drottenñs aa stundum, og Straff Syndaña, eins og hvert añad Mootlæte; Eñ hverge nærre alltijd, þvi valla er nockurt Stand i heilagre Ritningu umgieted, sem hinn almaattuge vill helldur taka i Forsvar, enn Eckiudoomenn, þvi fyrer utañ þad, ad hañ vill sialfur vera þeirra Forsvar, og fæda þær, þaa hefur hañ sier i Lage giefed þeim Verndar Brief i siinu H. Logmaale, aa þeña Haatt. Eingre Eckiu edur omyndugum skalltu Piining giora, ef þu siiner honum Piining nockra, (þvi ef hañ ad eins kallar til miin, þaa vil eg bænheyra hañ) þaa skal miin Reide breña, og eg skal slaa ydur i Hel med Sverde; So skulu ydar Konur Eckiur verda, og ydar Born fodurlaus, Exod. 22. Og enn segier hann: Eckiuñe og omyndugum skalltu eingann Skada giora. Hefur hañ ecke skickad þeim siñ Hlut af Tijundum? Devt. 14. Bijdur hañ ecke ad kalla þær framar edrum til almeñelegrar Maal-Dryckiu fyrer Drottne? Cap. 16. Jaa, hann hefur sier i Lage

umboded Valldstietteñe, ad þeir skule dæma Mæl hiñs Unga Mañs og forsvara Eckiuna, Esa. 1. Jafnvel þo eg ætle ad valla sie nockru Guds Bodorde midur hlijdt enn þessu af sumum Moñum. Ofkande være, ad ei finduſt þeir, ed siælfer hafa Eckiurnar fyrer Fie, og giora þær sier ad Raane, so sem Esajas ad Orde kiemst, Cap. 10. Hefnast a þeim og þeirra munadarlausum Bornum; ef þeir þottust eiga Fodur þeirra nockrar Heipter ad giallda, enn feingu ecke stoled Hefndenne fra Gude a medañ hann lifde: Soddañ er hin mesta Lodurmenska, sem einn hugprwdur Tyrke ei villde verda fundeñ ad, og þo skamast ecke sumer christner Menn sijn ad æsa þetta blygdunarlaust, so hoppa þesser Myslingar a einu daudu Leone, sem þeir þo ecke þordu ad geispa a moote, a medañ þad hafde Munneñ openn. Lijted muna þeir til hinnar skelfelegu Bolvunar, er Drotteñ leggur yfer þa; sem umhversa Riette Eckiuñar, Deut. 27. Edur hinns, ad Ritningeñ telur þad med hinum hellstu Ordsokum hinnar Babylonisku Herleidingar, ad þeir dæmdu ei Mælefne Eckiunnar, Jer. 22.

Nu vil eg sleppa þessu, enn hversa aptur til hiñs er eg skildest vid: Þesse Koiña var Eckia, lijklegt er ad Madur heñar hafe burtkallast a sijnum besta Alldre, hvad þar af kunde koma, ad hañ hafde heñe epterlæted eiñ einasta Son, sem ad eñ þa var Ungmeñe: Þetta var stoor Sorg, hveria hun gat ecke duled, þvi sagde Frelsareñ vid hana: Græt þu Ecke; Og þetta Mootlæte heñar var so miked, ad Bæar-Meñ sampijnduſt heñe, þvi segier i Textanum: Ad Mikill Fiollde Þeirra Hafe Geinged Ut Med Heñe. Lærum þad af þeim, ad græta med Grætendum, og hafa Medaumkun med þeim er i slijkar Rauner rata, so giorde hañ sem best kañ ad sampijnast Eymdum vorum, þvi Gudspialled segier: Ad Þegar Drotteñ Leit Hana, Þa Hrærdest Hañ Myskunar Yfer Heñe, og sæum vier jafnañ Ordsok þar til, þvi ecke lijdur a stundum længt a millum þess, ad soddan tilfellur. Morg volud Eckia a þvilijkt til Bruñs ad bera: Enn wt af þessare Medaumkun Frelsarans take Eckiurnar sier hina mestu Huggun, strax sem hañ sa þessa sorgande Konu, þa hrærdest hann af iñstu Medaumkun, segier Texteñ: Ecke glører hañ þad sijdur nu, helldur enn þa hañ umgieckst i voru Hollde, sem nu er upphafed til Kraptarens hægre Handar, hann hefr Likil Lijfsins og Daudans, Barn mitt, hafe þvi Daudeñ griped Hendeñe inn i Hws þitt, og veitt þier eitt miked Saar, þar hañ hefur teked Helming þijns Hiarta burtu, og giort Born þijn munadarlaus, þa vit, ad þad er ecke skied an hanns Rædstofunar; Einga Makt hefde Daudenn haft yfer þijnum kiæra Egta-Mañe an hanns Leyfis; J hvers Hende ad er oll lifande Sæl; Audmijk þig þess vegna under vollduga Guds Hond, og seig med David: Eg vard mællaus, og talade ecke, af þvi þu giorder þad, sierdeilis þar þu hefur þo ecke tapad þijnum Egta-Mañe; Meina ecke, Barned gott, ad siælfur Giædskuñar Bruñur sie eins lyndur og sumer Opockar i Heimenum, þeir ed apturtaka þad þeir gæfu, helldur vil eg þier um segia eins og Pæll sagde um Onesimum vid Philemonem: Hañ er um Stundarsaker vidskileñ, so þu hallder honum eilijflega. Hann er ecke daudur, ad þvi leite sem

sem vidvijkur Sꜳluñe, þvi Gud Abrahams, Isaacs og Jacobs, hann er ecke Gud daudra, helldur lifendra, segier Frelsareñ: Þar fyrer er hann ecke daudur, helldur kalladur frꜳ Daudanum til Lijfsins; Frꜳ Volæde þessa Heims, til eilijfrar Sælu; Frꜳ Selskap vondra Maña, til Samfelags heilagra Engla. Jꜳ, hañ er ecke helldur daudur, þad Lijkhamañ ꜳhrærer, helldur sefur hañ, so sem Drotteñ sagde um̃ Hofdingians Doottur, Matth. 9. Þad stendur æfeñlega stodugt, er Frelsareñ sagde: Hver sem trwer ꜳ mig, þad skal skie, ad þo hañ deye, þꜳ skal hañ samt lifa, Joh. 11. Þar fyrer, þo ad þad sie nꜳtturlegt, ad syrgia Astvine sijna, þꜳ er ecke so stoor Ordsok þar til, þvi vier hofum ecke mist þꜳ, helldur eru þeir undañ oss farner i eilijfa Sælu, enn Lijkhameñ hvijlist af Erfide sijnu inn til þess Dags ad Drotteñ uppvekur hañ, og giorer Englunum jafnañ, jꜳ, samlijkañ sijnum dijrdlegum Lijkhama, Phil. 3. Nu er þad vijst, ad eckert Guds Barn mis añ sijnu Egta-Hiarta þvilijkrar Sælu, eñ þad er Veikleike vor, ad Meñ syrgia siñ eigeñ Hag, og siña epterlꜳteña; þeynkiande meir ꜳ hid nærveranda, enn hid epterkomanda. Eñ hugsa til þess, Barn mitt, ad Gud hefur kañskie þiñ Egta-Mañ i burtu teked til siñar Dijrdar, uppꜳ þad þu skyllder hafa allt þitt Traust, alla Von, alla Glede og Unadsemd i sier einum, og Fognud af þvi, ad sꜳ og reyna sijna Nꜳd ꜳ þier, og vid þig og þijna, nær oll mañleg Hiꜳlp er wte, gior so, þar af hefur þu tvofallda Nytseme: Þꜳ einu, ad þijn Sꜳla gledur sig i Gude Heilsugiafara þijnum, hver Fognudur ad yfergnæfer allañ Skilning, og drepur alla Sorg, allt Mootlæte giorer hann liett. Hina adra, ad ꜳ medañ þu ert so Skape fareñ, þꜳ er þad Feste-Brief uppꜳ Guds Rijke, þad er Pantur þess, ad þu muner fagna med þijnum Egta-Mañe i himneskre Sælu, eiliiflegana med Gude og hanns heilogum. Lꜳt þvi siꜳ, ad þu tileinker þier þad sm̃ Drotteñ segier vid Israel, Esa. 54. Sꜳ sem hefur skapad þig, hañ er þiñ Madur, Drotteñ Zebaoth er hañs Heite, og þiñ Lausnare, sꜳ heilagi i Israel, hvern oll Verollden Gud nefner, hvar fyrer grætur þu, og þvi ber þitt Hiarta sig so illa? Er eg þier ecke betre eñ tiju Syner? Sagde Elkana vid Konu sijna Añu, 1. Sam. 1. Og hvad miklu betre er þꜳ Gud Himnaña, helldur eñ eiñ daudlegur Madur, vilie hañ gꜳnga þier i Mañs Stad; Hvada Naud hefur þu þꜳ? Hann er noogu vijs til ad rꜳdleggia þier, noogu rijkur til ad forsorga þig, noogu mꜳttugur til ad forsvara þig, noogu giædskurijkur til ad hugsvala þier: Hvers villtu framar æskia? Eckiur og munadarlauser hafa stoorañ Riett i Himnenum so sem sadur er sagt: Þegar Drotteñ leit þessa Eckiu; Þꜳ Hrædest Hann Af Iñstu Medaumkun Yfer Heñe. Hun hefur kañskie ecke þeckt Drotteñ, edur ecke sied hañ, þvi sorgande Mañeskiur geingu med huldu Hofde hiꜳ Gydingum: Hun hefur og ecke Orde wtkomed fyrer Harme, so hun giæte beded hañ, og þo gat ecke Bruñur Giædskuñar hallded sier. Hañs Hiarta brast i honum, so hañ hlaut heñe myskunsamur ad vera, strax sem hañ leit Eymd heñar, mz einu Orde, einu Atvike þurkade hañ oll Tꜳreñ af Augum heñar. Þegar þær Ruth og Naemi voru aldeilis munadarlausar, þꜳ sende Gud þeim Boas, Ruth. 2.

ar Ecklañ i Sarepta og heñar Sonur voru adkomeñ Dauda i Atvinnuleyse, þaa baud Gud Eliæ ad bæta Brest heñar; Mun hañs Hond eñ nu stutt vordeñ? Er honum nock-ud apturfared, sijdañ hũ er hafeñ yfer alla Himna? Nei, nei, wtriett er hun eñ nu i Dag til allra þeirra, sem aa hañ vona, og þo hañ reyne sijna aa stundum, þaa efest eingeñ um Sañsogle hañs, edur ætle sig yfergiefenn; Hañ gat hallded Mañe þessarar Eckiu vid Lijfed, hañ gat læknad Son heñar aa Bana-Sængeñe; Eñ hier færde Drotteñ Soñ-ur aa Maal sitt, er hañ skomu aadur talad hafde, ad sæler væru þeir sem harma, þviad þeir mune huggader verda; þvi miklu meire var Fognudur þesse, ad hañ gaf heñe apt-ur Son siñ, sem daudur var, helldur eñ þo hañ hefde læknad hañ daudsiwkañ. Lat þvi þier til Hugar koma, Guds Barn, ad þo Daudenn hafe slited þad Band um Stund, sem var aa millum þijn og þijns Egta-Mañs, þaa er þo ecke slited þad Einingareñar Band, sem hefur bunded Hiarta þitt vid Gud, hver alleina hefur Odaudleikañ, hver og hefur trwlofad þig sier ad eilijfu, i Naad og Myskunseme, i Riettlæte og i Doome, Hos. 2. Ef þu elskar hañ, þaa er ecke ad ugga hañs Elsku til þijn, hann vill vera hiaa þier i Neydeñe, og þier þadañ wtryckia, allar þijnar Andvarpaner heyra, oll þijn Taar telkna, og hella þeim i siñ Siood, og sijdann af-þurka med eilijfre Giede, og þo ad þu meiger siaa aa Bak þijns kiæra Egta-Mañs um Hrijd, þaa er þad stutt hiaa Eilijfdeñe; Hvar þid munid um Allder Allda samfagna, aan nockurs Kvijda fyrer þvi, ad skiliast framar. Seig þvi ecke, eg er af ollum forlaatenn, medañ þu hefur ecke Gud forlaated, mun hañ þig alldrei forlaata; Treyst þvi ad fullu, ad þad sem Drotteñ segier vid Christ-nena, hiaa Esajam Cap. 54. Þad vill hañ til þijn sagt hafa, so sem eina forlaatna Konu, og Sorgbitna, þaa kallar Drotteñ þig aptur; Fyrr skulu Fiølleñ wr Stad vijkia, og þessar Hæder nidurfalla, eñ ad mijn Naad vijke fraa þier, edur minn Saattmaale nidurfalle, segier Drottenn þinn Myskunare. Jaa, hann sem er trwr, og siaalfum sier ei kann ad neita, segier Postulenn: Oll Umsorgun og Umhyggia Byskaparenns ligg-ur nu aa þier, sijdann Gud took þinn Mann fraa Sijdu þiñe, hugsa til þess er David segier, Ps. 68. Gud leggur oss eina Byrde uppaa, enn hann hiaalpar oss ad bera; Vantreyst honum ecke, sem bar allann Jsrael i Eydemorkunne, so sem ein Mooder ber sinn Son, segier Moyses, edur hanns Syne, hver ed ber alla Hlute med Orde sijns Kraptar, ad hann giete ecke hiaalpad þier, til ad bera þad hann hefur siaalfur þier aa Herdar lagt: Haf þijna Unadsemd i honum, hann hefur lofad ad giefa þier hvad þitt Hiarta gyrnest; Finnest þier Byrdenn þwng, þaa varpa allre þinne Ahyggiu uppaa hann, sem þvi mun vel til Vegar koma, og er þad nu so um hid fyrra wt-talad.

Hvad hinu sijdara vidvijkur, þaa reyna Menn þad optlega, ad Forelldrunum fellst ecke minna um þad, nær þeirra Bornum verdur fyrer tijmañlegañ Dauda burtu kipt, helldur enn þo ad hvert miste annars, sierdeilis, ef þad eru einka Born, so sem hier aa stoodst, Þvi Hañ Var Einka Sonur Siñar Moodur, segier i Textanum: Og þar ad auke, ef ad þvilijk Born eru lijkleg til Giæfu, og Meñingar, so þau giæte sijdann Gude

og Fodurlandenu med Sæmd og Æru þioonad, og ecke verdur þvi moote sagt, ad stoor Hormung læ æ Kvinu þessare, þar Daudeñ hafde rænt hana fyrst sijnum hiartkiæra Egta-Mañe, og þo æ heñar besta Alldre, og þar ad auke sijnum einasta Syne, einig i sijnu Æsku-Bloome, hver æn Esa hefr vered heñar einasta Ynde og Adstod i heñar Munadarleyse, eñ þad eykur miklu hier æ, ad þad var eitt Brixle hallded æ þeim Dogum fyrer Kvinurnar, ad lææta ecke Sæde epter i Jsrael, þvi allar gyrntust ad vera Mædur ad Messia, og ecke hefur þad einasta Læging þoott Obyria ad vera, helldur og hitt ein stoor Sorg, ad missa Born sijn, og eiga kañ skie ecke Von til añarra, þad sie eg æ Dæme hiñar Sunamitisku, er sagde vid Elisæum, nær Sonur heñar læ andvana, 2. Reg. 4. Beidda eg minn Herra nockud um Son? Sagda eg ei, pretta mig ecke? So sem hefde heñe þoott sæ Kostur liettare, alldrei ad hafa Barn fædt, helldur enn ad Syne hennar hefde vered i burt svipt, og mæ sæ vera af Jarne gior, sem ecke vorkieñer þeim soddañ Mootgang, sierdeilis, þar Guds Ande setur oss þetta til Dæmes um hina mestu Sorg, þar hañ segier, Amos. 8. Ad Harmkvæle Gydinga skule verda eins og Harmur epter eiñ einasta Son, þad sama itrekar hañ hiæ Zachariam, Cap. 12. Þvier soddañ miog nætturlegt og eingum ad læ, þo skulu christner Meñ haga sier i þessu so sem Guds Born, og lææta hañ ræda, sem alls Ræd æ bæde æ Himne og Jordu. Hinar somu Roksemder skal ad sonnu til þess hafa, ad bæta Sorg sijna i þessu Tilfelle, og hinu, er i fyrre Greineñe var umtalad; Seig mier, christeñ Modur, hefur þu ecke Barn þitt af Gude odlast? So segier David, Ps. 127. Borneñ eru Guds Gæfa, og Lijfsins Avoxtur er eiñ Skeinkur, þau eru ecke so alldeilis vor Born, ad þau sieu ecke miklu framar hañs, sem er Fader yfer ollu þvi er Born kallast bæde æ Himne og Jordu, þvi nær hañ gaf oss þau, þæ gaf hañ þau med þeim Skilmæla, ad honum være friælst ad taka þau til sijn nær hañ villde; Eda giorum vier ecke so hver vid añañ? Þo eiñ lææte Barn sitt til Vinar sijns um Stund, Mun þad ecke standa i hañs Vallde, ad lææta þad til sijn aptur hverfa, nær honum lijkar; Ætlunst þvi ecke til, ad Gud mune hafa miñe Riett yfer oss, og Bornum vorum, eñ vier þykiunst yfer þeim hafa; Seig þvi midt i Sorgeñe, midt i Harmenum eins og Job, hvern Gud svipte ecke einasta ollum Bornum sijnum, helldur og allre Aleigu siñe i einu Vetfange, Job. 1. Gud gaf, og Gud aftook, sie Nafn Drotteñs blessad. Ef þu ert Guds Barn, (þvi fyrer þeim vil eg sier i Lage þetta talad hafa) ef þu ert siælfur Guds Barn, segie eg, þæ veit eg, ad þier hefur umhugad vered, ad fela þessa Guds Gæfu honum siælfum æ Hendur, ad Barn þitt mætte hañs Myskunar og Forsioonar i ollu niioota; Eñ allra hellst muntu hafa Umhyggiu bored fyrer þess eilijfre Velferd, ad þad mætte Gude sem kiærast vera, og sem mest vardveitt fyrer Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum, hier um muntu Gud beded hafa i ollum Bænum þinum, meir enn um læænga Lijfdaga: Seig mier, hefur þæ Gud ecke bænheyrt þig, er hann hefur teked þad burt wr Þrælddoome Heimsins i Sælu Himensins, fræ Umsætrum Diofulsins til

Guds Barna Frelsis, fraa Ofrijke Helldsins, til Þijns og Þess Fodurs Rijkis, hvar þad mun skijna so sem Sool um̃ Allder Allda? Þier skilst þetta lijtt kañskie, a med-an Sorgeñ er sem brædust; Eñ laat þaa so sem Christur segie vid þig hid sama, er hann sagde vid Petur fordum, þaa hañ ei villde laata Drotteñ þvo Fætur sijna; Hvad eg giore, þad veitstu ecke nu, enn þu munt þad sijdar þeckia, Joh. 13. Þier munde vænt um̃ þykia, þu munder af Hiarta gladur verda, ef Gud giæfe þier Barn þitt aptur, eins og Eckiu þessare; Enn eg vil svara þier eins og hann svarade þeim i Nazareth fordum, Margar Eckiur voru a Dogum Eliæ, enn til eingrar var Elias sendur, nema til Eckiunar i Sarepta i Sidons Lande, Luc. 4. Gud veit hvad hann vill giora, ecker giorer hann til onytis, Tilgangur Drotteñs i þessu Kraptaverke er audsien. Forst er saa, ad hañ sijnde bæde þier og ollum sorgbitnum, ad hañ bæde vilie og kuñe ad sampijn-ast Eymdum þeirra. Hiñ añar, ad hañ auglijste þad hañ Gud være, im̃ ad hefur Valld yfer Daudanum, þvi þesse var hinn fyrste af hinum daudu, er hañ uppvakte a sijnum Hiervistar-Dogum, enn sijdañ ad hañ hefur hvertveggia þetta med morgum Rokum stadfest, hver Naudsyn ber þaa til þess, ad hañ um̃breyte sijnu Logmaale? Og þo þu mætter þañ Kost eiga, ad Barn þitt hverfe aptur i Verolldena, hvilijk Faavitska være þad, ad selia Rijkdoom fyrer Armood, Heilbrygde fyrer Siwkdoom, Glede fyrer Sorg, og hina allra sætustu Roo og Hvijld fyrer allskonar Andstreyme og Erfide, þad være ad hata, og ecke ad elska Barn sitt, ef riett er alited, sierdeilis þar hiner wtvoldu Guds, sem i Drottne dæner eru, þeir lofa Gud oaflaatanlega fyrer sijna Endurlausn i Himnenum, þvi skylldu Meñ þaa syrgia þeirra Burtfor af Heimenum, allra hellst þar þier hofum eckert mist, helldur undañ oss sendt, og munum fiña eitt heilagt Barn fyrer syndugt, odaudlegt fyrer forgeingelegt, og Englunum samjafnt, fyrer þad sem adur var þo ecke nema Molld og Aska; Leifed þvi Bornum ydar til Drotteñs ad koma, christner Meñ, og bañed þeim þad ecke, og segied eins og Baruch vid hina herteknu i Babylon, Baruch. 4. Eg hefe laated ydur burt med Harme og Graate, enn Gud mun skila ydur mier aptur med Glede og Fognude eilijflega. Eg veit ad morgum er þad stoor Harmur, ad missa sitt einasta Barn, sem var giæfulegt, og vel ad sier um̃ alla Hlute; Eñ hugleid þo christeñ Madur, ad Gud gaf siñ eigeñ og einasta Son wt fyrer þig, i hveriūm hañ alleina hefur sijna Velþocknan, ecke til ad bada i Roosum, helldur til þess, ad ecke hefde hañ þar hañ mætte Hofde sijnu halla ad, Luc. 9. Ecke til ad laata sier þioona, helldur til ad þioona odrum, ecke til ad lifa i Sælu nockre, jafnvel þo hañ mætte þaa vel Sælu hafa, helldur til ad þola Krossiñ, Heb. 12. Þetta giorde hañ, sem þier var um̃ eckert skyldugur; Ojafnt hafest þid ad, sem ert honum skylldugur bæde um̃ þig og Barn þitt, ad þu angrast af þvi, ad hann flutte þad i eilijfa Sælu, sem hanns Sonur hefur þvi med siñe Kvol afrekad: Hversu giorfuglegt sem þad var, þad var þo alldrei so veglegt, so siñ hiñ frijdaste medal Mañaña Barna; Ef Gude og Fodur þootte hañ ecke ofgoodur i Kvalernar, hvar fyrer skyllde þier þaa þykia Sonur þinn ofgoodur

til Dijrdareñar: Þu villder hafa honum stoor-Fie epterlæted i Verolldenne, mun þad vera betra enn hañs Arfa-Hlute i Lande lifande Maña? Misjafnt fer um Arfaña hier i Verolldeñe, enn Petur segier oss ad þesse Arfur skiemest ecke, 1. Pet. 1. Nooger eru Erfingiarner, þo eiñ deye Barnlaus, sieu ecke adrer, þæ er Fodur-Landed, þæ eru Guds volader, gior þeim gott medañ þu lifer, og hefur þu Fie-Siood æ Himnum. Sonur þinn doo burt i sijnu Æsku-Bloome, enn eingeñ veit Æfe sijna fyrr eñ oll er: Vor fyrsta Mooder fagnade nærsta miog hinum fyrsta Mañe, sem i Heimeñ var fæddur, eñ þad villde ecke so rekiast wr fyrer honum. Eli Hofud Prestur liet dæatt ad Sonum sijnum, 1. Sam 2. Þo voru þeir Skælkar. Vænt þookte David um Absalon, hverneg hañ launade honum, þad er alkuñugt; Þu þykest vita, ad ei var Barne þijnu hætt vid slijku, so er þad, hverium af oss þyker siñ Fugl fagur. Eñ þegar ad Gud hefur ad fullu rædeð Son þiñ sier til Handa, þæ hefur hañ teked þessa Umsorgun af þier, hañ er þæangad komeñ, hvar hañ ecke skal vega siñ Broodur, ecke vanvyrda Guds Þioonustu, og ecke giora Uppreist i moote Fodur sijnum. Þu villder hafa sett hann til Menta, ad hañ lærde alla Heims-Speke, og oll Tungumæl: Heyr mier, Guds Vinur: Eingeñ er þvilijk Speke sem ad deya vel, og þar ad æ oll Speke ad lwta, añars er hun onijt. Hañ kuñe ecke so margar Tungur sem þu villder, þo hann kuñad hefde, munde þad hafa gagnad honum til Himnarijkis? Þacka Gude ad hañ er þæangad komenn, hvar Tungumæalunum slotar, enn Kærleikureñ varer eilijflega, 1. Cor. 13. Noogur Vijsdoomur er þad, ad hann þecker Gud, so sem hañ er af honum þecktur, og talar Englaña Tungu. Adgreining Tungumæalaña er Straff Syndareñar, enn þad er Næd Guds, ad Tunga hiña mæalhölltu skal tala riett, Esa. 32. So veit eg og ad hver wtvalldra mun skilia añañ, og ad þetta fullkomnast i Himnarijke, þar skal ecke Barn mitt þola morg Hogg fyrer siñ Lærdoom, ecke ottast fyrer, hvert þad mune viña edur tapa i einu Þrætu-Mæale, ecke helldur æra sig i Reikninge Stiarnaña, edur Mælingu Himensins, nær þær eru dottnar, enn hañ samañvafeñ eins og añad Klæde, Heb. 1. Jafnvel þo Menn verde ad slækiast vid þeña Hiegooma epter Naudsyn Spillingareñar Hættalags. Þu meinar ad Gud sie þier reidur, af þvi hann leifde þier ecke ad uppala þad er hañ so vel skoop, sijnum Brædrum i Heimenum til Nota og Gagnsemdar; Gief þig til Frids, Barn mitt, þacka Gude, ad þu med hañs Adstod hefur uppaled þad til Himnarijkis, hañ æ margañ goodañ, læt hañ sorga fyrer Londum og Lijdum, sem þad leingst hefur giort. So hygged nu ad þessu, christner Meñ, hver i siñ Stad; Læted hañ ræda sem ræda æ, og alldrei rædur sijnum Bornum, nema til hiñs besta, og ætlest ei til, ad þier sinned betur fyrer ydar Ræde edur Barna ydar og Astvina, helldur eñ hañ, til hvers ad bæde ydur og þeim er varpad allt i fræ Moodur-Lijfe. Eñ þu eilijfe Fader, sem ecke einasta taled hefur alla Daga vora, helldur og oll vor Hofud-Hær; Kieñ þu bæde Forelldrum og Bornum, ad hugsa þad vier hlioottum ad deya, so vier forsimmler verdum, ad alldrei lifum vier so sem ættum vier i þessu Volæde æfinn-

lega

lega ad lifa, helldur gief þu oss, sem ert Gud Lijffsens og Daudans, ad hvert vier Lifum edur Deyum, þá sieum vier Drottenns, bænheyr þad Drottenn minn, fyrer Jesu Pijnu og Dauda, og gief oss þar til Styrk Heilags Anda, Amen, J Jesu Nafne, A m e n.

# Seztianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Luc. 14. Cap.

Aþeim Tijma. Og þad skiede so ad Jesus kom i Hws nockurs Pharisæara Hofdingia á Þvott-Deige Brauds ad neyta, og þeir hofdu Vardhalld á honum. Og siá þu, ad Madur nockur Vatns-Siwkur var þar framme fyrer honum. Og Jesus Andsvarade og sagde til Log-Spekinganna og Pharisæanna, so segiande: Hvort leifest nockud ad lækna á Þvott-Dognum? Enn þeir þogdu vid. Og hann took á honum, læknade hann, og liet hann i burtu fara, svarade og sagde til þeirra: Hvors ydar Asne eda Naut, sem fellur i Pitt, er þad eige jafnsnart wtdreiged á Þvott-Deige? Og þeir gátu honum þar til aungvu svarad. Enn hann sagde þessa Epterlijking til þeirra sem bodner voru, þá ed hann merkte hvornenn þeir mottust epter hinum fremstu Sætum, segiande so til þeirra: Nær ed þu verdur bodenn af einhvorium til Brwdkaups, þá set þig ecke i hid ædsta Sæte; kannskie, þad annar heidarlegre enn þu, sie bodenn af honum, og kome sá sem þier baud og honum, og segie til þijn: Gief þessum Rwm; Og hliooter þu þá med Kinn-Roda ad hafa hid Ytsta Sæte. Helldur so, nær ed þu verdur bodenn, þá far þu, og set þig i hinn Ytsta Sess, so ad þá nær ed sá kiemur, er þier baud, þá segie hann til þijn: Vinur, þoka þier upp betr. Þá mun þier Virding veitast hiá þijnum Sessunautum. Þviad, hver sig sialfur upphefur, hann mun Nidurlægiast, og hver sig Lijtelæter, hann skal Upphafenn verda.

Exordium.

Amedal hinnar Veglegustu Guds Þioonustu, er vier eigum ad dijrka hann med, þá er Helgun Sabbats-Dagsens, hun er i fyrstunne ecke bodenn Syndarennar vegna, helldur ádur enn Spillingenn innkom i Heimenn. So segier i Genesis Bookar. 2. Cap. Drottenn blessade hinn sioynda Dag, og helgade hann, þar hann á honum hvijldest af ollu sijnu Verke, er hann skapad hafde, þad er, ad hann hætte þá ad skapa Himen og Jord, og allt hvad þar er inne. Þetta Bodord er aptur itrekad i

Moysis Logmaale, og er eitt af þeim tiju Guds Laga Bodordum, þess gietur i Exod Bookar. 20. Cap. Minnstu ad helga Hvijldar-Dagenn Drottenns Guds þijns, og er þetta Bodord optlega stadfest i gamla Testamentesins Bookum. A sex Dogum skulud þier Verk vinna, hinn Siounde Dagur skal helgur kallast, þvi þad er Hvijldar-Dagur, þier skulud eckert Verk aa honum vinna, segier i Lev. 23. Cap. Hin fyrsta Ordsok til þessa Hvijldar-Dags i gamla Testamentenu vaar sw, ad endurminnast hinns mikla Stoorvirkis, er Gud giørde i Skøpun allra Hluta, þvi nefner Drottenn þad eitt Teikn aa millum sijn og Israels Barna, Ezech. 20. Onnur vaar sw, ad aa þeim Deige skyllde almenneleg Guds Þioonusta halldenn verda, med Foornfæringum, med Kienningu Guds Orda og ødrum þvilijkum Gudræknis Eyrendum i Helgedoomenum. Umm Foornernar maa lesa, Num. 28. Enn umm Guds Orda Kienningu, vottar Lucas Cap. 4. Med Dæme Frelsarans: Hann kom til Nazareth, hvaar hann var uppaleun, og gieck inn ad Veniu sinne aa Sabbatz Deigenum i Samkunduna, og stood upp ad lesa. Hin þridia var, ad Menn og Vinnu-Dijr skylldu hvijlast af sex Daga Erfide, þad er tekid af Exod. 23. Cap. Og hin fioorda var sier i Lage fyrer Israels Foolk, ad endurminnast Lausnarennar af Egyptalands Prældoome, so sem segier i Devt. Bookar 5. Cap. Nu, þoott ad Gud sette so i Ondverdu, ad hinn siounde Dagur skyllde brwkast til þessarar Helge, þaa er hun nu og hefur vered sijdann Himna-For Lausnarans halldenn aa hinum fyrsta Deige Vikunnar, er vier i Minning Christi Upprisu helgum, i Minning Endurskøpunar Heimsins, sem fyrer hanns Dauda er skien, og i Minning hinns eilijfa Sabbatz, er ollum Guds Bornum i hanns Upprisu feinged er. Þetta skulu Menn ecke ætla ad sieu Manna Setningar, hellدur so sem Moyses flutte Guds Logmaal aa millum hanns og Israels Barna, so hafa og Christi Postular giort þessa Skyckun aan alls Efa epter hanns Bode, þvi eckert segiast þeir munde þora ad giora fyrer utann hanns Skipan, Act. 15. Þad er og kunnugt, ad þeir afmaadu sumar Greiner af Kyrkiu-Logunum i Samkomunne i Jerusalem, þegar Paulus og Barnabas voru til þeirra sender fraa þeim Christnu i Antiochia, og er þennann Flutning Sabbatz-Dagsins ecke meira i spunned. Eg vil ecke ætla, ad nockur giore sier i Lund, ad Christur hafe ei haft Valld til þessarar Færslu, þvi hann segiest vera Herra Sabbatz-Dagsins, og ef þad var ecke aa moote hanns Guddoomlegu Haatign ad afmaa Sacrament hinns gamla Testamentesins, þaa var ei helldur þetta. Enn ad þesse Raadstofun sie af hanns Postulum giør, er þad til Vitnis, ad þeir komu samann aa Hvijtasunnu-Deige, Act. 2. Sem innfellur aa vorn Drottenns Dag. Lucas skrifar, Act. 20. Ad þann fyrsta Dag Vikunnar hafe Læresveinarner samannkomed til ad briioota Brauded, og ad Paall hafe þaa Rædu hallded; Og sialfur Paall skrifar Corinthu Borgar-Monnum til, 1. Cor. 16. Ad aa hinum fyrsta Deige Vikunnar skule þeir leggia afsijdis Olmusur sijnar, er naudstoddum christnum Monnum ætladar voru. Þenna sama Dag kallar Johannes Postule og Gudspialla-Madur Drottenns Dag i sijnum Openberun-

um

um, Cap. 1. Og so hefur christeleg Kyrkia nefnt hann fra þeirre Tijd, allt til þessa, þad ber til þess, ad nær Postularner ecke nefna Frelsaran sijnu eigen Nafne, þa kalla þeir han Drotten i Staden fyrer Guds Heite, sem er Jehova i gamla Testamentenu, þui kalla eg þad vijst, ad þesse Rædstofun sie fra Gude komen; Og ad þessu so fyrermælltu, þa vil eg nu taka mier Ordsok af Spurningu Drottens til Gydinga, Hvert Þar Leifdest Ad Lækna A Sabbatz-Deige. Af henne vil eg taka mier Ordsok ad tala um þetta tvent. 1. Hvad christnum Monum sie oleyfelegt ad fremia a Sabbatz-Dogum. 2. Hvad þeim byrie ad giora, og leyfelegt sie.

Þu stoore Herra Drottenns Dagsens og hinns eilijfa Sabbatz, laat oss so giora þitt Verk a þessum Deige, ad vier um sijder meigum inngaanga til þinnar Hvijldar, Amen, i Jesu Nafne, A M E N.

## Utleggingen.

Hid fyrsta sem bannad var a Sabbatenu, þad var ad vinna nockurt Verk a þeim Deige: So segier Drottenn i sijnu Logmaale, Devt. 5. Vardveit þu Hvijldar-Dagen, ad þu helger han: Eckert Verk skalltu a honum vinna; Og so streingelega var þetta bannad Israels Sonum, Exod. 35. Ad þeir ecke maattu Elld kveikia i Hybijlum sijnum a þessum Dogum, hvar fyrer þeir ecke helldur maattu matreida, og er valla nockurt Bodord so optlega itrekad i heilagre Ritningu, so sem þetta, og hversu ad Gud hafe freklega straffad Vanhelgun Hvijldar-Dagsins, þad sijner oss Straff hans, er tijnde upp Smælked a Sabbatz-Deige, ad hann maatte deya epter Logmaalenu, Num. 15. Fyrer Vanhelgun þessa, hootar Gud sijnu Foolke, ad hann vilie uppbrenna Borger þeirra, hia Jeremiam Cap. 17. og hia Ezechielem Cap. 22. Sverde Konungsins af Babylon; Og er þeir apturkomner wr Herleidinguñe tooku til ad vanhelga Drottens Hvijldar Daga, þa ataalde Nehemias þa hardlega, og leidde þeim fyrir Sioonir, ad fyrer þessa somu Synd, hefdi Ogiæfan komid yfer Fedur þeirra, segiande: Þegar Forfedur ydar giordu so, munde ei Gud vor leida yfer oss alla þa Olucku og yfer þessa Borg? Og þier villed upperta Guds Heiptar Reide moote Israel, med þui ad vanhelga Sabbatz-Dagen, Nehem. 13. Nu er þo um Sabbatz-Dagen tvent ad hugleida: Þad eina er Sida-Logmaalenu vidvijkur, þad er hellst i þui foolged, ad lofa Gud og dijrdka a þeim Deige, og so ad giefa bæde sialfum sier og Hiwum sijnum Toom og Stunder til þessarar Þioonustu, so og ad hallda einhvern Viku-Dag til þessarar Ydnar, og er þad so rijkt i Naatturuna innskrifad, og medfædt Mañenum, ad hiner orgustu Heidingiar tooku sier vissa Daga, nærre so marga sumer hverier, so sem vier christner Men, til ad fremia Bloot sijn, og adra Godanna Þioonustu, hverre Skipan þeirra þo ad Mannkynsins Ovinur hafe spillt med sine Dijrdkun, þa er þo audsært hier af, ad Naatturan hefur boded þeim, ad slijkt være ein sialfboden Skyllda vid Gud, og hafa ad þui leite, og med þessum Setninge sannad þad sem Paall skrifar, Rom. 2. Ad Heidingiarner sem ecke hafa Logmaaled, þeir giore af Naatturunne þad Logmaalsins

er. Annad er þad sem Kyrkiu-Logum Gydinga sier i läge vid kom, sem er, ad hallda Sabbated, ä hinum siounda Deige, hvar um̃ ädur er nockud i Jñgängenum talad, so og ad viña alldeilis eckert Verk ä þessum Dogum, sem þo än Efa hefur nockurn Skilmäla haft, sem sijdar mun sagt verda. Nu þo ad christenna Manna Frelse hafe nockra Linkind hier i giort, so og linad Straff þeirra, er Drottenns Dagenn vanhelga, þä vite Menn samt, ad þad er ein hroopande Synd, ad brioota hann med onaudsynlegu Erfide. Til Guds Dijrdkunar var hañ helgadur i fyrstuñe, laungu ädur eñ Logmäled var wtgiefed. Christelegt Frelse hefur ei afmäd hañ, helldur flutt ä hiñ fyrsta Dag, hañ er i Sida-Logmälenu bodeñ, alldrei er hann af Christo fyrerbodenn, helldur Hræsne og sw Hiä-Trw er Gydingar um̃ hañ hofdu, hun er stroffud af Frelsaranum. Þetta Bodord um̃ Helgun Hvijldar-Dagsins er Alyktun hiñar fyrre Bodorda Tobluñar, hvers vegna ad sijnast mä, ad hañ sem þad mootþre~anlega brijtur, hañ neite allre Guds Dijrdkan, fyrer utañ þad ad þad stendur alltijd stodugt er Jacob skrifar, Cap. 2. Ad sä sem brijtur eitt af Bodordunum, hann er vid oll sekur, sä sem brwkar Hvijldar-Dageñ til siña Utriettinga, ad þarflausu, fyrer Agyrnes Saker, edur af Forsmän vid Gud, hann er einn Afguda Dijrdkare, þvi Gude einum eñ eingum odrum tilheyrer sä Heidur ad hallda hañ helgañ, þar fyrer segier hañ, Exod. 31. Siäed til, ad þier hallded miñ Hvijldar-Dag, þvi þad er Teikn ä millum mijn og ydar, vanbrwke þvi nockur þeña Dag, med þvi moote sem ädur er sagt, þä ræner hañ Gud sijnum Heidre, og tileinkar sier, þad honum alleina tilheyrer; Hañ vanhelgar og hañs Nafn, þvi ä þessum Deige ä ad prijsa og lofa þad, med hiñe mestu Audmykt; Eñ sä sem ecke er med mier, hañ er ä moote mier, segier Christur, Matth. 12. So vil eg segia: Ad hañ sem ecke Guds Nafn helgar ä þessum Deige, hañ vanhelgar þad; Og i Sannleika, christner Menn, þyker oss þad oflijted, ad Gud hefur giefed oss hina sex Dagana til Utriettinga vorra, ad hañ hefur blessad vort Erfide, vora Lijfs Næringu, vorar Karfer og vorar Afgängs Leifar? Þo vier giolldum honum Þioonustu Sioundareñar, so sem eiñ Skatt af ollum Tiimanum, þad være stakt Oþacklæte, ad skora sig undañ þvi. Eg vil ei þar um̃ tala, ad Gud er längtum vægdarsamare vid Lijkhame vora, enn vier erum siälfer: Þar finnast þeir, ed so eru äkafer i Bwsorgenne, ad þeir mundu eingañ Tijma giefa sier, Hiwum sijnum og Viñu-Dijrum til Hvijldar, nema þesse Dagur være tilsettur, so ad þeir siälfum Lijkhamanum fyrer Lijkhamans Næringu ad þarfleysu, hvar med Gude er eingeñ Þioonusta gior, þriad hann, sem ad baud Mañenum, ad i Sveita sijns Andlitis skyllde hañ sijns Brauds neyta, Gen. 3. Hañ hefur og boded, ad ä hinum siounda Deige skyllde hann hvijlast af sijnu Erfide. Og þo nu ad Strit-Vinna og onnur þvilijk Veralldar Um̃svif sieu bonnud ä helgum Dogum, þä meine þo eingenn, ad Gud verde med eintoomes Jdiuleyse dijrdkadur, Jdiuleysed er Ordsok til margra Lasta. Þegar David gieck ydiulaus uppä Hws Þake sijnu, þä freistade Diofullenn hañs til ad gyrnast Bersabe, og var hann þo Guds

Madur;

Madur; Ætla ecke ad þu siert ohultare fyrer honum ef til vill, þvi talar Hieronymus vijslega og gudrækelega, er hann segier: Haf alltijd eitthvad ad sijsla, so Dioful-lenn hitte þig ecke jdiulausañ, þvi Idiulepsed færer med sier Lestena: Meñ læra illt ad giøra, af þvi ad giora eckert; Þar fyrer, segier og einn af þeim christnu forn Mønnum: Betra være Gydingnum ad vinna eitthvad til Þarfenda a Akre sijnum, helldur enn ad giora Upphlaup a Akrenum, og betra være Konum þeirra ad sitia ad Ullar-Verke, helldur enn ad dansa opeñberlega a sijnum Tunglkomu Hatijdum, og er þad Mæla launast, ad oss christna Menn varar alldrei Verk a helgum Døgum, til ad þioona Gude med, ef vier værum lundlægner þar a, þo vier hvijlunst af daglegu Erfide, hvar um eg vil framar tala i hiñe sijdare Greineñe. Eñ ef þad er ecke leyfelegt, ad viña ofmiked, edur eckert a þessum Døgum, þa er þad vijst, ad þad er ein Hofud-Skom, ad hafast þad ad, sem illt er og i sialfu sier oleyfelegt, þvi þad er ad dijrdka Diofuleñ i stadeñ þess Meñ ættu Gud ad dijrdka. Þetta giora aller þeir ed bruka Guds helga Daga til Lauslætis, til Ofneytslu og Ofdryckiu, til liootrar Skiemtunar, til Okurs og og Agyrne, til ad viña sier iñ Fie med Duble og Teninga Kaste, hvar af þrælega ord-sakast Svardagar, Agg og Þræta, Aflog Riskingar, til ills Samtals, til ad baktala, rægia, og liuga uppa Naungañ, til ad atyrda hann, og giora illt i Skape. Oskande være, ad ecke kiæme Meñ saman til slijks, a helgum Døgum, under þvi Skyne, ad gaanga i Guds Hws, um hveria Poall segier, 1. Cor. 11. Ad þeir samañsafnest til hiñs verra eins, og er eingeñ Vanhelgun argare enn þesse; Þvi ef þad eru i sialfu sier þvilijker Klæker, ad Paulus segier, ad med slijkum skule Meñ ecke Umgeingne hafa, og ad þeir ed þvilijkt fremia, erfe ecke Guds Rijke: Hvilijkur Glæpur mun þad þa vera, ad adhafast soddañ a þeim Tijmum, sem Drotteñ helgad hefr? A medal þessara Klækia, er ecke hiñ miñste, Guds Hwss Forsoomun og hañs heilogu Orda, sem morgum Veralldar Syne þyker lijtil Synd, og allt añad þarfara ad viña; Þykiast sialfer nøgu vel uppfrædder, so ad ei mune þeir læra miked af einfolldum Prestum. Herra Gud; Dijker eru Sialfbyrgingar þesser heilogum David; Hañ var so vel uppfræddur af heilogum Anda, ad hañ hefur morgum odrum himneska Speke kient i Psalmum sijnum; Þo segier hañ, Ps. 27. Eins hefe eg beded af Drottne, þess kresst eg af honum, ad eg sitie i Hwse Drotteñs alla mijna Lijfdaga, til ad sia Fegurd Drotteñs og leita heñar i hañs Mustere. Hvad sijnest ydur, munde David ecke gieta funded Gud heima i Hwse sijnu, eins vel og þier? Iwmiklu betur, þvi eg efast um, hvert þier siñed hañ nockurstadar, sem so toomlaater erud, ad þier villied ei lioa Fætur ydar til ad gaanga i Guds Hws, til ad leita hañs þar, edur Eyrun til ad heyra hañs Ord. Hvad sañ þo David i Guds Hwse añad eñ nockrar Foornfæringar, i hverium ad fyrermyndud voru epterkomande Giæde, vid hveriar hañ þo huggade sig, og var gladur af Voneñe: Eñ þier, hverium Christur er med ollum sijnum Velgiorningum krossfestur afmaaladr, i hverre riettskickadre Predikun, þier forsmaaed þo Lijkhamañ, þar sm David

unde sier vid Skuggañ. Hier af spretta adrer Avexter, lijker Rooteñe, sem er Bænrækarleysed, þvi Guds Hws er Bæna-Hws: Vantrwenn, þvi hverneg meiga þeir trwa, nema þeim sie predikad, segier Paulus, Rom. 10. Kiærleiksleysed, þvi þeir yfergiefa Safnadeñ ꝏ moote Postulans Bode, Hebr. 10. Og Samneyte Guds Barna, sem hvad mest eflest i Guds Helgedoome. Hier af fylger hanns Þienara Forsmaan, þeir eru soddañ Mønnum eins og ein Gaman-Vijsa, sem er fogur ad leika, so sem Drottenn sagde vid Ezechielem, þeir eru þeim nockurskonar Epterlijkinga edur Ordskvida Smider eins og hann, Ezech. 21. Enn hvad vill hier af fylgia? O þier hin fꝏvijsu Børneñ! Þad kañ efa, ad hver sem þꝏ forsmꝏer, hann forsmꝏer Christ, enn hver sem Christ forsmꝏer, hann forsmꝏer þañ er hann sende, enn þañ ed Gud forsmꝏer, þann vill hann forsmꝏ, 1. Sam. 2. Og er þꝏ ecke leingra ad leita ad Glotuneñe, sꝏ finnur hana i eilijfum Ellde, sem ei villde leita ad Drottne i hanns Hwse. Hier um̃ mætte margt fleira tala, enn eg læt þetta nægia ad so stoddu, og vil koma til hins, er eg ꝏdur lofad hefe um̃ ad tala.

Hvert ad vera eige vort hid sierlegasta Verk ꝏ Drotteñs Døgunum og ødrum helgum Tijdum, þad er audvitad af Skickun Sabbatz-Dagsins i gamla Testamentenu, hvar Foolked ꝏtte samañ ad koma til Helgedoomsins, til ad dijrka Gud med Offrum og Foornfæringum̃, so sem ꝏdur er sagt, þvi jafnvel þo Dagureñ sie um̃breittur, og Foornernar afmꝏdar med þeirre einu Foorn, sem hiñ ædste nyia Testamentsins Kieñemadur hefur iñbored i þad allra-helgasta i Himnenum, ad wevegadre eilijfre Endurlausn, þꝏ er þo ecke hañs Vilie um̃breittur i þvi, ad lꝏta þioona sier af christnum Moñum. Fyrer Synda-Foornernar offrum vier þvi saklausa Guds Lambe, sem frꝏ Upphafe Veralldar slꝏtrad er. Vor Upplyptingar-Offur eru Bæner og Þackargiorder, þetta eru Kꝏlfar Vara vorra, þad eru vorer Frumburder, sm̃ Drottne eru helgader, þꝏ eigum vier fram̃ ad bera ad sønnu alltijd og allstadar, enn þo sierdeilis i hañs Hwse, ꝏ þeim Døgum, sem þar til helgader eru, þar til er hiñ fyrste Dagur Vikuñar bodeñ, sem ꝏdur er um̃gieted, sem og adrar Hꝏtijder, þær ed christelegt Yfervalld hefur sett, og eiga ad halldast i jøfnu Gyllde, þvi hañ sem baud ad helga hiñ fiounda Dageñ; Hañ hefur og boded ad hlijda Yfervalldenu, og ꝏ þad þo hvad mest ad framkoma i þeim Hlutum, sem Guds Dijrd ꝏhræra, og hañs sierlegustu Velgiørninga, hvar fyrer hiñ fyrste af christnum Keysurum, hinn stoore Constantinus, liet hallda Fostudageñ helgañ i Miñing Krossfestingar Drotteñs, og varde sꝏ Sidur leinge nockud, nu er þad þo ecke noog, ad koma samañ til Kyrkiuñar, nema Meñ giøre þar Guds Eyrinde med allre Alwd, añars er vor Kyrkiu-Gꝏngur ecke nema eintoomis Hræsne, og være af illu skꝏrra, ad koma þar alldrei (sem þo er stoor Synd i sialfu sier, nær þvi mꝏ vel vid koma) þvi hitt er ad nꝏlægiast Gud med Vorunum, eñ Hiartad er þar lꝏngt frꝏ, og hvad gagnar þad til Guds Dijrdar og vorrar Sꝏluhialpar, ad Meñ sitie i Kyrkiuñe, eins og Gud segier um̃ Tilheyrendur Ezechielis, Cap. 33:

Þeir

þeir koma til þijn Hoopum samañ, og sitia fyrer þier so sem mitt Foolk og heyra Ord þijn, enn þeir giora þau ecke. Þad er Teikn til þess, ad Eptertekteñ hefur ecke mikel vered, og ecke einasta er þad nu Skyllda vor, ad koma samañ a helgum Dogum, til ad losa Gud, helldur er þad eiñ gledelegur Hlutur, þad er Myskun Guds, ad hañ hefur ætlad þessa Daga til Sadningar Sælum vorum, þar hefur hañ tilreidt eitt miked Giestabod i Syne sijnum. Þar vid huggar David sig i siñe mestu Sorg, er hañ kvedur þañeñ, Ps.42. Eg wihelle Hiarta mijnu i sialfum mier, þar eg mun med þeim Flockunum burtganga, og med þeim fara til Guds-Hwss med Gledskap og Þackargiord, med þeim Hoopnum sem Helgena helldur, eg sagna af þvi, segier hañ eñ aptur, Ps.122. Ad til mijn verdur sagt, vier skulum ganga i Hws Drotteñs. Þetta sagde hann Konungureñ i Israel, og einum Verk-Þræl a medal vor ma valla mwa til þess, ad sækia Sooknar-Kyrkiu sijna a stundum, edur og Hwsboonde hañs hefur so lwd hañ i Erfide, ad hañ gieiur þad valla, hvad og er ein hroopleg Synd. Nu er ecke þar med bwed, christner Menn, ad Menn heyre Guds Ord i Kyrkiuñe. Allañ Dageñ a Gude ad giefa med riettu, ef þad giora ma Stoor-Naudsynia vegna. Þegar Meñ eru fra Kyrkiuñe geingner, þa eiga Meñ ecke strax ad hætta sijnu Gudræknis-Verke, edur lifa so sem alldrei hefdu þeir komed þar, og hugsa ecke framar þar til; Hvad a þa ad giora? Riett er ad sedia Lijkhamañ epter Þorfum, þad er og ecke bannad ad hallda skickañlegar Mal-Dryckiur a þessum Dogum, þo so ad Meñ gledie sig med Otta og dijrdke Drotteñ med Virdingu, Ps.2. Þetta gietur og vered eitt af Kiærleikans Verkum, ef þad er giort an Ohoofs og Metnadar; So sogdu þeir Nehemias og Hezras Kieñemadur og Levitarner, er kiendu Foolkenu; Eted hid feita og drecked sætañ Dryck, og sended þeim eiñ Part sem ecke hafa tilbwed, þvi Dagur þesse er helgadur Drottne vorum, Nehem.8. Þetta budu þeir ecke af eigeñ Myndugleika, helldur epter Logmale Drotteñs er ritad stendur i Deuteronomii Bookar Cap. 16. Hvar fyrer slijkt er leifelegt, sierdeilis ef Meñ gleyma ecke Naunganum og hinum fatæka, þvi þeim bijdur Drotteñ med soddañ Hætte gott ad giora, Luc.14. Enn þo ad Skapareñ hafe lated þetta epter Lijkhomum vorum, þa eiga Menn ecke ad lata Salena hlutlausa vera, helldur æfa hana i Umþeinkingu Guds Orda, er Meñ heyrt hafa, og þess Lestre, þeir sem a Bækur kuña, og meiga fyrer odrum iesa; Ecke hofum vier christner Menn færre edur smærre Velgiorninga Drotteñs ad miñast, a vorum Dogum, enn Gydingar; Eins er oss skylldt ad minnast a Verk Skopunareñar og þeim, og ollu meir a vora Endurlausn af Helvijtes og Syndareñar Þrældoome, enn þeim a Lausnena af Egyptalands Anaud, ad hverre fullendadre, (eg meina vorre Endurlausn) ad Drotteñ, sem doo fyrer Synder vorar, er uppriseñ oss til Riettlætes; A vora Endurskopun og Helgun i Skijrneñe, hverrar Fyrermyndan ad var Gangur Israels Sona yfer um Hafed rauda wr Egyptalande, þvi meigum vier tileinka oss þad sem Drottenn bijdur i sijnu Logmale; Geymed mijna Sabbats-Daga, so ad þier vited ad eg er

Drotteñ sem ad helga ydur, Ezech. 20. A Deydingu Holldsins, ad vier ei giorum pad oss lyster aa hanns helga Deige, nie gaungum aa vorum Vegum, Esa: 58. Um̃ þetta eigum vier ad hugsa aa þessum helgum Tijmum, þad eigum vier ad brijna fyrer Bornum vorum og Hiwum, ecke sijdur eñ Israels Syner Logmaaled, og skulu Meñ satt tala, þaa er eingeñ Ydia Gude þeckare aa Sabbats-Dogum, eñ ad uppfræda Ungdooineñ og hina faafroodu i þeirra Christeñdoome, þvi til þess maa eg segia, ad christeña Maña Sabbat sie giort sier i Lage. Giæte þeir þess ed af Gude setter eru til slijkrar Idnar, bæde Kiennemeñ, Forelldrar og Hwsbændur, og hugleide, hvad stoorum Reikninge þeir eige ad svara fyrer þenna Dag, ad odrum fraateknum. Nu fyrer þvi, ad so er vared spilltu Edle voru, ad færster af oss, jaa, so faaer sem eingver af þeim sem lifa aa þessare kolldu og sijdurstu Olld, þeir gieta allañ Dag til Enda Gude þioonad i Hiarta sijnu, aan þess ad Hugur þeirra hvarfle fraa, þaa meina eg ad leifelegt sie, ad hressa Hiarta sitt med sidsamre og hæverskre Skiemtan aa þessum Dogum. Drotteñ og hañs Læresveinar geingu wt um̃ Korn-Akur aa Sabbats-Deige, Matth. 12. Þvi veit eg ad hann bañar ecke ad giora sier eitthvad til Dægur-Styttingar, hvert helldur þad er med lijtelle Viñu edur meinlausum Leik., nær þad ecke skiedur af Giaalijfe, af Lauslæte, af Hreckvijse, edur odrum Hlutum sem Guds haaleita Nafn verdur lastad med, so og eru Naudsyneñe eingeñ Log sett. Hvers Ydar Asne Edur Naut, Sem Fellur I Pitt A Sabbats-Deige, Er Þad Ecke Jafnskioott Uppdreiged? Segier Frelsareñ hier i Gudspiallenu: Þvi veit eg ad ecke aa so Logmaaled ad skilia, ad oll Viña hafe Judum boñud vered aa Sabbats-Deige, hverneg sem aastædest, þad kieñer Christur siaalfur med þeim Ordum, er strax voru leseñ, og aptur med þvi ad hañ segier ad Kieñemeñerner i Musterenu vanhelge Sabbated, hañ meinar epter Pharisæaña Utleggingu. Eins mikel Vinna var ad slaatra Foornunum fyrer Altarenu, so sem i Heima-Hwsum. Enn fyrer þvi, ad þesser Pharisæi kyñu ad hafa sagt, ad slijkt helgadest af Musterenu, þaa leifde hañ Læresveinunum Axen ad plocka fyrer utañ Mustered aa Akrenum, og sagde: Hier er saa, sem meire er enn Mustered, Matth. 12. Hvad ed satt var, þvi hañ var Musteresins Herra, so vel sem Sabbats-Dagsins, Luc. 6. Þad var og af guddoomlegre Speke talad, er hann talade under eins; Sabbated er giort fyrer Mañeñ, eñ Madureñ ecke fyrer Sabbated, Marc. 7. Þetta er satt, so sem oll hañs Ord, þvi Madureñ var skapadur aadur eñ Sabbated var sett; Hvar fyrer skyllde þaa hin ædsta Skiepna Guds, sem er under Sooluñe, vera so mioz bundeñ vid Kyrkiu-Logeñ, sem ecke aattu ad vara leingur enn til Christum, ad ei mætte bregda wt af Logvitringaña Utleggingu. Guds Logmaal wtleggur og siaalft sig i þessare Grein, þviad i Levitici Bookar 23. Capit. stendur optlega, þu skallt eckert Þrældooms-Verk vinna, þad er itrekad aptur i Num. 28. og 29 Capitulum. Hvilijkt þad sie, kienner bæde Esajas og Jeremias, ad ei skule bera Byrder inn um̃ Jerusalems Port aa Sabbats-Dogum, og maa þar af raada, hvad i þessu hafe mest bañad vered. Nu er þo Frelse

vort

vort christeña Manna meira, þvi vier erum ecke ad ollu leite bundner vid Gydinganna Sabbat, nockud hefe eg ædur þar um sagt, nockud vil eg hier epter segia. Þad er nu ollum kuñugt, ad Kyrkiu-Log Möysis eru fyrer Dauda Drotteñs afmæd, enn þad er ædur sijnt, ad Forbod alls Erfides oc Sabbats-Deige heyrer til Kyrkiu-Logunum. Satt er þad, ad Gud skipar, ad þetta Logmæl um Sabbats-Dagenn skule vera þeim eitt æfeñlegt Logmæl i þeirra Kynslodum, enn þær rugludust, ei længt epter Himna-För Drottenns, og nu veit eingeñ af þeim, af hverre ætt hann er, þvi er þad bert, ad þetta Logmæl hefur ei ad ollu leite vered giefed nema Gydingum. Umskurneñ kallast og eitt æfeñlegt Sættmæl, þo er hun aftekenn med Skijrn christenna Manna, þvi ber þess ad giæta, ad Ritningeñ kallar þad æfennlegt æ stundum, sem leinge æ ad vara; Eñ hverneg sem þessu er vared, þæ vil eg adspyria: Hvar fyrer mun Paulus straffa þæ i Galatia segiande, Gal. 4. Þier taked Vara æ Dogum og Mænudum og Tijmum og Arum? Hvar fyrer mun hañ aptur segia vid þæ i Colossis, Cap. 2. Eingenn skal dæma ydur i Mat edur Dryck, edur um Hætijdardags Halld, edur ny Mænuda Helgar, edur Hvijldardags, sem ad er Skugge þess epterkomanda, enn Christi er Lijkhameñ? Hvad er þetta añad, enn ad Sabbatsins Logmæl er ad nockru leite linad, og ecke so streingelega boded christnum Mönnum, so sem þad var Judum; Eg vil og þad til-leggia, ad þad kallast Teikn i Exodi Bookar. 31. Cap. Hvad munde þad þæ teikna? Þad æparande Sabbat sem Drotteñ byriade med siñe Upprisu hier i Nædeñe, enn nun fullkomna i Upprisu allra Maña, hvar epter ad Utvalder munu eckert añad Verk viña, eñ ad lofa Gud. Fyrst Meñ nu hafa sialfañ Hluteñ allareidu ad nockru leite, þvi Trweñ er Vera þeirra Hluta sem Meñ vænta epter, Heb. 11. Og ad vijsu hver einn fullkomlega sæ ed i Drottne deyr: Þvi skylldu Menn þæ so miog hallda uppæ Teikned? Þegar eg Lijkhamann hefe, hvad gyllder mig þæ um Skuggann? So er nu christnum Moñum Leifelegt ad viña æ Suñudogum allt hvad stoor Naudsyn vid liggur, þo so, ad Meñ heyre ædur Guds Ord, ef heyra mæ, so sem er, ad biarga Atviñu siñi fræ Skiemdum, ef þær vidliggia, ad giora naudsynlegar Reysur, ad hiælpa þvi sem ad Lande ber, ef añars er hætt vid ad missest, ad Roa til Fiskiar i Hallæris tijd, þo so, ad ei sie fantækiuñ gleymt, epter þvi sem Logeñ bioda, og añnad þessu lijkt. Þetta er leifelegt ad viña, og jafnvel þo ecke bere bræd Lijffsens naudsyn til, þæ er þo ecke soddañ bañad. Ecke liggur Mañsens Lijf vid ad draga Nauted upp wr Dykenu æ Sabbats-Deige, og þo mæ siæ, ad Gydingar hafa þad leifelegt hallded. Ecke hefdu Læresveinar Drotteñs af Hwngre dæed, þo ecke hefdu þeir plockad Axen æ Hvijldar-Deigenum, og took hañ þæ sámt i Forsvar moote Illkvittne Phariseæña, hañ gat og sadt þæ med odru moote, hefde þetta ecke leyfelegt vered, þvi ecke var hañ komeñ til ad upplevsa Logmæled, Matth. 5. Nu er þetta og añad christnum Moñum lofad med sogdum hætte; Eñ þess æ eingeñ ad dyrkast ad naudsynialausu edur ad brwka Frelse Guds Barna til ægyrne, edur giora þad af Vantrauste vid Gud, edur Forsmæn

vid hañs helga Daga. Eñ hvad hier um̃ er framar ad tala, þä er Gude eingeñ Hlutur þeckare ad giora ä Sabbatz-Døgum, nærst sinne Þioonustu, helldur enn Kiærleikans Verk; Hier stendur i Gudspiallenu, Ad Hann Hafe Teked A Þessum Vatnsivwka Manne, Læknad hann, Og Läted Hann J Burtu Fara; Og hversu ad hann hafe Phariseana sannfært hier um̃, er augliooft, ecke einasta af hanns Tale i þetta sinn, helldur og af Andsvare hanns vid Samkundu Høfdingiann, er vandlætte um̃ þad, ad hann læknade hina veiku Konu ä Sabbatz-Deige, Luc. 13. Þu Hræsnare, sagde hañ, leyser ecke hver ydar sitt Naut og Asna af Stalle ä Sabbatz-Deige; og leider til Vatns? Byriade þä ecke þessare, sem er Abrahams Dootter, hveria Andskoteñ hefur bunded, siä, i Atiään Ar, ad leysast af þessu Bande ä Sabbatz-Deige? Ecke erum vier megnuger um̃ ad giora Krapta-Verkenn, samt eiga þeir ed Læknes Kunstena vita, ad giæta þessa, og aller ad giora vidlijk Kiærleikans Verk hvad mest ä þessum Deige, epter þvi sem hver hefur Ordsök og Efne til.

Eg veit þar er eingeñ sw Predikun, ad eg fäe ecke ad heyra þar talad um̃ Synder mijnar, um̃ Giædsku Guds og hañs Velgiorninga, um̃ Avøxtu Trwareñar, og Betrun Lifnadarens, og þo alldrei sie Predikunenn so einfalldleg, þä veit eg, ad eg er ecke so lærdur sem Lutherus, er sagdest alldrei hafa heyrt þä Predikun, ad hann ecke hefde eitthvad af heñe lært, og mun hañ þo hafa heyrt þær misjafnar ä þeim Døgum; Sie eg nu Guds Barn, þä vil eg sijna þad i Verkenu, sem eg numde af Ordenu, añars er þad falled utann hiä Veigenum, i grijtta Jørd, edur medal Þyrna. Alltijd eigum vier Kiærleikans miñuger ad vera, enn þo hellst ä þessum Døgum. Gud giæfe, ad Christner Meñ nu villdu giora sier þad ad Skylldu-Løgmääle, sem Paulus ried þeim i Corintho um̃ Tillaged til heilagra. Hinn fyrsta Dag Vikunnar, sagde hann, þad er ä Suñudageñ, þä legge hver eiñ hiä sialfum sier, safnande i Siood, þad sem honum hefur heppnast: Fätæka høfum vier jafnann hiä oss, enn þo høfum vier sier i Lage Ordsök til ad giora þeim gott ä þessum Døgum, þvi þeir koma äsamt oss fram̃ fyrer Gudi Helgedoomenum, þä fääum vier best ad heyra Naudsyniar þeirra, þar gietum vier rääded Boot ä þeim, vier sem Gud hefur giefed Audlegd Heims þessa. Þar kunnum vier ad giora oss Vine af hinum rääng-lääta Mam̃on, þä er medtaka oss i eilijfar Tialldbwder. So og eigum vier ad vitia siwkra, Hwsa Eckna og fødurlausra ä þessum Døgum, þvi þad kallar Petur Gudræknes Verk, hugga þä, rääd-leggia þeim, og ecke koma toomhendter, ef vier meigum afleggia, enn þeir eru naudstadder: Annars geingur þad nærre þvi, ad segia, fared i Fride, vermed ydur og mettest, eñ giefa þeim þo ecke hvad Lijkhamanum gagnar, Jac. 2. So giæted nu þessa, christner Meñ, og giored ei Hiegooma wr Drottiñs Døgum, hañs Orde, edur hañs Hwse, þvi hañ lætur ecki ad sier hæda, og hvern sm̃ hañ forsmäer, þañ vill hañ forsmä. Eñ þu goode Gud og Konungur Dijrdareñar, verka þu þad med oss, ad vier so rækium þijna Sabbatz-Daga, þitt Ord, þijna Þioonustu, og allar þijnar helgar Tijder, ad vier meigum med

þier

hier oendanlega Sabbat hallda, fraa eine Eilijfd til añarar, med ollum heilogum, bænheyr þad nadude Fader, fyrer Jesum Christum, A M E N.

# A Michaelis Messu.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

Þañ Tijma, geingu Lærefveinarner til Jesu, og sogdu: Hver er mestur i Himnarijke? Jesus kallade eitt Barn til sijn, og sette þad midt i millum þeirra og sagde: Sannlega segie eg ydur: Nema þier umsnwest, og giørest so sem Smaa-Born, munud þier ecke iñgaanga i Guds Rijke. Hver sialfur sig læckar, so sem Ung-Meñe þetta, sa er mestur i Rijke Himnaña. Og hver sem medtekur eitt þvilijkt Ung-Meñe i mijnu Nafne, sa medtekur mig: Eñ hver hañ hneixlar eiñ af þessum Smælingium sem aa mig trwa, þarfara være honum ad Mylnu-Steirn heingdest uñ hanns Hals, og være i Siaafar-Diwp socktur. Vei sie Heimenum fyrer Hneixlaner, þar hliota þo ad koma Hneixlaner. Eñ vei þeim Mañe, fyrer hvern ad Hneixlaneñ kiemur. Eñ ef þijn Hond edur þiñ Feotur hneixlar þig, snijd hann af og snara honum fraa þier. Betra er þier iñn ad gaanga til Lijssins halltur og Handar vane, eñ þad þu hafer tvær Hendur og tvo Fætur, og verder i eilijfañ Elld kastadur. Og ef Auga þitt hneixlar þig, þaa slijt þad wt og snara þvi fraa þier; Betra er þier eineygdum iñ ad gaanga til Lijssins, eñ þad þu hafer tvo Augu, og verder i helvijtskañ Elld kastadur: Siaaed til ad þier forsmaaed ecke einn af þessum Smælingium. Þviad eg segie ydur: Ad þeirra Englar aa Himnum, siaa jafnañ mijns Fodurs Auglit, sem er aa Himnum.

## Exordium.

Þesse veglega Hatijd, er vier i Dag holldum, er tileinkud hinum stoora Hofud-Engle Michael, hvers Nafn ad merker, jafn Gude, eda, hver er so sem Gud, ecke þess vegna, ad hann sie Gude jafn, edur nockur onnur Skiepna, helldur hinns, ad hin onnur Guddoomsins Persoona Guds eingietenn Sonur, hann ber þetta Nafn sumstadar i Ritningunne, og medal annars hiaa Danielem i 10. og 12. Capitulum. Ecke helldur er þesse Dagur helgadur Guds Engle i þeirre Veru, ad Menn skule dijrdka hann þar med, þvi Drottenn Gud þinn skalltu tilbidia og hon-

um einum Þioona, segier Ritningenn, Matth. 4. Þad bannar Paulus, er hann tekur oss Vara fyrer, ad vier ei skulum lꜳta villa oss med Dijrdkun Englanna, Col. 2. Og ecke villde Engellen̄ sem byrtest Johanni taka ꜳ moote þvilijkre Lotningu, þegar Postulenn fiell honum til Foota ad tilbidia hann, er hann sagde, Apoc. 19. Sioꜳ til ad ei giorer þu þetta, eg er þinn Samþioon. Helldur er þesse Hꜳtijdes-Dagur þar til giordur, ad þacka Gude fyrer Vernd H. Engla, Hverium hann umboded hefur, ad þeir bere oss ꜳ Hondum sier, so ad ei steitum vier Foot vorn vid Steine, Matth. 4. J Ritningunne hofum vier morg Dꜳme uppꜳ Varatekt H. Engla: Gud Drottenn Himensins mun senda sinn Engel fyrer þier, sagde Abraham vid Eleasar Þioon sinn, Gen. 24. Er hann reiste i Mesopotamiam, til ad bidia Syne hanns Konu til Handa. Jacob segier: Ad Engellenn hafe frelsad sig frꜳ ollu illu, Gen. 48. Petur segier: Drottenn sende Engel sinn, hver ed frelsade mig, Act. 12. Enn þo ad ei siꜳum vier Englanna Siooner nu ꜳ þessum Dogum, þar hinn stoore Michael, hinn stoore Engell þess mikla Rꜳds hefur-bwed so um̄ vor Sꜳluhiꜳlpar Efne, og so liooslega opennberad oss sijns Fodurs Vilia, ad vier þurfum ecke Englana af Himne til ad kienna oss hvad til vors Fridar heyrer, þꜳ samt skulum vier vita, ad þeir blessudu Andar eru oss nꜳlæger til ad afstijra Skadræde og Arꜳsum Fiand Manna vorra, og þad vottar Paulus, er hann segier epter David: Ad þeir sieu aller þioonustusamer Andar, wtsender þeim til Þioonkunar, er Sꜳluhiꜳlpena erfa skulu, Hebr. 1. Nu vilium vier aller i þeirra Tolu vera, þar fyrer eigum vier ad leggia allann Huga ꜳ, ad vier styggium þꜳ ecke frꜳ oss med hneixlanlegum og ogudlegum Lifnade, hvar um̄ ad þetta H. Evangelium giefur oss Ordsok ad ræda, wt af þeim Ordum, er Drottenn talar um̄ Hneixled, Hvert ad er tvofalldt. 1. Þad Menn giefa odrum af sier. 2. Nær Menn hneixla siꜳlfa sig: Um̄ hvertveggia vil eg med fꜳm Ordum tala.

Enn þu goode Gud, styrk oss hier til med Nꜳd þijns Anda, i Jesu Nafne, Amen

## Utleggingen̄.

Hver Sem Hneixlar Einn Af Þessum Smꜳu, segier Frelsaren̄: Þad Ord er i Textanum stendur, er dreiged af odru Orde, sem merker ad halltra, og þad þess vegna, ad sꜳ sem hneixladur verdur, hann er ecke heilfættur, han̄ halltrar ꜳ Guds Veige, og geingur ecke riett fyrer Drottne. Þetta ꜳ vel saman̄ vid vora Twngu, þvi Hneixle drogum vier af þvi Orde, ad hnijga edur hneigia, þvi sꜳ sem Hneixle af sier giefur, hann kiemur odrum til ad hnijga edur rasa, og hneiger han̄ til vondra Verka. Þetta Ord merker ꜳ grisku Twngu þad Trie, sem Snorunne helldur, ꜳ hvert þegar Dijred rennur, feller þad hana yfer sig, og verdur Veide-Mañenum ad Brꜳd: So brwkar og Dioofullenn sijna Eyrendesreka i Heimenum, til ad veida einfalldar Sꜳler; Þeir hallda Snorum han̄s yfer Hofde þeim: So kallar Paulus han̄s Viela-Brogd, er han̄ segier: Ad þeir sem rijker vilia verda falle i Diofulsins Snorur. Þar fyrer segier og Drotten̄ fyrer Mun̄ Hoseæ, um̄ hina otrwu Kiennemenn i Juda: Þier erud

Snara

Snara i Mizpa, og utþaned Net a Thabor, Hos. 5. Dragande Dæme af þeim Veideskap er brwkadest a þessum Fiollum. Nu er þesse hin fyrre Grein af Hneixlenu med tveñu moote: Aññad hvert verdur þad med Ordum edur Verkum. Med Ordum skiedur Hneixled, þegar þeir sem eiga ödrum ad undervijsa, þeir kieña Villur og rang-añ Lærdoom, þañ ecke er a Guds Orde bygdur, og leider til Glotunar. Fyrer þess-are Otrepsoott hefur Guds fodurleg Millde þyrmt Lande voru, sijdañ hid klæra Lioos Evangelii skein i hanns Kyrkiu niedal vor: Lofad sie hanns dijrdarfulla Nafn um Allder Allda. Þetta verdur og, nær þeir sem i Guds Stad eru setter, predika þad sem er Hiegoome, ecke sundurkliwfa Ord Sannleiksins so sem þyrtar, ecke giefa Guds Hiwlum i riettañ Tijma þad þeim tilheyrer, og tala þad fyrer Foolkenu, sem ei er til Sadningar Saalu þeirra, so hun er litlu edur eingu nær: Ecke segia hinum ogudlega til Synda siña; Ecke leidrietta þann, sem fer villur Vega; Ecke undervijsa hinum faafrooda; Ecke hugga þann sorgbitna og miskrada, jaa, þegar Meñ i Guds Nafne og under hañs Persoonu reka sitt eiged Eyrende, til sijns Abata, og ad leita sialfum sier Virdingar, enn lata Guds Dijrd fara, og eru ei miog hugsunarsamer þar um, hvad heñe vid lijdur, þessa kallar Paulus otrwa Erfidara, og Esajas maallausa Hunda, sem ei kuñe ad giellta, eñ þo sterka Hunda til ad eta: Hvar fyrer? Þvi þeir segia þeim Strijd a Hendur, sem ecke legg'g i Muñi þeirra, enn boda Frid, nær þeir tyggia med Toñunum, Mich. 3. Þeir eru hverfuler, osañsoguler og liwga, segiande: Eg skal driwpa, þad er kieña þier fyrer Wijned, og fyrer afeingañ Dryck, so sem Drottenn ad Orde kiemst, hia Micheam Cap. 2. Og eg veit ecke hveriu þeir betre eru þeim folsku Spaamoñum, er Drotteñ talar um i Gudspiallenu, er koma i Sauda-Klædum, enn innra eru þeir glepsande Vargar, þvi einu maa gyllda med hveriu moote Meñ draga Andskotans Ploog; til ad spilla Guds Akre, og er þetta eitt skielfelegt og banvænt Hneixle. Næst þessum tel eg þaa, sem bæde sialfa sig og adra venia a skammarlegar Ordrædur og fiblslegt Hial, sem eru Blvot, Munn-Eidar, daarleg Skielmtan, Hroop og Nijd, liooter Kvedlingar, og þo allra hellst illar Umrædur og hneixlanlegar um Nau-ungañ, sierdeilis dauda Meñ edur fiarlæga, af hveriu ad þraavalldlega framkiemur Agg, Reide, Þræta, Mord, Manndraap, og allra Handa Fiandskapur og daudlegt Hatur: Þetta kalla sumer ohlutvander Meñ litlar Synder, aukhelldur ad þeir varest ad lata jafnvel sijn eigeñ Börn og adra faafrooda þetta til sijn heyra; Eñ Paulus segier oss, ad illt Samtal spille goodum Sidum, 1. Cor. 15. Og framar segier hann, ad þvilijkt ecke christnum hæfe; Eph. 5. Enn hvad er þad? Eckert annad enn ad sa sie ecke christenn, ad Postulans Doome, sem ad temur sier þviljkt edur um Hönd hefur; Eñ ef hann ecke christeñ er, þaa er hañ ecke Guds Barn, og hefur forbroted hanns Naad, og tapad Velferd Saalar siñnar, nema hann ydrest af Hiarta, enn forþienad ecke einasta Ad Mylnu-Steiñ Heingdest Um Haals Honum, Og Yrde i Siaafardiwp Socktur; So sem hier stendur i Gudspiallenu, helldur og, ad honum yrde i eilijfaum

Elld kastad: Og af þessu er nu audsært, hvad skielfeleg Hꜳdung þad sie fyrer Gude og øllum heidvirdum Mønnum, ad hafa þeña Osooma fyrer Smꜳ-Børnunum, edur ødrum einfølldum, og draga þꜳ med soddañ Hætte frꜳ Gude under Satans Valld; Hverutveggium bæde þeim sem hneixlar, og hinum sem hneixladur er til eilijfrar Glotunar. Þeir eru og ecke saklauser af þessu, er hroosa vondum Verkum, og þeim er þau i frame hafa, forsvara þꜳ, og tala þeim alla Hlute til Umbootar, þvi hier af leidest hiñ einfallde og Barned til ad giora hid sama, og elska þad sem þad losad heyrer af ødrum sier elldre og vijsare; Þad er satt, ad Mañeñ skal elska, enn Verkeñ hata, og færa alla Hlute ꜳ betra Veg; Eñ þvi skal eg lofa hañ, sem hatar Gud og gooda Sidu? Jafnvel þo margur kalle þad Hæversku og Spaklynde, ad giora þañeñ; Eg voga ad segia, ad þar er eingeñ meire Drepsoott i eiñe Byggd edur Lande; Eñ þeir Meñ sem ogudlega lifa og einkis svijfast hvad þeir giora, eñ eru þo heidrader i Ordum, og hvad þeir tala edur giora, þad er teked so sem af Himnum ofañ komed, og jafnvel Klæker þeirra eru Dyggder kallader: Þesser eru eitt Atu-Mein alls heidurlegs Athæfes og goodrar Skickunar; Snara hins vonda Heims, Tꜳl-Fuglar Diøfulsins; Og so eg þad þeirra Orde segie, þeir eru Meistarar til ad fordiarfa, so sem Drotteñ talar um Babylon hiꜳ Ezechi..em; Þvi kalla eg þꜳ litlu betre sem ala Osooma þeirra i fꜳnijtu Hropse, þo vil eg hier hafa frꜳskiled þañ Heidur, er Meñ eiga Valldstioorneñe ad veita, ecke eingstu goodum og froomum, helldur og hreckvijsum, segier Petur; Og skrifad er; Hofdingia þijns Lijds skalltu ecke Bøls bidia, segier Paulus; Eñ hitt añad er og fyrer skømu umtalade, þad ordsakar stoort Hneixle, þvi þad er nockurskonar Rꜳngdæme, og riettlæter hiñ rꜳnglꜳta, edur ad miñsta koste leggr vonda og gooda ad jøfnu. Nu er allt þetta illt, sem allareidu er upptaled, eñ Kunsteñ stijgur eñ þꜳ hærra upp i Diøfulsins Hꜳskoola.

Þar eru þeir sem ad hafa Valld yfer ødrum, so sem eru Foreldrar yfer Børnum sijnum, Hwsbændur yfer sijnum Þienurum, Stoor-Herrar og Maktar-Menn yfer þeirra Undersꜳtum; Nær þesser biooda eitthvad þad sem ogudlegt er, so ad hiner voga ei annad eñ hlijda, þad er eitt fullkomed Ofrijke og Yfergꜳngur Satans i sijnu Rijke, so baud Nebucadnezar sijnum Undersꜳtum ad dijrdka sitt Gull-Bijlæte, Dan. 3. So skipade Jessabel ad wtvega Fals-Vitne ꜳ moote Naboth. So baud Herodias Doottur sinne ad bidia um Johañis Høfud. So kom Jeroboam Israel til ad syndga, er hann baud ad dijrdka þau Skwrgodeñ i Dan og Bethel: Og þo ad i øllu ødru sie olijku saman ad jafna, þꜳ var sialfur David hinum lijkur i þvi, er hann liet slꜳ Uriam i Hel med Sverde Amons Barna. Þessa Eptermynd høfum vier ꜳ Lands-Hofdingium þeim, er biooda ødrum þꜳ Hlute, sem Gud hefur Andstyggd ꜳ, Meinsære, Ofbellde, Gripdeillder, og i hvern hellst Mꜳta, sem þeir locka þꜳ edur hræda til ad vinna Diøflenum, eñ mootþægia Gude. A Hwsbændum, er þeir giora slijkt hid sama, ad þvi leite sem i þeirra Vallde stendur, til Dæmis: Nær þeir biooda þeim edur tæla þꜳ til ad giora ødrum oriett sier til Abata, ad forsmꜳ Guds Ord og helg-

ar Tijder fyrer sijn Eyrende, ad hefna á einhveriu[m], er þeir þyckiast eiga Heipter ad giallda, edur ad þeir brúka þá á einhvern Hátt til ad framkvæma sijnar Gyrnder, þetta er eitt skadsamlegt Hneixle; Og hid sama er ad segia um Forelldrana, edur adra þá, sem yfer Bornenn eru setter, edur umgángast med þeim, og er þeim þo miklu meire Vande á Hende, enn ollum odrum, fyrst þess vegna, ad Forelldrarner eiga hina mestu Rækt á Bornunum ad hafa, og er þad Mála sannast, ad þeir eru færster sem vilia þeim illt giora i lijkhamlegum Hlutum, og sumer eru allt ofhlijfner i þvilijku, sumer steypa siálfum sier til Helvijtis fyrer þeirra Skulld, er þeir safna þeim rángfeingnum Aude, og kienna þeim ad giora hid sama; Enn trúed mier, ad betra er ad giora Barn sitt arflaust ad saklausu, betra er ad slá þad og lemia til oboota, betra er ad myrda þad, Enn ad hneixla med þvi, ad vijsa þvi á nockurt Forræde, hvar af þvi kynne ad ordsakast einhver Sálar-Vode, þvi allur lijkhamlegur Skade er Hiegoome ad reikna hiá Meinum Sálarennar. Hinn annar Ordsok til þess, ad oss er vandast vid Bornenn, er sú, ad þau eru hvad næmust á hid vonda, og hvad þau ung numdu, þad verdur þeim torvelldara ad láta, nær þau dragast á legg, og þvi tekur Frelsarenn þau til Dæmis hier i Gudspiallenu. Hann virdte þau blessadur so mikels, ad hann sagde: Leifed Bornunum til mijn ad koma. Hann setur þau til Eptirdæmes þeim sem inn vilia gánga i Guds Rijke; Hann took þau uppá sinn Armlegg, hann blessade þau, hann segier hier i Gudspiallenu, Ad Þeirra Englar Siáe Jafnann Sijns Fodurs Andlit Sem A Himnum Er. Meined þier ecke, ad hann take þad sárt, þegar þau eru hneixlud, er hann so miog virder og elskar, þegar þau eru dreigenn frá Himnarijke, sem eiga þess vissa Von á medann þau þanenn eru: Munu ei Guds heilager Englar klaga þá sárlega, þegar þeirra Hiord, er þeir eru setter til ad vakta, þegar hun er so illa útleikenn, af þeim er sijdst skyllde, edur odrum ohlutvondum, er vilia sem flesta jafnsvarta sier, þviad ef þar er Glede i Himnenum yfer einum Syndara sem Ydran giorer, þvi skyllde þá ei Guds heilogum Englum lijka þad stoor-illa, nær so er hondlad med þeirra Foostur-Born; Þvi kann hver einn nærre ad gieta, sem nockra Rækt hefur á þvi Barne, sem honum er ástfoolged. Og þo nu Frelsarenn tale sier i lage um Bornenn i Gudspiallenu, þá vited ad aller adrer eru þar inne fallder. Giefed eingum neina Hneixlan, seiger Paulus: Enn sierdeilis eru þad þeir, sem eru hans, einkum volader, einfallder, og þeir sem bera hanns Kross, þvi hann giefur þeim sonnu Meiningar Nafn hiá Matth. 25. Þar hann kallar þá hina minnstu, já, sijna minnstu Brædur, i sama Capitula; þvi skulum vier nu vita, ad hinn annar Máte til ad hneixla med Ordum, er sá, ad ráda einhveriu[m] til nockrar Syndar, þegar hann er sorgfullur og mootlættur, Jobs Kona segier vid hann i hanns stooru Mannraunum, bolvadu Gude, og far ad deya: Henne eru aller þeir lijker, er ráda harmþrúngnum Manneskium til ad leita oleifelegra Medala, hinum siúka til ad leita Fiolkingis Manna, edur brúka adra Hiá-Trú og Afgudadijrdkan, hinum fátæka til ad stela, edur vinna sier inn Fie med Prettum og Rángsleitne, þeim sem Orietten lijdur, ad hefna

sialfur sijn, eñ forsmaa Logeñ, og stela Hefndeñe fraa Gude; Hafe nockur eitt Odæda Verk i Siñi, eins og Absalon, þa vantar ecke eiñ Achitophel til ad raada honum ad fremia Fridlur Fodur sijns, 2. Sam. 16. Og nær Ammon lijtur Gyrndar-Augum til siñar eigeñ Systur, þaa verdur jafnvel hañs Brædrungur Jonadab til þess ad giefa honum Raad, til ad fremia sinn ogudlegañ Vilia, 2. Sam. 13. Eg vil ei tala um̃ þaa sem fleka adra einfallda til ad giora sier Selskap i þvi, ad fiefletta adra, til ad utsiuga Hws Eckna og fodurlausra, til ad draga under sig añars Goots med Yfervarpe Laga og Riettinda: Eingeñ hefur þaa betur utmaalad eñ Salomon, er hañ segier, Prov. 1. Son minn, nær synduger Menn vilia locka þig, þaa kom ecke, þegar þeir segia, gack med oss, vier viliunn um̃sitia Blood, vier vilium um̃sitia hinn saklausa: Og skom̃u þar epter segier hañ oss hvada Taal Bita þeir brwke til soddañ Veida: Vier skulum finna allra Handa kostuleg Audæfe, vier skulum fylla vor Hws med Herfang, vier skulum aller hafa einn Siood. O! Ja, þier Satans Englar, verda maa ad þier hafed aller einn Siood i ydar Fodurs Rijke, sem er Hofdinge þessa Heims; Eñ so munud þier og einn Siood hafa med honum i hinu vellanda Dijke, þegar Guds Vesælingar koma i Rijke sijns Fodur, eins og Stiornur Himens, þier munud segia eins og Israel fordum, nær þier fagned ydar raangfeingnum Aud: Þesse eru þau Laun er mijner Elskugar hafa giefed mier, Hos. 2. Eñ nær þier uppvakned i Helvijte og Kvolunum, med ollum þeim er þier leidt hafed til Glotunarennar med ydar falskre Aeggian, munud þier þaa segia: Þesse eru mijn Laun er mijner Elskugar, Hollved, Heimureñ og Diofulleun hafa giefed mier? So er nu þetta hin skaplegasta og hneixlanlegasta Taal-Snara, og þad þess helldur, ad slijkt er hallded Framsyne og Skynseme af Bornum Veralldareñar. Menn hneixla og sinn Naunga, nær Menn brixla honum um̃ einhvern Hlut, jafnvel þann, sem ecke er i hanns Vallde, um̃ Fatækt sijna, um̃ Faavitsku, um̃ Lijkhamans Skapnad, herma epter honum og spotta hañ; Aller þeir ed so giora, þeir ecke einasta hæda ad Skaparanum, helldur koma hinum til ad syndga, i þvi hañ reidest slijku, og leitast vid ad hefna sijn, og faae hañ ei Hefndeñe framkomed, þaa hatar hañ þann, sem hañ lijdur slijkañ Orjett af; Eñ Hatred er ein Synd, sem bañar Mañenum iñ i Himnarijke. Eg vil eñ framar segia: Hver sem brixlar einum um̃ bætta Synd, hañ giefur stoort Hneixle af sier, þvi Natturann er so illgiorn, ad Sannendunum verda Meñ reidaster; eñ vier eigum ecke ad giefa Naunganum Ordsok til neirnrar Syndar, añars giora Meñ sig hluttakande i añarlegum Syndum, og hver vill upptelia allt þad sem Tungañ hneixlar med, nær hun er upptendrud af Helvijte, segier Jacob. Eins vil eg giera adur eñ eg skilst vid þetta Maal, sem er þad Satans-Ede, er margur Gaarungur brwkar, ad spotta Guds Þioonustu, og hlæa ad þeim er hana ydka: Þetta er riett ad gabba Gud, og hæda ad Christo i sijnum Pijslum, þvi so sem hiner ogudlegu Kiennemañna Hofdingiar, med þeirra haaduglegre Medferd, leiddu þad Foolked sem skom̃u adur hafde sijn Klæde breidt aa Veigenn, og kallad, Hosianna Syne Da-

nis, þeir leiddu þad, segie eg, til ad hroopa litlu sijdar, tak burt þeña, og gief oss Barrabam lausann, so fyrerverdur sig margur einfalldur og istodulijtell, þegar þeir sia, ad Christelegt Lijferne aflar þeim Haturs hia Moñunum, og þetta er verra eñ allt añad, sem adur er upptaled, þvi nær Hneixled hefur þrijst einhverium til ad burtkasta Guds Otta, og meta meir ad Mañanna Doome enn Guds, þa fylgia þar allar Skañer a epter, og þañeñ verdur nu Hneixled med Ordunum. Eñ med Verkunum skiedur þad ecke miña: Vei Heimenum fyrer Hneixlaner, segier Drotteñ. Þetta Vei talar hañ af Medaumkan, alijka og þegar hañ griet yfer Jerusalem, hvar fyrer? Þvi hann sa, ad þar yrdu ad koma Hneixlaner; Ecke af Guds Tilstille, hverium ecke lijkar ogudlegt Athæfe, helldur af Heimenum, sm liggur i hinu vonda, og hefur hañs alvijsa Speke ad vijsu einig lited til Illsku þessara Tijma, sem er so mikel, ad i Villu kyñe ad leidast ef skie mætte jafnvel utvallder. Nu kiemur Hneixled af Verkunum. 1. Þegar Meñ drygia opeñberar Skañer og Leste, sem eru þvert a moote Guds Bode og Logunum, so sem Okur, Rangglæte, Agyrne, Ohoof, Ofmetnadur, og þad so blygdunarlaust, ad Meñ ecke einasta fremia þad sialfer, helldur samsiña þeim ed þad giora; Þetta Eytur skadar med tveñu moote. Fyrst, ad þad leider bæde adra eins vonda, so og þa sem af Natturunne eru þo ecke illgiarner, til ad giora þad illt er: Sa sem umgeingst med hinum hallta, hañ lærer ad halltra. Sa sem giefur eina liota Forskrift, hañ velldur þvi, ad annad eins lioott verdur epterskrifad, og Meñ hafa allt ofmorg Dæme til þess, ad Almeñingur lockast til ad giora þær Synder sem fæster mundu giora, nema þeir sæe adra giora þad fyrer sier, og ad þad være Sidvane og Tijdska Maña a medal; Eñ a añañ Veg hneixlast og þeir sem froomer eru og rædvander, ad þeir verda oþoleñmooder yfer slijku, eins og Elias yfer Achabs Hwse, og Paall yfer Rangglæte Ananiæ Hofud-Prests, so hann rasade med Twngu sinne: Ja, þar kvikna i þeim nockurskonar Leide og oskickanlegt Vandlæte, so þeir taka þad til Raads, sem Gude er Styggd i, eins og Jonam hendti, er hann flwde undann Guds Bode. Og enn nu munu þeir finnast, er leita soddann Syndis Urræda, nær þeir sia, ad allt geingur Audhælis, annadhvert ad þeir slæst i Selskap med þeim, er þanneinn breyta, edur ad þeir yfergiefa sialfa sig og Skylldu sijns Embættis. A ollum er þetta Hneixle skadsamlegt, enn þo hvad mest a þeim, sem eru Maals metande og bodner yfer adra.

Kieñemeñerner hneixla nær þeir giora allt añad eñ þeir predika, so ad þegar Almugeñ ber Kieñinguna samann vid Lifnadenn, þa verdur Þioonustugiordenn lostud, og þeir fallast miklu helldur a þad, er þeir sia fyrer Augunum, sem er ein þegiande Predikun, helldur enn þad þeir heyrdu med Eyrunum, þvi bæde gleymest þad fliott, og þyker eingenn Alvara, nær þvi er hvad sijst epterfylgt af þeim, sem þad hellst attu ad giora, þvi ecke eru aller þeir ed giort gieta þad, sem Frelsareñ bijdur, ad hlijda þvi er þeir tala, sem sitia a Moysis Stoole, enn breita þo ecke epter Giorningum þeirra. Eñ hvad verdur þa? Þad sama sem Frelsareñ segier, er hañ kallade Læresveinana Sallt Jardar: Eñ

ef Sallted skiemest, i hveriu verdur þad salltad? Matth. 5. Og ef Guds Pienarar lifa illa, hver er Von a þvi, ad Tilheyrendurner giore þad betur? Hid verallðlega Vall hneixlar stoorlega, nær þeir dæma ranglega, taka Fie til Dooma, umhverfa goodum Logum og giora Riettenn ad Malurt, so sem Spamadurenn ad Orde kiemst, taka ranga Eyda vijsvitande, tradka Malum og draga þau, til ad þreyta þann sem Rangindenn lijdur. Af ollu þessu framkiemur eitt skielfelegt Hneixle, þvi þad elur Osoomaupp i Skalkenum, og venur hann af ad hrædast Logenn, enn tekur allann Dug fra hinum frooma, so hann verdur hinum ad Brad, edur og ad hann tekur þad O-Rad, ad ræna Riettenn sijnum Riette, og hefna sialfur Vanvirdu sinnar. Og framveigis skiedur þetta Hneixle, nær þeir sem Vollden hafa, brioota sialfer Logenn hvad mest: Eru lauslater, ordvander, agiarner, svijkia Daglaunarann, fleka Eigur sijnar wt af hinum einfallda, eru baratusamer, ofbelldner, og fremia allra Handa Skammer og Ohæfu, er þeir straffa a odrum, so sem være ecke Logmaled giort nema fyrer Almugann. Forelldrar og Hwsbændur hneixla Bornenn og Hiwenn, ecke einasta nær þeir leggia einhveria Synd i Vana sinn, helldur og fremia eckert gott, eru toomlater i ad heyra Guds Ord, Yfervalldenu ohlijduger, later, hyrdulauser, reidegiarner, og lifa i þvilijkum Syndum, þvi þa meina hiner, ad ei sie sier vandara, og þad heitir riett ad hneixla Christshina smau, so sem hier stendur i Textanum. Hiner rijku hneixla hina fatæku, nær þeir lifa i allskonar Ohoofe, enn hiner svellta. Fatæker hina rijku, nær þeir fara illa med Olmusuna, og eru opacklater, giefa so hinum Ordsok til ad halldg þvi inne, sem annars ætte wte ad lata: Og þar Verolldenn er nu full af þessu, þa er ei Undur þo Frelsarenn segie: Vei Sie Heimenum Fyrer Hneixlaner. Framveigis rijs þar a stundum Hneixle af þeim Hlutum, sem hverke eru gooder nie vonder i sialfum sier, enn verda þo odrum til Hneixlis: Eg vil taka þad til Dæmis, ad a St. Pals Dogum leyfdest allann Mat ad eta a medal christenna, eins og nu i vorre Kyrkiu; Sa sem at allann Mat, og hinn, er hiellt sig fra sumum; Bader voru þeir Gude eins kiærer, og hverugur vill hann ad annann dæme; Þo segier hann: Ef ad þinn Brooder hryggest vegna Fædslunar, þa geingur þu ecki epter Kiærleikanum, tortijn honum ecke med Fædslu þinne, fyrer hvern Christur daenn er, Rom. 14. Þo nu lijted þyke i þetta spunned, þa metur Postulenn þad so mikels, hann helldur þad kunne ad verda einum til Glotunar, sem Guds Sonur hefur þo endurleyst, og hanns dijra Blood so til onijtis a honum; Þvi segier hann og i odrum Stad: Vissa eg ad minn Brooder hneixladest, skyllda eg alldrei Kiot eta. Þvilijker eru nu marger Hluter medal vor, so sem er eitt og annat Siergiæde i Umgeingne, er vier kollum Affarasnid a vora Twngu, eitt og annad Latgiæde þettra, sem annadhvert i Klædaburde edur annare Hegdan vilia vera odruvijse enn adrer Menn, hvad jafnvel sumer af oss briwka a helgum Tijdum, nijar Uppafindingar i imsum Hlutum, sem ecke eru verre enn hid gamla Skick, ecke helldur betre, og annad þvilijkt, sem adgiætner Menn fa vel athugad: Þetta er ad sonnu eingenn Synd i sialfu sier, enn

þad

þad verdur ad Synd ef Naungenn hneixlast þar af, til ad tala edur þeynkia illa um þann, er so giorer ad þarflausu, og þvi bannar Paulus, ad giora þad nockud, ad hveriu ad nockur Brooder kunne ad hneixla sig edur, steita, Rom. 14.

Hvad hinu ødru vidvijkur, sem eg hiet um ad ræda, þa kuña Meñ hvad mest ad hneixla sialfer sialfa sig; Þad kiemur af þeirre Synd, sem i oss bygger, voru spilltu Hollde og Bloode, þess gietur Frelsarenn hier i Textanum, er hañ segier: Ef Þijn Hond Edur Footur Hneixlar Þig, Þa Snijd Hañ Af Og Snara Honum Fra Þier. Ecke er þad Frelsarans Meining, ad Meñ skule vana sig edur Limlesta, helldur sw, ad vier skulum eckert so kiært hafa, ad vier ei hofnum þvi edur fra oss kostum fyrr enn þad hneixle oss, so ad vier follum i Freistne, og dregur hann hier Dæme af Læknurum: Oss er eingeñ Hlutur kiærare enn vorer Limer, og þo ef nockur af þeim er so roteñ, ad hætt er vid, ad hañ meige feigia hina, þa lijdum vier þad Læknernum, ad hañ skiere hañ af, þvi skylldum vier þa ecke deyda vora jardnesku Limu, Saurlijfe, Ohreinleika, illa Tilhneiging, vonda Girnd, Agirne, hver ad er Skwrgoda Dijrdkan, so sem Paulus ad Orde kiemst, Col. 3. Og þad sem hann hier segier um þessa Leste, þad vill hann sagt hafa um allt hid vonda, sem i giegn Saalunne strijder, hvert hann upptelur i Pistlenum til Galatas Cap. 5. Þesse er Lijkhame Syndarennar, sem um gietur, Rom. 6. Þad er hinn gamle Madureñ, hver ed brwkar sijna Limu, vondar Girnder, til ad reka Andskotans Erende, eins og eiñ Verka Madur brwkar Hendur og Fætur til ad þiona nætturlegu Lijfe, þa byriar oss ad deyda, þa eigum vier ad afsnijda og snara þeim fra oss, so þeir hneixle oss ecke. Hversu opt verdum vier hneixlader af Hondunum, þegar Toolskañ blæs þær upp, til ad meida Hollð Naungans, þegar Agirndeñ rietter þær wt til ad grijpa hañs Gootz og Peninga, þegar Leteñ svæfer þær til ad leggia sig samañ, Prov. 24. So Meñ gieta ecke eted sitt eiged Braud, og verda þvi ad leita þess i añarra Andlitis Sveita. Fæturnar hneixla oss, nær Leidenn a Guds Orde og Toonlæted i vorum Saaluhialpar Efnum giorer þa trega til ad ganga i hañs Hws, eñ fwsa til ad hlaupa þangad sem þeir Hluter eru ydkader, hveria Gud hefur bañad, þa er hiñ gamle Madureñ skiootur a Fæte, eñ hiñ nye halltur, og þa helltum vier oss og hneixlum nærsta miog sialfa. Sama er um Augun ad segia, hverra Frelsareñ og gietur hier i Gudspiallenu. Hvad er i Heimenum? Þad er Girnd Holldsens, Fijsn Augnanna og drambsame Lijferne; Hversu opt festa sig vor Augu a þeim Hlutum, sem eru fuller af þessu? Fogur Asijnd, Audæfe, Metord, og soddann Taal Veralldarennar, þad er vor Augna-Bode: O! hvad miklu betur være þad Auga wtstunged, er lætur sig blinda af þessum Hlutum, eñ hversur af Gude sijnum og hañs Bodordum: Þessvegna giorde Job Saattmaala vid Augu sijn, ad ei lite hañ þeim til Meyareñar: Þvi bidur David Gud: Snw þu Augum mijnum, ad ei lijte þau a Hiegooma, Lat mig ganga a þijnum Vegum, giefande þar mz til Vitundar, ad sa sm starer a Glis Veralldareñar hañ kuñi ecke Guds Veg ad rata; Eñ þad sem Drotteñ hier segier um þessa Limu hiñs gamla Mañs,

þad

þad vill hañ sagt hafa um̃ allt þad sem oss nꜳ frꜳ Gude draga. Sꜳ sem virder meir Fodur og Moodur, Systur edur Broodur, edur eigenn Konu sijna, og jafnvel sitt Lijf, helldur eñ christum, hañ hneixlar sialfañ sig. Sꜳ sem gyrnest þad Embætti, sem hañ er ecke Madur fyrer, (hvad margur Dꜳre giörer ꜳ þessum Dögum) hañ hneixlar sialfañ sig, þvi hañ giorer sig verre med þvi, ad hañ fer illa med Guds Umbod, sokum Fꜳkiænsku edur añars Dugleyses, þar hañ hefde añars kañskie goodur Madur vered. Sa sem tekur sier hneixle af þeim Hlutum, sem ecke eru hneixlanleger, helldur gooder og Gude þecker, so sem er skynsamlegt Vandlæte i Kienninguñe, Rökseme Yfervalldsens i Stioorneñe, Alvorugiefne Skoolameistara, Forelldra og Hwsbænda i Typtañeñe og Um̃vondunneñe, hver sem steiter sig ꜳ þessu, hann sañe hneixlar merkelega sialfañ sig; So hneixludu þeir sig ꜳ Moyse Guds Manne, þvi hann rak Guds Eyrende Foruglega: A Elia, Michea og Jeremia, af þvi þeir vandlættu i Guds Stad: A sialfum Christo, þvi hañ heidrade siñ Fodur, eñ þeir vanheidrudu hañ: A hañs Postulum, þvi þeir hlijddu framar Gude eñ Moñum. Sꜳ sem steiter sig ꜳ añars Hæglæte, og meinar sier leyfest allt vid hañ ad giora, þvi hiñ er ecke heiptrækur, hañ hneixlar sialfañ sig, so hneixludust Jsraels Syner ꜳ Moyse, þvi hann var hiñ þoleñmoodaste Madur ꜳ Jorduñe: A Christo, þvi hañ hroopade ei nie kallade, hañ ꜳt og drack med Tollheimtu-Moñum og bersyndugum. Sꜳ sem er Rꜳngeygdur, ef nockur er Gooðgiarn, hañ hneixlar sialfann sig; So voru þeir ed fyrster voru leigder i Vijngardenn, eñ ofunduðu hina, sem ecke hofdu nema eina Stund erfidad: So var hꜳttad Broodur hiñs fortapada Sonar, er ecke gat lided ad hañs Fader myskunade sig yfer hañ; So eru og aller þeir, ed siꜳ Ofsioonum yfer annarra Velgeingne og Luckulꜳne, so sem hefdu þeir af Gude eins miked edur meira forskulldad. Sꜳ ed vogar sier i nockurn Selskap sem honum er ofvaxenn, edur leggur Lag sitt vid þꜳ, sem hann kañ ad hlioota Skada af, hañ hneixlar sialfañ sig; Þvi bannade Gud sijnu Foolke ad taka til Egta Canaans Dætur, edur ad giora Sꜳttmꜳla vid þꜳ, er hann rak frꜳ þeim, ad ei yrde þeir þeim ad Snoru; Þvi bañar Salomon ad hafa Um̃geingne med reidegiornum Mañe. Þad Mꜳltæke er satt, ef nockur tekur ꜳ Tioruñe, þa loder hun vid hañ: Hefde Jsrael ecke samlagad sig Skiækiunum i Moabs Lande, þꜳ hefde ecke so skielfeleg Guds Hegning yfer þꜳ komed: Hefde Samson ecke bunded so fasta Ast vid Dalila, þꜳ hefde hañ Augunum hallded: Og hefde Petur ecke geinged iñ i Biskups Hollena munde hañ ecke hafa sijnum Meistara afneitad? Sꜳ sem reider sig uppꜳ sialfañ sig edur sitt Atgiorfe, Afl, Vitsmune, Makt, Rijkdoom, edur nockurn añañ Hlut; Eñ gleymer þvi, ad hañ hafe þad þeiged; Hañ hneixlar hvad mest sialfañ sig, og kañ ecke Oluckuna ad um̃flija; Þad kieña oss Dæme Ægyptalands, Assyriæ og Chaldæalands Konunga, er ꜳ Augnablike urdu upprætter, þvi þeir gꜳfu ecke Gude Dijrdena: Og hefe eg so nockud um̃ hneixled talad: Eñ hvert ad sie þess Straff, þad segier Frelsarenn med þessum Ordum: Vei Þeim Manne Fyrer Hvern Ad Hneixlaneñ Kiemur. Eñ hvad þad sie,

kieñir

kieñer hann oss sialfur er hañ sagde: Vei þeim Manne sem Mañsens Son forrædur, og hier i Gudspialienu mæ þad sia, ad hañ sem ecke kastar fra sier þeirre Hond edur Fæte sem hañ hneixlar, hañ hefur forþienad ad kastast i eilijfañ Eld: Sama er ad segia um hinar adrar Greiner af Hñeixlenu, þvi ecke skulum vier meina, ad sa sem Börneñ hneixlar edur adra Guds-Vesælinga, hañ mune sleppa þar med, Ad Mylnu-Steiñ Heingdest Um Hals Honum, Og Verde i Siafardiwp Socktur: Helldur tekur Drotteñ til þessa, eins og hiñs smæmarlegasta Lijfs Straffs a medal Gydinga, til ad sijna Stærd þessarar Syndar. Þar fyrer, christner Meñ, giefed nu giætur ad þessare volldugu Drotteñs Predikun, og læted ydur hana i Eyrum loda, rañsaked ydar undañfared Lijferne og spyried Samvitsku ydar ad, hvern þier hafed dreged med Orde, Verke, edur Epterdæme a vondañ Veg, med Giælijfe, med Lauslæte, med Feigyrne, med Hofmood og Oflæte, og i einu Orde ad segia; Med Dijrdkan Verälldareñar og heñar Muna, og ef þañ geingur eñ nu a honum, þa legged allañ Hug a, ad leida hann a hina riettu Leid, ef þier vilied lifa, og ydrest hiñs af Hiarta. Sa sem nockru stoled hefur, hañ a epter Moysis Logmæle ferfallt ad giallda. Sachæus sagde vid Christ, þegar hann ætlade sier christeñ ad verda: Hafe eg nockrum rangt giort, þa giælld eg þad ferfallt aptur; Enn so miklu dijrare sem Saleñ er Fienu, so miklu þijngre sem Guds Reide er Mylnu-Steinenum, so miklu fegra sem Himnarijke er stundlegu Epterlæte, so miklu meire Hug skylldum vier leggia a, christner Meñ, ad bæta þeim aptur, sem vier rænt hofum sijnum andlegum Fiesiood. Nær þier siaed eitt Ungmenne, einn Vesæling, einn sem Drotteñ bijdur ad medtoka i sijnu Nafne, þa hugsed med ydur: Smæer eru þesser ad vijsu, enn hann er stoor, sem er þeirra Fader og þeirra Brooder; Smælingiar eru þeir ad soñu, enn Hneixled er stoort. Syndenn er mikel, og Straffed obærelegt; Vesælingar eru þeir, enn sæll er sa, sem ecke hneixlar sig a þeim, þvi hann hneixlar sig a Christo, enn vei sie hinum: Þar fyrer, ef þier vilied Guds Viner vera, ef þier vilied Saluhialpena erfa, ef þier vilied heilagra Engla Pioonustu niota, ef þier vilied Helvijtis Kvaler umflija, þa giefed þeim eckert Hneixle, hverke med Orde, Verke nie Epterdæme; Þvi nær þier hneixled þessa, þa hneixled þier sialfa ydur: Þar fyrer medtaked þa i Christi Nafne, so medtaked þier hann, og fæed ad heyra a hinum efsta Deige: Þad þier giordud einum af þessum mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier. Þess unne oss ad niota hin eilijfa Guddoomsins Hætign, fyrer Jesu blessada Forþienustu, Amen.

# Atianda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap,

 I þañ

I Þañ Tijma. Þa Phariſæarner heyrdu þad, ad hañ hafde nidur þaggad þa Saducæos, ſamañſofnuduſt þeir i eitt. Og eirn Løgvitringur af þeim ſpurde hañ ad, freiſtande hañs og ſagde: Meiſtare, hvert er hid æðſta Bodord i Løgmaalenu? Eñ Jeſus ſagde til hañs: Þad, ad þu ſkallt elſka Drottenn Gud þiñ, af øllu Hiarta þijnu, og af allre Aundu þiñe, og af øllu Hugſkote þijnu. Þetta er hid fyrſta og ſtæðſta Bodord. Enn hitt añad er þeſſu lijkt, þad, ad elſka ſkalltu Naunga þiñ ſo ſem ſialfañ þig. J þeſſum tveimur Bodordum er iñebunded allt Løgmaal og Spaameñerner. Enn þa Phariſæarner voru ſo til ſamans komner, ſyarde Jeſus þa ad, og ſagde: Hvad virdeſt ydur uñ Chriſt, hvers Son hann ſie? Þeir ſøgdu hønum, Davids: Hañ ſagde þa til þeirra: Hverneñ kallar David hañ þa i Anda eirn Herra? Þar hañ ſegier: Drotteñ ſagde mijnum Drottne: Sit þu mier til hægre Handar, þangad til ad eg legg Ovine þijna Skør Foota þiña. Nu ef David kallar hañ eirn Herra, hverneñ er hañ þa hanns Sonur? Og eingeñ gat ſvarad hønum einu Orde. Og eige dyrfdeſt nockur upp fra þeim Deige hañ framar ad ſpyria.

## Exordium.

Tveir eru Partar chriſtelegs Lærdooms, Løgmaaled og Evangelium. Løgmaaled er fyrer Moyſen utgiefed, enn Naad og Sañleike er fyrer Jeſum Chriſtum orðeñ, Joh. 1. Af Løgmaalenu verdur eingenn hoolpeñ, þvi þad verkar Reide: Fyrer Trwna i Evangelio verdum vier riettlaater: Moyſes ſegier oſs hvad vier eigum ad giøra, Chriſtur, hverneñ vier eigum ad trwa: Moyſes foor med Skugga epterkomande Giæda, i Chriſto er ſialfur Lijkhameñ oſs veittur. Nu er þetta þo ecke ſo ad ſkilia, ad Fedurner i gamla Teſtamentenu hafe af Evangelio hlutlauſer vered: Sia, eg kiem, i Upphafe Bookareñar ſtendur ſkrifad af mier, þinn Vilia, miñ Gud, giøre eg, ſegier Meſſias fyrer Davids Muñ, Pſ. 40. Hver er ſa hañs Vilie? Sa, ad Kviñuñar Sæde ſkyllde i ſundurmola Høggormſins Høfud. Fyrer þad bleſſada Fyrerheit hafa þeir aller himlpaſt eins og vier, ſem hoolpner eru ordner, allt þar til ad Chriſtur leidde Sañleikañ i Lioos. Fyrer Trwna vard Abraham riettlaatur, og fyrer Trwna ſegier Petur ad Fedurner hafe hoolpner orded: Enn ſo ſem þeir voru ecke aan Evangelii og þeſs Aſtgiafa, ſo ſkulum vier þad og vita, ad vier ecke erum aan Løgmaalſins, þvi Drotteñ kom ecke til ad uppleyſa, helldur ad uppfylla Løgmaaled, Matth. 5. Satt er þad, ad þeir ſem Chriſto tilheyra, þeir eru ecke under Løgmaalenu, þad er, under Løgmaalſins Bolvan, enn þo kroſsfeſta þeir ſitt Holld med

þeſs

þess Gyrnduin og Tilhnelgingum, Gal. 5. Þad heimtest ecke af þeim, ad þeir uppfylle Logmaaled, enn þess krefur Gud, ad Meñ life epter þvi, sem fremst vier megnum, edur þvi mundu hañs Postular so opt bioodá oss ad lifa gudrækelega, sparsamlega og riettvijslega i Heime þessum? Þvi munde Jacob segia, ad Trweñ sie daud aan Verkaña? Þvi munde Frelsareñ sialfur wtleggia Logmaaled, og vijsa Moñum til þess, ef ecke ættum vier epter Logmaalenu ad lifa. Þetta siaum vier i þessa H. Dags Evangelio, i hverju oss verdur fyrer Siooner sett oll Skyllda christens Manns, sem foolgenn er i þessu tvennu. 1. Ad elska Gud og Naunganñ. 2. Ad þeckia Christum og hañs Persoonu riettelega. Uñ þetta hefe eg æsett mier framar ad tala.

Eñ þu goode Gud, styrk oss hier til med Naad þijns Anda, i Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Hinu fyrra hofum vier tvo Bodord ad athuga, sem er, ad elska Gud, og annad, ad elska Naungañ. Þad fyrra kallar Drottenn hid æsta og mesta Bodord i Logmaalenu, so sem Von er aa, ecke eiuungis þess vegna, ad eckert er so ypparlegt, so dædsamlegt, so mikillrar Elsku verdt sem Gud, helldur og þess vegna, ad oll oñur Bodordeñ hafa sinn Krapt og Myndugleika af þvi, þar allt hvad vier giorum med Ord og Verk, hversu vel sem þad sijnest giort, þad er onijtt, utañ þad framkome af Elskuñe og Virdinguñe til Guds. Allt þad sem Gud hefur boded, þad eigum vier ad giora, af þvi vier ottunst og elskum hañ, enn hañ eigum vier ad elska fyrer þaa omelanlegu Yferburde, er hañ hefr yfer allar sijnar Skiepnur, hañs Makt, hañs Dijrd, hañs Riettlæte, eñ þo allra mest fyrer hañs Giædsku, þvi vier hofum ei so Skynbragd aa odrum Greinum hañs dijrdlegu Hatignar; Eñ hana finnum vier og þreifum aa heñe aa hveriu Augnablike, þvi hañ uppfyller vora Epterlaungun med Giædum, segier David, Ps. 103. Og ef vier fyrst villium hugleida Giædsku hañs i lijkhamlegann Maata: Er hañ þaa ecke saa ed hefur giefed oss Ond og Lijkhama? Þvi skylldum vier þaa ecke elska hañ af allre Ondu vorre? Hefur hañ ecke iñplantad Naad og Skilning i Saaler vorar? Þvi skylldum vier þaa ecke elska hañ af ollu Hugskote voru? Hefur hañ ei giefed oss Hiartad, sem er Bwstadur Elskuñar? A hverium skyllde hun helldur festa sig, eñ aa honum, sem hana hefur sialfur tilreidt, og bwed so dædsamlega uñ hana? Mun hañ ei vera saa, i hverium vier lifum, erum og hræruñst? Act. 17. Uppfyller hann ecke Hiortu vor med Fædslu og Fognude? Upplijkur hann ecke siñe milldu Hende, og sedur allar lifande Skiepnur? Ps. 145. Og hvad mest hina opackláatu Mañeskiu. O vor Gud! Eg hugsa til þess, er Drotteñ briglar sijnu Foolke hiaa Jeremiam, segiande; Hefe eg vered Israel so sem Eydemork, edur Jord sw er tapar Avextenum? Jer. 2. Gud giæfe, ad vier villdum og laata oss til Rifia reña þessa hañs fodurlega Hiartagiædsku, og athuga hvad orlaat hañs Millde hefur vered, hversu vijsdoomsfull hañs guddoomlega Forsioon, ad hañ hefur aled oss aa þessum Arum, ei sijdur enn fridossom Jord Akur-Kalleñ, ad honum sofande, aa hverium vier hofum þo hvad verst lifad: Ef

vier hugleidum þettá, ad minnsta Koste i hvert sinn, er hañ veiter oss nockurn sierdeilis Velgiorning, þaa mundum vier helldur leidast til ad elska Gud, og ecke segia med gudlausum Judum: Vier drottnum og vilium ei framar til þijn koma, Jer. 2. Og þo nu ad Drotteñ læte oss kieña hardt aa stundum, añadhvert alla almeñelega, edur og nockra sier i lage, til ad typta oss þar med lijfada Kaalfa, Jer. 31. Edur til ad reyna sijn Born, þaa eigum vier samt ad elska hañ, þvi hvern þañ Son, sem Fadereñ elskar, þañ agar hañ, segier Paulus, Heb. 12. Enn ef þetta er hañs Elsku-Merke, hvilijk Fasinna er þad þaa, ad elska hañ ei aptur aa moote. So sem þad er lijtill Heidur halldeñ, ad elska Vine sijna medañ þeir kunna gd duga oss, so er þad lijted Ræktar-Merke vid Gud, ad elska hann alleina medañ allt ad Oskum geingur: Og Gud nærde! þad eru þo so faaer, sem giora þad: Enn so sem Gulled reyneft i Ofnenum, so proofast og Elskañ til Guds i Mootgaangenum: Og hvad morgum hefur hann þrijst til ad elska hañ, sem þvi aadur fiarlæger voru, og hafa Meñ til þess fulla Ordsok, nær Meñ giæta þess, ad hvad sem hanns Elskendur vantar hier, þad mun oss margfalldlega endurgollded verda i Upprisu riettlaatra; Þad vottar sialfur Drotteñ, er hañ segier: Hver sem ad yfergiefur Hws og Brædur og Systur, edur Fodur edur Moodur, edur eigeñ Konu, edur Born, edur Akra fyrer mijns Nafns saker, hann skal faa hundrodfallt aptur og eignast ad Erfdum eilijft Lijf, Matth. 19. Eñ hvern sem ad hañ svipter ollu þessu, edur so miklu edur litlu sem honum þocknast, og hañ elskar samt Gud siñ, og kysser aa hañs Vond, hann giorer allt hid samá. Munum vier þaa nockud miñast Harmkvæla þessara Tijma, nær vier skijnum eins og Sool i Rijke vors Fodurs? Matth. 13. Mun Sonureñ reikna þau Hoggeñ er Fader hañs sloo hann, nær hañ situr i Tign og Heidre? Þvi er þad faavijslegt, ad vilia ei kaupa þessu, og þvi skylldum vier þaa ei elska vorn himneska Fodur; Jafnvel midt i Hormungunum. Eñ hvad almeñelegre Typtan vidvijkur, þaa giæfe Gud, ad vier villdum eins lynder og samhuga vera i þvi, ad elska Gud, þo hañ age oss, sierdeilis þar vier i þessu faatæka Lande meigum jaata þad, ef vier adgiæta vilium, ad hañ burtrekur ecke eilijflega, vier meigum þeckia þad vid oss frammkomed vera, sem hann heiter sijnu Foolke fyrer Muñ Joels Spamañs: Eg skal endurgiallda ydur þau Areñ sm ad Eingesprettañ, Trie-Ormureñ og Gras-Madkureñ hafa eydt fyrer ydur, Joel. 2. O vor Gud! Þvi skyllder þu Mañenum betala? Hver hefr þier nockurn Tijma giefed, so þu þurfer honum aptur ad giefa? Rom. 11. Vilier þu giallda oss epter Verdugleikum, þaa eru vor Laun Daudeñ, vier hofum ecke annad medteked i Straff Syndareñar, eñ hvad vier tiluñed hofum, og þad mz nærsta smaaum Mæler, eñ þvi vellдur þijn Giædska, þijn fodurleg Elska, ad þu villt so ad Orde komast: Þar fyrer hugleidum nu christnar Meñ, hafe Gud typtad oss oblijduga Synda-Þræla med Oaran nockurre, edur odrum Land-Plaagum; Hefur hann oss þad ecke margfalldlega aptur golld ed, med hiñe inestu Ar-Giædsku og odru Blijdlæte sijnu? Skylldum vier nu elska nockurn jafnframt honum, er so leikur vid oss eins og Born sijn? Eñ hvad segier

Drott-

Drottenñ fyrer Muñ Joels sijdar i þessum sama Capitula? Nær þier eted jafnadarlega og erud metter, munud þier lofa Nafned Drottens? Eñ hvert ad hiñ goode Gud hefur ei optlega funded Brest a þessu hia morgum af oss, þad bid eg þa ad hugleida, uñ hveria eg hygg þad riett-talad sie, er stendur hia Hoseam Spaamañe, i Cap. 13. Under eins og þeir sadder urdu, hoofst upp Hugur þeirra, þar fyrer hafa þeir gleymt mier. Eñ öll þesse lijkhamleg Blessan, so mikil sem hun er, sem þo er so mikel, ad alldrei verdur hun fullþockud, þa er hun þo Smaa-Munir hia hinum andlegu Giædum ad reikna, er oss veitt eru i Jesu Christo. Faaum oss er tamt ad elska Gud fyrer þær Saker, sem aller jafnt niioota, fyrer hañs Sool, er hañ lætur skijna yfer vonda og gooda, fyrer þad Regned er hañ falla lætur yfer rangloata og riettlaata, Matth. 5. Hvar fyrer? Þviad aller meina sig þess verduga, fyrst aller hafa þess somu Not, eñ Avoxturenñ verdur þo meire hia sumum, eñ sumum miñe, jafnvel þo ad tveir hafe hina somu Atburde, þvi Blessan Drottens er þad sem Hwsed bygger; Eñ hañs heilsusamleg Naad i Christo er auglioos orden ollum Moñum, Tit. 2. Hun er alldrei avaxtarlaus hia þeim, sem hana mz taka vilia, og þar er eingiñ Mismunur a ollum þeim, sm jafnt bera sig epter heñi, þvi hia honum er eckert Mañgreinar-Alit, þar er hverke Gydingr nie Grikkur, Þræll edr Frelsinge, helldur aller eitt i Jesu Christo, Gal. 3. Eñ fyrer þessa haaleitu Guds Velgiorninga elska flester hann hvad miñst; Hvar fyrer? Þvi Menn dæma epter Holldenu, enn Holldid skyniar ecke hvad Guds Anda er, 1. Cor. 2. Athugum þo hvert meira er, ad skapa Himen og Jord, edur ad laata Gud, sñ hvertveggia skoop, taka a sig Lijkingu syndugs Hollds, Rom. 8. Ad skapa Mañeñ, edur ad endurskapa hañ: Ad giora hañs Lijkama af Molldu, og blaasa lifande Anda i hñs Naser; Edur ad skapa i honum eiñ nijañ Mañ, og giefa honum H. Anda: Ad leggia alla Hlute under hañs Fætur, Ps. 8. Edur ad giefa siñ eingieteñ Son wt fyrer hann, ad hañ fyrerfarest ecke, helldur hafe eilijft Lijf: Ad giefa honum jardneska Fædslu, edur ad ala hañ a sijns Sonar Hollde og Bloode: Ad giefa honum Þrott og Atburdi til ad wtvega Næringu sijna, edr giefa honum Styrk i Mootgaangenum, Freistingunum og Ofsooknunum: Hvert er meira ad giefa honum Vit og Rænu, til ad sia fyrer þessu lijkhamlega Lijfe, edur sitt H. Ord, sem hann uppfrædir til eilijfs Lijfs, og ad upplijsa bædi Viliañ og Skilningiñ, ad hañ gieti bæde þeckt Gud og elskad? Hvert er meira, ad giefa honum Maalid, til ad tala vid sijna lijka Heiminum, edur ad giora hañs Tungu vel talande, so hañ saae vid sialfañ Gud talad? Og ad sijdurstu, hvert er meira, ad giefa honum Gull og Sylfur, Akr og Kvikfenad, edur ad wtvega honum þañ Fiesiood, sem er a Himnum, hverium ei kañ Molr nie Rid ad grandaz Matth. 6. Hvert ed Guds eiged Blood og hañs dijrañ Dauda kostad hefur: Saa sem þetta samañ ber, hañ mun finna, ad so miklu ædre sem Saalenn er Lijkamanum, so miklu fegre sem Himnarijkis Dijrd er forgeingelegu Glise Veralldareñar; Ja, so miklu ædre sem Gud er ollum sijnum Skiepnum, so miklu heitara eigum vier hañ ad elska fyrer hing andlegu Velgiorninga, helldur eñ þaa lijkhamlegu, þviad i þessum veiter hañ

hvad forgeingelegt er, eñ i hinum sialfañ sig; sim ad blijfur, sem er eiñ og hiñ same, og hũs Ar þrotna ecke, Heb. 1. Og hver sem Gud alleina fyrer jardneska Mune elskar, hann hefur alleina Matar-Ast a honum, eins og eiñ Hræsnare sim tilbidur hiñ rijka a medañ hañ efur hañ. Og fyrer þessar ometanlegu Guds Astgiafer, eigum vier hañ nu ad elska hvad mest af ollu Hiarta voru, og allre Ondu vorre, og ollu Hugskote voru ; Pad er, af ollum Sœlar og Lijfs Kroptum, so sem David bijdur; Lof seig þu Ond mijn Drottne og allt hvad i mier er hañs heilaga Nafne. Eñ sw Elska er vier a Gude hofum fyrer tijmanlega Mune, hun a ad vera so kroptug, ad hun næe þvi Mœale, er hañ tilætlad hefur; Sem er, ad hun leide oss til ad elska hañ i Christo og fyrer Christum, hvers Elska ad Paulus segier ad sie betre eñ allt ad vita, og hañ lijser Bolvan yfer þeim, sem ecke elska Drottenn vorn Jesum Christum, og þetta er nu so talad um hid mesta og ædsta Bodord i Logmalenu. Hitt añad er þessu lijkt, segier Frelsareñ: Elska skallt þu þiñ Naunga sem sialfañ þig. Sier hefur Gud sialfum hiñ fyrsta og mesta Heidur skiled; Eñ fyrer þvi, ad sa sem segiest elska Gud, eñ hatar siñ Broodur, hañ er Lingare, segier Johañes, 1. Joh. 4. Pa er audsært, ad Naungans Elska fylger Guds Elsku jafnañ a epter, þess vegna samteinger og Lausnareñ þesse tvo Bodord, þvi hverugt ma añars missa. Sa sem elskar Gud, hañ elskar siñ Broodur, og eingeñ elskar siñ Broodur riettelega, nema hañ elske hañ fyrer Guds Saker. Hier til þarf og mikla Alvotu, og þar Bodord þesse eru so skylld, þa rijdur eins miked a badum; So sem Helvijte er vijst þeim sem ecke elskar Gud, so segier og Christur, ad sa sem reidest Broodur sijnum, hañ sie sekr Helvijtis Ellds, Matth. 5. Þetta Bodord þyker morgum nærsta þungt, og sierdeilis epter þvi sem Christur utleggur þad hia Matthæum segiande: Elsked Ovine ydar, blessed þa er ydur bolva, giored þeim gott sem hata ydur, og bidied fyrer þeim sim eru ydur mootfallner og ofsækia ydr. Eñ Johañes segier þo, ad hũs Bodord sieu ecki þwng; Eg vil og segia, ad ecket Bodord er riettvijsara og eckert nytsamlegra til Velferdar. Riettvijst er þad, þvi hañ hefur oss þad boded sem er sialf Riettvijsen, sem a Valld a ad bioda oss hvad hañ vill, sem elskade oss, þa vier vorum hañs Oviner, sem ad eingum er um neitt skylldugur, eñ vier erum honum skylduger um Sal og Lijf, og allt hvad vier erum. Gagnsamt er þad, þvi sa er so giorer, hañ viñur hiñ besta Hlut, þvi hañ verdur af Gude elskadur. Hver er þvillijkur Hlutur, sem ad vita Synder sijnar kvittar? Eñ þad veit hañ, sem so elskar Ovin siñ, ad hañ tilgiefur honum hañs Misgiorder, ad Vitne Frelsarans, er hañ sagde: Ef þier fyrergiefed Moñunum þeirra Misgiorder, þa muñ miñ Fader tilgiefa ydur ydar Synder, þvi vil eg segia hid sama hier um og Paall sagde um Mañ og Kviñu; Sa sem elskar sijna eigeñ Konu, hañ elskar sialfañ sig, Eph. 5. Og allt hid sama giorer hañ sem elskar siñ Broodur, og hver sem hañ hatar, hañ hatar sialfañ sig. Eñ þessa Elsku til Naungans eigum vier ad auglijsa, ecke med Orde og Tungu, helldur med Verki og Sañleika, añars elskum vier ecke riettelega: Gud eiñ veit hvad i Hiartanu byggir, þvi hañ rañsakar Nijruñ, þad veit Madureñ ecke, hañ dæmir af

Avöxtunum. Þvi kañ eg ecke ad segia, ad sa elske siñ Naunga, sm eckert gott lætur af sier leida, þar til giefur Jacob mier Ordsok, er hañ segiet: Ef Syster edur Brooder eru nakeñ, og vantar Daglegt Vidvære, eñ einhver ydar seger: Fared i Fride, vermed ydur og mættest, eñ giefed þeim þo ecke þad Lijkhameñ vid þarf, hvad gagnar þad? Og þetta er nu so framsagt um þesse tvo Stooru Bodord: J hverium Frelsarenn segier, ad alle Lögmaaled og Spaamenerner sieu innefalder: Eñ þegar vier nu rañsokum hvad miked oss vantar aa ad fylla þesse Guds Bod, þa nuun oss til Hugar koma, ad leita eins añars Lærdooms, hvar fyrer vier kuñum hoolpner ad verda. Til hañs vijsar oss Christur i siñe Spurningu til Gydinga, er hañ sagde: Hvad Vyrdest Ydur Um Christ Hvors Son Hañ Sie? Hvar um vier vilium nu med faaum Ordum tala i hiñe sijdare Greinenne.

Gydingar hefdu framsett fyrer Drottenn tvær Onytiu Spurningar, ædur enn þesse kom til um Bodordeñ: Adra bææru Pharisæi og Herodis Þienarar fram, hvert ad leifdest ad giefa Keysaranum Skatt edur ei? Þeim svarade hañ vtaf, ef eg maa so ad Orde komast, sem verdugt var, þvi Madurenn skal ei svara einum Daara uppaa sitt Tal. Adra Saducæi, er þeir spurdu, hvers ad Konann skyllde verda i Upprisunne af sio Brædrum, sem aller hofdu haft hana? Þaa nidur þaggade hañ, og straffade þeirra Oviturleik. Þesse var hin þridia, og voru um hana ymsar Meiningar hiaa Gydingum. Adrer hielldu hin hellstu vera um Foornernar: Adrer Umskurnarennar-Lögmaal: Nockrer um Hvijldar-Dageñ: Enn Drottenn, er sialfur hafde Logmaaled vtgiefed, i hverium ad bluggu aller Fiaarsooder Vitskuñar, hann leyste vr henne aan Umþeynkingar, til þess, ad sijna þeim hvad miked þaa vantade aa Guds H. Logmaals Uppfylling, sem meintu hana ad vera einungis foolgna i vtvortis Verkum, enn ecke til ad kieña þeim, ad nockur giæte af Logmaalenu hoolpenn orded, og þvi vijsar hann þeim til Christum og hanns Persoonu, so þeir vel mættu læra Saaluhiaalparennar Veg, hefdu þeir haft Vilia edur Vit aa epter ad taka, edur framar hier um ad spyria, eins og Nicodemus; Hvad Vird: J Ydur Um Christ Hvers Son Hañ Sie? Segier Frelsareñ: Þeir Sogdu Honum Davids. Ecke neitar Drottenn þvi, ad hann være Davids Son, so sem ei var Von til. Gud hafde David heited, ad hañ villde giefa honum einn Son, hvers Rijke ad skylde eilijft verda, 2. Sam. 7. Hañ er Sonur Davids epter Holldenu, sem Paulus vottar; Hañ er giordur af Sæde Davids, eñ þesse hiñ same Davids Sonur, sem ad er fæddur af Fedrunum epter Holldenu, hañ er þo Gud blessadur um Alder: Þvi segler nu Lausnareñ framveigis: Hverneñ kallar David Hann Þaa J Anda Einn Herra? Eingenn Fader er so audvirdelegur, og eingenn Sonur so megtugur, ad Fadereñ kalle Soneñ Herra. Lættum vera, ad eiñ Fader sie ecke Kongboreñ, og Syninum Konungs Tign hlotnadest, so ad Faderenn kallade hañ Herra, af þvi hañ ber Guds Persoonu aa Jordunne: Enn hvernenn mætte þad eiga heima hiaa David, hvær ed sialfur var Konungur, og ætte sier eingann ædre, nema Gud alleina, sem bijr i Himnenum, og er allra Drotteñ? Þvi er þad audsied, ad sa er Gud, og Guds

Sonur,

Sonur, er hann Herra kallar: Þar fyrer segier Frelsarenn: Ef David Kallar Hann Herra, Hvernenn Er Hann Þaa Hanns Sonur? Og so ad eingenn kynne ad leida sier i Hug, ad þad være nockur af Englunum, edur Hofud-Englunum, sem David kallar Herra i þessum Stad, þaa færer Drottenn til siins Maals þaa Grein af Spaadoome Davids, sem eingum Engle edur nockurre Skiepnu tilheyrer, og ecke utann alleina Guds Syne, sem er sannur Gud, Gude Fodur og heilogum Anda sam-eilijfur og samjafn ad allre Tign, Makt og Vellde, og þo sannur Madur ordenn, so miklu ædre Englunum, epter Manndoomenum, sem hann hefur þeim ædra Nafn, þad er Tign hloted fyrer Ibwd Guddoomsins: Þaa segier hann: Drottenn Sagde Mijnum Drottne: Sit Þu Mier Til Hægri Handar, Þar Til Eg Legg Ovini Þijna Til Skarar Foota Þinna. Þviad til hvers af Englunum hefur hann nockurn Tijma sagt: Sit þu mier til Hægre Handar? Segier Paulus, Hebr. 1. Jaa, Engillenn kvadst vera Sam-Þioon Johannis, er hann talade vid hann i Opennberanenne. Hvernenn maatte þa David nockurn Engel sinn Herra kalla? Sw er þa Meiningenn i þessu Tale Frelsarans vid Gydinga, ad Christur sie Davids Son, þad er af Fedrunum fæddur, epter Holldenu, og þo Guds Sonur af honum gietenn fyrer allar Allder, þad er sannur Gud og sannur Madur i einne Persoonu, hvad og sw twa af þeim Maalshætte; Ad Sitia til Guds hægre Handar, hvad eingum gietur tilheyrt, nema þeim, sem er ein Persoona samsett af Guddoome og Manndoome. Þetta hefdu Gydingar kunnad ad læra, og þo miklu skilianlegar og betur, enn nockur syndug Twnga faae wtmaalad, hefdu þeir lagt nockurn Huga aa sitt Maal, og spurt fremur hier umm. Enn vier sem feinged hofum þad ad heyra, og trwum þvi sem þeir heyrdu ad sonnu, enn trwdu þo ecke; Vier, hverium Christur er fyrer Augunum maaladur i hanns Orde, vier skulum reikna oss þad fyrer eilijfann Sooma, og hina ædstu Huggun, ad Gud er Madur ordenn, og ad vort Holld er upphafed aa Guds Tignar-Stool fyrer Ibwd Guddoomsins. Enn hvad er þad, ad sitia aa hægra Ve Gude? Þad leggur Paulus wt, er hann segier, 1. Cor. 15. Honum byriar ad rijkia þar til hann leggur alla Ovine til Footskarar honum. Enn hvilijkt er þetta Rijke? Þad er, ad hann er settur yfer allann Hofdingskap og Vellde og Krapt og Herradæme, og oll Nofn sem nefnast, ecke einasta i þessare Olld, helldur og hinne tilkomande, Eph. 1. Enn andann þessu dijrdlegu Rijke urdu Pijslernar ad gaanga, þvi lijser hann sialfur, er hann talade vid þaa tvo, sem til Emaus geingu, Luc. 24. Og lagde wt fyrer þeim Ritningarnar, segiande: hlaut ei Christur þetta ad lijda, og inngaanga sijdann i sijna Dijrd. Guds Sonur er ad sonnu Konungur fraa eilijfd, þess gietur David, segiande: Gud, þinn Tignar-Stooll varer umm Alldur og umm Allder Allda. Eingenn maa Konungur heita, nema hann Rijke hafe, enn Mannsins Sonur braut sig til Rijkis i giegnum Pijslernar, Daudann og Port Helvittis, þegar hann took Herleidinguna ad Herfaange, enn wrsnarade honum, sem hefur Makt Myrkranna, og settest aa Guds Hætignar Stool lifer og rijker ad eilijfu, so ad hann er vor Konungur ordenn, epter vorre Natturu, enn vier

hans

hañs Brædur, þad er ôss eilijf Huggun. Verde eg aumare eñ Lazarus, verde eg audvirdelegre eñ hañs Postular, verde eg Afrak og Hreinsunar Foorn Veralldar, eins og þeir, verde eg so fætækur sem sialfur hañ, ad eg ecke hafe þar eg kuñe ad halla ad Høfde mijnu, þad er mier noog, ad mitt Holld og Blood rijker a Himnum, og situr a hægra Veg Gude, med hverium hañ fæder mig og dreckiar, til Stadfestu þar uñ, ad eg sem med honum lijd, mune og sijdañ med honum rijkia, og hversu sem miñ Lijkhame yrde afskræmdur af Volæde og Vesolld, þa skal hañ þo verda samlijkur hauns dijrdlegum Lijkhama, ia, þad er mier ecke lijtel Huggun, ad þad sama Holld og Blood, sem situr a Guds hægre Hond, þad medtek eg i H. Alltaresins Sacramente, til Styrkingar uñ Kvittun Synda miña, þviad i þeim Lijkhama, sem broteñ var a Krossenum, og i þvi Bloode, er þar var wthellt, i þvi sama bygger oll Fylling Guddoomsins lijkhamlega, so þegar eg medtek Lijkhama og Blood Mañsins, þa medtek eg og sialfañ Gud a mooti hverium eg syndgad hefe, og af hverium hvad mest hanger Verdugleike mijns Syndagiallds. Par fyrer, nær eg skielfest af Stærd Synda miña, þa verd eg af þessu hugg- adur, þvi ef ad mitt Hiarta fordæmer mig, þa er Gud meire Hiarta mijnu, og þad mun alldrei bregdast, er Gud hefur heited i Christo fyrer Muñ Jeremiæ: Ef leitad verdur ad Ranglæte Israelis, þa skal þar eckert vera, og Synder Juda skulu eingar fiñast, þvi eg mun fyrergiefa þeim er eg mun epterskilia. O miñ Herra Jesu! Fyrer hvers Skulld mun þad vera, ad þiñ Fader midt i Reideñe miñest a Myskuñsemena, Hab. 4. Hvar fyrer brestur hañs Hiarta i honum, so hañ hlijtur Syndaranum myskunsamur ad vera? Jer. 31. Hvar fyrer skiedur þetta, Drotteñ miñ, nema fyrer þijna Medalgaungu, sem situr honum a hægra Veg? Þegar eg sed eina þreytta Saal og uppfylle sierhveria angraada Saal, þa vake eg til þess, miñ Svefn er mier iafnann sætur, segier Drotteñ epter mañlegum Plagsid, til ad wtmaala sijna Elsku til Mañkynsens i Christo Jesu. Vier segiunst ad vera vakner og sofner i þeim Hlut, er vier hofum Ynde af, og so talar hann hier uñ sig, hver þo ecke sefur og ecke sifiar hañ; O! Gud gæfe, ad vier værum eins arvakrer og ydiusamer i hauns Pioonustu, ia, hvad stoor og omælanleg sie hañs Giædska, yfer þeim, sem iafnvel hafa hinar verstu Synder drijgt, þad segier hañ skoñu sijdar med þessum allra hiartnæmustu Ordum: Ef ad Himneñ verdur mældur ad ofañ, edur rañsakadur Grunndvollur Jardareñar ad nedann þa skal eg forsmaa allt Israels Sæde, fyrer allt þad þeir giort hafa: Eñ so sem þad er omsgulegt ollum nema honum einum, sem Himeneñ hefur wtþaned, og mæler hañ med sinne Spönn, og Jordena hefur grundvallad; So er þad omsgulegt, ad Brunnur Myskunseñeñar verde uppausen, hver ed alldrei tæmdur verdur, nema af þeim, sem ecke vilia koma til þessara Vatna, og forsmaa Rijkdoom hañs Poleñmædes, þar til þeir hafa uppfyllt Mæler Syndaña. Hvad mun nu vallda þvi, christner Menn, ad hañ, sem er eiñ fortærande Elldur, sa ed breñur allt til hiñs nedsta Helvijtis, hañ vill þo vera ôss syndugum Ormum so nadugur? Hvad velldur þvi, ad Himnarijke lijdur sodd-

 añ

ann Ofrijke? Hvad annad enn þad, ad hann sem er siálfur Gud, hann situr i vorū Hollde, hveria hann skamast sijn ecke Brædur ad kalla? Hann situr, segie eg, til Kraptarens hægre Handar og bidur fyrer oss; Þesse er sa stoore Leyndardoomur, hvern Paulus segier, ad Vitringar Veralldar hafe ecke skyniad, enn þo er opennberadur oss, sem erum Guds Smælingiar. O! þa stooru Naad, O! þau diwpu Mysstunar Your Guds, i hverium hann hefur vitiad vor Uppruneñ af Hædum; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur, Speke og Kraptur, um Allder Allda, Amen.

# Nijtianda Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

Pañ Tijma. Jesus stie a Skip, foor hann yfer um aptur, og kom i sijna Borg. Og sia, ad þeir færdu til hañs Limafallssiwkañ Mañ, hann er la i siñe Recklu. Eñ þa Jesus leit nu þeirra Trw, sagdi hañ til hiñs Limafallssiwka: Vertu hughraustur Sonur, þijnar Synder eru þier fyrergiefnar. Og sia, ad nockrer af skriftlærdum sögdu med siálfum sier: Þesse gudlastar. Og sem Jesus sa þeirra Hugreñingar, sagde hañ: Hvar fyrer hugsed þier so vondt i ydrum Hiörtum? Hvert er audvelldara ad segia, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar? Ellegar ad segia, statt upp og gack? Eñ so ad þier vited, þad Mañsiñs Sonur hefur Makt a Jördu til ad fyrergiefa Syndernar (þa sagde hañ til hiñs Limafallssiwka.) Statt upp, tak i burt Sæng þijna, og gack i þitt Hws. Og hañ stood upp, og foor i sitt Hws. Eñ þa Foolked sa þetta, undradest þad, prijsande Gud, sa ed þvilijka Makt hefde Mönunum glefed.

## Exordium.

Marga Hlute kalla Menn vonda i Heimenum, þar er þo eingeñ vondur nema Syndeñ alleina, vier kollum Straff Syndarennar illt, enn þad er þo ecke illt i siálfu sier, þvi þar er eingeñ Olucka, ad ei kome hun fra Gude, sem er alleina goodur, fyrer vora Skulld verdur þad illt, sem þad forþienad hofum med Syndenne, og verdur þad þo morgum gott, sem þvi taka so sem Guds Börn, sier til andlegrar Heilsubootar. Være þar eingeñ Root, þa være ecke helldur neiñ Avoxtur, og være þar eingeñ Synd, þa være eingeñ Olucka. Daudeñ er Verdlaun Syndareñar, segier Paall, so er og allur hanns Her, sem under hann þioonar, Siwkdoomur, Orbyrgd, Hallære, Ossooktner, Bloods Uthellingar, Skadræde af Vötnum og Vöda-Ellde: So er þa Syndeñ hin einasta Ordsok til allrar Olucku andlegrar

rar og lijkhamlegrar, þess gietur Esajas, Cap. 42. Hver hefur giört Jacob ad Herfange og eydlagt Israel? Hefur ecke Drotteñ giört þad, og moote hverium vier syndgad hofum, og þeir villdu ecke ganga a hanns Vegum, og hañ wthellte yfer þaa Grimd siñar Bræde, og megnu Strijde? Og þarf hier ecke langt ad Rokum ad leita, Drotteñ Jesus kieñer oss hier i Gudspiallenu; hver ad sie Ordsok til alls Mootlætis Mañaña, þar ed hañ sagde vid hinn hælfvisna: Vertu Hughraustur Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar. Vilium vier þvi af Gudspiallenu læra, hverneg vier eigum ad fa Boot vid Syndeñe, i hverre vier alder erum, hverrar Illsku Kraptur vid daglega brijtst wt um Lijkhama þessa Dauda, spillande allre vorre Umgeingne: Enn Þad er tvennt sierdeilis, sem er hrein Ydran, og orugg Trw og Trauft a Jesu Forþienustu. Hiælpa oss hier til, goode Gud, med Naad þijns Anda, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Drotteñ sagde vid þennañ hælfvisna Mann, Vertu Hughraustur Sonur, Þier Erú Þijnar Synder Fyrergiefnar. Eingeñ Efe er a þvi, Brædur M. Ad þesse Vesælingur hefur angrædur vered vegna Synda sinna, er hañ hefur þeinkia mátt, ad væru Ordsok til sijns Krankdæmis: Þess vegna sagde hiñ goode Meistare; Er visse hvad med Mañenum bioo, ad hañs Synder væru honum fyrergiefnar; Eñ þu Christeñ Madur, sem þetta heyrer, athuga hvad Jesus svarade sijnum Læresveinum, Joh. 9. Er þeir spurdu hañ, hvert hañ, sem blindur boreñ var, hefde syndgad, edur Forelldrar hañs, Drotteñ svarade: Hverke syndgade þesse, nie Forelldrar hañs, helldur so ad Guds Dijrd opeñber yrde, ecke meinte Jesus þad, ad hañ edur hañs Forelldrar væru syndlauser, þvi þaa hefde hañ ecke blindur fæddur vered, þar Gud straffar eingañ fyrer ecker; Hitt meinte hañ, ad hverke hañ nie Forelldrar hañs hefdu meira unned til þessa Vanskapnadar, eñ marger adrer, helldur være þesse Vanheilinde, sem margr hefde forskulldad, a hañ logd, til ad byrta Guds Dijrd og Almætte hañs Sonar. Eg hygg þad sie Mæla sañast, ad ef Gud villde tilreikna Syndernar, þaa munde faer heilskigner i Verolldena fædast, faer heilum Fæte a Jordena stijga, faer ovisen Arm wtrietta, og eingeñ um eitt Augnablik heill vera, helldur hefr Gud lagt sumar Skiepnur sijnar i Lijma, til ad sijna þier heilbrygdum sijna Dijrd, og hvert Valld hann hefur yfer þijnum syndugum Kroppe, ef hañ vill i Riettlætis Doom ganga; Lat þar fyrer þau Orkumlen, er þu a odrum sier, eñ þu hefur tiluñed, þrijsta Hiarta þijnu til ad ydrast þeirra Syndaña, er hafa þañ gooda Gud styggdañ, er lient hefr þier heilvita Saal i heilbrygdum Lijkhama, og leikur vid þig eins og Barn sitt med allskonar Medlæte, jafnvel þo þu hañ daglega til Reide reiter; Hverneg a þaa Ydraneñe hattad ad vera, Barn Guds? Hun a ad vera heit og alvarleg, þesse hælfvisne Madur hefur an efa vered sorgfullur i Hiartanu vegna Synda siña, þad kieña oss Ord Christi, so sim eg strax sagde: Forgiefens kiemur þu, Barn mitt, fram fyrer Gud, til ad bidia um Kvittun Synda þiña, nema

þig ꜳngre þær, nema þu grꜳter beisklega m̃z Petre, nema þu þvoer Christi Fætur med Tꜳrum Hiarta þijns, eins og Maria, nema þitt Hiarta brꜳdne i þier so sem annad Vax, eins og Davids, ecke so miog af Tilfiñingu Guds Reide, so sim̃ af Elskuñe til hañs Giædsku, sem upplauk þijnum Augum, er várst blindur boreñ af Moodur-Lijfe og daudur i Syndunum, er þig hefur endurkeypt frꜳ eilijfu Helvijtis Bꜳle, med sijns Sonar Dauda, og sparad þig sijdañ midt i Syndunum: Lꜳt þier þad til Hiarta gꜳnga, ad þu hefur hañ moodgad og daglega stygger, jafnvel med vitanlegum Syndum. So ꜳ Guds Barna Ydran hꜳttad ad vera, og er hun Gude so þæg, so sem ad Synden er honum leid; Jꜳ, eñ þꜳ þæggre, þvi Syndeñ gietur alldrei so stoor orded, ad ei sie meire Myskuneñ, hvar sem Syndeñ yfergnæfer, þꜳ yfergnæfer Nꜳdeñ miklu framar; So lijted gierer Gud wr Syndeñe, þegar hun er afþveigeñ med Ydraneñe, enn hun ꜳ ad vera alvarleg, eige hun Gude ad þocknast; Sꜳ sem vill af Hiarta ydrast Syndañna, hañ skal vel rañsaka siꜳlfañ sig, og hallda Reikning vid sitt eiged Hiarta af Ordum og Giordum, og so mikla Kiæte sem hinn ydrande hefur haft af Syndeñe, so miked Angur byriar honum ad hafa i Ydraneñe: Meñ eiga ad breyta vid Syndena eins og Amon fordum vid Systur sijna Thamar, ꜳ medañ hann framde siñ Vilia med heñe, elskade hañ hana, þar epter rak hañ hana wt af Dyrunum: Þo honum fære so skamarlega, ad ecke sie uærre þvi verra Dæme til, þꜳ eigum vier þo eins ad breita vid Syndena; Vier eigum ad lꜳta oss hana leida vera, og er þad vijst, ad sꜳ sem hefur Gaman af giordum Syndum, nær honum þær i Hug koma, honum eru þær eñ þꜳ apturhalldnar: Drage eingeñ siꜳlfañ sig ꜳ Tꜳlar; Ætlum ecke ad Gud nægest þar med, ad vier lꜳtunst um̃ stundarsaker ydrast Syndaña, enn gaungum þo aptur til þeirra, eins og Hundur til Spyu, edur Svijn þad, er vellter sier i sama Saur, 2. Pet. 2. Þegar Drottenñ hafde fyrergiefed Hoor-Konuñe Glæp heñar, þꜳ sagde hañ þo: Gack nu burt, og syndga ecke framar: Giefande þier þar med til Vitundar, christeñ Madur; Ad þad er forgiefens, ad þu þigger Kvittun Synda þiña af Gude, nema þu sporner vid þeim fram̃veigis þad mesta þu mꜳtt. Þegar Jesus sꜳ þañ Mañ i Musterenu, er hañ skoñu ádur læknad hafde vid Dijked Betezda, þꜳ sagde hann: Siꜳ, nu ertu heill ordenn, syndga ecke framar, ad ei hende þig añad verra, Joh. 5. Teiknande þar med, ad Syndeñ hefde vered Ordsok til hañs Siwkleika; Eñ þu, sem fram̃kiemur fyrer Guds Fætur, til ad lꜳta þier boda Kvittun Synda þiña af hañs Um̃bodsmañe i Skrifta-Stoolnum; Þad er ad soñu vijst, ad ef þu ydrast ut af Hiarta Syndaña, og treyster ꜳ Jesu Guds Sonar Forþienustu, þꜳ verda þier þær fyrer hañs Blood fyrergiefnar, þo þær sieu raudar sem Blood, og so sem Purpure raudar, og þu læknadur af ollum þijnum andlegum Oheilendum, eñ ef þu ecke leitast vid fram̃veigis ad krossfesta þitt Holld af fremsta Megne, þꜳ mun Forþienusta hins krossfesta ecke miog gagna þier, miklu helldur fordæma þig, nema þu sporner vid Syndeñe. Vit þad fyrer vijst, ad Christur hefr ecke forgiefens talad um̃ þañ ohreina Anda, sem wtfer af Mañenum, ad hañ taka sio Anda

sier

sier verre, og hverfe aptr i sitt fyrra Hws, og verde so þess sama Mañs hid sijdara arga-ra hinu fyrra. Eingeñ er efe æ þvi, ad Drotteñ meinar hier þan, sem einuſiñe hafa wtrek-ed Diosuleñ wr Hiarta sijnu, fyrer Guds Krapt og saña Ydran, eñ byggia honum þo in aptur, og æsa sonm Synder ydrunarlaust, edr og adrar verre, þad vitnar St. Petur, hañs eigeñ Lærelveiñ, er hañ segier, uñ. þær, er vellta sier i somu Syndum, ad þeirra hin sijdare Kior sieu verre hiñum fyrre, þvi betra hefde þeim vered, ad alldrei hefdu þeir Veg Riettlætesins vitad, helldur eñ ad þecktum honum ad hverfa aptur fra þvi Bodorde, er þeim feinged er. Christner Meñ eiga ad breyta epter þessum hælfvisna Mañe i hañs Audmyckt og Angre fyrer Syndernar, einnig i Trwñe og Traustenu a Guds Sonar Mætt og Myskun; Eñ ecke eigum vier hañs Soottar-Ferle lijker ad vera, i vorn Aptur-hvarfe til Guds fra Syndunum: Hañ var hælfvisiñ; So eigum vier ecke ad vera, þo vier sieum veiker, þa eigum vier ecke hælfvisner ad vera, so vier meinum ad giefa Gude Helftena Hiarta vors, eñ Helmingeñ Syndeñe og Fiandanum: Gud bañar i Moyses Logum, ad hafa eiñ Mæler fyrer hiñ iñlenda, og annañ fyrer þañ framanda. O! hvad giora þa synduger Meñ, þegar þeir skamta Gude wt i Dropa-Tale, hver med sijnum Blood-Dropum hefr af þvegied Synder vorar, enn Andskotanum giefa Meñ fullañ Mæler mest allra vorra Lijfdaga; Þad er Baals Pioonusta, eñ ecke Christs: Enn St. Paall segier: Ad Christr og Belial, þad er hiñ same Diosull sim Baal, eige ecker Hlut-skipte samañ. Verum þvi gnadhvert heiter edur kallder, þvi þeim sem volger eru, vill hañ skyrpa wt af sijnum Muñe, Apoc. 3. Þesse Madur leitade Herrans, þa hañ var veikur orden; Lær þad af honum, Guds Barn, ad æ kalla Drotteñ i Neydeñe, enn bijd þo ecke epter þvi, ad hañ neydest til ad straffa þig Syndareñar vegna; Morgum hefur ad soñu Guds Heguing komed til Ydranar, sem ecke hafa þeckt Synder sijnar fyrre: Eñ giæt þess, ad þeirre Ydran, sem framkiemur af Otta Hegningareñar, heñe er hættara vid ad koolna aptur, eñ hiñe, sem af Ihugan sijns Overdugleika, og Guds Giædsku uppsprett-ur; Þad sie eg af Achab, er klæddest i Seck fyrer Gude, nær honum illa gieck, eñ strax sim Gud hafde liett Hrijsenu af hañs Hrygg, þa fiell hañ fra honum til añarlegra Guda. Sa sem undañ dregur Tijma Ydranareñar, og meinar ad þar sie alltijd noogur Tijme til, hañ virdest mier vera eins og sa, er ecke hyrder um̃ þo hañ lijde Skipbrot, af þvi þad kuñe ad henda sig, ad hañ kuñe af ad komast a einum Flaka. Meñ segia, ad sa sim giorer sitt Testament, ecke fyrr eñ a Dauda-Sængeñe, hañ giefe af Erfingians Fie, og ecke af sijnu: Hætt er vid, ad Gud mune eins hallda og kalla þad ecke sier giefed, sem þa er forst boded, nær sagt verdur, gior Reikningskap þiñar Raadsmeñsku, þu mætt ecke leingur Raadsmeñsku hafa. Sa sem daglega frestar Ydraneñe, hann er eins og sa Skulldu-Nautur, er giefr jafnañ good Ord, eñ betalar alldrei: Skyllda vor er þad Mañaña, ad lijda þvilijkt hver af odrum, Naungans Kiærleika vegna, i leingstu Log, þvi vier erum Gude meira skylduger, sim er Fader vor allra, eñ hañ er ecke skyldugr ad lijda Hræsne af oss, hver sum vier erum skylduger um̃ Saal og Lijf. Malachias Spamadr lijser Bolvan

yfer þeim, sem eiga heilbrygdt Fe, en̄ offra þvi hallta og limlesta. O Guds Barn! mun sÿ ecke þurfa ad ottast fyrer þessare Bölvän, sem giefur Fiandanum sin̄ Ungmen̄e/ ls Alldur, enn ætlar ad foornfæra Skaparanum þad, sem han̄ verdur ꝏ Hækiuni ad bera? Skioot þvi ecke ꝏ Frest Ydranenne, Barn Guds, helldur þeink ꝏ þin̄ Skapara i þijnum Ungdoome, þvi þu veitst ecke nær Angistenn kiemur, og þu leitar ad Fridnum, og finnur hann ecke, Ezech. 7. Og er þad so hier um̄ wt-talad.

Hvad hinu sijdara vidvijkur, sem er um̄ Trwna, þꝏ eru hen̄ar furduleger Kraptar, og eg mꝏ segia, guddoomlegar Verkaner, sem lꝏngt yfergꝏnga mannlegan̄ Skilning, so miklar, ad þad mꝏ valla med Ordum wtskijra, han̄ sem ad er Hofundur Trwarennar Jesus Christus, Heb. 12. Hann hefur giort hĳna bestu Grein ꝏ þvi, er han̄ segier vid sijna Læresveina: Ef þier Trw hefdud so sem eitt Mustards-Korn, so mundud þier segia Fialle þessu, tak þig upp og fleyg þier i Siooenn; Og ef ein lijtel Trw kan̄ þvilijks ad orka, Hvad mikla Hlute mun þa hin̄ sterka ꝏ afrekad? So sẽ var Abrahams, er hann trwde til Vonar þar eingen̄ Von var, Rom. 4. Nu vil eg i þetta Sin̄ ecke um̄ þvilijka Hlute tala, helldur ad þvi leite sem hun þienar til Syndanna Fyrergiefningar, og er þad Mꝏla sannast, ad eingenn er stærre Kraptur hennar enn sꝏ, þvi minna var þad, ad giora Moyses Staf ad Hoggorme, minna ad sundurskipta Hafenu, minna ad lꝏta Soolena standa kyrra, minna ad tilbyrgia Himenen̄, og kalla Elld af Himne, þvi allt eru þetta Guds Skiepnur, er honum hlijda mootmælislaust: Min̄a er allt þetta, segie eg, helldur enn̄ ad koma Man̄enum, af Syndanna byg Andskotanum vanskopudum, i Sꝏtt vid Gud, og þvi er þad hin̄ stærsta Jardteikn og Kraptaverk Trwarennar. Þegar Jesus sꝏ þeirra Trw, stendur hier i Gudspiallenu, Sagde Han̄ Til Hins Hꝏlfvisna, Vertu Hughraustur Sonur, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar. Tvent giörde Jesus hier gott, sem var, ad han̄ gaf þessum vesæla Manne Lijkhamans Heilbrygde aptur, og so under eins Sꝏlaren̄ar, en̄ mikell var þesse Munur, og so mikell sem ad skilur Sꝏlarennar og Lijkhamans Vanheilsu; Þvi talade Drotten̄ eckert um̄ Lijkhamans Ohraustleik, helldur sagde hann: Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar, þar fyrer sagde han̄ og vid hina vantrwudu Gydinga: Hvert Er Audvelldara Ad Segia, Þier Eru Þijnar Synder Fyrergiefnar, Edur Ad Segia, Statt Upp Og Gack? En̄ hier sier þu Krapt Trwaren̄ar, mꝏdur enn þesse aumt Madur talade eitt Ord til Fodur Myskunsemdan̄a, þꝏ hrærdust han̄s Myskunar-Yd-ur i honum til Medaumkunar; Heiter ecke þetta ad bænheyra mꝏdur en̄ kallad er? Hins sama mꝏttu þier vænta, christenn Madur, nær þu lætur þig af Hiarta angra þijnar Synder; Fyrr meiga Himen og Jord forgꝏnga, en̄ ad eitt af hanns Ordum falle ꝏ Jordu, er sagt hefur til eins ydrande Syndara, ad þegar hann lætur af illu, og lærer gott ad giora, þꝏ skule hn̄s Synder vera honum fiarlægar, sem Austred er Vestrenu, fyrr mꝏ Sioꝏfar-Hafed uppþorna, enn ad Brunnur Myskunarennar verde uppausenn, sem lofad hefur ad kasta ydrande Manns Syndum i Hafsins Diwp, so

þeirra

þeirra skule ecke ad eilijfu minust verda: Þessu kiemur Trwenn til Leidar. Drottenn undradest ecke yfer neinum Hlut, sem hann sa hier a Jardrijke: Allt Veralldarennar Yferlæte þootte honum einkis vert, so sem Von var a, þvi allt Silfur og Gull var hans; Hann gaf sig lijted ad Tale Læresveina sinna, þegar þeir sijndu honum hina kostulegu Bygging og Mustereʃins, og þootte eckert til þess koma, enn vid hina Canaanisku sagde hann: Kona, mikel er þijn Trw. Soddann Gersente er jafnvel eins Gaungumanns Trw, i Auglite Drottens, og hversu dijrmæt ad hun sie i Guds Auglite, þad giefur Drottenn sialfur til Vitundar i Epterlijkinguñe um hin Tijnda Saud og Pening, er hann alyktar med þessum Ordum: So segie eg ydur, ad meire Glede er i Himnenum yfer einum syndugum sem Ydran giorer, helldur enn yfer Niju og Nijutiju riettlatum. Holldum þvi þad fyrer satt sem Johanns segier, 1. Pist. 1. Cap. Ef vier iatum vorar Synder, þa er hann trwr og riettlaatur, ad hann fyrergiefur oss Syndernar, og hreinsar oss af ollu Ranglæte voru; So voru Myskunar-Ydur Drottenns vidkvæm, er hañ leit Eymd þessa vesæla Mañs, ad hañ sa strax Aumur a honum. O! þu Guds Barn, villtu þa efast um, ad hañ hrærist Myskunar yfer þier? Þegar þier taka til ad svijda þijn andleg Kaun, þegar þau swnu Saareñ taka til ad lifna, og þu tekur til ad andvarpa i Leynum, segiande: Jesu Goode Meistare, myskuña þu mier. Hvad segier Jesus hia Lucam, Cap. 11. Ef ad þier sem vonder erud, kuñed ad giefa Bornum ydar goodar Gaafur, hvad miklu framar mun ydar himneskur Fader giefa þeim heilagañ Anda, sem hann þar um bidia; Þvi vil eg i fullu Trauste segia, þegar þu audmijker þig under vollduga Guds Hond, og bidur af Hiarta um Fyrergiefning Synda þinna, þa mun hanns Ande bera þijnum Anda Vitnisburd um, ad þu siert Guds Barn, Rom. 8. Þvi jafnvel þo vier sieum otrwer, þa er hann samt trwr, sialfum sier kañ hañ ecke ad neyta, segier Paulus. Nu er þad satt, G. M. ad sannydrande Manns Trw verkar so miked hia Gude, sem nu hefe eg sagt, enn hann a þa ad vera viss um þad, ad hann sie bæde sannydrande og riett-trwadur. Margt er lijkt med Skylldum, segia Menn i Ordtæke gomlu; Enn Trwenn og Ydruneñ eru tvær Systur, er ei meiga skilia, eins og þad, ad sw Ydran er onijt i Guds Auglite, sem ecke þvijngar Mañenn til ad krossfesta sitt Holld, so er og Trwenn daud an Verkanna, segier Jacob, og Paall segier: Ad sw Trw alleina gyllde, sem ad er kroptug fyrer Kiærleikann. Med Trwñe foornfæra Meñ Gude sijnum Vitsmunum, og giefa sijna Skilningu fangna under heñar Hlijdne: Med Ydranenne offra Meñ Vilianum, ad hañ sie Guds Bode undergiefenn. Trwenn giorer oss ad Guds Læresveinum: Ydranenn ad hañs Þioonum. Trweñ upplijser vor Hiortu i Skilninge vorra Saaluhialpar Efna: Enn Ydrunenn, ef hun er alvarleg, hun þrijster oss til ad giora Guds Vilia, og alla Skyldu Christens Manns. So sem þad er ecke noog, ad ydrast um stundarsaker, og ganga aptur til ad drijgia somu Synder, so er þad ei helldur fullur Christenndoomur, ad trwa um Hrijd, eda giora Avoxt Trwarennar, eñ falla þo fra a Tijma Freistingareñar.

være þad noog til Sæluhiælpar ad byria vel, þa sæte Bileam hæatt i Himnarijke, og ef ei þyrfte ad vaka og bidia, þa hefdu hinar fævijsu Jomfrwrnar ecke vered wtelokadar. Þad er skiemtelegur Draumur, ad ætla ad Gud mune tilreikna sier Forþienustu Sonarens, eñ vilia þo eckert giora af þvi sem Gud boded hefur. Mjog so er eg uggande fyrer þvi, ad sæ sem geinged hefur i þvilijkre Leidslu allañ sin Alldur fram i Daudañ, hañ mune uppvakna i Helvijte og Kvolunum, þvi jafnvel þo ad Goodverkeñ vor, ef nockur so kallast meiga, þau siu ecke mæattug til ad giora oss hoolpna, þar vier erum skyllduger ad jæata, ad onijter Þioonar sieum vier, jafnvel þo vier giordum allt þad vier ættum ad giora, samt eru hin vondu noogu kroptug til þess, ad fordæma oss. Eg veit ad soñu, ad þetta kañ ad sturla margañ þañ, sem mikeñ Part Æfinnar hefur i Illkunne aled, eg sæ ecke vid þvi giort, þetta eru þo gudleg Sañindi, og ecke er Von æ odru, eñ ad syndugs Mañs Hiarta mune kieña til, þegar Broddur Logmæalsins tekur til ad stijnga æ Kaununum, vel sie þeim er so eru vidkvæmer, ad þeir fiña til Sæarsaukans, hinum er ollum midur fared, er ei kieña til Guds Strøffingar, ecke til Logmæalsins Hootana, og ecke til Helvijtis Ellds-Loga, hvern þeir forþient ad hafa, uñ hverja þad segia mæa, sem Jeremias sagde uñ Gydinga: Þu typtar þæa Drotteñ, eñ þeir fiña þar ecke til, hverra Samvitskur ad Pæall segier ad sieu brennemerktar. Eñ hinum, sem ad soñu ogudlega lifad hafa, enn læata sig þo angra sijnar Synder af Hiarta, og vilia þar æa Boot viña, þeim vijsa eg til þeirra Lijknar Orda, er Drotteñ talar til syndugra Maña, Esa. 1. Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar Illsku Breytne fræa mijnu Auglite, komed sijdañ og eigunst Log vid: Þo ydar Synder sieu raudar sem Blood, þæa vil eg giora þær hvijtar sem Ull. Þu þeynker kann skie i Hiarta þijnu; Eg em i Syndeñe gieteñ og fædddur, hvernig mæa eg Gude þocknast? Eñ giæt þess, ad þinn Endurlausnare, sem er Gud blessadur uñ allar Allder, hañ er fæddur af Fedrunum epter Holldenu, hreinn og heilagur og fræaskileñ Syndurunum: Þu ert syndugre enn adrer Meñ, Christur er heilagre enn aller Meñ, hañ er Forlijkun fyrer þijnar, og ecke einungis fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldareñar Synder: Þu gietur ecke aldeilis af Syndeñe læated, so þad vonda lode ecke vid þig, þæa þu villt giora hid gooda, þad gat ei helldur St. Pæall, samt fieck hann þad Svar af Gude: Læat þier nægiast mijna Naad, minn Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum: Þu syndgar optlega, Christur bidur fyrer þier oaflæatañlega: Þijnar Synder eru þier yfer Hofud geingnar, samt yfergnæfer þo Naadeñ miklu framar; Þig henda optlega sumu Synder, sporna vid þeim sem mest þu mæatt, so ad þær drottne ecke i þijnum daudlegum Lijkhama, enn vit þo, ad Jesus hefur bored uppæa Tried þæa Handskriftena, sem moote þier var, og hana æa Krosseñ neglt, Þar er eingeñ af þijnum Skulldum epterskilenn nie olokenn, enn brwka þæa slijkt til ad afplæana giordar Synder, enn ecke til Frelsis ad drijgia þær framveigis: Þu þykest eckert Verk Gudrækneñnar fullkomed giort gieta, þesse Medkienning þijns Oveþdugleika er Verk heilags Anda, þvi bidur hann fyrer

þier

þier med pumrædelegum Andvorpunum, og hiælpar þijnum Veikleika: Þu hefur allann þinn Alldur i Illſkunne eled, og ert adkomeñ Dauda, hafande eckert gott Verk Gude ad biooda, þo þu hefder, mundu þau kuña ad riettlæta þig? Hvad hafde Tollheimtu-Maduren? Luc. 18. Hvad hafde Ræningeñ a Kroſſenum? Luc. 23. Hvad hafde Þrællenn, ſem vaꝛ ſijnum Herra ſkylldugur uñ 10000. Punda? Matth. 18. Saint uppgaf Herrann hønum alla Skulldena. Þijn Trwa tekur til ad veikiaſt i Daudanum, þa Lijkhamans Kraptar eru ad Þrotum komner, og meiga valla taka a mote Daudans Ofbode, mundu þa til þeſs, ad Guds Sonur hefur Daudañ ſigrad, þad ſkal ſkie, ad hver ſem trwer a hañ, ſa ſkal lifa, jafnvel þo hañ deye, Joh. 11. Læt þier þa til Hugar koma hvad Fader hiñs twnglſiwka ſagde: Herra, eg trwe ad ſoñu, eñ hiælpa þu Trwarleyſu miñe. Ein veik Trw er þo Trw: Eiñ Elld-Neiſte er þo Elldur, ein lijtel Perla glanſar ſo ſem ein Perla, eins ſkijn ein veik Trw i Augum Guds ſo ſkiært, ſo ſem þo hun være ſterkare, þvi Trweñ er ecke vort Verk, helldur hañs Anda, þar fyrer beiddu Læreſveinarner Drotteñ ad auka ſier Trwna; Læatum hann ræda Mælingu hiñar, hañ mun ecke ſitt eiged Verk ovirda, eñ lœtum þo ecke af ad næra hana med yduglegre Bæn og Andvarpan. Lutherus ſegier i einum Stad, ad eingeñ verde fordæmdur, nema ſa ſem ei vill trwa: Þad er ſatt, ef þad er riett ſkiled, þvi ſa vill ecke Olmuſu hafa, ſem ecke vill uñ hana bidia, ſo vill og ecke ſa trwa, ſem ecke bidur Gud ad ſkapa hreint Hiarta i ſier, og giefa ſier nijañ viſſañ Anda, eñ hitt er vijſt, ad ein veik Hond tekur eins vid Olmuſu, ſo ſem ein fullhrauſt, og eins vel umfadmar ein veik Trw Chriſts Forþienuſtu, ſo ſem ein fullorugg, þvi Guds Kraptur fullkomnaſt i Breiſkleikanum, og einn veiktrwadur ma uñ ſig ſegia eins og Paulus: Eg formá alla Hlute fyrer hann, ſem mig mættugañ giorer, Chriſtum, þvi þa eg breiſkur er, þa er eg mættugur, þo eftreſt ſo Drotteñs Kraptur med hønum, ad hann hrooſar þvi under ſijna Foornfæringu, ad hann hafe goodre Baratttu bareſt, Skeided fullkomnad, og Trwna geymt, og frañveigis ſie ſier aflögd Corona Riettlæteſins, hveria Drottiñ hinn riettlaate Doomare mune giefa ſier a þeim Deige, og ecke einaſta ſier, helldur jafnvel øllum þeim hanns Tilkomu elſka, Hennar nioota ande ad verda, unne oſs hinn goode Konungur Dijrdarennar, fyrer Jeſum Chriſtum, A M E N.

# Tuttugaſta Suñudag epter Trinitatis.

Gudſpialled, Matth. 22. Cap.

Þeim Tijma. Jeſus ſvarade og talade i añad Siñ i Epterlijkingum til þeirra, og ſagde: Himnarijke er lijkt þeim Konunge, ſem Brwdkaup giorde Syne ſijnum. Og wtſendi ſijna Pioona ad kalla Bodsmeñena til Brwdkaupſins, og þeir villdu ecke koma. J añad Siñ ſende hañ wt adra Pioona,

og sagde: Segied þier Bods Mönnunum: Siaaed, mijna Maaltijd hefe eg tilbwed, mijner Uxar og aled Fie er slaatrad, og allt er reidubwed, komed til Brwdkaupsins. Enn þeir forsmaadu þad og geingu burt, einn a sinn Bwgard, enn annar til sinnar Verslunar, enn hiner adrer gripu hanns Pioona, og logdu þeim Haadungar til, og draapu þaa. Enn þaa Kongurenn heyrde þetta, vard hann reidur, og sende wt sitt Her-Lid, og fyrerfoor þessum Mordingium, og brende upp þeirra Borg. Þaa sagde hann til sinna Pioona: Brwdkauped er ad sönnu reidubwed, enn þeir sem bodner voru, þeir voru þess ei verduger. Þar fyrer fared wt a Gatnamooten, og bioded til Brwdkaupsins hverium sem þier finned. Og hanns Pioonar geingu wt a Stræten, og samannsöfnudu öllum þeim sem þeir fundu, vondum og goodum. Og Brwdkauped vard fullt med bordsett Foolk. Enn þaa ed Kongurenn gieck inn ad siaa þaa sem til Bordsins saatu, saa hann þar einn Mann, eige klæddann med Brwdkaups Klæde. Og sagde til hanns: Vinur, hvernenn gieckstu inn hijngad, hafande ecke Brwdkaups-Klæde? Enn hann þagde. Þaa sagde Kongurenn til sinna Pienara: Binded hanns Hendur og Fætur, og kasted hönum wt i hin ytstu Myrkur, þar ed vera mun Op og Tanna Gnijstran. Pviad marger eru kallader, enn faaer utvallder.

## Exordium.

Hver ad sie Meining þessarar fögru Epterlijkingar, sem Drottenn hier framsetur, þad er audraaded af ödru Guds Orde, og þo sierdeilis af Predikunum hanns, sem annarstadar ritadar finnast i Gudspialla Bookunum, ecke sijdst af þeirre um Verka-Mennena, sem leigder voru i Vijngardenn, hiaa Matthæum i 20. Cap. Og hinne um þaa miklu Kvölldmaaltijd, sem er ad finna hiaa Lucam i 14. Cap. um hverjar baadar nockud hefur talad vered hier ad framann. Konungurenn er hinn alvallde Himens og Jardar Konungur, hanns Sonur er Drottenn Jesus, sialfur Konungur, ecke einasta epter Guddoomenum, helldur og Manndoomenum, þvi Gud hefur sett sinn Konung yfer sitt heilaga Fiall Zion, Ps. 2. Jafnvel þo ei være hanns Rijke af þessum Heime, og alle Valld er hönum giefed, bæde a Himne og Jordu, Dan. 7. Matth. 28. Brwdkauped er hanns Holldtekia, og aller þeir Velgiörningar, er i henni frambodner verda öllu Mannkyne, enn veitter þeim einum, sem trwa a Nafn eingietens Sonar Guds. Hiner fyrstu, sem bodner voru, eru Gydingar, hverium framar ödrum var boded til þessa mikla Brwdkaups, enn þeir forsmaadu þad, so sem Paulus og Barnabas vottudu, Act. 13. Segiande: Til ydar byriade fyrst Guds Ord ad tala, enn fyrst þier forsmaaed þad, og reikned ydur ei verda eilijfs Lijfs, þaa

snwunst

smwunst vier til Heidingiaña. Sumum bægdu Veralldar Umsvif frá þessare Guds Giof, so sem af Gudspiallenu er audsært. Hiner gripu hanns Þioona, logdu þeim Hrædungar til, og aflijfudu þá: þeirra gietur Frelsarenn, er hann sagde vid Gydinga: Hvern af Spámoñunum hafa ydar Fedur ecke lijflátad? Og yfer þá er geinged þad skielfelega Straff, sem hier umgietur i Evangelio: Fyrst, þegar Nebucadnezar eydelagde hina fyrre Jerusalem, og sijdañ yfer Born þeirra, sem ad uppfylltu Mæling Fedra sinna, er hun var uppbrend og ad Stein-Hrwgu giord af Tito Vespatiano, og alldrei uppbyggd sijdañ. Hiner, er sijdañ voru kallader, eru heidner Menn, og medal annara Forfedur vorer, þad Foolk, sem i Myrkrunum sat, Eph. 5. Og er iñplantad i Stadeñ Gydinga, sem afbrotner voru, Rom. 11. Enn vier heyrum i Gudspiallenu, ad til þessa Brwdkaups er safnad vondum og goodum, þvi segier og Paulus, 2. Tim. 2. Ad i stooru Hwse sieu ecke einungis Kier af Gulle og Sylfre, helldur og af Trie og Steine, og sum til Heidurs, enn sum til Vanheidurs, enn ef nockur hreinsar sig af þessu, þá mune hann verda Kier til Heidurs helgad, og sialfur Lausnareñ endar þessa Epterlijkingu med þeirre dijrmætu Grein, Ad Marger Sieu Kallader, Eñ Fáer Utvalder. Hvar af lioost er, ad þeir eru ecke aller Christi Þegnar, sem nefna Christum sinn Herra, til hvers hann bender oss med Dæme þess Manns, er kom til Brwdkaupsins, ecke skrijddur Brwdkaups Klæde, af hverium eg vil taka mier Ordsok til, ad tala um þá Hlute, hvar af einn og sierhver meige þeckia sinn Bwning, hvert hann sie hæfur til ad byrtast fyrer Konungenum, nær hann geingur inn ad sia Bord-Gestena. Þu alvallde Konungur Dijrdareñar, sem villt, ad aller verde hoolpner, og komest til Sannleiksins Vidurkienningar, veit oss þijns Anda Náad til þessa Verks, i Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Nu Þegar Konungureñ Gieck Iñ, Ad Siá Þá Sem Til Bordsins Sátu, Sá Hañ Þar Eiñ Mañ, Eige Klæddañ Brwdkaups-Klæde, segier i Textanum: Hvert ad sie þetta Brwdkaups-Klæde, er audvitad; Þad er sialfr Christur, og hañs Riettlæte med Trwñe hondlad, þvi fagnar hanns Christne, hiá Esajam Cap. 61. Segiande: Eg gledst mikelega, og mijn Sáala fagnar i mijnum Drottne, þvi hann hefur klædt mig Bwninge Hiálpræde sins, og med Klæde Riettlætesins hefur hañ huled mig, eins og einn Brwdguma i kieñemannlegum Skrwda, og eina Brwde iklædda Skarte sijnu: Þetta er auglioost af sialfre Epterlijkingunne. Hvar fyrer var þessum vesæla Mañe kastad i hin ytstu Myrkur? Af þvi, hann var ei skrijddur Brwdkaups-Klæde. Hvar fyrer verda hiner vantrwudu fordæmder? Af þvi, ad þeir trwdu ecke á Nafn eingietens Sonar Guds. Hvar fyrer sættu ecke hiner adrer þvilijkre Refsing? (Þvi um hann einn verdur gieted) fyrer þvi, ad þeir voru iklædder hinu rietta Brwdkaups Skarte. Hvar fyrer verda utvalder innleidder i Fognud sijns Herra? Mun þad skie fyrer þeirra eigeñ Riettlæte? Fiærre fer þvi, Drotteñ, ef þu

villt tilreikna Syndernar, hver fær þa stadest, segier David, Ps. 130. Eingenn lifande Manna mun riettlætast i þijnu Auglite, segier hann: Hvar fyrer er pad þa? Af þvi ad þeir trwdu a hañ, sem riettlæter ogudlegañ, segier Paulus, Rom. 4. Og þvi kiemur hann ecke til Doomsins, segiet Frelsareñ. Sæll er sa, hvers Synder huldar eru, segier David, Ps. 32. Eñ med Klædunum verda Lijteñ huleñ, eins vor andleg Blygdan, med Jesu blessudum Riettlætis Skrwda, þess gietur hañ sialfur i Opeñberunum Johañis, talande vid Biskupeñ i Laodicea, hvern hann nakeñ kallar, þar hann rædur honum, ad kaupa af sier Gull pad sem i Ellde er reynt, ad hann rijkur verde og klæddur hvijtum Skrwda, so ad Blygdan hanns Fatleysis ecke opeñberest, Apoc. 3. Nadar-Stoolleñ hulde fordum Daga Sattmaals-Orkena, i hverre Logmaals-Toblurnar geymdar voru: Þu Jesu! þu ert einn Nadar-Stooll i þijnu Bloode, Rom. 3. Fyrer þitt Sakleyse, O Herra! sem Logmaaled uppfyllt hefur; enn varst þo a moote Logmaalenu dæmdur, fyrer pad eru huldar allar vorar Synder, sem moote Logmaalenu giordar eru, þegar vier a þitt Nafn trwum: Hvad mun eg ætla til þess, ad eg syndugur Ormur i mijnum eigeñ Klædum byrtast kuñe i þijns himneska Fodurs Auglite? Hvad mun eg vilia koma fram med pad, sem er eins og Nidlags-Fat? Hvad mun eg biooda pad fram sem er Hælfverk? Eg hrædest oll mijn Verk, sagde hiñ riettlaate Job: Og þvi mun eg ætlast til þess, ad mijn sieu betre? Hvar fyrer mun eg vilia bæta þann fagra Kyrtel, er þu mier giefed hefr, med mijnum Totrum? Mun eg heillagre eñ Josua hinn ædste Prestur, er stood i saurugum Klædum fyrer Engle hinns mikla Raads, Zach. 3. So mun best fara, Drotteñ minn! ad bæde eg og adrer synduger Meñ niote þeirrar Nadar, sem hann naut, ad þu burt taker vort Rangslæte, og skipter um Klæde vid oss. So er nu þetta Brwdkaups-Klæde ecke annad enn Riettlæte Jesu Christi med Trwnne medteked; Þvi iklædunst vier fyrst allra i Skijrneñe, þess gietur Paulus, segiande: Þier erud aller Guds Born fyrer Trwna a Jesum Christum, þvi hverier sem uppa Christum skijrder erud, þier hafed iklædst Christo; J heñe verda oss Syndernar fyrergiefnar, ecke einasta Uppruna Syndeñ, helldur eigum vier, i Krapts heñar, Fyrergiefningar Von, um alla Æfe vora, a gioranlegum Syndum, nær vier leitum heñar riettelega, þvi kallar Petur hana Sattmaala goodrar Samvitsku, þvi eingeñ kyñe um eitt Augnablik roolega Samvitsku ad hafa, nema hañ visse sier Kvittunar Von Synda siña: J heñe verdum vier Guds Born; J heñe medtokum vier heilagañ Anda, sem þa alla endurnyar, fyrer Krapt Endurgietningareñar, sm ecke mootstanda honum nie slockva hañ; Þvi er sa riettelega skrijdd Brwdkaups-Klæde, sm endurgieteñ er af Vatne og Anda, ef hañ ei spiller aptur siñe Endurgietningu, enn pad verdur morgum, þvi midur, og þar fyrer er Skijrneñ ecke einhlijt til þessa Bwnings, nema ad heñar Kraptr auglijse sig i oss, nær vier droguns a Legg, og lærum vorn Christeñdoom, og er pad fyrst i þvi iñefaled, ad trwa riettelega a Gud, hvad ed skiedr med tveñu moote: Fyrst ad hafa saña Þeckingu a honum, hañs Stoormerkium, hanns Velgiorningum,

sem oss verda i Ordenu frambodner: Añad er þad, ad vier treystum honum, elskum og virdum, fram yfer alla Hlute. Hvad þvi fyrra vidvijkur, þꜳ er þad vijst, ad i Skijrñeñe jꜳtum vier Gude og øllum hañs Stoormerkium, þar til skulldbundu oss vor Gudfedgin, med siñe Jꜳtningu; Eñ hvad stodar oss sw Jꜳtning, nema vier lærum ad þeckia hañ er vier jꜳtudum, hanns Almætte, hañs Goodgyrne, hañs Riettlæte, hañs Elsku til vor, og hvad añad, sm̃ hañ hefr i sijnu Orde opeñberad oss til Sꜳluhiꜳlpar? Þetta vil eg bidia þꜳ ad hugleida, sem añadhvert sialfer lijted edur eckert vita i sijnum Christeñdoome; so sm̃ vita byriar, edur forsooma ad kieña þad sijnum Børnum og Hiwum, jafnvel þo sialfer nockud vita meige. Hier stendur i Gudspiallenu, um̃ þꜳ sem forsmꜳdu Konungsins Bod, ꝛñ geingu i burt, eiñ ꜳ siñ Bwgard, enn añar til siñar Sysslanar, ad þeir hafe þess ecke verduger vered. Segied mier þꜳ i Guds Nafne, segied mier, þier sem allareidu erud kallader, og til Bords setter i Konungs-Stofuñe, munud þier þvi fyrer hlijta, ad þier erud þar einusiñe iñkomner? Munud þier byrtast i þvi saña Brwdkaups-Klæde, er þier lꜳted veralldlegar Sysslaner, jꜳ, Giꜳlijfe og vondañ Selskap draga ydur frꜳ Gude og hañs Christs Þeckingu? Hversu ꜳgiæter Bordgiester erud þier vid Drotteñs Kvølldmꜳltijd, nær þier edr ydar Børn vita eingañ Greinarmun ad giora Lijkhama Drotteñs og annarrar Fædu, ecke ad reyna og proofa sialfañ sig, og ecke ad rañsaka Hiartad, hvert þier sieud i Trwñe. O! vei, O! vei, hversu lijtt eru Meñ þa til Brwdkaupsins bwner? Þad heiter med riettu, ad hafa Altared til ad syndga, so sem Drotteñ ad Orde kiemst fyrer Spꜳmañsins Muñ, um̃ Afgudadijrdkanena i Juda: Vier kieppunst vid ad bwa oss i Skart, nær vier hallda vilium Minning Drotteñs Dauda, og so er Heimskañ rijk i oss sumum hverium, ad sꜳ sem ecke hefur sialfur, hañ lꜳnar af ødrum, hvad ad sonnu er vijtalaust i sialfu sier; Enn Gud nꜳde hvad lijted sumum mune um̃hugad vera, ad byrtast i Jesu Christi dijrmæta Riettlætes Klæde, sem wtvegad verdur med sannre Ydran, stodugre Trw, og Asetninge christelegs Lifnadar. Þar fyrer christner Meñ; Læred ad þeckia Gud og hañs Stoormerke; Læred ad þeckia sialfa ydur og ydar Overdugleik; Læred ad þeckia Guds Vilia af hañs Bodordum, so þier og þeckia meiged, hvad mikeñ Skort þier hafed ꜳ þeirre Hroosan, sm̃ fyrer Gude gyllder. Hinn añar Partur vorrar Jꜳtningar er sꜳ, ad vier lofum ad treysta Gude og reida oss uppꜳ hanns fodurlega Giædsku og Forsiꜳ, bæde i Medlæte og Mootlæte, enn af þessu ber æred miog hiꜳ mørgum hverium, sem þo meinar sig velbweñ i Lambsins Brwdkaup; i Medlætenu treystum vier uppꜳ sialfa oss sumer hverier, uppꜳ Aud vorn og Metord, uppꜳ Vine og Hofdingia, eñ ecke uppꜳ hañ, sem er Drotteñ alleina rijkur: Konungurenn af Tyro sagde i Hiarta sijnu: Eg er einn sterkur Gud; Enn Drotteñ segler honum, muntu segia vid þiñ Veganda, eg em sterkr Gud? Og þo treysta Meñ uppꜳ soddañ eina Vatns-Boolu framar eñ ꜳ Gud, sm̃ øllu rædr bæde ꜳ Himne og Jørdu; Hvar er þꜳ Trausted? Hvar er þꜳ Trweñ, sem Menn eiga ꜳ Gude ad hafa? Munu þesser vera henteger Giester i Christi Brwdkaups-Stofu, er sagt hefur; Hver sem

til mijn kiemur, og ei hatar Fodur og Moodur, Konu og Born, Systur og Brædur, og jafnvel sijna eigeñ Sꜳl, hañ gietur ei vered miñ Læresveiñ? Meñ standast ecke Reide-Svip eins Veralldar Hofdingia, er Menn so kalla, þegar þeir ygla sig, þꜳ eru sumer Meñ bwner til ad giora allt hvad þeir biooda, og jafnvel hinar verstu Skꜳmer og Klæke i giegn Gude, eñ hañ ottast þeir ei, i hvers Hende ad oll Veralldareñar Makt er eins og ein lijdande Poka, og þo vilia Meñ christner heita, þo ætla Meñ sier med þvilijku Skape i Lambsins Brwdkaup iñ ad gꜳnga, med þeim Guds Hetium, sem jafnvel ecke sitt Lijf elskudu allt i Daudañ, þar fyrer hafa þeir nu fꜳgad siñ Skrwda i hañs Bloode. I Mootlætenu eru Meñ ecke einasta oþoleñmooder, sem jafnvel Guds Born hender, helldur moglunarsamer moote Gude, kalla sier Oriett giordañ, orvænta hañs Adstodar, griipa til þeirra Rꜳda, sem hañ bannad hefur: Og i einu Orde ad segia, kasta i burtu Trwñe ꜳ hañ, og briioota Oked i sundur. Fiñe Meñ nu eitt hvad af þessu hiꜳ sier, añadhvert, ad þꜳ vante naudsynlega Þeckingu ꜳ Gude og sijnum Sꜳluhiꜳlpar Efnum, og hañ hyrder ecke um̃ ad rꜳda Boot þar ꜳ, sem best hañ kañ, edur hañ ottast nockra Veralldar Makt, Vinꜳttu edur Velgeingne, eins miked og Gud, þꜳ drage eingeñ sialfañ sig ꜳ Tꜳlar, edur meine þad hañ sie riett-trwadur, þo hann skijrdur sie, þo hañ sie Bordgiestur Drotteñs i heilagre Kvølldmꜳltijd, og fylger þad þꜳ epter, ad hañ ei er skrijddur Brwdkaups-Klæde, ꜳ medañ hann er so bwen. Take eingeñ so Ord mijn, ad eg meine þo einhvern kuñe nockud af slijku ad henda, ad honum þar fyrer eige strax ad kasta i hin ytstu Myrkur: Giædska Drotteñs er þoleñmoodare yfer Syndum vorum eñ so, þad sijna ofs Dæme hiña mestu Syndara, sm̃ þo hafa ꜳdur haft fulla Guds Þeckingu, so sem Arons, Davids og Peturs, enn hitt segie eg, ad Meñ skule ecke brwka þessa Guds Nꜳd til ad ala Syndena ꜳ henne. Eg sagda fyrer skom̃u, ad i Skijrneñe værum vier fyrst iklædder Brwdkaups-Klædenu; Eñ Gud nꜳde, ad þar fellur so optlega Blettur ꜳ, og so atast þad i Forodum Veralldareñar, ad þad valla þeckest ꜳ stundum, eñ þad ꜳ burtu ad þvoo med heitre Ydran og hañs Forþienustu, sm̃ hrein giorer Born Levi, Jesu Christi, hver ad er eins og Sꜳpa Þvotta-Kveña, segier Spꜳmadureñ Malach. 3. Eitt Klæde er jafngott þo ad Saur falle ꜳ þad, ef þad er vel þveged, nema þad sie groomteked; Eins er Syndareñ, hañ er jafngoodur, þegar hann ydrast af Hiarta, trwer ad sier verde Syndernar fyrergiefnar, og leitast vid ad lifa betur af ollu Megne; Eñ velke hañ sig so miog i Gudleysenu, ad hañ burtkaste Drotteñs Forþienustu, og hyrde ei um̃ ad leita heñar med þeim Medolum, sem til þess eru giord; Þꜳ segier Paulus ofs, ad þar sie eingeñ Forlijkun fyrer Syndena framar, Hebr. 10.

Eg fiñ i heilagre Ritningu so sem þriu Troppu-Stig til Glotunarennar, fyrer þꜳ, sem medteked hafa þo Guds Anda: Hrygged ecke heilagann Anda, segier Paulus: Þad skiedur þegar þeir, sem enn þꜳ eru i Guds Nꜳd, þeim verdr þad, ad þeir lꜳta epter Holldenu, þo ecke alltijd af œttu Rꜳde; Enn veikia þo med þvi Krapta sinnar Endurgietningar, so þeir eru ecke so liwser ꜳ ad giora þad Gude lijkar. Aptur segier

hann

hañ: Slöckved ecke heilagann Anda. Pad skiedur nær Menn so venia sig ad synd-samlegt Athæse, ad þar finst eingeñ Varvatta Hollds ins og Andans, helldur lata Meñ Syndena drottna i sijnum daudlegum Lijkhama, so þeir þioona henne, þar med tapa Menn Andanum til fulls, og rata i Guds Ovingan. Hiner þridiu eru þeir, ed moot-standa heilögum Anda, so sem Drottenn sagde vid Gydinga, og hañs Pijslar-Vott-ur Stephanus: Pad skiedur, nær einhver forsmaaer Andann, nær hann aunadhvert straffar Syndena i Ordenu, edur og med sijnum iñre Verkunum i Hiartanu, og standa ma moote honum af ollu Megne, so ad þo þeir vite hvad riett er og hiaalpsamlegt, þaa smijda þeir sier Meiningar og Afsakaner ad moote Guds Orde, og Innblæstre heilags Anda, og leitast vid ad styrkia þær med þeim Rokum, sem Hollded og Diöfullenn fyr-er þar dyckta: Og þesse er hin sijdarsta Trappa, um hveria mier virdest ad Postuleñ tale til Hebræos, Cap.6. Ad valla edur ecke eige apturkvæmt til Ydranar. Giæte þvi hver og einn ad sialfum sier, sa ed þenna himneska Giest hefur einusinne hloted, ad hann læte sig af honum leida i allann Sañleika, hann breite eins og Ezechielis Dijr, þau geingu riett afram, eins og þeirra Andlit horfdu, hvert sem ad sialfur Andeñ foor, þaa fooru þau. So eigum vier og ad giora christner Meñ, ad medañ Gud geingur und-ann oss i Sky-Stoolpa siña Orda, hvar i Andenn bijr, þar vier ræsum i Eydemörku Heims þessa; Þvi ef vier gaungum i Andanum, þaa munum vier ei framkvæma Holld-sins Gyrnder, Gal.5. Þar hann leider alldrei neina til Guds, af hverium hañ fram-geingenn er. Trwed mier, christner Menn, ad mikel Gaumgiæfne heyrer til þess, ad rañsaka hvert Meñ hafa Vitnisburd heilags Anda um þad, ad þeir sieu Guds Born, edur og ad þeir leidast af sölskum Anda, sem lofe þeim Arfleifd Guds Barna, uppaa ovissa Von, sem heñar eru þo miñst verder, hvad margañ mun henda, þvi verr. Pad sia Meñ ecke einasta af Phariseunum, þeim Hræsnurum, er meintu sig alleina ad hafa Lykeleñ ad Guds Rijke; Enn hversu laangt þeir hafe fra þvi vered, vottar sialfur Sañleikureñ, Matth.23. Helldur og aa mörgum ödrum, sem ad soñu ecke efast um Guds Naad, eñ lifa þo einganveigeñ ad Guds Vilia, jafnvel þo ei dryge þeir Stoor-Glæpe; Þessum rædur Postuleñ nærsta heillt, er hañ segier: Reyned hvert þier erud i Trwñe, hvad ei verdur med ödru moote betur giört, eñ ad Meñ rannsake sinn Lifnad grandgiæfelega, þvi soñ Trw er alldrei aavaxtarlaus, helldur verkar hun fyrer Kiær-leikann, hver ad er Logmaalsins Uppfylling, og allar christelegar Dyggder hefur i sier foolgnar. Ad soñu er Jesu blessad Riettlæte þad saña Brwdkaups-Skart, sem Text-eñ umgietur, nær þad er med Trwñe houdlad; Enn Glanseñ aa þessu Tignar-Klæde, eru Verkeñ, sem af heñe framkoma, hver hana auglijsa, og um hana votta, þvi af þeirra Avoxtum skulud þier þeckia þaa, segier Frelsareñ um Ulfana, sem koma i Sauda-Klæd-um, og eins maa um Guds Born segia: Ecke hylur Farve Klædanna Lijte Lijkham-ans, ei helldur wtebyrger hann Frost og Kullda, helldur Fated, sem ad Lytenn byrger. So giora og Verkenn eingann riettlaatann, helldur Trwenn, sem þvi velldur, ad vort

Lioos so lijser fyrer Moñum, ad þeir vor Goodverk sia, og dijrdka vorn Fodur, sem a Himnum er, Matth. 5. Soolenn er ecke Byrta, eñ þo giefur hun Byrtuna fraa sier: Epled er ecke Eik, og þo ber Eikenn Epled: Trwenn er hélldur ecke Verk, eñ þo er hun alldrei aan Verkaña, þvi segier Jacob: Sijn mier þijna Trw af Verkunum. Vere þvi eingeñ so blindur, ad hañ ætle þad hañ sie riett-trwadur aa medann hann ecke ber Trwareñar Averte. Hvad skulu Meñ þaa tala uñ hina vondu Olld, sem vier lifum i? Eg skal giefa þeim eitt Hiarta og eiñ Veg til ad ottast mig, segier Drottiñ uñ Christñena a nija Testamentesens Dogum, fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 32. Mun þetta sieast hiaa morgum a vorum Dogum, þar ed so margt er Siñed sem Madurenn er, jafnvel i þeim Hlutum, sem heyra til Guds Dijrdkunar, og Saaluhiaalpennar vidkoma. Ad eg tale ecke uñ adra Hlute, so laangt er fraa þvi, ad Meñ hafe eitt Siñe til ad ottast Gud, ad i einu Lande, einne Byggd, i eiñe Sookn, er þar daüdlegt Hatur, Agg, Reide, Þræta, Tvijdrægne, innbyrdis Flaattskapur: Menn liwga hver uppaa annann Lijtum og Skomum, pretta hver annann i Kaupum og Solum, svijkiast aa innbyrdest med Kiassmælum, berande Huñaang i Munne, enn Gall i Hiarta. Hvad þaa? Eru Guds Ord ad Brygdmælge ordeñ? Fiærre er þvi, sie Gud sannsogull, enn aller Menn Lygarar, helldur er þad þess vegna, ad vier eruin so fraaleiter og olijker vorder hiñe fyrstu Guds Kyrkiu, þar aller christner voru eitt, og aller Hluter sameigennleiger medal hiña trwudu, og þo hallda aller sig hafa hid fagra Brwdkaups-Klæde til ad bera. Brædur mijner, vilied þier heyra þær Saker, fyrer hveriar Gud wtrak sitt Foolk i hina babyloniska Herleidingu, hvar þeir maattu lijda so skielfelegar Hormungar, ad valla hefur þvilijkt heyrst fraa Alldodle, þær standa skrifadar hiaa Ezechiel Spaamanne, Cap. 22. A þennann Haatt: Fodur og Moodur virdtu þeir einkis, vid hinn framanda hondlu þeir sviksamlega, Eckiunne og hinum fodurlausa giora þeir Oriett: Enn ad þessu leika Menn sier aa stundum og odru þvilijku; og þyker þad Hofmeñska vera: Mun nu Konungureñ þeckia þetta fyrer Brwdkaups-Klæde, nær hañ lijtur af Himnum ofañ, til ad sia epter Brwdkaups-Giestunum? Eg vil ei tala uñ Flaattskap og Underferle, er so miog drottnar i Heimenum, jafnvel medal þeirra, er vel christner heita vilia, og ætla sier einkis Aboota vant. Ein af þeim mestu Skomum, sem þvijngade Gud til ad yfergiefa sitt Foolk Juda, var hiñ staka Otryggd, sem drottnade a þeim Dogum; Þess gietur Jeremias, Cap. 9. Segiande: Vare sig hver einn vid sijnum Vin, og treysti ad ei uppaa neinn Broodur, þvi einn Brooder hañ bregdur odrum, og sierhver Vin hañ brwkar Afdraatt og gabbar Vin siñ, þeir tala ecke Sañleikañ, þeir kieña Tungu siñe ad tala Lygar, og þreyta sig i Raangsleitnenne. Segied mier, ef Jeremias mætte hverfa aptur til Lijssins, munde hann ei þeckia nockud þess haattar medal vor? Og maa þad eingvañveigeñ Brwdkaups-Klæde nefna, laangtum helldur vil eg kalla þad Andskotans Bodsmanns-Ham, er hann klæddur var, þegar hann talade vid Evu i Hoggorminum, og baud henne uppaa Epled; Þvi David og Paulus Rom. 3. Segia, ad Hogg-

orms

orma-Eitur sie under Vorum þeirra, enn Dioflullen er sier alltijd lijkur, og þad þess helldur, sem hañ veit ad hañ hefur styttre Tijma. Eg vil ei sva mier til Orda um hina Fadlegu Agyrne þeirra, sem wtsiwga Hws Eckna og fodurlausra Barna, og selia hiñ sonteka fyrer einn Skog. Margañ mun Gud sia i hinne almeñelegu Brwdkaups-Stofu sijns Sonar, þad er hiñe sijnelegu Guds Kyrkiu hier a Jordunne; Eg segie, hañ mun þar margañ sia lijkañ þeim sem framfalla i Pantsettum Klædum, ja, hann mun sia Blood siña voladra i Losum Klæda þeirra, hvad sijnest ydur, christner Meñ? Munu Meñ i þvilijkum Bwninge iñganga i Lambsins Brwdkaup? Langt er fra þvi: Fyrer þvi hreinsed ydur, þvoid ydur, læted af illu, lærid gott ad giora, Esa. 1. Gioried hvad riett er a hveriurn Morgne, og frelsed þañ sem Raaned lijdur af þess Hende sem underþrycker hañ, so ad Bræde Drottens ecke wtfare so sem einn Elldur, sa ed eingeñ fæ slockt, fyrer Illsku Saker ydar Athafna, segier Drotteñ fyrer Muñ Jeremiæ, Cap. 21. Enn vilie Meñ vita, hvad ad sie hid rietta Brwdkaups-Klæde, þa er þad Jesu blessad Riettlæte, med einnre sannre og lifande Trw umsadmad, sem adur er sagt: Enn hvad Avoxtum Trwareñar vidvijkur, sem alldrei kunna vid hana ad skilia, helldur eñ Byrtañ vid Lioosed, þa fæ eg þad ecke betur sagt, helldur eñ David i hinum fimtanda Psalme, med þessum Ordum: Drottenn, hver fær ad bwa i þinne Tialld-Bwd, edur hver mun hvijlast uppa þijnu heilaga Fialle? Hann sa ed framgeingur flecklaus og giorer rieft og talar Sañleikann wt af Hiarta, hver ed ecke svikfamlega mæler med siñe Tungu, og Naunga sijnum eckert illt giorer, og leggur sijnum Naunga eckert lastlegt til, hver hañ leider hia sier hiñ illgiarna, eñ i Heidre hefur hiñ gudhrædda, hver hann sver sijnum Naunga, og svijkur hañ ecke, hver hañ giefur ecke Fie wt uppa Okur, og tekur ecke Mwtu yfer hiñ saklausa, hver ed þetta giorer, hann mun stodugur blijfa æfenlega. Lijted nu hier, so sem i odrum Speigle, hvernenn þeim byrje hattlidum ad vera, sem riettelega eru til þessa Brwdkaups bwner: Enn vilie Menn þad ei heyra, þa heyred þo, christner Menn, hver ad urdu Endalok þessa auma Manns, er banvirdte Samsæted med almennelegum Bwninge: Binded Hanns Hendur Og Fætur, sagde Konungurenn, Og Kasted Honum J Hin Ytstu Myrkur, Þar Mun Vera Op Og Tanna Gnijstran. Ecke þarf eg margt ad segia af þessu Fordæmingarenar Lande, þad er noog, sem hier stendur: Ad Þar Sie Op Og Tana Gnijstran, og meir vantar oss þad, ad varast Helvijte, helldur enn ad vier ecke nærre gietum hversu heitt þad sie: Þesse vesæle Madur var ecke einasta wtrekeñ, wr Brwdkaupenu, helldur og var honum i Myrkvastofu kastad; So munu og aller þeir, er ecke eru Jesu Dijrmætum Riettlætis-Kyrtle skridder, þeir munu ecke einungis wtrekner verda fra Auglite Guds, og Styrkleika hanns Dijrdar, 2. Thess. 1. Helldur og i eilijfum Ellde brenna med Dioflenum og ollum hanns Arum. Þegar Israel heyrde, ad Guds Reider stodu i Horeb, nær Logmaaled var wtgiefed, þa hræddust þeir fyrer Elldenum, og þordu ecke nær ad ganga: Eñ hvad mun verda þegar hañs Reide tekur til ad brenna

 allt

allt til nedsta Helvijtis yfer þeim, er valla añad giordu, eñ ad briota þetta Logmaal, og ydruðust þo alldrei Afbrotañá, edur þeynktu um, ad afplaana þau mz Guds Sonar Forþienustu? Ellduren snerte ecke Gydinga, þo gaatu þeir ei stadest ad sier hann; Enn hvilijk mun þeirra Ofraun verda, sem i Helvijtis Elide velltast munu fra eine Eilijfd til annarar? Þar fyrer mijner elskanleger, siaed til, ad þier giored ydar Utvalningu vissa, 2. Pet. 1. Jklædest Drottne Jesu Christo, Rom. 13. Þad er hanns Riettlæte; Jklædest Herskrwda Riettlætisins, Eph. 6. Jklædest Bryniu Trwarennar og Kiærleikans, 1. Theff. 5. So ad þier verduger verded i Lambsins Brwdkaupe ad standa frame fyrer Gude, ifkrijdder biortu Lijn-Klæde, sem eru Riettlætingar heilagra, Apoc. 19. Þeirrar eilijfu Farsælldar, giefe oss Gud ad niota, fyrer Jesu sijns Sonar dijrmæta Blood og Forþienustu, AMEN.

# Tuttugasta og fyrsta Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Joh. 4. Cap.

Y Pañ Tijma. Þar var eiñ Kongs-Madur, hvers Sonur ad siwkur laa til Capernaum. Þaa hañ heyrde þad, ad Jesus var komeñ af Gydinga-Lande i Galilæam, foor hñ til hũs, og bad hañ, þad hañ fære ofañ og lækna de Son hañs, þviad hañ var ad mestu daudur. Þaa sagde Jesus til hañs: Nema ad þier siaed Teikn og Stoormerke, trwed þier ecke. Kongs-Madureñ sagde til hũs: Herra, far þu ofañ aadur eñ Sonur miñ andast. Jesus sagde honum þaa: Far þu, Sonur þiñ lifer. Og Madureñ trwde þeim Ordum er Jesus sagde honum, og gieck þadañ. Eñ þaa ed hann foor ofann epter, geingu hanns Þienarar i moote honum, kuñngiordu honum, segiande: Sonur þinn lifer. Hañ spurde þaa þar ad, aa hverium Tijma þad honum hefde batnad, og þeir segdu honum: J giær uñ siøundu Stundu hvarf fra honum Kalldann. Þaa formerkte Faderenn, ad þad var uñ þañ Tijma, aa hverium ad Jesus hafde sagt, Sonur þinn lifer: Og hann trwde, og allt hanns Heima-Foolk.

Exordium.

Hvad er sterkara enn Leoned? Søgdu þeir i Thimnath fordum vid Samson, er þeir hofdu raaded Gaatu hañs, Jud. 14. Eñ eg vil segia: Ad Trweñ er enn þaa sterkare, þvi hun sigrar þad Leoned af Kyne Juda, er hefur hinn frægasta Sigur unned, sem uñ Allder heyrst hefur. Þvi lijser hann blessadur, er hin canaaniska þreytte vid hann, enn hann sagde: Kona, mikel er þijn Trwa, verde þier epter

þy

þvi sem þu villt. Trwudum er allt mogulegt, þvi sagde og Frelsarenn, Matth. 17. Ef þier hefdud Trw so sem eitt Mustards Korn, þa mundud þier segia þessu Fialle: Far þadann og hijngad, og þad mun færa sig, eckert mun ydur omogulegt vera. Hvad velldur þa þvi, ad vier sem þo bæde vilium trwa, og trwum a Christum, ad vier ecke faaum ollu til Vegar komed, sem vier girnunst? Þar liggur Svar til, þad sama sem Frelsarenn sagde Læresveinunum, er þeir adspurdu hann, þvi þeir hefdu ei getad wtreked Twnglmeina Diofulenn, hann sagde: Vegna ydar Trwarleysu; Og þyrer þvi, ad þessa heilaga Dags Texte, giefur oss Ordsok til, ad tala framar hier um, wt af Dæme Konungs-Mannsins, þa vil eg af honum tvennt hugleida. 1. Veikleika Trwarennar, og heñar Framfør. 2. Guds Giædsku i þvi, ad efla hana.

Styrk oss hier til naaduge Fader, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Hver ad vered hafe Konungs-Madur þesse, eru margar Getur a: Lijkust er þeirra Meining, ad miñe Hyggiu, er ætla hann vered hafa eiñ af Herodis Þienurum, þvi jafnvel þo Herodes være ecke Konungur, helldr Fioordungs Hofdinge alleina, þa var hañ þo so nefndur af sijnum, og so odrum epter þeim, so sem ad lesa er hia Marcum i siotta Capit. Og hefur hañ þa an efa Gydingur vered, þvi Gydinga Þioonustu og Sidum lietst Herodes fylgia: Enn þo hann Gydingur være, og heyrt hefde Spaadoomana um Messiam, og af Jesu, þad hañ giorde þau Verk, sem eingenn kuñe ad giora, þa fæst hañ ei miked um hañ edur hañs Lærdoom, vegna hvers hañ var þo epter sijnu Spamanns Embætte i Heimeñ sendur: So geingur þad morgum af oss: Vier erum skijrder, vier erum i Christenndoomenum uppalder, vier kuñum ad þylia vorn Barna-Lærdoom, og sumer vita ad giora Grein a honum, med wtvortis Vidurkieñingu, enn hversu ad Kraptur Trwareñar sie rijkur i Hiartanu hia allmorgum, þad sijnest i Lijfernis Hattunum, þegar Gud a ad elska fram yfer alla Hlute, þegar Naunganum a til ad giefa hañs Misgiorder, og giora gott hinum volada, þad sijnest nær Holldeд a ad krossfesta, og i Krossburdenum þegar oll mannleg Hiaalp er wte. Drotteñ var i Cana þegar þetta skiede, þad var lijtill Bær og liggur hier um Þijngmanna-Leid fra þeirre stooru Borg Capernaum, þar giorde Jesus þad mikla Krapta-Verk, er hann snere Vatne i Vijn, þad var hid fyrsta er hañ giorde i þeim Stad: Þetta hefur Konungs-Madureñ heyrt an efa, og þvi leitar hann Drotteñs Hiaalpar, enn þo ecke nema til lijkhamlegrar Adstodar, af þvi hanns Sonar Neyd þreyngde ad honum; Eñ miklu meir la honum a þvi, ad brwka þetta Krapta-Verk sier og sijnum til andlegrar Heilsubootar, þvi sa er hiñ riette Avoxtur Krapta-Verkaña, og sa er Tilgangur Drotteñs, nær hann giorde þau, annadhvert fyrer sialfañ sig, edur sijna Postula: Eñ Gud naade oss, ad vier erum eins lynder og þesse Konungs-Madur var; Medañ oss lijdur vel ad ollu þvi sem Lijkhamanum vidvijkur, þa hyrdum vier ecke so miog um Saalena, og leitum ei Christs, jafnvel þo allt Hofuded sie siwkt, allt Hiartad

 veikt,

veikt, fraa Hvirfle og allt til Ilia sie þar ei nema Saar, Kaun, Beniar og Prote: Viet leitum hañs, segie eg, ef oss brestur nockud af Verralldar Munum, þegar vier siwker erum, þegar oss brestur Atviñu vora, nær vier offsookter erum, og Rangenden̄ lijdum, og vier eigum so ad giora; Þvi hañ er Meistare til ad hiaalpa, og vor Hiaalp kiemur fraa Drottne, sem skapad hefur Himen og Jord: Eñ ad leita Guds Rijkis og hañs Riettlætis, þar erum vier so treger til, jafnvel þo þad sie þad eina, sem er omissande, þvi giorum vier so, þaa munde oss allt añad til leggiast, og segied mier, hvad er vorre Trw þa betur haattad eñ þessa Konungsmañs? Hañ hefur ad vijsu Hofdinge vered. Nockrer ætla hañ hafe vered hiñ same og Chusa, saa ed vár Armadur Herodis, hvers Kviña Johañá ad sijdañ epterfylgde Christo af Galilæa, og þioonade honum; Og er þeirra Gaata ecke olijkleg; Þvi hier stendur um̃ þeña Mañ sijdañ, ad hann hafe trwad og allt hañs heima Foolk. Eñ fyrer þvi, ad hañ var Maktar-Madur, enn um̃ Christ hefur hañ ecke odruvijse meint, helldur enn um̃ eiñ Spaamañ, so sem Eliam, Elisæum og adra soddañ, þaa vill hañ ad Drotteñ kome ofañ med sier. Þesse er slijkra Fugla Tegund, ad jafnvel þo þeim ligge miked aa, vilia þeir laata sig virda framar odrum Moñum. Eins var Jairus Samkundu-Hofdinge lyndur, hver ed var sömu Borgar Madur, hañ beidde Drotteñ ad koma med sier, og leggia Hond yfer Doottur sijna, so sem hañ giæte ecke reist hana af daudum fiarlægur, og hefur hann þo aa efa heyrt þetta Dæme: Enn þo Drotteñ liete þad epter honum, þaa hefur þad ei vered þess vegna, helldr ad hañ giorde þad mikla Kraptaverk i Augsyn so margra, er i fyrstuñe daarudu hañ. Hversu lijkt er þetta Naaman hinum Syrlendska? Er Elisæus baud honum ad þvo sig sio siñum i Añe Jordan, 2. Reg. 5. Þa strauk hañ burt i Reide-Svip, og sagdest meint hafa, ad hañ munde hafa komed wt til sijn, og aakallad Nafn Drotteñs Guds sijns: Hañ leit aa Virdingar synar, eñ ecke aa siñ lijkþraa Kropp. Ecke giorde so hin Cananitska, ecke hin bloodfalls siwka, ecke hiner blindu, er saatu vid Vegeñ og kolludu; Herra Sonur Davids myskuna þu ockur, Matth. 20. Þesser beiddu um̃ Christi Hiaalp, so sem adra Olmusu, þvi þeir attu ei miklum Verralldar Aud nie Virdingum ad treysta: Og Gud giæfe vier villdum og þeckia þad, ad aller erum vier Drotteñs Þurfa-Meñ. Ecke gat Naaman kastad af sier Lijkþraañe, m; hañs mikla Gulle og Silfre: Ecke gat Ezechias Konungur bætt sier Heilsuna med allre siñe Makt: Og ei gat þesse Konungs-Madur teked Kolldona fraa Syne sijnum, añars hefde hañ ecke til Christum komed: Eñ miklu sijdur kuñum vier ad auka oss Trwna; enn Trwarveikena ordsakar marg opt þad Þeckingarleyse, er vier hofum, bæde aa Gude og sialfum oss: A sialfum oss i þvi, ad vier kollum oss ekkert omaattugt, nær ad Oskum geingur, enn aa Gude i þvi, ad vier treystum honum so lijted, þegar mañleg Hiaalp er wte. Eñ hvad er þo Madureñ? Ein Gusa er hañ, hver ed siest um̃ stundarsaker, eñ hverfr sijdañ, segier Jacob: Hvad er Vijntre fremur eñ oñur Tre? Verdur teked af þvi Efne til nockurs Verks? segier Drotteñ hiaa Ezechielem, Cap. 15. Og hvad er Madureñ aan Guds? Einn Jaugstyr, sem til einkis er hæfur, nema ad upp-

hoggvast og i Elldе brennast. Konungurenn af Egyptalande er Madur, og ecke sterkur Gud, Hestar þeirra eru Holld, og ecke Ande, segier Drottenn vid sitt Foolk, Es. 31. Er þeir treystu þessum Hofdingia framar enn Gude sijnum: Og hvad skylldu þeir þaa ætla uppaa sialfa sig, sem laangtum eru minne mattar; Enn Vantrausted aa Gude kiemur af þvi, ad Menn reiddu sig ecke uppaa hann, þegar vel gieck, helldur uppaa sialfa sig, og færdu Foorner fyrer Nete sijnu. Menn eru ovaner þvi, ad trwa i Voneñe aa moote edur framar Von, eins og Abraham, Rom. 4. Vier vilium siaa eitthvert Medal fyrer Augunum, ef vier trwa skulum, eins og þesse Konungs-Madur: Hann beidde Drottenn ad fara ofann og lækna Son sinn: Ad sonnu var þar nockur Trwar-Neiste hiaa honum, enn mieg so veikur: So erum vier og aa stundum Skape farner, jafnvel þo vier vel vitum, ad Gud hafe Þusund Veige til ad hiaalpa, þaa er þad so sem vier vilium skrifa hinum alvijsa einn Maata fyrer, hverneñ hann hiaalpa skule. J Þurrvidrenu bidium vier umm Regn, i Regnenu umm Þurk, enn ecke so umm Guds Blessan, i Ossooknunum umm Fall Ovina vorra, enn ecke umm Guds Adstod aa moote þeim, i Siwkdoomenum umm Heilsuboot, enn ecke so mieg umm Þoleñmæde: Laangt er fraa þvi, ad eg segie þad sie illa beded, þvi allt skal af Gude þyggia, enn þo aa þad ad vera med þvi moote, ad vier kostum allre vorre Ahyggiu uppaa Drottenn, fullorugger þess, ad hann mune þvi vel til Vegar koma: Enn vier verdum oþolinmooder aa stundum, ef vier ecke strax bænheyrder verdum, og þad so mieg, ad oss verdur Lijfed leitt eins og Eliæ, eins og Job, er hann sagde, Job. 3. Þvi giefur Gud Lioosed hinum mootlætta, og Lijfed þeim, sem eru Angurfuller, til hverra Daudenn ei kiemur, þo þeir bijde epter honum, so sem huldum Fiesiood? Þvilijk Ord og Hugsaner pressar Mootlæted optlega wt af þeim, sem jafnvel hafa morgum kiendt og styrkt hinar veiku Hendurnar eins og Job, enn þeim verdur riettelega svarad med Ordum Eliphas af Theman, er hann sagde vid þenna Guds Astvin: Mun hinn daudlege vera riettlaatare enn Gud? Mun Madurenn vera hreiñe enn hanns Skapare? Vier erum hanns Verk, þvi moglar þaa Leirkiered aa moote þeim sem giorde þad? Hvar fyrer eckert er annad Raad i Mootgaangenum, Born mijn, enn ad hallda stodugt aafram i Bæneñe, þvi komandi mun hann koma og ecke tefia: So giorde þesse Konungs-Madur, þo Trwenn være veik, þaa gaf hann samt ecke upp ad bidia: Drottenn svarade honum ad sonnu ecke af, enn þo i hardara lage, ecke ad sijdur bidur hann nærre somu Ordum, segiande: Herra Far Þu Ofann Adur Sonur Minn Andast: Og maa siaa, ad hanns Trw hefr efldst vid þau Ord, er Christur talade: Laatum oss ei fara midur enn þessum Manne. Ei visse hann ad Jesus var Messias, helldr ætlade hann munde vera Guds Madur nockur, lijkur Spaamoñunum, sinn aadur er sagt. Jesu Læresveinar voru ei sannfrooder umm hanns Persoonu i þann Tijma, auk helldur þesse okieñde Madur. Enn vier hofum heyrt so morg Taakn og Stoormerke epter honum, vier vitum, ad hann er af Gude wtgeingenn, vier þeckium, ad hann er aptur til Himens uppfarenn, og hefur Moñunum Gaafur giefed. Ecke þarf Gud Kraptaverkenn til þess, ad hiaalpa oss, þau eru giord fyrer hina vantrwudu, segier Paulus; Enn vier trwum,

og segiunst trwa, þvi er þa Trw vor so veik a stundum, ad vier trwum ei nema vier tökum a, eins og þesser Galilæi, er ecke trwdu, nema þeir sæu Teikn og Stoormerke, og strax sem vier ei finum til Bænheyrslunar i lijkhamlegum Efnum, þa kollum vier oss yfergiefna. Vantrwen er so megn, ad hun giorer Almætte Guds vanmaattugt, (ef so mætte ad Orde komast) þvi hun metur Guds Krapt epter Smaamunum sijnum; Þar yfer klagar Drotten, Zach. 8. segiande: Af þvi, ad þad er furdanlegt i Augum þessa Foolks, skyllde þad þa vera furdanlegt i mijnum Augum? Vitum vier ecke, ad þess nær vier erum Gude, þess meire hofum vier Smeck epterkomande Alldar, enn nu erum vier honum alldrei nær, en i Krossburdenum, ef vier berum Christi Ok riettelega. Segied mier, giorer Gud þa illa vid oss, ad han svarar oss ut af a stundum, nær vier bidium um þetta tijmanlega, til þess ad auka oss Trwna, og festa Hiarta vort vid þad eilijfa, sin vier eigum leingst vid ad bwa? Þegar Drotten nu svarade þessum Manne med fullre Bænheyrslu, þa segier Texten: Og Madurenn Trwde Þeim Ordum Er Jesus Sagde Honum, Og Geck Þadan. So efldest nu Trwa hans, er komu madr var lijtt-trwande, han raadgadest ecke um vid Holld og Blood, þegar han hafde feinged Trwna, helldur reidde sig einfalldlega og mz fullu Trauste uppa hans Ord, er han þo ecke þeckte ad fullu, og valla meir en han heyrt hafde, annadhvert sialfr, edur af odrum, sin voru i Jerusalem a Haatijdardegenum, og þvi er ecke ad undra, þo Guds Born treyste honum, hverium han i sijnu Orde er fyrer Augunum afmaladur, hverra Kraptur han er midt i Hormungunum, Offsooknunum, Angisteñe, þvi þa þau veik eru, megna þau alla Hlute, fyrer han, sin þau maattug giorer, eins og Paulus: Þegar Konungs-Madr þesse fyrst trwde, þa flijtte han sier ecke heim ad vitia um Son sin, þar af maa marka Trw hanns, þad var um siounda Stund ad han skyllde vid Jesum, þad svarar litlum Tijma epter Haadeige hia oss, og ei kom han heim fyrr en annars Dags epter, en Vegurenn er ei leingre en adur er sagt: Eins eru og þeir lynder, sem til fulls eru byggder a þan Hyrningar-Stein i Zion, Es. 28. Jesum Christum; Þeir flijta sier ecke miog, segier Spaamadurenn; Þeir hlaupa ecke med Þioofnum til ad stela, ecke taka þeir til faanijtra Raada eins og Achas, Es. 7. Ei giora þeir Samband vid Daudann, nie Saattmaal vid Helvijted med hinum gudlausa, Esa. 28. Helldr bijda þeir epter Drottne, styrkia Huga sin, og eignast Saaler sijnar i Þolenmæde, Luc. 21. Og sa ed sier temur þetta Hugarfar, i honum er Trwen fullvaxen, og Christur ad fullu myndadur. Og hvert skyllda eg helldur flijta mier? Drotten, ef þu værer reidur; Þo eg upphefde mig med Edom, eins og Ornenn, og bygge mier Hreidur medal Stiarnanna, þa munder þu kasta mier ofan þadan, Obad. v. 4. Og hvert vilia þeir ellta mig, nær þu ert nadugur, nema ad þijnum Footum? Hverra Skor ad Jorden er, og allar Þioodernar a henne fyrer þier so sin Vatns-Drope i Ausu, þar vil eg flatur liggia, þar vil eg fullorugg bwa, þar vil eg hæda ad ollum þijnum og mijnum Ovinum, þar vil eg Drottens bijda, og vardveita hans Vegu, þa mun han upphefia mig; Honum sie Lof, Dijrd og Heidur ad eilijfu, Amen. So er nu wt-talad um

Veik-

Veikleika Trwarennar og hennar Efling, epterfylger hid sijdara, er eg hiet umm ad tala.
Gudspiallamadurenn segier, ſkommu adur enn Textenn byriar, ad Jesus hafe fared butt i Galilæam, þvi hann hafe sialfur vitnad, ad Spaamadur hefde ei Virdingu i sijnu Fødur-Lande. Marger hallda, ad þar med sie Nazareth meint, sem var Fooſtur-Jord Drottenns, og so er hun kollud hia Matthæum, Cap. 13. Enn þesse Borg var og so i Galilæa, þvi gietur þad eins vel Judæa edur Gydinga-Land vered, hvar hann fæddur var: Enn hvernenn sem þvi er vared, þa reiste hann framm hia hinne vantrwudu Nazareth i þetta Sinn, umm hveria Matthæus sijdar ſkrifar, ad hann hafe ei giort þar morg Kraptaverk sokum þeirra Trwarleysis, og ferdadest til Cana, hver ed laa i þeim Parte Landsens, er nefndest Galilæa Heidingianna, þar laa og Capernaum, er var hin frijdasta Borg af þeim tiju Stodum. Þetta Land byggdu marger Heidingiar, þar voru Tyrus og Sydon, þadann var hin cananiſka, er þreytte vid Drottenn; J Capernaum var Hundrads-Hofdingenn, hvers Trw hann so miog hroosade. Þetta kiemur mier til ad prijsa hanns fodurlega Giædsku i þvi, ad snemma took hann til þess bleſſadur, ad lijta til vor Heidingianna, jafnvel þo hann sier i lage være sendur til fortapadra Sauda af Hwse Jsraels. Ecke er ad efa, ad þau morgu Kraptaverk, er hann giorde i Capernaum, er nefndest hanns Borg, þau hafa snwed morgum Heidingia a Lijfsins Veg. Enn lijtum nu til vor, christner Menn, sma voru Upptok Christnebodsens hia oss i fyrstunne, og ecke var liwflega a moote teked þeſſare Guds Giof; Vor Christenadoomur var og so miog i Veikleika framm epter Olldunum, þo hofum vier, sem nu lifum, og so Fedur og For-Fedur vorer til þess funded, ad þad er satt sem Drottenn segier i Epterlijkingunne, Matth. 23. Ad Himnarijke sie lijkt Muſtards-Kornenu, hvert ad einn took og saade i Akre sijnum, hvert ad er hid minsta af Sædunum, enn þegar þad vex upp, er þad hid stærsta af Kaal-Grøsunum, og verdur ad einne Eik, so ad Fuglar Himensens bwa sier Hreidur i Greinum þess. So hefur nu Gud eflt christelega Trw hia oss, sem i fyrstunne ei vorum nema lijted Sæde, þvi ei kunnum vier ad neyta þvi, ad ei bwe Christi Ord rijkuglega vor a medal. Vier hofum heyrt hanns Kienningar, hanns Kraptaverk, hanns Pijnu og Dauda, hanns Upprisu og Himna For, so ad Jesus Christus er oss fyrer Augum afmaaladur kroſsfestur a medal vor, ei sijdur enn þeim i Galatia, Gud giæfe, ad vor Christenndoomur þar epter auglijste sig i Trwarennar Avextum og Kiærleikans Verkum, so vier þecktum og findum til, ad Guds Rijke være inne hia oss.
Menn heyra ecke, ad Drottenn hafe stadnæmst i neirnre af Galilææ Borgum, fyrr enn hann kom til Cana, þar hafde hann adur giort þad mikla Kraptaverk, er hann snere Vatne i Vijn, so sem hier ad framann er umgieted, man efa til ad reyna hvern Avext ad Bæjar-Menn hefdu fært þar of, og hvad þeim hefde i Trwnne framm fared, enn þad maa merkia af hanns Svare vid Konungs-Mannenn, ad hann ei hafe funded fyrer sier alls ad Oſkum, þvi sagde hann: Nema Þier Siaed Taakn Og Stoormerke, Þaa Trwed Þier Ecke. hann talar ecke til hanns alleina, helldur til allra þeirra sem nalæger voru,

so sem bendande til þess, ad jafnvel þo þeir medtæke hann vegna Kraptaverkanna, so sem Gudspiallamadurenn segier, þa nædu þau samt ecke þvi Maale, hvar fyrer þau giord voru, sinn var, ad trwa þad hann være sa sinn koma skyllde, hvar fyrer hann og vijsade Johanni, edur riettara ad segia, Johannis Lærisveinum til þeirra. Þannenn breyter Guds fódurleg Giædska einnenn vid oss, til ad vekia i oss Trwna og adrar christelegar Dyggder: Hvad optlega straffar hann i oss Vantrwna, Bænarleysed, Avaxtarleysed, og Ololenmmædena, þegar hann talar vid oss i sijnu heilaga Orde? Vel sie þeim sem lia þvi Eyrun til nockrar Eptertecktar og Umbóotar Lijfernesins; Einn Gud naade, ad þad vill ei alltijd a eptersylgia: Vier heyrum Guds Ord med Leidendum a stundum, eins og Israels Syner aatu Manna a Eydemorkunne, og þo verdur oss so saatt til Naada i Angistenne, jafnvel þo hun sie þad Verkfære, med hveriu ad Gud umskier þau oumskornu Eyrun og Hiortun, sem ecke a annann Veg heyra nie trwa vilia. Ecke snerest Ephraim til Guds, fyrr enn hann var typtadur, so sem lijfadur Kalfur, Jer. 31. Ecke liede Manasses honum Eyrun, fyrr enn hann var beigdur i þwngum Jaarn-Vidjum: Ecke hlijdnadest Juda honum, fyrr enn hann lærde þad af Anaudenne i Babylon: Og ecke munde þesse Konungs-Madur hafa skipast vid Ord Drottenns, nema hanns Sonur hefde leiged daudsiwkur i Capernaum; So efler nu Drottenn Trwna i Krossburdenum, og er þad Maala sannast, ad þad sem omogulegt er fyrer Monnum, þad er mogulegt fyrer Gude: Þeim sem aan Guds eru i Heimenum, þeim er Mootlæted hin mesta Ordsok til Hugarviils, þad tekur allann Dug wr þeim sem ecke Gude treysta, enn hann sem reider sig uppa Gud, hann lætur Drottenn vera sitt Hiartans Traust og Hlutskipte, þo ad Lijf og Saal vanmegnest, þess gietur Jacob i hanns Pistils 1. Cap. segiande: Hallded þad fyrer hinn mesta Fognud, Brædur mijner, so opt sem þier rated i imislegar Freistingar, vitande þad, ad Reynsla ydar Trwar verkar Þolenmædena: Hvar fyrer verkar hun þaa Þolenmmædena? Þviad so leinge sem þar er einn Trwar-Neiste i Mannsins Hiarta, þaa er hann alldrei aan Guds, hversu lijtell sem hann er, enn Guds Kraptur er alldrei lijtill, þo hann bwe i litlu, þess vegna fullkomnast hann i Breiskleikanum, sagde hann sialfur vid Paal; Þar fyrer skrifar sa Guds Madur so kunnuglega hier um til Romveria, Cap. 5. Vier hroosum oss af Hormungunum, segier hann, vitande Hormungenn verkar Þolenmæde, enn Þolenmædenn Reynsluna, enn Reynslann Vonena, enn Vonenn lætur ei til Skammar verda; Þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum, fyrer heilagann Anda, sem oss er giefenn. Hvernenn verkar nu Hormungenn Þolenmædena, þviad hvar eingenn Hormung er, þar orkar ecke a Þolgiæded, þvi verkar Þolenmædenn Reynsluna; Um Ezechiam Konung stendur skrifad, 2. Chronic. 32. Ad Gud hafe freistad hanns so ad uppskatt yrdi hvad hann i Sinne hefde, ecke fyrer þvi, ad Gud visse þad ecke, þvi hvar fyrer skyllde hann ecke vita hvad med Mannenum bijr, sem Mannenn skapad hefur? Helldur ad hann reynde sialfann sig, hvad mikla Krapta hann hefde þeiged, til ad bera Guds Alag, ad hanns Trw og Von efldest

þess

þess meir framweigis, og þañen verkar Þoleñmæðeñ Reynslana, og Reynslann Von, ena, þviad Elska Guds er wthellt i Hiortum vorum: Vier lijdum, vier freistunst, vier þolum, og trwum þ ei ollu þessu, þviad vier elskum hann, sem reyner oss, og vitum, ad hvern þann Son sem hañ elskar, þann agar hann. Guds Sonur var so yferkomenn i Þijsłunum, ad hañ beidde ad hiñ swre Reideñar Kaleikur mætte frca sier takast, ef þad være Fodursins Wilie, og þo var honum Elskann so megn til vor syndugra, ad hann breytte vid Daudañ, og gaf ecke upp, fyrr enn þad var fullkomnad. Hier med hefur hann þad afrekad oss, ad vier hañ elskum, aller þeir, sem ca hañs Nafn riettelega trwa, þviad i þvi er Kiærleikureñ, ecke ad vier elskudum Gud, helldur ad sialfur Gud oss elskade, segier Johañes, 1. Joh. 4. Þvi skyllde þca ecke Elskañ til hañs vera so rijk i oss, ad vier lijdum þad med Trw og Þoleñmæde, sem hañ ca oss leggur, til þess ad verda honum lijker i Angistenne, so vier med honum fagna meigum i Dijrdenne. Þegar Drotteñ hafde nu svarad þessum Mañe nockud hardlega, og hann gaf þo ecke upp ad bidia, jafnvel þo þad være i Veikleika, þca vill hañ blessadur ecke wtslockva þeña lijtt-loganðe Hor-Kveik, helldur segier hañ: Far Þu, Sonur Þiñ Lifer. Þad Ord, sem i Textanum stendur, gietur og merkt, Hañ Lifer Heill: Hañ sem visse hvad med Mañ-enum bioo, hann þeckte, ad ei munde þesse Madur so þoleñmoodur edur trwarsterkur, so sem hin cananiska, þvi tefur hañ ecke framar fyrer honum. Merk hier þad, christenn Madur, ad Drottenn veit Tijma og Stunder, nær mcal er ad hialpa, þvi freistar hann einskis yfer Megn fram, so ad Trwenn þrotne ecke: Fyrer þvi, jafnvel þo ecke þyk-est þu gieta bored meira ca stundum, þca vit þo, ad hañs Stund er eñ þca ecke komeñ, sem ad hefur Tijma og Hentugleika i siñe Hende, Act. 1. Bijd þvi stodugle ga epter Drottne, þca mun hañ hneigia sitt Eyra til þijns Akalls, Ps. 40. Eckert sijnelegt Med-al sca þesse Konungs-Madur til þess, ad Barne sijnu munde hoolped verda, og þad brast honum, er hañ vonade hellst epter, sem var, ad Drotteñ munde fylgiast ofann med honum, þo trwde hann þessum Ordum, er Jesus sagde. Sæler eru þeir sem ecke sica og trwa þo, sagde Drottenn vid Thomam, af þvi hann ei villde trwa, neina hann tæke ca honum, vier kollum þca sæla, er Krapta-Verkenn scau, eñ hañ kallar oss enn sælle, er trwum ca hañ, can þess, ad vier sicaum þau: Ecke villdu Teiknen alltijd þess orka hica Gydingum, ad þeir snerust og yrdu hoolpner, þeir spurdu, hvert Teikn sijn-er þu, ad þier leysest þetta? Þegar hañ rak wt þca er selldu og keyptu i Mysterenu, og hañ giorde so morg Teikn ca medal þeirra: Þeir leitudu af honum epter Teikne af Himne, þegar hañ hafde wtreked Diofuł þañ, er Dumbe var, Luc. 11. Eins og þad være ecke i sialfu sier noogu berlegt Teikn. Hañ formællte þeim ohacklæte Borgum, Corazin og Betsaida, hvar hañ hafde giort hin flestu Teikn, og henne, sem jafnvel allt til Himens var upphafeñ, Luc. 10. Þessare somu Capernaum, er hier gietur um i Gud-spiallenu, enn margann hefur hann leidt ca Lijfsins Veg fyrer einsamlann Ordsins Krapt, og heilagann Anda, er verkar þar i, hvers vier og noted hofum, sem ecke sicaum,

og trwum þo: Ad sonnu eru Krapta-Verkenn til þess giord, ad efla christelega Trw, þad siaum vier berlega af þessu Dæme, sem nu er hondlad um: Þesse Madur kom til Jesum, af þvi hann heyrt hafde þad sem giordest i Cana og annarstadar, enn ecke i þeirre Meiningu i fyrstunne, ad læra Christeñdoomenn af honum, eins og Nicodemus, enn þo trwde hañ þeim Ordum, er Jesus sagde honum i lijkhamlegum Efnum, um Bata Sonar sijns, enn sijdañ, er hañ fieck ad reyna þad er hañ trwad hafde, þa segier Textinn: Ad Hañ Trwad Hafe, Og Allt Hanns Heima-Foolk. Med hverre Trw? Ecke ad hann være eiñ almeñelegur Spamadur, helldur Messias og Frelsare Heimsins, þvi so merker þetta Ord, Ad Trwa, optlega i Ritninguñe: Þetta Dadseindar-Verk, var ecke helldur ydiulaust, þad kom Jairo til ad bidia um Lijf-Giöf Doottur sinnar, þad leidde Hundrads-Hofdingiann til ad leita Hialpar sijnum daud-siwka Þioon: Vier hofum og þesse Undur heyrt, og morg onnur fleire, latum þau so styrkia Hiarta vort i Trwnne, ad alldrei vantreystum vier honum, sem er so vijs, so goodgiarn, og mattugur, hvad sem oss kañ til Handa ad bera, helldur glediunst, so sem Petur oss segier, ad vier hryggder verdum um lijtenn Tijma, ef Þorf gioreſt, med ymislegum Freistingum, so ad Reynsla vorrar Trwar verde fundenn miklu dijrmætare, enn Gullsins, hvert ed forgeingur, og verdur þo i Ellde reynt, til Lofs, Heidurs og Dijrdar; Þegar Jesus Christus verdur opennberadur, hvern vier elskum, enn siaum þo ei, hvern vier nu ecke siaande, enn þo trwande a hann, glediunst med oumrædelegum og dijrdlegum Fogunde, berande wr Bijtum Verdlaun Trwar vorrar, hvert ad er Saluhialpeñ. Heñar niootande ad verda, uñe oss Drotteñ allsheriar Konungur eilijfrar Dijrdar, fyrer Jesum Christum, A M E N.

# Tuttugasta og añann Sunnudag eptir Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 18. Cap.

Og Jesus sagde til siña Læresveina. Himnarijke er lijkt vid eiñ Konung, sem reikna villde vid Þioona sijna: Og er hañ took til ad reikna, kom einn fyrer hann, sa ed honum var skylldugur um tiju Þusund Punda, enn þar hann hafde þad eige til, sem hann skyllde giallda, skipade Herrann ad selia hañ, hañs Hwsfreyu, og so Borneñ, og allt þad hañ ætte, og borga þar med. Eñ sa Þioon fiell fram, tilbad hann og sagde: Haf Þolenmæde vid mig, allt skal eg þier giallda. Enn Herrann sa Aumur a þeim Þioon, og liet hann lausann, og gaf honum upp alla Skullden. Eñ þa hañ gieck wt, fañ hañ eiñ af sijnum Samlags-Þioonum, sa ed honum atte ad giallda hundrad Peninga, þann sama handtook hañ, greip fyrer Kverkar honum, og sagde: Gialld þad þu ert mier

skylld-

skylldugur. Og hañs Samlags-Ploon fiell fram til Foota hañs, bad hañ og sagde: Haf Poleñmæde vid mig, þvi allt skal eg giallda þeir. Eñ hañ villde ecke. Helldur foor burt, og liet hañ i Dyblissu, þangad til hañ hafde borgad sijna Skulld. Eñ sem hañs Sam-Ploonar nu hvad skede, urdu þeir miog hryggver vid, komu og kuñgiordu sijnum Herra, allt hvad ed giørst hafde. Þa kallade hañs Herra a hañ, og sagde til hañs: Þu illur Ploon, alla þa Skulld gaf eg þier upp, af þvi þu badst mig. Hvert byriade þier þa ecke myskunsomum ad vera vid þiñ Samlags-Ploon, lijka sem þad eg var þier myskunsamur? Og hañs Herra vard reidur, og ofursellde hañ Kvölurunum, þangad til hañ hafde borgad, allt þad hañ var honum skylldugur. So muñ og miñ himneskur Fader giøra vid ydur, ef ad hver ydar sem eirn fyrergiefur ecke wt af Hiarta, sijnum Broodur, hañs Misgiørder.

## Exordium.

Þad er skrifad uñ Augustum Keysara, ad þa þar eitt siñ doo eiñ Riddare, sem liet so miklar Skullder epter sig, ad hañs Arfur vanst hverge nærre til Luckningar, þa hafe Keysareñ boded, ad kaupa Sæng hañs til Handa sier, þviad Uñhyggia Stioornareñar hiellt Voku fyrer honum optlega: Teiknande þar med, ad sa Madur munde svefnsæll vered hafa, er hañ gat þo nockurn Tijma sofed, so miklum Skulldum vafeñ: Þvi hañ sem til Laans tekur meir enn hañ fær goldded, hann hefur Frelsed sellt, og er Þræll hiñs, sem hann skulldbundeñ er: Þess gietur hinn vijse, er hann segier: Sa ed bygger sitt Hws med annars Fie, hann er lijkur þeim er safnar Steinum ad Grøf sinne, Syr. 21. Enn Þrælleñ hefur eingar Naader, nema þær sem hañs Laavardur vill honum epterlaata. Hvernig sem þvi er nu hattad vor a medal, þa tekur þad yfer, ad vera okvittur vid hinn stoora Himens og Jardar Konung, sem ecke þarf ad leida Votta ad Skulld sinne, ecke sækia hana med Logum, ecke morg Uñsvif hafa til Atfarar, helldur kann ad varpa Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld nær honum þocknast, þvi veit eg ecke hverneñ sa kann ad hafa nockra Roo edur Hvijld, er veit sig okvittañ vid slijkañ Herra, so sem Skallded segier: Hver vill vænta sier Værd og Frid, vera osattur þo vid Gud? Eñ þad eru þo aller þeir, er ei villa tilgiefa sijnum Broodur hanns Misgiørder, so sem oss i þessa Dags Evangelio berlega kiennt verdur, af hveriu vier tvennt hugleida vilium. 1. Hvad miked og hverneñ Gud oss fyrergiefe. 2. Hvad miked og hverneñ vier eigum Naunganum ad fyrergiefa.

Hiaalpa oss i þessu Gudhrædsluñar Eyrende, naaduge Fader, fyrer hann, sem hefur betalad allar vorar Sekter, þinn Son Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

Hversu miked ad Gud oss fyrergiefe, verdur ecke fullsagt; Ef nockur visse hvad opt hañ syndgade, þaa mætte hañ-kañ skie nærre gieta hvad miked honum tilgiefed være, eñ David kallar þad omogulegt, er hañ segier: Hver skilr hvad opt hañ syndgar? Þo vilium vier nu fyrst hugleida, hvilijkañ Riett Gud hefur til vor, miklu er hañ stærre eñ saa, er vier eigum yfer vorum Viñu-Dijrum, þvi ecke hafum vier skapad þau, eñ hañ hefur giort oss, segier David, Ps. 100. Og þegar vier høfdum skotest under Andskotañ, og vorum i hañs Vallde, þaa hefur hañ endurleyst oss, þvi þier erud Verde keypter, segier Paulus, 1. Cor. 6. Ecke med forgeingelegum Hlutum, Gulle og Sylfre, helldur med Jesu Christi saklausu dijrmæta Bloode, hver ed hefur giefed sig Lausnar-Gialld fyrer alla, og þegar vier so endurleyster vorum, hefur hann helgad oss, þvi Guds Ande hefur kallad oss i hanns Vijngard; Fyrst i Skijrneñe, sijdann daglega i Ordenu og Sacramentunum, so vier erum ecke vorer eigeñ so sem Paall ad Orde kiemst, og þad er riett til vor talad, sem Drotteñ sagde vid sitt Foolk, Esa. 44. Þu ert minn Þræll Jsrael, eg hefe frelsad þig: Enn til hvers erum vier þaa skapader, frelsader og kallader? Ecke til ad vera jdiulauser, helldur til ad erfida, enn allra sijst til ad skeña edur spilla hanns Akre; Øllum af oss hefur hann sitt Pund i Hendur feinged, sumum meira, sumum miña, eñ aller hafa noog, þegar kiemur ad Reikningsskapar Deigenum: Þioon þesse var skylldugur Konungenum 10. Þusund Punda, þad eru 60. sinnum Hundrad Þusund Cronur, þetta var eingeñ Smaa-Skulld; Eñ þo er þad meira, sem Gud hefr oss laanad, sem er Lijkhame og Saal, hver Gud skoop i Ondverdu, epter sinne Mynd, hver hañ endurskoop, fyrer sijns Sonar Blood i heilagre Vatns-Laug, hver og daglega eiga fyrer heilagañ Anda ad endurnyast epter hañs Mynd, sem þau skapad hefur: Eñ gietum vier nu svarad Gude þessare siñe dijrmætu Skiepnu jafngoodre? Laangt er fraa þvi, ef vier niootum oss ei Fulltingis. Hefdum vier wt af daaed vid Skijrnar-Saaeñ, þaa vorum vier so ad kalla jafngooder, enn hversu opt hefur nu slettst uppaa vort Skijrnar-Klæde sijdañ? Lijkhameñ er hinn oædre Partur vors Skapnadar, þo eru bæde Saaleñ og hañ med Guds Bloode endurleyst, Hendurnar attum vier ad brwka til ad erfida, margur hefur lagt þær samañ med hinum lata: Til ad hiaalpa Naungan-um, enn sumer hafa wtriett þær til ad meida hann. Augun til ad siaa Aumur aa þeim voludu Guds, margur hefur stunged þau wt, þegar oss hefur giefest Ordsok þar til, enn ecke þegar þau hafa hneixlad oss: Eyrun eru oss giefiñ til ad heyra Guds Ord, þeim læsa Meñ fyrer þvi optlega, eñ liwka þeim upp fyrer Hiegoomanum; Sumer fyrer skamar-legum Ordrædum og fijfslegu Hiale: Munn og Tungu hofum vier þeiged til ad lofa Gud, og ad hiaalpa Naunganum, til ad tala Maale Ecklunnar, hins fodurlausa, og hins underþryckta; O vor Gud! Vertu naadugur, hvad margra Þusund Punda Skulld ad þetta verde, maa raada, ecke einasta af Tregleikanum til Bænareñar og Lof-giordareñar, helldur af so margre Vanbrwkun Tungunnar, Gudlaste, Roog, Lijge, Svardogum, Baknijælge, og allre þeirre Ohæfu, er Spilling Natturuñar leikur sier

ad,

ad,so sem odru Table; Ad eg fære mier ecke til Orda, hversu illa vier høndlum med þessa Tialldbwd Sælarennar, þar vier brioottum optlega nidur þad Guds Mustere, med ohoofsamre og osfickanlegre Umgeingne, og ef þar nu fellur þvilijkur Avoxtur af Lijkhamanum, hverium vier alldrei svarad fæum, meir enn Þioon þesse sijnum 10. Þusund Pundum, hvad mun þa ecke af Sælunne falla? Hosum vier brwkad Tilhneigingarnar til ad elska Gud og ottast hann, Viliann til ad stunda þad honum lijkar, Skynsemena til ad æfa sig i þvi, sem vors Fodurs er? Og ecke miklu helldur a moote honum, enn hver odrum til Skada, og Fiandanum til Þioonustu.

O Vei! O Vei! hversu diwpt erum vier þa sockner nidur i Afgrun Skulldana, og være þo allt goodra giallda verdt, nema ad vier afræktum þan Fiesiood, er oss er boden af einskiærre Naad, til ad bæta allt þetta fullum Bootum, og færum illa med sialfs Lausnar-Galldet, þad er Jesu dijrmæta Blood, sem hreinsar oss af ollum vorum Syndum. Oss er vitanlegt, ad i heilogu Altaresins Sacramento verda þeim ollum Skulldernar uppgiefnar, er þad verduglega medtaka, en hvad segier Paulus um hina? Segier han ecke, ad þeir ete og drecke sialfum sier Doom? Þad er Fordæmingu: Og segied mier þa, ad hveriu mun þeim gagna Sættmalans Blood, er hallda þad so almennelegt, og troda Guds Son under Footunum? Vier vitum, ad heilagur Ande upplijser oss, og helgar med sijnum Astgiofum: Hann leider þa i allan Sanleika, er sier laata stioorna af honum, han er Pantur Arfleifdar vorrar; En hversu opt hofum vier nu mootstaded honum? Hvad tijdt hofum vier hryggt han, hvad þrasinnum hofum vier nu slockt han, med vijsvitande Mootgiordum og Bodorda-Brotum i giegn Gude, og leiged i þeim ecke all-lijten Tijma, a stundum þvert a moote Samvitkune, so vier hofum mist Naadena, og hefdum hana ad fullu mist, nema Guds fodurleg Giædska hefde runed a moote oss fortopudum Sonum; Og af þessu sem nu er sagt, sem þo er eingan Veigen hælfsagt, þa kan hvers eins sannydrande Mans Hiarta ad dæma, hversu miked ad Gud honum daglega tilgiefe. Enn hverium tilgiefur hann þa, edur hveria Atferd brwkar hann i þvi? Þad sijner oss Texten: Hann Reiknast Vid Þioona Sijna; So giorer hann vid oss, hann kallar oss til Reikningsskapar, ad standa Skil a Ordum, Giordum og Hugrenningum; So kallade Gud sialfur Adam, er han syndgast hafde, so kallade han Ninive Borgar Menn fyrer Jonam, so stefnde hann David til Reikningsskapar fyrer Nathan Spaman, so stefnde han ollu Foolke a Holldtekiu Dogum Drottens, med Predikun Johannis skijrara, so stefner hann oss enn i Dag af Munne sinna Þienara, þeir hafa hans Krofu i Hondunum, þad eru hans Tiju-Laga Bodord, vor Medkiening er skrifud i Book vorrar Samvitsku; Hver sem þetta tvent saman ber, han mun finna, ad han ecke einasta er 10. Þusund Punda skylldugur, helldur og so miked a moote hveriu Bodorde af þeim tiju, er vier ættum upp ad fylla. Enn þo Menn heyre þetta nu so opt, þa eru þo ecke aller so liwfer a ad kannast vid Skulldena, og enn sijdur ad giallda, þvi þad er ei til, er giallda skal, hia sialfum oss:

Vid soddann Skullda-Prioota brwkar hinn riettlaate Konungur so sem nockur Konar Hardræde, Og Skipar Ad Selia Þaa, Þeirra Konur Og Born, Og Allt Hvad þeir Eiga; So sellde Gud sitt Foolk Israel, nær þeir voru honum þverbrotner, þar um spaaer Moyses, segiande: Deut. 32. Hvernenn ellter einn Madur Þusund Israels Menn, og tveir reka 10. Þusund a Flootta? Mun þad ei þess vegna, ad þeirra Gud hefur sellt þaa? Þar umm kvartar David, segiande: Ps. 44. Þu hefur sellt þitt Foolk fyrer eckert, og ei abatast af þeirra Verde; So selur hann þaa enn i Dag, sem ei vilia skipast vid hanns Þienara Aminningar, þegar hann leggur a þaa Krossenn, tekur af þeim Heilsuna, þeirra Kvinnum og Bornum, sem hanger af þeirra Saalu, eins og Benjamins af Jacobs; Svipter þaa tijmannlegre Blessan, edur giefur þaa i Valld Ovina sinna, ad ei skule þeir verda yfursellder i srælitt Sinne; eins og Pharao, Achab og Jeroboam, sem var selldur til ad giora illt, hveria hann hafde þo adur fyrer sig kallad, og er þad stoor Drottens Naad, ad hann breiter þanneg vid Syndarann, adur enn hann hefur uppfyllt Mæler Syndanna. Þegar nu so ber vid, þaa trwe eg flestum kome til Hugar, ad tijsta eins og Tranann, og kurra eins og Dwfann, og ad bidia inn þessum auma Þioon: Haf Þolennmæde Vid Mig, Allt Skal Eg Þier Giallda. Gud giæfe, ad sa Þanke være stoor ugre hia oss, enn hann var hia honum: Enn hvad skulum vier þaa giallda? Hvad a snaudur fyrer ad giefa? Þo vier lifdum Engla Lifnade, wr þvi vier snerunst til Guds, þaa ættum vier ad jata: Onijter Þioonar erum vier, auk helldur ad vier saum hina minnstu Synd afplaanad af oss til. Þetta er Hugguninn alleina, Ad Herrann Saa Aumur A Þeim Þioon, Og Gaf Honum Upp Alla Skulldena: I Uppgiofenne er oll Lwkningenn, i Myskunseminne oll Fullnægiann, i Christi Forlijkun oll Fridþægingenn: Enn er hun þaa alldeilis giefens? Ad sonnu, ad voru leite, enn dijrt hefur hun kostad vorn Borgunar-Mann, þvi hann gaf sitt Lijf wt fyrer sijna Saude, Joh. 10. Minn Herra Jesu! eg hugsa til þess, er Drottenn segier fyrer Munn Esajæ Cap. 13. Umm þær Hormungar, er Caldæi mundu lijda, af þeim Medis og Persis: Eg skal þad giora, ad einn daudlegur skal verda dijrmætare enn hid besta Gull: Teiknande þar med, hvilijkt ad verda munde Grimleike Ovinanna, ad Lijf Mannsins munde ei falt verda fyrer nockurt Verd. Enn hvad var aumt Mannkyn þess, minn Drottenn, ad þad maatte ei endurleysa, nema med þijnu Bloode, O! Gud. So mikel var Bræde Fodursins, so mikel hanns Riettlæte, so mikel Stærd Syndarennar, ad hin minnsta Yfersioon vard ei leyst med allrar Veralldarennar Aud, og so dijrmæt var þesse Skiepna, sem i Ondverdu var epter Gude skopud, þar fyrer bar Veralldarennar Skapare Veralldarennar Synder, og maa hier medal annara af Stærd Lausnargialldsins marka Þijngd Skulldarennar, sem upp er giefenn. Þegar Syndarenn nu so framkiemur fyrer Naadar Stoolenn, med angrudu Hiarta, i Krapte Jesu Forþienustu, þaa er honum Uppgiofenn vijs: Þvi hvar sem ad Syndenn yfergnæfer, þar yfergnæfer þo Naadenn miklu framar. Enn hvilijk Uppgiof? Hann Gaf Honum Upp Alla Skulldena, segier Textenn: So

ferþu Gud ad tilsiesa Misgiørdena, þegar hann er fridstilltur, þvi brwkar Rituing-
enn þessa Ordshættu, ad hann kaste vorum Syndum i Hassins Diwp, og vilie þeir-
ra ecke ad eilijfu minnast: Ad hann giore oss þær so fiarlægar, sem Austred er Vestrenu.
Hvad segier þu, Drottenn minn; Er þu talar um̃, hverstu lijted Fornernar gyllde i
þijnu Auglite, Esa.40. Fialled Libanus munde ecke duga til ad brenna, og oll þess
Dijr mundu ei hrockva til Brennefoorna: Enn þu, vor Gud, sem allt þetta næger ecke,
þu lætur þier nægiast mz ydrande Mañs Taar, þau slockva Elld þiñar Reide, þau deig-
la þad Stæled af Nordrenu, þau leggia Bond a hann, sem Diofulenn bunded hef-
ur; Þu, fyrer hverium ad Þioodernar eru ecke meir enn Vatns-Drope i Ausu, og so
sem Dupt i Metaskælum, þu ert ænægdur med einn harmþrwngenn og sundurknos-
adann Anda: Hvar fyrer? Ecke fyrer vorrar Ydrunar Skulld, sem ad jafnvel er
Synd af vorre Alfu, helldur fyrer Jesu Blood; Hvert ed teingest vid Syndarans
Taar i Metaskælenne a moots vid þitt Riettlæte. Þegar Drotteñ brixlar Jerusal-
em um̃ sijna Vanrækt og Þeckingarleyse, þa segier hann hia Esajam, Cap.50. Hvar
er sw Skilnadar-Skraa, er eg gaf ydar Moodur? Edur hver er saa, af mijnum Kaupa-
nautum, er eg hefe sellt ydur? Siaa, þier erud fyrer ydar Ranglætingar sellder, og sok-
um Frahvarfs ydar Moodur, er hun ein laatenn: Og þo segier hin eilijfa Giædska
fyrer Munn sama Spaamanns, taled þad sem Jerusalem er þocknanlegt, og predik-
ed heñe, ad hennar aakvardadur Tijme sie uppfylltur, hennar Ranglæte sie betalad,
hun hafe feinged tvofallt af Hende Drottenns fyrer allar hennar Synder: Þesse
allra huggunarsamlegustu Ord, eru so sem Inngangur til Spaadoomsins um̃ hinn
fyrsta Nija-Testamentesins Ydranar Predikara, Johannem Skijrara. O! minn
Herra Jesu; Hver hefur þad Gialldeð loked? Hver nema þu Gud? Hver ed i voru
Hollde lijdande hefur oss tvofalldann Fiesiood afrekad, sem er, Fyrergiefningu Synd-
anna, og eilijft Lijf; Þesse er Audur þijns Rijkis i ollu Evangelio, hverium þu Kon-
ungur Dijrdarennar, af einskiærre Naad wtbijter Þegnum þijnum: Nær vier heyr-
um Moysen krefia oss Skullda þeirra, er vier eigum Gude ad giallda, þaa moglar
Holldeð, þad geingur honum ecke betur hiaa þvi, helldur enn hiaa sijnum eigenn i Syde-
morkuñe: Þad vill laata tala þad, sem þvi er þocknanlegt, eñ hasta þu aa þad, Drott-
eñ, so þad þeige, straffa þad, so þad hrære sig ecke, ogna þvi, þvijnga þad, so þvi svijde,
þñ tala sijdann þad, sem Jerusalem er þocknanlegt, sem er, ad oss sie oll Skulldenn
uppgiefeñ, og laat oss ecke safna þeim sijdañ: Og er þad so wt-talad um̃ hid fyrra.

Epterfylger hid sijdara med faaum Ordum ad hugleida. Texteñ segier: Eñ Þaa
Hañ Gieck Ut, Hitte Hañ Eiñ Af Sijnum Samlags-Þioonum, Er Hovum Atte
Ad Giallda 100. Peninga, Þañ Sama Handtook Hañ, Greip Fyrer Kverkar Hon-
um, Og Sagde: Gialld Þad Þu Ert Mier Skylldugur. Ecke efast eg um̃, ad þesse
vonde Þioon hefur nærsta bliwgur, hræddur, og skialfande vered, þegar hann stood
frame fyrer Konungenum, og heyrde, ad þar atte Ad Selia Hann Sialfañ, Kviñu

Hañs

Hañs Og Born, Og Allt Hvad Hañ Atté: Eñ þesse Audmykt varde ecke leinge, strax sem hañ var wt af Dyrunum geingeñ, og hañ sꜳ siñ Verkanaut i vidlijkum Þrautum staddañ, sem hann hafde skomu ꜳdur vered, hondlade hann vid hann myskunarlaust. Gud nꜳde oss auma Meñ: Þegar vier lesum vort Synda-Registur, og Samvitskañ tekur ad lemia oss med Minningu Illgiordanna, þꜳ tꜳrunst vier fyrer Gud, þeir sem nockud hyrda um Sꜳlu sijna: Eñ Gud betre þad, ad vier munum so lijted til hañs Myskunar, þegar vier eigum Nꜳunganum ad myskuna, og sumer ecke meira eñ þesse vonde Þioon; Añars væru ecke þeir so marger, sem þrisvar, fioorum siunum ꜳ hveriu Are, lꜳtast taka Kvittun Synda sinna i Skriptar-Stoolnum, enn eru þo hardsvijrader, myskunarlauser, heiptrækner, og vilia ecke hid allrꜳ minnsta uppgiefa af sijnum Riette: Og þetta er nu so almént, bæde i Skulldaheimtum, og so i Uppgiof Misverkanna, ad þar um mꜳ tala þad, er Drottenn segier, Jer. 2. J Lofum Klæda þinna er funded Blood hinna voludu Sꜳlna, Blood hinna saklausu: Ecke þarf eg ad grafast epter þessu, þvi þad er yfer allt, segier Drottenn: Þu segier, hann er ecke saklaus, hañ hefur giort mier stoorum til: Eg segie, jw, hann er saklaus, þegar hann vill þad ofgiort hafa: Þvi Drottenn segier hiꜳ Lucam: Ef þinn Brooder syndgar ꜳ moote þier, þꜳ ꜳtel hann, og ef hann ydrast, þꜳ forlꜳt honum: Villtu þꜳ dyrfast ad kalla þann sekann vid þig, sem Gud hefur skipad þier saklausann ad hallda? Þu segier, hann hefur og i þvi Gude i moote broted, ad hann vid mig afgiorde, hvad kiemur þad vid þig? Siꜳ til ad þu giorer þijna Skylldu, sem er ad fyrergiefa honum; Hver ert þu sem annarlegann Þioon dæmer? Hann stendur og fellur sijnum Herra, lꜳt þier ei verda þad sem Petre er lꜳd, er hann sagde: Hvad skal þesse? Gief þijna Sok epter, lꜳt Gud rꜳda hvad hañ giorer af sinne; Eñ þad er vijst, ad hann tilgiefur honum hana, nær hañ ydrast, þvi er þad Skom fyrer þig, ad apturhallda þiñe, og nær gaf hañ þier Umbod til ad kræfia Skulldar siñar, nema þu siert Yfervalld, og eiger Guds Riett ad sækia? Eñ þar um giora Meñ sier ecke so ant ꜳ stundum, helldur lꜳta sinn fyrergꜳnga, jafnvel þo ad slijkt ætti ad gꜳnga þvert ꜳ moote þvi sem þad almeñelega tilgeingur, þvi Drottenn hefur sagt: Blessed þeim sem ydur bolva, enn ecke þeim sem bolva mier, og mun einngenn ofunda þig af þvi, ad fara til Helvijtis med þꜳ Hefnd er þu stalst frꜳ Gude. Þu segier, Gud gietur teked sinn Riett nær hann vill, enn eg ecke, eg vil taka medañ eg giet. Þu Vitfyrringur, af þvi ad þu ert vesæll og vanmꜳttugur, villtu þꜳ hafa stærre Riett enn hinn almꜳttuge? Enn þad er þier ecke ofgott ad taka þinn Riett þar sem Gud slepper sijnum, þu sier hverneñ þad gieck hinum vonda Þioon, Ad Herrañ Ofurselldе Hañ Kvolurunum, Þar Til Hañ Hafde Borgad Þad Hañ Var Skyllдugur: Enn Frelsarenn segier hier i Textanum: So Mun Og Miñ Himneskur Fader Giora Vid Ydur, Ef Ad Hver Ydar Sem Eiñ Fyrergiefur Ecke Ut Af Hiarta Sijnum Broodur Hañs Misgiorder. Drottenn segier: Hanns Misgiorder, hann tekur einga undañ, allar vill hañ tilgiefnar sieu, sama segier hann bak vid Drotteñlega

Bꜳrn,

Bæn, Matth. 6. Þar bidium vier, Ad Gud Fyrergiefe Oß Vorar Skullder, So Sem Vier Fyrergiefum Vorum Skulldu-Nautum, vilium vier þaa ad Gud forlaate oß ad nockru leite, og ecke ad ollu? Ei mun þad raadlegt, þvi hin minsta Synd vijsur til eilijfrar Fordæmingar, nema hun sie uppgiefenn og forlijkud, þvi saa sem hellдur allt Logmaaled, og verdur brotlegur i einu hañ er sekur vid oll, segier Jacob: Nu forlæstur Gud oß eins og vier Naunganum forlaatum; Þar fyrer, ef vier vilium ad hañ tilgiefe oß allar vorar Synder, þaa fyrergiefum vorum Broodur allar sijnar. Hañ Gaf Honum Upp Alla Skulldena, segier i Textanum: So eigum vier ad breita; Allt eigum vier ad uppgiefa, hverin Nafne sem heiter, hversu rijkt sem þad liggur oß i Skape, hvern Skada, Ovirding edur Vansa sem vier hloted hofum, þad maa ei gyllda, þad skal allt uppgiefa fyrer Guds saker, og mun þad eingum þeim ofgollded þykia, sm yduglega hugleider, hvad miked honum sialfsum sie af Gude uppgiefed, og hvad vardar mig um Ovirding þessa skynlausa Heims, þegar eg lioома eins og Sool i Rijke mijns Fodur? Hier mun margur spyria, hvert hañ sie skyldugur ad uppgiefa lanad Fie og Skullder, sem hann aa ad odrum? Þar til svara eg, ad ecke talar Drottenn um Fiaar-Heimtur i þessum Stad, helldur brwkar hann þetta Dæme i Epterlijkingunne til ad sijna oß Skylldu vora, i þvi, ad uppgiefa Misgierdernar: Eñ þo vil eg þar um segia: Ad ef þinn Skulldu-Nautur er so vesæll, ad hañ ecke maa missa þad sem hañ aa þier ad gyllda, nema hañ þar fyrer rate i Armood og Volæde, þaa byriar þier ad hafa Polenmæde vid hañ, og jafnvel giefa honum upp alla Skulldena, ef hañ maa ei añars lifa, eñ þier er fullborged, ellegar ertu sekur i hañs Dauda fyrer Gude, þvi hañ er þa Þurfa-Madur, enn Gud hefur feinged honum sinn Riett til þeß, sem þu hefur ofmiked.

Aptur munu Meñ spyria, hvert ei sie rieltvijst fyrer Gude, ad sækia Riett siñ fyrer Christelegu Yfervallde, aa moote þeim sem oß hafa tilgiort? Þar til liggur Svar, ad þad leyfest ad vijsu, ef Madur nær ei Riette sijnum aa añañ Veg, ella være ei Logeñ og Yfirvalldid af Gudi tilskickad; Ver olldiñ gietur og ecke aan þeß verid, sokum Rangsleitnis-ohlutvandra Maña, þo skal þad med slijkre Vareygd giora, ad ei raskest christelegur Kiærleike, og ad Sækiandeñ ecke hatest vid þañ, sem hañ varhent aa, nie hverigur vid añañ, ei helldur hlaupe til Doomarans forer Smaa-Mune hveria, alleina fyrer Metnadar Saker: Enn fyrer þvi, ad Medal-Hoofed er vandratad i þessu, þaa er framveigis verdt ad vita, hverneñ vier eigum ad fyrergiefa, og er þad fyrst ad athuga, ad þeir ed oß moote giora, eru med tveñu moote; Þar eru þeir sem giora oß til, og ydrast þeß ecke, þyker vænt um þad, hroosa sier þar af, edur bidia Forlaats til ad gabba oß, ad ei verde þeir afhendter Doomaranum, eñ hafa þo hid sama i Siñe, og itreka þad nær þeim rædur so vid ad horfa; Þessum eigum vier þo ad fyrergiefa med þvi moote, ad vier ei olum neina Heipt til þeirra, jafnvel þo vier neydumst til ad forsvara vort Nafn og Riette, vora Vine og Vanda-Meñ, vorar Eigur og Fiaar-Hlute, sem añars munde verda o-raadvondum Moñum ad Braad, ad vier þo ecke gledium̃st yfer

Oforum þeirra, helldur bidium Gud ad snwa þeim; So segier Salomon: Þegar Ovinur þiñ fellur, þa gledst ecke, nær hañ hrapar, þa fagne ei Hiarta þitt, ad þad ei siin-est illt i Augum Drottenns, og hann snwe fra honum Reidenne a þig, Prov. 24. Ecki oskum þeim neirnrar Hefndar af Monnum, nema þeirrar sem Log leyfa oss, og þo ecke ofta heñar frekare eñ Tilgiordeñ er, eñ þo miklu sijdur, ad beidast Guds Hefndar yfer þeim, allra sijst eilijfs Straffs; Þad er ein ogudleg Osk, sa ed þess bidur, hann bidur uñ slijka Hefnd, sem Gud alleina hefur Riett til, og er Afgudadijrdkare, hvad þo margt Foolk giorer i Osstæke Bræde sinnar: Helldur eigum vier og þessum ad fyrergiefa, eñ giefa Gude Hefndena, og jafnvel þo vier gaungum ad þvi vijsu, ad þeir mune leita a oss aptur: So giorer Gud, hann liet Pharao standa þegar hann beiddest Fridar, þo hann visse ad ei munde hann sleppa Israel, hañ fyrergaf Achab þa hañ klæddest i Seck, 1. Reg. 21. Visse hañ þo, ad sw Ydran munde ei leinge vara, eñ Frelsareñ hef-ur skipad oss, vered myskunsamer, lijka so sem ydar Fader er myskunsamur, og ecke tal-ar Drottenn uñ þad vid Petur, er hann skipade honum ad tilgiefa sijnum Broodur siøtiju sinnum siøsinnum, Matth. 18. Hvert ad hinn seke ydradest sinnar Mootgiord-ar edur ei. Adrer eru þeir, sem wt af Hiarta ydrast Mootgiordanna, vilia þad giarna bæta, er þeir broted hafa, og sijna þad i Verkunum, er þeir jata med Munnenum, þa eigum vier aptur i fulla Sætt ad taka, so sem ecke hefde a mille bored: So giorer Drottenn fyrer Muñ Zachariæ; Eg skal myskuna þeim, og þeir skulu vera so sem alld-rei hefde eg þeim i burtu kastad: Og hier meina eg ad eige heima sa Skilmaale, er stendur, Lucæ. 17. Og jafnvel þo soddann optlega til bere, þvi so giorer Gud vid oss, engenn af oss mun neita þvi, ad vier daglega syndgunst, og viñum ei nema til Hegn-ingar, og þo er hañs Naad ferst og nij yfer oss a hveriu Morgne, og alldrei hefur hann nockurn ydrande fra sier reked, hversu opt sem hann syndgast hefur. Ef vier nu vilium þessarar Myskunar niota, þa audsijnum hana og vorum Brædrum, añars hof-um vier aungva Hlutdeild i henne, og þær Synder, sem oss voru adur tilgiefnar, þær munu oss ad nyu tilreiknadar verda, eins og þessum vonda Þioon, þvi myskunarlaus Doomur mun yfer þañ gaanga, sem ecke Myskun sijner, segier Jacob, Cap. 2. Og er þad eiñ stoor Daarastapur, ad laata Heiptena so fyrer sig raada, ad Guds Blood og hañs Naad snwist þeim til Fordæmingar, er þañig breytir, og ad Meñ gaangi wr Skug-ga uñ þad ad vier skylduger sieum ad tilgiefa vorum Brood2, hversu opt sem hañ synd-gar, þa bijdur hann, Lucæ. 17. Ad honum skule siøsinnum a Deige fyrergiefast, ef hañ siøsinnum ydrast, lijklegt er, ad eingeñ mune optar brioota a Deige, og þo so opt yd-rast, eñ hverneg sem þvi er vared, þa merker þetta, so opt sem hañ brijtur, epter Ords-hætte Ritningareñar: Hiñ riettlaate fellur siøsiñum a Deige, segier Salomon, Prov. 24. Siøsinnum a Deige lofa eg þig, segier David, Ps. 119. Ef þier heyred miet ecke, þa skal eg straffa ydur siøfallt, segier Drottenn, Levit. 26. Þad er æfennlega, so leinge þier ecke heyred; Þad verdur og ad vera, þvi sa sem vill vænta Fyrer-

gief-

giefningar Synda sinna allt fram under Daudann, hann skal og hvern Dag fyrergiefa allt i Daudañ, nær honum giefst þar Ordsok til, og þad af Hiarta, segier Drottenñ hier i Gudspiallenu, an Yferdrepskapar, an Moglunar, Bryxles og Eptertalna: So gioter Gud, hann giefur öllum einlæglega, og telur ei epter, segier Jacob, Cap. 1. Þad er ei nog, ad Menn umgangest i Meinleyse, enn geyma þo einn Mordingia i Hiartanu, og kyssa a þa Houdena, er Meñ giarna villdu ad af være; Soddañ Fyrergiefning er Hræsne fyrer Gude. Herrañ sa aumur a þeim Pioon, segier Texteñ: Hañ kom st vid i Hiartanu, ad sia Eymd hañs, er i Þrældoom ganga atte, med Konu og Bornum, fyrdtur ollu sijnu: So stendur optlega um vorn Frelsara, nær hañ sa eitthvad aumt, ad hanns Ydur häfe hrærst af Medaumkan; So vill hann ad vier lynder sieum moote þeim, sem oss tilgiora, og ydrast þess. Þad er vel tilfunded i voru Maale, ad sia aumur a einum; Sa þad giorer, hann kieñer i Briooste um þañ sem hann mykkunar, hañ tekur sier nockud, hann ber nockud af hañs Eymd, og verdur sialfur aumur med sialfum sier, og þad kannskie ecke sijst þess vegna, ad hann veit, ad hañ hefur slijkt forþienad, og er slijku Volæde underorpenn, ef Gud vill. Hann sem tilgiefur af Hiarta, hann aalijtur hvad miked hañ sie Gude skylldugur, og hvad brádlega hañ kuñe þvilijkt ad hendda. Iklædest hiartgroodeñe Myskunseme, segier Paulus, ecke þeirre sem er a Vorunum, og segier; Eted og drecked, klædest og vermed ydur, enn giefur eckert hinum þurfanda, ei helldur hinne, er segier; Eg vil tilgiefa honum, enn gleymer þvi þo alldrei, er honum var tilgiort: Helldur þeirre sem hefur diwpar Rætur i þelalausu Hiarta; Elskar Ovine sijna, blessar þaa ed bölva, bidur fyrer þeim sem ofsækia, og giorer gott þeim ed misgiora; Og er eckert Skaplynde farsælla eñ þetta, eckert roosamlegra, og eckert sem betur Hag sijnum une; Þvi so sem ad hinn heiptræke hefur einga Roo, hanns Matur og Dryckur er honum swr og beiskur; þegar Foolskañ leggur wt i hvern hanns Lim og Lid, og honum flijgur Mootgiordeñ i Hug; So ma og um hinn segia; Er foottredur Orietteñ, þad sem David sijngur, Ps. 119. Mikeñ Frid hafa þeir, sem elska þitt Logmaal, og þeim mæter eckert Hneixle, þvi a medal þeirra hellstu Bodorda i Logmaalenu er, ad tilgiefa Misgiordernar, og þeir hneixlast ecke af Oriettenum, sem forsmaa Oriettenn; Þar fyrer vered braadlega samþycker ydar Mootstodu-Monnum, christner Meñ, a medañ þier erud eñ þaa a Veige med þeim, so ecke ofurselie Mootstodu-Madurenn ydur Doomaranum, Doomareñ afhende ydur Kvalaranum, og þier verded so i Oyblijsu kastader. Hvar fra hinn naaduge Gud vardveite oll sijn Born, i Jesu Nafne, og giefe ollum oss so ad umgangast hver vid annañ hier i Naadeñe, ad vier i eilijfum Kiærleika meigum samfagna hver odrum i Dijrdeñe. Þad bænheyre hiñ naaduge Gud, fyrer Sonarens Forþienustu, Amen.

# A Allra heilagra Messu.

Gudspialled, Matth. 5. Cap.

Þa er Jesus leit Foolked, gieck hañ uppa Fialled. Og þa hañ sette sig nidur, geingu hañs Læresveinar til hanns. Og hañ lauk upp sijnum Muñe, kiende þeim og sagde: Sæler eru þeir sem andlega eru volader, þviad þeirra er Himnarijked. Sæler eru þeir sem harma, þviad þeir munu huggader verda. Sæler eru hoogværer, þviad þeir munu Jardrijked erfa. Sæler eru þeir sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þviad þeir skulu sadder verda. Sæler eru myskunsamer, þviad þeir munu Myskun hliota. Sæler eru hrein-hiartader, þviad þeir munu Gud sia. Sæler eru þeir sem Frideñ semia, þviad þeir munu Guds Børn kallader verda. Sæler eru þeir sem fyrer Riettlætesins Saker ofsookter verda, þviad þeirra er Himnarijke. Sæler erud þier nær sem Meñerner hallmæla ydur, og Offsookn veita, og tala i giegn ydur alla Vondsku, fyrer mijnar Saker, þo liwgande. Fagned þier og vered glader, þviad ydvart Verdkaup er mikid a Himnum. Þviad so offsooktu þeir Spamennina, þa sem fyrir ydur voru.

## Exordium.

So er margt Siñed sem Madureñ er, segier i gomlum Maals-Hætte. Fæer eru þeir Hluter, sem aller gooda kalle, enn i þvi kiemur ollum samañ, ad þad sie gott ad vera sæll, og vanta ecke uppa þad þeir gyrnast, þo meta ecke aller Sæluna med einu Auga: Þad sem Paulus hiellt Þreck ad vera, þad kalla adrer Full-Sælu. Þad er skrifad um Anaxagoram Speking, ad Sælkiere nockur hafe spurt hañ ad einhveriu sinne, hver ad farsæll være? Og hafe hañ svarad: Eingenn af þeim, sem þu meinar, helldur sa, ed þu kallar vesælann ad vera, hañ er sæll. Og hid sama er ad segia um Børn Veralldar þessarar: Þad sem þau Sælu kalla, þad er reyndar Volæde, ef riett er aalited. Þesse Hatijdis Dagur er af Lærefedrum christelegrar Kyrkiu i Fyrndeñe helgadur ollum heilogum, þad er ollum þeim, sem hafa yferunned fyrer Lambsins Blood, enn þo sier i Lage þeim, sem i gegnum margar Hørmungar, Utlegd, Ørbyrgd, Hwdstrokur, Forsmaan, Hwngur, Klædleyse, Lijflaat, og allt þad illt, er þeir lidu fyrer Christi Nafns Skulld, þeim sem i giegnum oll þesse Ofsook, segie eg, hafa brotest inn i sijns Herra Dijrd, og þa nefner hañ nu sæla i Gudspiallenu, sem er Bruñur allrar Sælu, og fyrer utann hvern eingeñ Sæla maa nefnast, þvi hann er Gud alleina sæll, og þeir sem i honum eru, alleina sæler, og eingeñ sæll fyrer utañ þa. Drottenn hafde nærre þvi i hälft Ar predikad Evangelium Rijkesins, i hveriu þeim verdur Sælañ heiteñ, er þvi trwa: Hann hafde adur sagt, ad hver sem tryde a Soneñ, hann skyllde ei fyrerfarast, helldur hafa eilijft

Lijf, Joh. 3. Ad sä sem drycke af þvi Vatne, er hann munde giefa honum, skyllde ecke þyrsta ad eilijfu, Joh. 4. Og fleira þess häattar hafde hann talad um̃ Guds Rijkis Sælu. Enn so sem ad Kvinnan̄, er talade vid hann hiä Jacobs Brunne i Samaria, hun skylde ecke hvad hann meinte, þar hun sagde: Herra! gief mier þetta Vatn, ad ei þyrste mig, og ei þurfe eg ad koma hijngad til ad ausa Vatn: So hafa og flester af hanns Tilheyrendum vered ofrooder um̃ þessa Guds Giof, sierdeilis þar ed Lögmälsins Fyrerheit, vid hver þeir voru uppalder, þau voru annadhvert lijkhamleg, edur vafen̄ i Hylmingu lijkhamlegra Hluta. Fiollde Manns took vel þessum Bodskap i fyrstunne, enn þegar til leingdar liek vid, og þesse Fyrerheit ecke komu so bräd-lega fram, þä hefur Foolked geinged i tvær Sveiter, so sem räda mä af Joh. Gudspialla-Bookar siotta og siounda Capitulum: Og jafnvel hafa runned tvær Grijmur ä sialfa Læresveinana, þo ad bæde þeir og adrer säu Krapta-Verken̄, er hann giorde ä þeim tijmu i Galilæa, Matth. 4. Enn til þess, ad undervijsa bæde þeim og ödrum i sinne Rijkis-Stioorn, þä tekur hann þä hier afsijdis frä ödrum uppä Fialled, og talar fyrer þeim Eyrende Rijkesins, i hinne merkelegu Predikun, er ritud stendur i Matth. 5. 6. og 7. Capitulum: Hverrar Inngängur ad er þetta heilaga Gudspiall, af hveriu vier i þetta sinn hugleida vilium hina fyrstu Sælu, og tvennt þar af oss fyrer Hendur taka. 1. Hversu ad Fätækten̄ sie gagnleg. 2. Hveriu þeim heited sie, sem eru andlega volader. Enn þu sem ert alleina rijkur, styrk þu oss fätæka og auma til þessa Verks, so vier verdum i Gude rijker, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingen̄.

Sæler Eru Andlega Volader, segier Drotten̄: Eg veit, ad Men̄ greinast ä þar um̃, hvad þetta Ord voladur merke i þessum Stad: Bæde Augustinus og Chrysostomus hallda, ad þad sieu þeir ed afneita öllum sijnum Verdugleik, og kalla sig alls goods overduga, en̄ einkis ills; Og kan̄ eg þvi ecke ad neita, ad sw Meining sie og foolgen̄ i þessu Orde, þvi so eiga aller christner lynder ad vera, hvert helldur rijker eda fätæker eru, samt hygg eg þo, ad Lausnaren̄ meine hier sier i lage þä, sem eru snauder af Veralldar Munum edur Virdingum, þviad so mun þeim flestum hafa häattad vered, er honum i þad sin̄ eptersylgdu: Þad mä siä af þvi, er Kien̄emen̄erner og Pharisæi sogdu fordum, Joh. 7. Trwer nockur af Hofdingiunum ä han̄, edur af Pharisæis? Enn þesse Almwge, sem ecke kann Lögmäled, er bolvadur: Og þar ad auke skrifar Lucas alleina i sijnu Evangelio; Sæler Eru Fätæker, og er han̄ vijkur Rædu Drottenns til hin̄a, sem vesæler eru ad Guds Doome; Þä segier hann, Luc. 6. Vei ydur audugum, þvi þier hafed ydar Huggun medteked: Þä kalla eg þad vijst, ad Drotten̄ meine i þessum Stad, þä sem ei hafa miklu Veralldar Läne ad fagna, ecke alleina þä, sem örbyrger eru, helldur og þä, sem ä einhvern hätt eiga vid bägan̄ Kost ad bwa, þviad þvilijkra er Guds Rijke, segier Lausnaren̄: Þad eru þeir, sem eru eins illa

stadder og Dreigar, og þo ecke þaa alla helldur, þvi margur er fatækur, og skickar sier illa i sinne Fatækt, er oþolennmoodur, hleypur med Þioosnum til ad steia, viñur alla Ohæsu fyrer Sulltardoom, til ad rydia af sier Fatæktēne, sem i sialfre sier er eiñ heilagur Hlutur, þvi Guds Sonur hefur hana helgad med sijnu Dæme, þegar hañ giordest fatækur vegna vor, þar hann var þo rijkur, so vier af hañs Fatækt rijker yrdum, segier Postuleñ, 2. Cor. 8. Þar fyrer utann er hun Straff Syndareñar, og a einga Hlutdeilld i þessu Fyrerheite: So eru marger af þessum Hwsgangs Herrum, er gannga a medal vor, og leita sier Olmusu i Guds Nafne, enn giallda Bolvan fyrer Blessan, nær þeir ecke hafa wr hvers Manns Hende þad þeir vilia: Frasfiled er þetta Illþijde slijkre Naad, Gud myskunar sijnum fatækum, segier Esajas Cap. 49. Enn ecke Andskotans, þeir verda ad hafa slijka Myskun, er hann vill veita, sem þeir lioost til Þioonustu, ad vellta af sier Christi Oke a moote hanns Logmaale, er skipad hefur, ad sa skule ecke eta, sem ei vill erfida, 2. Thess. 3. Eñ Matthæus segier oss hier i Gudspiallenu, hverier þeir sieu er þesse Sæla tilheyre, þar hann leggur til þetta Ord, andlega, segier hann: Þad eru þeir, sem ecke orvænta i Volædenu, ecke eru oþolennmooder, helldur til Frids i Hormungunum, i Offsooknunum, i Angisteñe, i Naudunum, eins og Paulus, þeir ed ecke grijpa til oleifelegra Medala, og ecke ofunda þaa, er hafa Velgeingne Heimsþessa, helldur audmijkia sig under vollduga Guds Hond i Mootgangehum, og segia jafnañ, verde þinn Vilie: Þesser hroosa sier i sinne Fatækt, so sem Jacob ad Orde kiemst: Og þad eru þeir ed David kallar Guds volada, Ps. 72. Þetta er sw Fatækt, er eg meina ad ecke alltijd gagne til Himnarijkis. Margt ber til þess, christner Menn, ef vier þad vilium riett athuga: Þad er oss vitanlegt, ad vier dugum ecke til þess, ad giora tvennt i einu; Muñum vier þaa under eins fa þioonad Gude og Mamona? Og er þaa hætt vid þvi, ad ef annañhvern skal yfergiefa, ad þeim sem Skwrgod þetta fagurt þyker, þeir mune segia laust vid Gud, hvern þeir sia ecke, enn þijdast Mamona, hver ed glansar i Augunum, so ad margañ hender þvilijkt og Gydinga fordum, vid hveria Drotteñ segier, Esa. 22. Þier giored Farveg a mille tveggia Mwraña, fyrer Vatne hins gamla Fiske-Dijkesins, eñ þier lijted ecke a þañ, sem þad skapad og myndad hefur; Enn sa sem eckert a i Heimenum, hañ hefur miklu betre Ordsok og Tækefære til þess, ad verda rijkur i Gude, og fyrst hann þeinker ecke a jardneskann Aud, þaa skal hañ alldrei draga hañ fraa þeim himneska. Sa sem miklum Aude safnad hefur, hann liggur a sijnum Dreggium eins og Moab, Jer. 48. Hann hefur sijna Umgeingne a Jorduñe, þar sem hañs Fiesioodur er, þar er hanns Hiarta; Eñ Dreigeñ þarf ecke ad geyma vandlega þad sm eckert er, hañs Umgeingne er a Himnum, hvadañ hañ vænter Frelsarans Drotteñs Jesu Christi, ef hann er añars andlega voladur, hann kieppest vid ad safna sier Fiesiood a Himnum. Þar eru og kann skie fæer sem hafa riettfeingeñ Aud i Heimenum, þvi heiter hann og Rangslætis Mamona; Eñ a þessare Audlegd, sem i Himnenum er, eiga aller Kost ad saklausu, Gaungu-Madureñ

so

so vel sem Konungurenn, blindum, holltum og lømudum er þar tilboded, þeir kaupa fyrer alls eckert, sem hann eiguast, og hversu ad þeir sieu hæfare til ad naa þessare Audlegd, sem ei hafa miked epter ad draga, þad kienner oss Frelsarenn, er hann segier, ad hægra sie Ulfalldanum ad gaanga i giegnum Naalar-Augad, enn rijkum Manne inn i Himnarijke; Eg vil ei þar um tala, ad Rijkdoomurenn aflast med Erfide, geymest med Ahyggiu, og missest med Sorg, ef missast skal, enn sw Sorg er sialldann aan Syndar; Morgum hefur hun steypt i Orvænting, og dreiged til ad bæta Raad sitt aptur med Raangindunum, og ad vijsu eru flester opoleñmooder yfer Skadanum: Faaer eru eins lynder og Job, er hann sagde: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafned Drottenns blessad, Job. 1. Enn sa griet alldrei fyrer Gull, sem ecke aatte þad: Hann sem er sannur Guds Vesælingur, hann er sem andlega voladur, þo hann misse þann Faatækdoom, er hann brwkar til Dags og Nætur, þaa hefur hañ eckert af siñe Audlegd mist, þvi hun er i Himnenum, hun skiemest ecke, segier Petur, hana skal eingenn fraa honum taka, og þo hann skyllde i Hwngre og Klædleyse wt af deya, þaa flijter þad honum alleina til Rijkis. Þad er skrifad um Alexander hiñ stoora, þañ fræga Konung, ad þegar Lid hañs var allt Of þwngbwed orded af Herfaangenu, so honum þootte lijted framgeingt verda, þaa brende hann upp Faung þeirra, og huggade þaa med þvi, ad þeir munde safna Ogryñe Fiaar, ef þeir liettu þessu af sier, eñ sæktu med Flijte til þeirra Landa, sem væru audug af Gulle og Silfre. Meige eg nu samañ taka þad sem sundurleitast er, þaa sijnest mier, ad hinn alvijse Konungur giore vidlijkt med Faatækteñe vid sijna volada, þvi nær þeir hafa orvænt sier veralldlegs Auds, þaa kieppast þeir epter þeim himneska, þegar þeir ætlast til einkis Lids af Monnum, þvi faaer eru Viner hinns snauda, Prov. 19. Þaa leita þeir Lids hia Drottne, og nær hann hefur, so sem i Speigle, laated þaa siaa Dijrd sijns Rijkis midt i Orbyrgdenne, þaa giora þeir Skoll ad ollu Oflæte Heimsins, og er þvi Avoxtur Faatæktareñar þesse, ad hun gyrnest ei meir enn hun hefur, og er hun þaa rijkare helldur eñ Salomon edur Assverus; Jaa, hun gyrnest eckert nema siñ Gud, og hañ stendur hinum faatæka alltijd til Boda: Eñ sa er aagiarn, sem vill eiga meira eñ Himens og Jardar Skapara. Aller vitum vier þad, ad vier baarum eckert iñ i Heimenn, og eins vel, ad eckert munum vier i burtu bera, jafnvel þo sijnast meige, ad nockrer þad ecke satt hallde, annars mundu Meñ leggia meire Hug aa, ad lifa vel, enn verda rijker, og helldur þad þvi, ad Hiartad er so diwpt nidur sockid i Maurana, ad sumir giæta þar ecke ad, fyrr enn Daudeñ grefur þaa upp, til ad leggiast i eina adra Grof: Þeir gleyma þvi, ad nakter komu þeir af Lijfe Moodur siñar, og so munu þeir þangad aptur fara, Job. 1. Þad er ofañ i Jordena, sem er allra Mooder. Þar er eingenn kiendur, sem hañ kiemur ecke, fyrer þeim volada: Hañ aa ecke vid miken Heim ad skiliast; Þvi skal þad ecke draga hañ fraa Himnarijke, og sw Audlegd, er hañ aatte i Gude i þessum Heime, og ecke var nema Pantur epterkomande Farsælldar, hun fullkomnast, nær hañ iñgeingur i Dijrd sijns Herra, og ræteſt aa honum þad, er Sprach skrifat: O! Daude

Hver-

hverſu goodur er Þinn Doomur hinüm fatæka? Vier vitum hverſu ad hin liootu Skryniſle, er Synden og Dioſulliñ hafa ſært iñ i Verolldina, Agyrne, Oſund, Oſriiki, Drambſemie, Ohoof og Rangiæte, hverſu ſegie eg, ad Þad ſie gagnſtædt Himnarijke, enn allt Þetta vill hanga vid Rijkdoomienn; Saa ſkal vel gæta ſijn, er ecke hefur neitt ſnert af Þeſſu, ef hann rijkur er, Þar fyrer ſegier Paulus; Ad Þeir ſem villia rijker verda, Þeir ſalle i Dioſulſins Snorur; Eñ Fatækteñe er eingannveigenn ſo hætt vid ſlijkt, og ad viſſu ecke Þeim, ſem er andlega voladür, Þvi hann er nær Himnarijke, enn hinn, nema ſaa rijke aſtunde ad vera i Gude rijkur, og i goodum Verkum, og ad viſſu hefur Chriſtur lagt Grundvoll ſiñar Kyrkiu i fyrſtuñe af hinum fatæku, Þad kieña oſs Þeſſe Frelſarans Ord, er i Gudſpiallenu ſtanda, og med ſama Hætte hefur Þeſſe Bygging riſed epter hanns Himna-For, Þad auglijſer Paulus, er hann ſkrifar til Corinthios, Cap. 1, Sioed ydar Kollun, Brædur, ad Þier erud ecke marger volldüger, ecke marg-er goſuger; Þad kienner oſs Jacob Poſtule, hver ed var a Lijſe Þriatljü Arum epter Þad Drotteun var iñgeingenn i ſijna Dijrd, ſeglande: Cap. 2, Heſur ecke Drottenn utvaled hina fatæku i Heime Þeſſum, rijka i Trwñe, og Erfingia Þeſs Rijkis er hann ætlad hefur Þeim ſem hann elſka, Þeſſa alvijſa Byggingarlags hefur margur audugur ſijdañ noted, Þvi er Þad Synd ſyrer oſs, ad forſmaa Guds volada; Enn faaer voru Þeir af Rijkismoñum, er geingu Drottne til Handa, medañ hañ umgieckſt i Holldenu; Eg ætla Þegar Menn taka Zacharjam og hanns Hws, Nicodemum, Joſeph af Arimathia, Johannem: Hws-Frw Chuſæ, Þegar Menn taka Þeſſa burt, Þaa mune hiner teliande, ſem ſkipuduſt vid hanns Kieñingar af Hofdingiunum, utañ Þeir ſem Neydeñ droo til, ſo ſm voru Jairus, Konungs-Maduriñ, og Hundrads-Hoſdingenn, og eru Þeir Þaa i Selſkap med fatækum, ſo ſem adur er ſagt.

Hier af alykta eg nu ſo, ad eins og eiñ vijs For-Smidur, hañ velur hid beſta Efne til Þeirrar Byggingar, er hañ ætlar ſier vel ad vanda; So hefur og Frelſareñ breytt i Þeſſare ſinne Kyrkiugiord, hañ hefur valed Þad i Underbygginguna, er hañ ſaa hentugaſt var, Þad voru hañs fatæker; So var hañ ſialfur, ſem var Hyrningarſteirneñ i Þeſſu mikla Forvirke, ſo voru hin ſterkuſtu Mattar-Trie Þar i, ſem voru hañs Poſtular, uppa hverig vier byggder erum, ſo voru Þeirra Epterkomend: fram epter Olldunum, Þar til Dioſulleñ ſpillte Þeſſu Guds Verke med Agyrndeñe, Oſundeñne, og Drambſemeñe, ſo ſem liooſt er af Chriſtendooms-Sogunum, og ſiaa Menn af Þeſſu medal aññara, hverſu ad Fatæktenn og Guds Rijke eiga vel ſamañ, enn Þo ad Rijke Drotteñs Jeſu hefde ſijn Upptok hier a Jordunñe, ſem var af umkomulitlum Fiſkurum, olærdum og einkis megnande, Þo Þad eflſt hafe fyrer utañ allt Ofbellde, Haareyſte og Vopnaburd, Þvi eingenn heyrde hanns Rauſt a Strætunum, og hanns Rijke var ecke af Þeſſum Heime, ei helldur Vopn hanns Herfarar lijkhanleg, hvers Strijdsmeñ ad hofdu Tunguna fyrer Veriu, Þolenmædena fyrer Atvinnu, Trwna fyrer Skiolld, Kiærleikann fyrer Vijge, Fatæktena, ja, ſialfviliuga Fatækt a ſtund-

um, i stadenn Gulls og Silfurs, er Heimurenn kallar Afl þeirra Hluta, sem hann vill lꜳta Framgang hafa, samt hefur þo eingenn af Veralldar Hofdingium so vijdt wtþaned sitt Vellde umm Heimenn, so sem hann, þvi Gud hefur giefed honum Endemork Veralldarennar til Arfleifdar, so þad er ad fullu og ollu rætt, sem Esajas fyrer-spꜳer, Cap. 2. Þad skal skie ꜳ sijdurstu Dogum, ad nær þad Fialled Guds Hwss er sett uppꜳ adra Fialla-Tinda, og upphafed yfer Hꜳlsana, og allar Þiooder skulu þangad samann safnast. Hvert er þad Fialled? Þad er Christi Rijke: Hvert er þad Hwsed? Þad er hanns Kyrkia: Hver eru þau Fiollenn? Þad eru Rijke Veralldarennar, umm Heimenn: Iꜳ, eingenn hefur so fliootann, so fræganm Sigur unned, sem vor Konungur, og þo med fꜳum og fꜳtækum Monnum; Hann lagde under sig meira Rijke med tolf Postulum ꜳ stuttum Tijma, enn Alexander hinn stoore ꜳ tolf Arum med ollum Griklands Her. Einn Madur, St. Pꜳll, hroosar þvi, ad hann hafe allt i frꜳ Jerusalem inn til Illyricum uppfyllt allt med Evangelium, so þad er sannkveded, er Esajas skrifar; Mun Jorden fæda ꜳ einum Deige? Mun ein Þiood gietenn verda i einu? Þar Zion geingur under eins þvongud med Born sijn og fæder þau, Esa. 66. So hefur nu hinum stoora allsheriar Konunge þocknast ad byggia sitt Rijke med Fꜳtæktenne, þvi skylldu þꜳ ecke Þegnar hanns kalla hann ollum Rijkdoome rijkare? Þar hann er alleina rijkur, sem þad hefur wtvaled, sem audvirdelegt er fyrer Heimenum, enn Gud nꜳde oss auma! þad er hinn allra meste Skade vor, ad þo vier berum oss ad þioona Gude, þꜳ haungum vier so fast vid Audenn og Aura-Safned, ad Menn gleyma Guds Bodordum, og stijga framm yfer þau Takmork, er hann hefur sett oss, so erum vier freker til Fiꜳrens: Enn hvad er þad, christner Menn? Þad er ad færa Fogrner i Jerusalems Musterenn, enn offra þo samt ꜳ Hædunum, þad er ad sveria vid Nafn Drottens, og þo under eins vid Malcom eins og Juda. Heyrum þvi Ord Drottenns af Munne Jeremjæ: Ef þu ætlar ad snwa þier aptur til mijn, Israel, þꜳ snw þier, og reika ecke hijngad og þanngad. Einganveigenn er þad hier med sagt, ad Menn skule kasta frꜳ sier allre Umhyggiu fyrer Lijkhamanum; Alla Hlute hefur Gud Mannenum under Fætur lagt, til þess hefur hann giort Nꜳtturuna so rijka, ad Mannesklann skyllde audgast þar af; Eckert hefur hann forgiefens skapad, helldur Mannkynenu til Nota, enn sier til Lofs og Dijrdar; Enn hitt segie eg, ad Menn lꜳte Gud vera Herrann, enn Mammona Þrælenn, jꜳ, ad vier sieum Audsins Herrar, enn lꜳtum ecke hann drottna yfer oss, enn þo allra sijst, ad vier lꜳtum þenna þietta Leyr so klessast vid Hiarta vort, ad vier gleymum Gude edur hanns voludum. Og er þad nu so wt-talad umm hid fyrra.

Nu eptersylger ad tala umm þad, sem hinum andlega voludu heited er. I Textanum stendur: Þviad þeirra er Himnarijke. Nu er Guds Rijke med tvennu moote: Eitt er hanns Nꜳdar-Rijke, hvert og kallast Himna-Rijke, Matth. 18. Þar ed stendur: Himna-Rijke er lijkt einum Konunge, sem reiknast villde vid Þioona sijna. Annad er hanns Dijrdar-Rijke: Sꜳ sem vill nꜳ til þess sijdara, hann skal endelega hafa

Hlutdeild i hinu fyrra, og eingeñ hefur ſa komeſt i hanns Dijrdar-Rijke, ſem ecke hefur adur vered i hanns Nꝍdar-Rijke; Sumer leingur, ſumer ſkiemur: Þar eru nockrer kallader ſneḿa Morguns, adrer ecke fyrr eñ uḿ hina elleſtu Stund, enn þad er vijſt, ad hverutveggiu þeſſu lofar Drotteñ þeim, ſem ad eru andlega volader, og þeirra lijkum. Hver eru þa Giædenn i Drottenns Nꝍdar-Rijke? Ecke Metord, ecke Audæfe, ecke Sællijſe i Mat og Dryck, ecke Hefnd yfer Ovinum ſijnum, nie þad Hiartalag, er feſte ſig vid nockud af þeſſu, þo þad meige þeñi giefaſt, ſem eru Chriſti Þegnar, þvi Guds Rijke er ecke Matur og Dryckur, helldur Riettlæte, Fridur og Fognudur i heilogum Anda, ſegier Paulus, Róm. 14. Og wt af þeſſum hanns Ordum vil eg i ſtuttu Mꝍle ſegia, hver ad ſieu Audæfe Guds Nꝍdar-Rijkis: Þad er Riettlæted, ecke vort eiged, ſem ecke er betra eñ nidurlags Fat, þegar þad er ſem koſtulegaſt, helldur Jeſu Chriſti, hver oſs er til Riettlætis af Gude giefeñ. Skyllde eg nu vilia taka nockurn Veralldar Aud fyrer þad, Drotteñ minn? Fyrer þad eru mier Syndermijnar tilgiefnar; Enn þegar þær eru kvittar, þa er eg rijkare i ollu mijnu Volæde, eñ Salomon i allre ſinne Dijrd; J þvi ma eg byrtaſt fyrer Auglite þijns Fodur, enn ecke i Pelle og Purpura hinns rijka Sælgiætings, Luc. 16. Fyrer þad mun eg Guds Barn kalladur verda, eñ ecke þo eg nefndur være Doottur Sonur Pharaonis. Hvad gagnar þad Mannenum, þo hann eigneſt allann Heim þeña, eñ lijde Topun a Sꝍlu ſinne? Hverre eg veit ad borged er, medann eg a þann Fieſiood, ſem hun er endurkeypt med. Þo ad Sveinnenn Conia være Signets-Hrijngur a minne hægre Hende, þa ſkyllda eg ſlijta hann þadann, ſegier Drottenn uḿ Jeconiam, Son Jojachims Gydinga Konungs, Jerem. 22. Eñ eg er þeſs fullvruggur, Drotteñ, ad þu ecke ſlijtur þijna volada wr þijns Sonar Hondum, hvar þeir ſkrifader eru, þvi eru þeir ollu betur til þijns Rijkis borner, helldur eñ Veralldarennar Born, hverſu ſem þau megtug eru, þegar þeir hafa hanns Riettlæte fyrer ſig ad bera, þvi hann hefur giefed þeim Magt til ad vera Guds Born, ſem a hanns Nafn trwa, Johannis. 1.

Af þeſſare Root Jeſſe ſprettur Fridureñ, ſem Paulus uḿgietur, þvi hañ er Fridar-Hófdinge, Eſa. 9. Og er þad nu ſa annar Rijkdoomur i Guds Nꝍdar-Rijke. J Rijkium Verallldareñar er eingeñ Fridur: Þegar Meñ taka Salomon og Auguſtum Keyſara i burtu, þa ſkulu Meñ ecke fiña morg Dæme til, ad Veralldar Hófdingium hafe tekiſt leinge Fride ad hallda, jafnvel þo gooder og riettvijſer vered hafe, og kyñe þad ſkied ad vera, til ad teikna þar med Chriſti Rijke, i hveriu ad a Fridnum mun eingeñ Ender verda, Eſa. 9. Þvi ſa eine þeirra var hañs Fyrermyndan: Eñ a Dogum hiñs var Lauſnareñ i Heimeñ fæddur: Eñ i Chriſti Rijke geingur þad odruvijſe til; Þar er ecke ſa Fridur, ſem Verolldenn giefur, helldur hanns Fridur, ſem hañ oſs giefed, ſem hann oſs epterlꝍted hefur, hvern eingenn ſkal af oſs taka. Hiner ogudlegu hafa eingann Frid, ſegier Drotteñ hia Eſajam, Cap. 48. Þeir tonnlaſt og tyggiaſt uḿ þetta Volæde, er þeir Rijkdoom kalla, eins og Gadd-Heſtar uḿ illt Foodur. Eñ

Frid-

Fridureñ i Christi Naadar-Rijke er stadfastur, þo hañs Underſaatar hafe Pijning, i Heimenum, þaa hafa þeir Frid i honum, og eru fullorugger, þvi hann hefur Heimenn sigrad: Þad er Fridur vid Sampitskuna, þvi Syndeñ er afmaad med Guds Sonar Riettlæte: Fridur vid Gud, sem er fridstilltur fyrer hañs Blood: Fridur innbyrdis, og Eindrægne i Andanum medal allra Guds Barna: Og i einu Orde ad segia: Þad er saa Fridur Guds, sem ædre er ollum Skilninge, af hveriuin og kiemur Fognudurēñ i heilogum Anda, sem er hin þridia Astgiof, sw ed Guds voludum heiteñ er i Christi Naadar-Rijki; Þad er saa Fognudur; sem krossfester Mañeñ Heimenum, og Heimeñ Mañenum, Gal.6. Saa ed forsmaaer alla Veralldareñar Glede, saa ed lætur Paal og Silam lofa Gud i Fangelsenu, Danielem gaanga ohræddañ i Leona Grofeñe, sa er þvi til Vegar kiemur, ad Meñ graata so sem ei graatande, og fagna so sem ei fagnande, 1.Cor.7. So sem hryggver, og þo jafnañ glader, so sem fatæker, enn þo marga audgande, so sem eckert hafande, og eigande þo alla Hlute, eins og Paulus um sig skrifar, 2.Cor.6. Þesse er Fognudureñ i heilogum Anda, sem rijker i Christi Rijke. Þegar Lærefveinarner voru hryggver af þvi, ad Lausnareñ sagde þeim fyrer sijna Burtfor til Fodursins, þaa sagde hañ: Þier hafed nu ad soñu Hryggd, eñ eg skal siaa ydur aptur, og ydvart Hiarta skal fagna, og ydvarn Fognud skal eingeñ af ydur taka. Ecke talade Drotteñ i þad siñ um þina eilijfu Himnarijkis Glede, helldur um þañ Fognud, er þeim gafst af hañs Uppriſu, hver so var mikell, ad þeir trwdu ecke þvi, ad hañ upprisen være, fyrer Fagnadar saker, eñ þo allra hellst talar hañ um Astgiafer heilags Anda, er hañ hafde lofad ad senda þeim af sijnum Fodur: Hañ var saa ed til fulls uppriette Israels Rijke, þad er Guds Rijke iñe hiaa oss, so þeir hofnudu ollum Hlutum, og reiknudu þaa Preck ad vera hiaa Drottne sijnum Jesu Christo, og med þeim sama stiornar hañ eñ nu sijnum Þegnum; Þad er ollum þeim er aa hañs Nafn trwa; Hañ er þad, sem ber Vitnisburd vorum Anda, ad vier sieum Guds Born, eñ ef vier Born erum, þaa erum vier og Erfingiar, jaa, Erfingiar Guds og Samarfar Christi, uppaa þad ad ef vier med honum lijdum, þaa skulum vier og med honum dijrdleger verda, Rom.8. Þesse Guds Ande er Pantur Arfleifdar vorrar, Eph.1. Þeirrar sem þar uppe er og ei maa skiemast, eige saurgast og ei rotna, so sem Petur ad heñe kvedur, 1.Pet.1. Þad er hañs eilijfa Dijrdar-Rijke, er eg fyrer skomu miñtest aa, hvert ed himum andlega voludu heited er; Þad er saa Fognudur, sem ecke hefur Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur i nockurs Mañs Hug uppstijged, segier Esajas: Hvar Gud er allt i ollu, og eingeñ Umskipte Ljoossens nie Myrkursins um ævendanlegar Allder Allda. Eckert Rijke Veralldar hefur so mektugt vered, ad ecke hafe þad eydelagst, og eitt hefur uppeted añad; Eñ þetta mun eingañ Enda taka, þvi vier munum eilijflega med Christo vera. Veralldar Hofdingiar drottna yfer morgum misjofnum, sumum vondum, sumum goodum, sumum rijkum, sumum fatækum, sumum trwum, sumum breckvijsum: Enn þetta er Samkunda heilagra, utvaled

 Foolk

Foolk og Konungleger Prestskaplur. Hinn nafnfræge Konungur Pyrrhus Epirota Konungur spurde sinn Sende-Mann, er hann hafde giort fra sier til Romaborgar, hvilijker ad væru þeirra Raad-Herrar? Enn hann svarade: Ad Raaded være eins og Konunga Samsæte; Enn þad ma eg med ollu meire Riette segia um Holl ens mikla Konungs, Drottens Zebaoth, þvi þar eru aller Undersaatarner Konungar: Allur Heimurenn nægde ecke Metorda Gyrnd eins Manns, Alexandri hins stoora; Enn Guds Rijke næger so miklum Skara, sem eingenn fær taled, og hefur þo hver eitt so mikid Rijke ad Alexandri, Wellde ma i eingann Samjofnud koma. Þegar Drottenn spaaer um Wegsemd Christi Rijkis hier i Naadenne, þa segier hann, Zach. 12. Ad a þeim Deige skule hinn vesælaste af Juda verda eins og David, og ad jafnvel þeir heimsku eiga ad fara villt, Esa. 35. Þvi voga eg ad segia: Ad hinn minste i Rijke Himnanna mune verda hellagre enn Johannes, vitrare enn Salomon, frijdare enn Absalon, sterkare enn Samson, og rijkare enn oll Rijke Veralldarennar og þeirra Dijrd. Þessarar Sælu niootande ad verda, unn þu oss Konungur eilijfrar Dijrdar, Jesu Christe, þier med Fodur og heilogum Anda, sie Walld og Heidur, Rijke og Kraptur, um Allder Allda, Amen.

# Tuttugasta og þridia Sunnudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 22. Cap.

A Þann Tijma. Þa geingu Pharisearner, og hielldu eitt Raad, ad þeir feinge veidt hann i Ordum. Og sendu til hans sijna Lærisveina med Herodis Þienurum, so segiande: Meistare, vier vitum þad þu ert sannsogull, og kiener Guds Gotu i Sannleika, skeiter eige nockrum: Þviad þu ser eige ad Mannvirdingum. Þar fyrer, seig þu oss, hvad þier lijst: Hvort leyfest ad giefa Keisaranum Skatt eda eige? Enn þa Jesus formerkte þeirra Vondsku, sagde hann: Hvad freisted þier mijn Hræsnarar? Sijned mier Mintena Skattsins: Og þeir feingu honum eirn Pening. Jesus sagde til þeirra: Hvers Mynd og Yferskrift er þetta? Þeir sogdu honum Keisarans. Þa sagde hann til þeirra: Giefed þa Keysaranum, hvad Keysarans er, og þad Gude hvad Guds er. Og er þeir heyrdu þetta, undrudust þeir, forlietu hann og geingu i burt.

Exordium.

Vier vitum, ad þeim sem Gud elska, samverka aller Hluter til hinns gooda, segier Paulus, Rom. 8. Þetta sannar oll heilog Ritning med Postulanum, bæde med Ordum og Dæmum: Eingenn hefur so Torfærg orded a Gotu

fyrer

fyrer Guds Børnum, ad hin mættuga Drottens Hönd hafe ecke rudt hana, og leidt sijna Elskendur þar i giegnum, a einhvern hatt, til þess gooda, er hann hefur þeim fyrerbwed. Hardydge Josephs Brædra vard honum til Upphefdar, Gen. 41. Þvermoodsku Pharaonis snere Gud sijnu Foolke til Trwarstyrkingar, Exod. 12. Sw Bølvan er Balach Konungur villde hafa keypt af Bileams Munne, Num. 23. Vard Jsrael ad Blessan. Achitophels Raad urdu ecke einungis ad onijtu, 2. Sam. 17. helldur David til Sæmdar Auka. Aræser Sauls Konungs giordu hann frægann i Jsrael. Jessabels Offsookner styrktu Eliam, 1. Reg. 18. Offstope Hamans liette Þrældoomenum af Guds Foolke, Esth. 8. Og þurfum vier ecke margra Dæma hier um ad leita: Eingenn hefur so illt i Sinne haft, so sem Kiennemanna Hofdingiarner, þegar Herodes og Pontius Pilatus med Heidingiunum og Jsraels Foolke samannsöfnudust yfer Jesum Guds Son, til ad giora allt þad, er hans Hönd hafde adur fyrerhugad ad skie skyllde, Act. 4. Enn þessare Jllsku þeirra snere Guds alvitra Raad öllum Heime til Myskunar og Syndalausnar; þviad i hans Nafne, sem þeir i þad sinn heingdu uppa Tried, so sem adra Bølvan, þaa fa þeir aller Syndanna Fyrergiefning, sem a hans Nafn trwa, ad Vitne allra Spamanna, Act. 10. So Menn meiga jaata þad satt ad vera, sem Eliphas segier, Job. Cap. 5. Ad Drottenn fange hina vitru i Slægdum þeirra; og Raad þeirra, er i giegn standa, munu detta. Dæme þar uppa hofum vier i þessa H. Dags Evangelio, þar vier heyrum, ad hiner Olmu Hundar voru enn nu einusinne wtsender, til ad fanga hid saklausa Guds Lamb, og hofdu so haglega tilbwed sijnar Veidebrellur, ad ecke skyllde tilsleppa: Enn hann sem visse hvad med Mannenum bioo, og onijt giörer Raad hinna ogudlegu, hann fellde þaa i hina somu Grof, er þeir hofdu honum bwed, og vann a þeim med þeirra eigenn Vopne, so sem vier heyrdum af Gudspiallenu, af hveriu vier nu vilium hugleida. 1. Hvad vier sieum Yfervalldenu skyllduger. 2. Hver ad sie Skyllda vor vid Gud almattugann. Styrk oss hier til, Drottenn minn, fyrer þijns Sonar Forþienustu, Amen.

## Utleggingenn.

Giefed Keysaranum Hvad Keysarans Er, segier Drottenn: Menn leggia þad kann skie ad litlu sumer hverier, ad þeir biooda ad hlijda sier, hverra Virding ad vex vid annarra Undergiefne: Þad kynne ad sijnast einum i Þanka, ad ecke være ad henda teidur a þvi, þo ad Logenn og almennelegar Skickaner segie þeim nockur Þyngsl a Hendur, sem eingu gieta af sier hrunded, saker Vanmattar sijns, þvi þeir somu rada fyrer Logunum, sem Tollana taka: Enn giætum ad hver sa er, ed þetta segier: Þad segier sa, sem allt Valld giefed er, bæde a Himne og Jordu, Matth. 28. Enn er þo i Þræls Lijke auglijstur, Philipp 2. Hann sem allt Silfur og Gull a, og ecke vill segia Mannenum til, ef hann hungrar, Ps. 50. Enn hafde þo ecke hvar ed hann matte Hofde sijnu ad halla, Matth. 8. Hann sem a hverre Stundu kynne ad bidia Fodurenn um 12.

Legion Engla, Matth. 26. Eñ kom þo i Heimeñ, ecke til þess, ad lata sier þioona, helldur uppa þad hañ odrum þioonade, Matth. 20. Hverium Gud hafde giefed Tignar-Sæte siins Fodur Davids, Luc. 1. Enn vard þo Forsmaan Maña og Fyrerlitning Foolksins; Fyrer vorar og allrar Verallldarennar Synder, Esa. 53. Segied nu̅ Brædur mijner, mun hann, sem so haattadur var, hafa talad þesse Ord fyrer siina Skulld, edur munde hañ ecke hafa kuñad ad naa Riette siinum, hefde hañs Rijke vered af þessum Heime? Ecke munde honum hafa þad torsookt vorded, helldur talade hañ þau til Blygdunar þverbrotnum Gydingum, hverier ei villdu þeckia hinn Romverska Keysara fyrer siñ Hofdingia, er þo hafde af Gude þeiged Valld yfer þeim, og til þess, ad kieña þier, Guds Barn, þaa Hlijdne, er þu ert Yfervalldenu skylldugur um: Þier kann ad soñu til Hugar ad koma: Hvad velldur þvi, ad hañ skyle helldur drottna yfer mier, eñ eg yfer honum, þar vid erum þo bæder nakter i Heimeñ borner, bæder eigum vid Ætt ockar til Adams ad rekia, bæda hefur Gud skapad, og hverigur ockar hefur neitt af sialfum sier? Þar fellur Svar til: Fyrer Guds saker skalltu honum undergiefenn vera, hver ad er allra Konungur: Paulus segier med berum Ordum, Rom. 13. Þar er eingeñ Valldstiett, nema hun sie af Gude, helldur eru þær Valldstietter sem til eru, af Gude skickadar, þar fyrer, sa ed Valldstietteñe mootstendur, hañ mootstendur Guds Skickun, eñ þeir ed mootstanda, afla sier Fordæmingar: Þar fyrer, sa sem segiest Gude vilia vera undergiefeñ, hañ sie og Valldstioorneñe undergiefenn, hver af Gude er skickud. Þu segier, hañ kom nakeñ i Heimeñ eins og eg, enn ef Gude þocknast ad klæda hañ i Purpura, enn þig i Totur, aattu Søk a þvi? Ertu þar fyrer rangeygdur þo ad hann sie goodgiarn. Þid erud bæder af Adam komner, enn sa sem hafde Valld til ad mynda Adam af Leyr Jardar, mun hann ecke hafa Valld til ad setia eitt Kiered til Heidurs, eñ añad til Vanheidurs? Rom. 9. Hverigur yckar hefur neitt af sialfum sier, af hveriu̅ þaa? Af Gude, þar fyrer aattu hvad mest ad virda þañ sem yfer þig boden er, þvi þaa Virdingu hañ hefur fram̅ yfer þig, hana hefur hañ af Gude þeiged; Forakta þvi ecke hañs Skickan, enn laat þier nægiast þiñ deilldañ Verd, og so sem Meñ eru Konungenum skylldugir ad hlijda næst Gude, i ollum þeim Hlutum, sem Gud ecke bañad hefur, þvi framar ber ad hlijda Gude eñ Moñum, sagde Petur, Act. 4. So byriar oss og ad vera þeim undergiefner, sem hañ yfer oss skipad hefur, ad so miklu leite sem hañ hefur þad skipad, þvi so segier Petur, 1. Pet. 2. Vered undergiefner sierhverre mannlegre Skiepnu, saker Drotteñs, hvert helldur Konungenum, so sem yferraadande, edur Stioornurunum, so sem þeim er af honum eru sender: Sa sem þeim mootstendur, er af Konungenum sender eru, hann mootstendur Konungenum; Sa sem Konungenum mootstendur, hann mootstendur Drottne, sa sem mootstendur Drottne, hann steyper sier i Fordæmingu, hvar af þad vill fylgia, ad sa sem siina Yferbodara svijkur, vanvirder edur mootstendur, i þvi Starfe, er þeir a Hende hafa, hann er sama Doome undervorpenn hia Gude. Hvad eru Meñ

þaa

þaa Yfervalldenu skyllduger? Þad segier oss Paulus Rom. 13. Gialldeð ollum þad þier skyllduger erud; Þeim Skatt er Skattur heyrer, þeim Toll er Tollur heyrer, þeim Otta er Otte heyrer, þeim Heidur er Heidur heyrer. Tvennt þad sijdara er ecke so miog aaboota vant, jafnvel þo ad Otte saa, er standa ætte af Valldstioornenñe, hallde sumum Moñum lijtt aptur fraa vondum Verkum; Enn wtvortis Lotning og Virdingar faa Meñ noogar, þar er ei yfer ad klaga, þvi margur verdur til ad kyssa aa þaa Hondena, er hañ giarnañ villde af være, eñ þad sem gialldast aa, er optast tregara hiaa morgum, ecke sijst vid þaa sem oss eru af Gude skickader til ad vaka yfer Saalum vorum, af þvi þeir ecke hafa Sverded þad lijkhamlega i Hondunum; Eñ hvad þvi andlegg vidvijkur, þaa hafa sumer Meñ so bryniad Samvitskur sijnar med einu Staal-Hiarta, ad Sverd Andans, sem er Guds Ord, viñur ecke aa hana, jafnvel þo þad sie giort til þess, ad þreyngia sier i giegnum Bein og Merg; Og vil eg ecke faa mier þad til Orda, þo Meñ sieu tregier i Giolldunum, Gud giæfe þeirra christelegum Amiñingum hlijdt være, þaa mættu þeir hitt einkis akta, þvi Drotteñ er þeirra Hlutskipte. Eg vil aptur hverfa til þess, er eg strax um̃ talade: Giefid Keysaranum hvad Keysarans er, segier Christur: Hañ talar hier sier i lagi um̃ þær Skylldur, er Yfirvalldinu gialldast eiga, og þetta er ecke Mañs edur Engels, ecke nockurs veralldlegs Konungs, helldur sialfs Guds Sonar Bod, þar fyrer, ad lijka so sem saa Kongs Um̃bodsmadur, er tekur framar enn hanns Herra hefur boded honum, hann stelur, so er og hinn Þioofur i Guds Auglite, er dregur þad af Yfirvalldenu, er þvi med riettu byriar ad hafa, og saa er þad wtelætur med illu Giede, hann giorer Gialld sitt ad Synd og ad vondu Verke, þvi segier Paall, Rom. 13. Þar fyrer er einsætt undergiefenn ad veru, ecke alleina vegna Reideñar, helldur og Samvitskuñar vegna; hann meinar Konungsins Reide, hver ed Salomon segier, Prov. 20. Ad sie eins og ungs Leons Oskur, helldur og Samvitskuñar vegna, þad er vegna Guds, sem þetta boded hefur, hverium vier erum i Hiortum og Samvitskum vorum skulldbundner. Margur ohlutvandur þeinker so, og sumer kann skie leife sier ad tala: Eg hefe eckert gott af Valldstioornenne, hun er ecke nema Almwganum til Þijngsla, þeir hafa miklar Alogur, Meñ sæta hordum Refsingum af þeim, jafnvel fyrer smaar Saker. Heyr mier, Barn mitt; Jeg vil ecke tala um̃ Guds Bod i þessu, þar Postulenn skipar ad Menn skule vera sijnum Yfirbodurum undergiefner, ecke einasta frootnum og goodum, helldur og einnenn hardraadum og hreckvijsum, 1. Pet. 2. Og St. Paall skipar, 1. Tim. 2. Ad bidia fyrer Nerone Keysara, sem þo var gudlaus Madur: Enn seig mier, kann eitt Haf-Skip ad fara Leid sijna fyrer utañ Stijre? Eñ þaa sijdur kañ Londum og Lijdum vel ad gaanga, þeim er eingeñ stijrer; Hver aa ad straffa Synder og Leste? Hver aa ad refsa ogudlegum Skaalkum, þeim er froomum og meinlausum veita Yfirgaang? Hver aa ad dæma aa mille Bloods og Bloods? Hver aa ad skipa Riettindum Manna, so hver hallde sijnu? Hver aa ad giefa oss Log ad lifa epter? Hver aa ad skicka oss Kiennendur og Predikara, til ad upp-

fræda

fræda oss til eilijfs Lijfs? Eñ varna vid eilijfum Helvijtis Ellde? Hver ꝏ ad vernda oss fra Hernade og Aræsum omilldra Manna, so ad vier lifa meigum hægu og ro-somu Lijferne med allre Gudrækne og Sidseme? 1. Tim. 2. Hver ꝏ allt þetta ad giora, ef þar er eckert Yfirvalld? Gud vardveite sijna Christne fra omilldum Konungum, honum fren og eilijfar Packer fyrer þa stooru Nad, er hañ hefur oss giefed framar oll-um Monnum i Heimenum. Eñ þad þore eg ad segia, betra er illt Yfirvalld, enn eckert, þvi hvar so ꝏstendur, þar er hvers Hond i moote odrum, þar er hver annars Bodull, þar er eingenn ohultur uñ Lijf sitt, eingenn uñ Born nie Kvinnur, eingenn uñ Eigur sijnar nie Atvinnu, þar er eingenn Sidseme, eingenn Kiærleike, eingenn Guds Otte, i einu Orde ad segia: Pad er hꝏlft Helvijte. Petta munu þeir Ofgar kallla, er lijda þyk-iast Alogur af Yfirvalldenu, enn eingenn veit hvad ꝏtt hefur fyrr enn mist hefur: Oll-um Moñum i Heimenum hefur þad ad Vege orded, ad taka sier Hofdingia, þar sem Almenningur hefur teked til ad stioorna, Illa gieck þad til ꝏ Dogum hiña ogudlegu Israels Konunga, Jeroboams, Manasses, Achabs, og annara: Po var þad enn þꝏ verr, þegar eingeñ var Doomare i Israel, og hver eiñ giorde þad riett þootte i hañs Aug-um, Jud. 17. Pꝏ var valla nockur Guds Þecking i Israel; Pꝏ giordu Benjamin-itar þa Hꝏdung, er Scoleñ hefur aungva verre yfir skined, hveria Sodoma og Gom-orra mættu skamast sijn vid ad heyra, þꝏ slꝏtradi Guds Foolk sijnum eigiñ Brædrum og Systrum, heille Ettkvijsl, morgum Pusundum Maña; So þar var ecke ein Kona epter i Benjamin, og hvad vilium vier lꝏngt leita, vier hofum Epterdæmenn hiꝏ oss, þegar þetta vesæla Land flaut i sijnu eigenn Bloode, ꝏdur enn Gud gaf oss Konung, so ad eingenn mꝏtte ohultur leggiast i Reckiu sijna, hversu ꝏgiætlega leid oss þꝏ? Hversu foor þꝏ fram i Lande voru? Mundu Meñ þꝏ ecke allshugar fegner verda ad jꝏta Konunge, og gꝏnga under hañ, til ad hallda Lijfe og Limum, Fride og Frelse? So er þvi hꝏttad, Br. M. Fyrer oss syndugum Monnum, vier hliootum Laganna Præl-ar ad vera, uppꝏ þad vier kunnum Frelse ad hallda. Hver sem nu yfirvegar allt þad gooda, er vier hliootum af Valldstioornenne, og under eins allt þad illa, er hun afstijr-er; Hañ munde med betre Samvitsku og swsare Huga giora Christi Bod; J þvi ad giefa Keysaranum hvad Keysarans er. Eñ ef nockrum þyker Valldstiettenn Ressinga-som, honum kann eg eckert betra Nad enn þad, er giefur St. Pꝏll, Rom. 13. Seg-iande; Villtu ei Valldstioornena ottast, þꝏ gior hvad gott er, og muntu Lofstijr af heñe hafa, þvi hun er Guds Þienare, þier til gooda; Enn ef þu giorer hvad illt er, þꝏ vert ottaslegenn; Pvi hun er Guds Þienare, til Hefudar og Reide þeim sem illa giora: Og er so ꝏtꝏtalad uñ hid fyrra.

Eñ hversu miked ad vier Gude skyllduger sieum, þad kañ eingeñ Tunga ꝏt ad skijra, hverke Engla nie Maña, og þvi mun þad nockur Muñar sꝏ ꝏtsagt, þar sem ad aller ꝏtvalder, aller heilager i eilijfu Lijfe sꝏ þad ecke fullgiort uñ alla Eilijfd? Eilijfa Tijd skal til þess hafa, ad prijsa hina eilijfu Giædsku, og oendanlegar Allder, til ad vegsama

sama hans Nafn, sem alldrei Enda tekur. Hversu meigum vier þar jata med David: O Drotten! Miñe erum vier ollum þijnum Myskunsemdum: Samt hefur þo hin eilijfa Hatign boded ad vier prijsa skylldum þær Domsemder, er hañ giorer a medal Mañaña Barna, ecke fyrer þvi, ad hañ þurfe vorrar Hroosunar vid, þvi hañ er Gud blessadur um allar Allder: Helldur ad Ihugan hañs Velgiorninga meige verda oss til Sidboota og Saaluhialpar. Vier heyrdum fyrra Suñudag talad um hiñ vonda Þioon, sem var sijnum Herra 10000. Punda skylldugur; Munum vier ecke aller meiga sitia a Beck med honum, þegar ad Skullda-Dogunum kiemur? Saal og Lijkhama hefur Gud giefed oss, til hvers? Ecke til ad brwka þad so sem vier vilium sialfer, helldur til ad þioona Drottne þar med: Lijkhamenn er hinn adre Partur vors Skapnadar, hañ hefur Guds Giædska lient oss til ad wtvega Atviñu vora, so ad vier i Sveita vors Andlitis kuñum vors Brauds ad neyta, Gen.3. Þo hefur hann skiled sier Leigu hier af, þvi St. Paall segier: Vited þier ecke, ad ydar Limer eru Mustere heilags Anda sem i ydur er, hvern þier hafed af Gude, og þier erud ecke sialfs ydar Meñ: Hendurnar hefur hann lient oss til ad briota voludum vort Braud, Fæturnar til ad ganga swslega i Guds Hws, Augun til ad upplypta þeim til Himens, hvadañ oss kiemur Hialpeñ, Eyrun til ad heyra Guds Ord, og vardveita þau, Twnguna til ad lofa hañs Nafn; Eñ i ollu þessu hofum vier refiast vid hiñ almattuga, þad hefur geinged andhælis fyrer oss, vier hofum lied vora Limu Syndeñe til Ibwdar, og lated hana drottna i vorum daudlegum Lijkhama, Rom.6. Þar vier attum ad lia þar Riettlætenu til Verkfæra. Margur wtrietter Hendurnar til Raans og Þiofnadar, til ad meida Holld sijns Naunga, og ad hefna sialfur sijn, enn stela Hefüdenne fra Gude; So langt er fra þvi, ad Meñ giefe Gude hvad Guds er, Fæturnar eru næsta fimar, til ad hlaupa a hiñ breida Veg, Augun eru Skalkur, so ad allur Lijkhamenn verde Skalkur, grañskign til ad sia Kvisteñ i sijns Brodurs Auga, eñ ad Bialkanum i sialfsum sier gata þau ecke, Eyrun klæia epter þvi er þau heyra vilia, og eru opeñ vid Bulldre Veralldar þessarar, so ad Guds Ord fa ecke Rwm i þeim, Twngañ temur sier skamarleg Ord og fiflslegt Hial, sem christnum hæfer ecke, Roog, Lijge, Bakmælge, og annad þvi uñ lijkt. Æ oss auma Menn! hversu illa hofum vier þa Gude gollded hañs Hwsa-Leigu? Vited þier ecke, ad þier erud Kyrkia Guds? Segier Postuleñ: Eñ hañ sem Guds Kyrkiu skiemer, þann vill Gud skiema, segier hann, 1.Cor.3. Eñ hvernig hofum vier ræktad Guds Hws, Brædur mijner? Þad atte ad vera Bæna-Hws, eñ vier hofum giort þad ad Ræningia Bæle. Eñ ef Gud skilur sier nu þvilijkañ Skatt af Lijkhomum vorum; Mun hñ þa lata Saglena bwa oleigis? Aungvañ Veigeñ, Peningureñ er Judar sijndu Drottne, hañ var gollden fyrer Hofud hvert i ollu Roma-Rijke, þar fyrer gallt og Jesus Skatteñ fyrer sig og Petur, er hañ spurde hann ad, hvert veralldleger Konungar tækiu Skatt af sijnum eigenu, edur af annarlegum? Matth.17. Þar hann atte þo ecke Skatt ad giallda, þvi hann var ecke einasta

kongborenn, helldur Koningur ad eilijfu; So og og sierhvert einn af Oss fyrer Sialu ad sier, hun bijr i Leigu-Hwse, hun er ecke einasta epter þad ad giallda, helldur og fyrer sialfa sig: Enn hvad eigum vier þa ad giallda, edur hver er Skattur hinns allra hærsta? Þad gioerer hann sialfur bert, Ps. 50. Ecke et eg Kiot hinna sterku Uxanna, og ecke dreck eg Blood Hafranna, offra Drottne Lofgiordenne, og lwk hinum allra hærsta þijn Heit. Hver er sw Lofgiord, er Gud af oss heimter? Er þad noog ad kasta uppa hann Kvediu sine, med einu Psalm-Verse? Fiærre sie þvi, þad heiter ad nalægiast hann med Vorunum, en Hiartad er langt þar fra. Gud verdur ecke med Mælge prijsadur þeirre er Heidingiar brwka, og meina sig fyrer hana ad bænheirast, Matth. 6. Helldur so sem David, þar hann segier: Lof seig þu Drottne Ond mijn, og allt hvad i mier er hans blessada Nafni. Efvier vilium Gud akalla i Anda og Sanleika, þa skal Syndaren koma hræddur og skialfande fram fyrer hin heilaga i Israel, han skal yfirvega hans Heilagleik, og sin Overdugleik: Mergd sina Synda, og Fiollda hans Myskunsemda: Guds Þolenmæde, og sitt Toomlæte: Guds brennande Elsku til sijn, og sijna Eymd og Olucku, sem ecke gietur i Lijkhama þessa dauda elskad han af ollu Hiarta, og ollum Kroptum, er oss so heitt elskade: Og þegar hans Hiarta er af slijkre Hugraun bradnad i honum sem annad Vax, þa skal han hroopa af Diwpenu til Drottens, eins og David: Mijnar Synder eru mier yfer Hofud geingnar, þær eru vordnar mier mikils til ofþwng Byrde, og med Tollheimtu-Mannenum, Gud vertu mier syndugum lijknsamur! Enn er þu so gioerer, þa mun Anden bidia fyrer þier, med oumrædelegum Andvorpunum: En han ed Hiortun rannsakar, veit hver ad er Andans Meining, þvi hann er epter Gude Medalgangare fyrer heilaga, Rom. 8. Og er Gud svarar þier i Leyndum Hiarta þijns fyrer heilagan Anda, sa ed ber þijnum Anda Vitne um, ad þu siert Guds Barn, segiande: Vertu hughraustur Sonur, þier eru þijnar Synder fyrergiefnar: Þa offra Gude Lofgiordene, og seig med Jesu Moodur: Mijn Ond miklar Drotten og min Ande gladdest i Gude Heilsugiafara mijnum. Þesser eru Kalfar Vara vorra, er vier eigum Gude ad foornfæra, Os. 14. Þad er þad Offred sem fyrer honum gyllder, þvi harmþrwngen og sundurknosadann Anda mun han ecke fyrerlijta, Ps. 51. Hver eru þau Heiten, er vier eigum honum ad lwka? Þad eru þau er vier heitum honum i Skijrnene, þegar hanns eingieten Sonur, hinn frijdaste medal Manann Barna, trwlofade oss sier i Naad og Myskunseme; Hver voru þau, þad vier jatudum Gude helga Trw, uppa hveria vier skijrder vorum, enn afneitudum Fiandanum og ollu hans Athæfe? Hver er þa heilog Trw? Ecke sw alleina sem þecker Gud ad vera, hvad einig giora Dioflarner, og skielfast þar af, Jac. 2. Helldur hun, sem ad verkar fyrer Kiærleikan, Gal. 5. Hver ad er þolenmoodur og goodgiarn, ecke ofundsiwkur, gioerer eckert illmannlega, ecke blæs han sig upp, er ecke osidsamur, hann leitar ei epter þvi sem hans er, ei þwnglyndur, han þeynker ei illt, hann fagnar ecke yfir Ranglætenu, en samfagnar Sannleikanum, han umber allt, han trw-

er ollt, hañ vonar allt, hañ þoler allt, 1. Cor. 13. Pad er sw Trw, er vier jaatudum Gude i Skijrneñe, er slijka Avexte af sier giefur, hverier sijdur meiga vid hana skilia, eñ Byrtañ vid Soolena. Einn hvert er þaa Andskotans Athæfe er vier neitudum? Pad eru Holldsins Verk, sem Paulus upptelur, Gal. 5. Hoordoomur, Saurlijfe, Ohreinleike, Lausung, Skwrgoda-Dijrdkun, Fiolkinge, Fiandskapur, Prætur, Kapp, Reide, Prættaner, Sundur-Þyckia, Flockadrættur, og annad þeim lijkt: Þetta eigum vier ad laata, enn hitt ad giora, ef vier viliūm giefa þad Gude sem Guds er, þvi so seg-ier Drotteñ fyrer Munn Esajæ, Cap. 1. Þvoed ydur, hreinsed ydur, taked ydar Illskubreitne fraa mijnu Auglite, laated af illu, enn læred gott ad giora, komed sijdañ og eigunst Log vid; Þo ad ydar Synder sieu raudar sem Blood, þaa skulu þær verda hvijtar sem Snioor, og þo þær sieu sem Purpure raudar, þaa skulu þær verda hvijtar sem Ull. Þeir sem eru skyllder under nockurn Konung, þeim byriar ecke einungis ad greida honum Skatta og Skylldur, helldur og ad strijda aa moote hañs Ovinum: Nu er eingeñ þvilijkur Guds Ovinur sem Diofulleñ, þvi Christur og Belial eiga eckert Hlutskipte samañ, 2. Cor. 6. Nu fyrst vier erum geingner Gude til Handa, þvi skylldum vier þaa draga eitt Ok med Satan? Andskotans Taum dregur Holldœd, enn Guds Lide stijrer Andeñ; Laatum oss i honum gaanga, so munum vier ei fremia Holldsins Gyrnder, og iklædunst Guds Herskrwda, so ad vier gietum mootstaded Prettum Diofulsins, Eph. 6. Þaa erum vier riettet Guds Þegnar. Enn Jesus Christus sa ed Hoggormsins Hofud hefur i sundur mared, og niðurbroted Helvijtisgñā Port, hann virdest ad troda Diofuleñ under Fætur vora; Eñ gief oss ad beriast goodre Barattu, behallda Trwñe og goodre Samvitsku, þar til oss uñ sijder verdur assijdis logd Corona Riettlætesins, sem Drotteñ Gud virdest ad giefa oss aa þeim Deige, þegar vier eigum ad giallda þaa sijdurstu Skulld, og afhenda þad Gude hvad Guds er, sem er Saal og Lijf, hvert vier hofum ad Laane, og ecke ad Eign þeiged.

Pad bænheyre Fader Myskunsemdanna, fyrer Son sinn Jesum Christum, Amen.

# Tuttugasta og Fioorda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 9. Cap.

Pañ Tijma. Þaa ed Jesus talade þetta til þeirra: Sia þu, ad Hofdinge nockur gieck ad, og tilbad hañ, seglande: Mijn Dootter er ny-saalud, eñ þu kom og legg þijna Hond yfer hana, og mun hun lifa. Og Jesus stood upp, og fylgde honum, og so hanns Læresveinar. Og sia þu, ad Kona, hver ed haft hafde Bloodfall i Toolf Ar, gieck aa Bak til vid hañ, og snerte Falld hañs Klædnadar. Þvi hun sagde med sialfre sier: Ef ad eg mætte ad

eins snerta hañs Klædnad, munde eg heilbrygd verda. Eñ Jesus sneresst vid, leit til heñar, og sagde: Vertu hughraust Dootter, þijn Trwa giorde þig heilbrygda. Og a þeirre sömu Stundu, vard Konañ heilbrygd. Og þa ed Jesus kom iñ i Hofdingians Hws, og sa þar Lwdur-Peitara, og Bulldran Foolksins, sagde hañ til þeirra: Vijked fra, þviad ecke er Stulkañ daud, helldur sefur hun. Og þeir dárudu hañ: Eñ sem Foolked var wtdrifed, gieck hañ þar inn, og took uñ hennar Hond: Og Stulkañ stood upp. Og þetta Rykte barst wt uñ allt þad sama Land.

## Exordium.

Had eru merkeleg Ord, sem Esajas Spaamadur skrifar i hañs Bookar 26. Cap. Og þañig hlioodа: J Angisteñe vitiudu þeir þijn Drotteñ, þeir wthelltu audmiwkum Bænum, þegar þu typtader þa. So er hattad voru aumra Holldе og Bloode, christner Meñ, ad þegar allt ad Oskum geingur, þa þecker þad a stundum hverke Gud, nie sinn eigeñ Veikleika, og þo vier siaum nærre daglega a þeim, sem Drotteñ typtar, hversu ad Manneskiañ er sier onoog uñ alla Hlute, þegar hann byrger fyrer heñe sitt Auglite, þa er þad eins og þad ecke kome vid oss, so sem ad einn helldur enn annar sie undañ þeigeñ þeim Okostum, er Syndeñe fylgia, og Eliphas af Theman kallar ollum jafn vijsa, segiande: Ad Madureñ fædest til Armædunnar, so sem Neistarner af Gloodeñe flíwge i Lopted upp: Enn þo ad þessu sie so vared, þa sijnest so sem ecke eige aller vid lijkañ Kost ad bwa, þar nockrer bada i Roosum, og vita ecke af miklum Mootgange ad segia: Hiner þiaast alla Æfe sijna, og sia valla gladañ Dag: Enn þad er Eptersioonar verdt, hvert ad hinna Kior sieu betre eñ þessara, ef Menn þad riett adgiæta: Ad vijsu sijnest þad so fyrer mannlegum Doome, annars er þad vijst, ad i Velgeingneñe er Mannenum hættast vid ad gleyma Gude, sem er hin stærsta Olucka, er Syndaranum kann til ad falla. Þegar Jsrael vard fullur og feitur, þa giordest hañn lauslaatur: Þegar Skeinkiare Pharaonis var aptur komeñ til Virdingar sinnar, þeynkte hañ hverke a Joseph nie Myrkvastofuna, Gen. 40. Þegar Nebucadnezar virdte fyrer sier oll hañs Stoorvirke, er hañ hafde laated giora i Babylon, þa upphafdest hanns Hiarta, þar til Gud straffade hann, og liet hañ eta Gras med Villu-Dijrum, Dan. 4. Þegar Baltazar sat ad Dryckiu, og wt af Ofmetnade liet saurga Kiereñ, sem brwkud hofdu vered til Þioonustuñar i Guds Hwse, þa vard hañ rekeñ fra Rijke og Lijfe, Dan. 5. Þegar Herodes Konungur metnadest i sijnu Hiarta af Velgeingneñe, og gaf ecke Gude Dijrdena, þa vard hañ sleigeñ af Engle Drotteñs, og doo vesælum Dauda. Enn so ad Guds Born ei rate i þvilijkañ Saalar Hæska, þa leggur hiñ goode Gud þeim sijns Sonar Kross a Herdar: Eg þore ad segia, Ad Drotteñ hefur i sijnu Naadar-Rijke meira wtriett med bonum eiñ-

unni, enn med ollu sijnu Epterlæte. A medal añara hokum vier tvo Dæme þar uppa, i þessu heilaga Evangelio, Samkundu Hofdingians Jairi, og hiñar bloodfallssiwku Kviñu, og af bodum þeim hverju ad Trweñ reynest og efllst i Krossburdenum, so sem Gulled hreinsast i Ofnenum, 1. Pet. 1. Vier viliumi Drotteñs Nafne hugleida. 1. Jairi Dæme. 2. Hinnar bloodfallssiwku. O þu goode Gud! Vertu oss nalægur med Fulltijnge þijns Anda, i Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Sem Þu Ad Hofdinge Nockur Gieck Ad Og Tilbad Hañ segier i Gudspiallenu: Lucas og Marcus segia hañ hafe vered Samkundu Hofdinge: Kañ skie hañ hafe hverttveggia vered, þvi Gydingar hofdu Hofuds-Meñ i hverre Ettkvijsl, og þar ad auke hofdu þeir Forstodu Meñ i þeirra Samkundum; Hvernig sem þetta hefur vered a sig komed, þa hefur hañ þo mikelsmeteñ vered medal Gydinga, eñ Lijkinde er, ad hañ mune ecke hafa matt Jesum mikels, adur eñ Naudeñ þrijste honum til þess. Jesus hafde i heilt Ar kieñt, predikad og giordt Kraptaverk i Capernaum, eñ þess er ei gieted, ad Hofdinge þesse hafe feingest miked þar um, fyrr enn hanns einka Dootter var adkomeñ Dauda. Þad ma og allvijda lesa i Gudspialls-Sogunum, ad þess hattar Meñ hotudu Jesum framar og offooktu, eñ ad þeir mundu leita Lids hia honum i nockrum Hlut, og þar fyrer sogdu Gydingar fordum Daga, er þeirra Sendemeñ komu aptur, og sogdu um Drotteñ, Joh. 7. Alldrei hefr nockur Madur talad so sem þesse, þa svorudu þeir, segie eg; Hvert erud þier og villter, trwer nockur af Hofdingiunum a hañ, edur af Phariseunum. Ad eg fare mier þad ecke til Orda, ad Judar hofdu alyktad, ad hver sm medkiende Jesum ad vera Christum, hañ skyllde bañsettur vera, og rækur fra þeirra Samkundu, Joh. 9. Edur um þad tale, ad Samkundu Hofdingeñ reiddest honum nærsta miog er hñ lækn ade Kviñuna a Sabbats Dege, þa er i 18. Ar hafde ohraust vered, Luc. 13. Af hveriu ollu sia ma, ad Guds Sonur hefur ecke velþockadur vered hia þess slags Foolke, eñ ecke ad sijdur rak Neydeñ þeñañ Mañ til ad falla Jesu til Foota med audmiwkre Bæn, so sem bæde Lucas og Marcus skrifa, so þad rættest a honum, sem David um sig skrifar, Ps. 18. Þegar eg kveliunst, þa akalla eg Drotteñ, og hroopa til Guds mijns, þa bænheyrer hañ mijna Raust, af sijnu Mustere. Enn þu christeñ Madur, sem þetta heyrer; Tak þetta Dæme þier til Vidvorunar, og Trw þiñe til Styrkingar ef aliggur, þu hefur ma skie ecke hyrdt so um ad leita ad Jesu a medañ þier vel gieck; A medañ þu varst a Bloome þiñar Esku, þad kañ vel ad vera, ad Synder þijns Ungdooms hafe vered margar: Hafe nu Drotteñ vitiad þijn med Krossenum, þa kañast þar vid, ad hañ bender þier til þess ad koma til sijn, sem ad er Drotteñ þiñ Læknare, hafe Gud ecke straffad þig med Lijkhamans Ohreiste; Þa rañsaka þo vel, hvert þu alheill siert. Þesse Hofdinge atte eina einka Doottur, sem an alls efa hefur vered honum kiærare eñ oll hañs Aleiga: Þu att og fyrer einne Salu ad sia, kostulegre Dijrgrip finnur þu ecke i allre Verolldu, þvi

hvad gagnar Þad Mañenum, segier Endurlausnareñ, ad hañ eigneſt allañ Heim Þeña, eñ lijde Topun a Saalu siñe, Matth. 16. Dijrmæt er hun, ecke einaſta Þeſs vegna, ad hun er i fyrſtu epter Guds Mynd ſkopud, helldur hins añars laangtum framar, ad hun er med Guds Bloode endurkeypt; Giæt ad hvert hun heilbrygd er; Þier virdeſt ad ſo ſie, af Þvi Þu kieñer Þijn einkis Meins, og Þijn Saala er ecke orooleg i Þier, ſo ſem Davids var; Eñ trw mier til, kiære, ad Þau Saareñ eru ecke betre, ſem daud eru, helldur eñ hin, er ſvijda: Muntu Þar fyrer hrauſtare vera, Þo Þu ſiert lijkur Þeim er Jeremias ſegier? Cap. 5. Þu typtar Þaa Drotteñ; Enn Þeir fiña Þar ecke til.

Ber Lijfernis Haattu Þijna samañ vid Mæle-Snuru Guds heilaga Logmaals, hvert Þu hefur elſkad Drotteñ Gud Þiñ af allre Ondu Þiñe, og ollu Hiarta Þijnu, og ollu Hugſkote Þijnu, og Þiñ Naunga ſem ſialfañ Þig, hvert Þu gietur ſagt med hinum rijka Yngling, ſem kom til Jeſum, og villde fa ad vita hvad hañ giora ſkyllde, ſo hañ mætte eignaſt eilijft Lijf, Matth. 19. Ad allt Þetta hafer Þu giort fra Barndoome Þijnum: Og vil eg nu ſleppa Þeſſu, Þviad eingeñ Maña hefur um Æſe, Guds Logmaal uppfyllt, nema hañ eiñ, ſem bar vorar Synder, og alla Logmaalſins Bolvan, ſialfur ſyndlaus, hreinn, heilagur, og fraſkileñ Syndurunum, Heb. 7. Enn ſeig mier, hefur Þu hallded gloggvañ Reikningsſkap vid ſialfann Þig hier um, ſo Þu hafer ydraſt Syndaña af Hiarta, og laated Þier Þær leidar verda? Hvert Þu hefur lagt vid Þijn roteñ Saar og andlegañ Holld-Fwa, Þañ Plaaſtur er alleina kañ ad græda, ſem er Jeſu bleſſad Blood med Trwñe medteked af Læknarans Hende, og hvert Þu ad ſijdurſtu hefur af Alvoru kappkoſtad, ad betra Þiñ Lifnad, hvert Þu hefur ecke geinged Umþeinkingarlauſt aptur til ſomu Synda, vellt Þier i ſama Saur, og ſyndgad uppa Nadena, og hvert hiñ ſijdare Dagureiñ hefur bætt nockud um fyrer hinum fyrra. Reyned ydur, ſegier Paulus, hvert ad Þier erud i Trwñe, 2. Cor. 13. Giorum ſo, vitum til, hvad heitt vier elſkum Gud, Þegar Holldſins Fijſn er od rumeigeñ: Hveria Trwar Avexte vier finnum i Fare voru, hvert Guds Ande verkar i oſs fyrer ſanna Ydran, hvert vier erum ſo tilbwner med vorn Reikningſkap, ad hveriu Kvollde Dags, ad vier ſieum Þar viſſer, ad Þo vier deyum, Þaa munum vier ſamt lifa, Joh. 11. Allt ſo leinge ad vier ecke temium oſs Þetta Hugarfar, Þaa Þeinkia Menn hid ſama, ſem Engelleñ af Laodicea, Apoc. 3. Eg em rijkur og audugur noog og Þarf einkis vid, enn Þu veitſt ecke, ſegier Drottenn, ad Þu veſæll ert, aumur og voladur, blindur og fatlaus. Eg ræd Þier, ad Þu kauper Gull af mier, Gull Þad i Ellde er reynt, ſo Þu audugur verder, og iklædeſt hvijtum Klædum, ſo ad Vanvirda Þinnar Fatleyſu ecke opennbereſt. Eñ nær vier holldum Reikning vid ſialfa oſs, Þaa faaum vier ad Þeckia, ad vorar Miſgiorder ſetur hiñ alſkygne Gud frame fyrer ſig, og vorar ovitañlegar Synder frame fyrer ſijnu Auglite, Pſ. 90. Hvad Þaa, Brædur mijner? Munu Þaa ecke um ſijder uppliwkaſt vor Augu, ſo ad vier faaum ad ſiaa, ad allt Hofuded er ſiwkt, allt Hiartad er veikt, fra Hvirfle og allt til Ilia, er Þar ecke nema Saar, Kaun, Beniar og Þrote, Eſa. 1.

Hvad

Hvad er þaa vor Saala betur aa sig komeñ, eñ þesse Hofdingians Dootter, sw er var daudvona, edur og andvana Lijk, so sem Matthæus skrifar: Stoor Naud þreyngde Jairum til ad leita Christi; Eñ laatum oss ecke vera Ræktar minne vid Saaler vorar, enn hann var vid Doottur sijna: Engenn er Krossburdur meire, enn sw Baraatta, sem er aa millum Holldsins og Andans, Gal. 5. Og Tilfiñing Synda siña, med hverium vier hofum hinn naaduga Gud styggdañ, hun uppþurkade Davids Krapta, so sem þaa Hey þornar aa Sumre, hun lagde hann i Daudans Dupt, hun hiellt Voku fyrer hañs Augum, þad hañ vard so maattlaus, ad hañ gat ecke talad, Ps 77. Enn hvad skulum vier þaa Raads taka, Br. M? Hvad giorde Jairus? Hañ fiell til Foota Jesu, segier Marcus, og bad hann mikelega: Gior slijkt hid sama, christenn Madur, ef þu villt ad þijn Saala heilbrygd verde, audmijk þig under vollduga Guds Hond: Eg jaatade Drottne Synd mijna, segier David, og þaa fyrergafstu mier þad, þad var og satt, þvi under eins og hann sagde: Syndgast hefe eg aa moote Drottne, þaa svarade Spaamadureñ Nathan honum: So hefur Drottenn Synd þijna i burtu teked, 2. Sam. 12. Jesus rækte þad ecke vid þenna Samkundu-Hofdingia, þo kannskie ad bæde hañ og hañs Lagsmeñ hefdu foracktad hañ meir eñ um eitt heillt Ar, þvi hañ visse ad hañs Saala var aangurfull i honum, og villde þvi ecke leggia Sorg ofann aa Sorg, helldur gieck hañ strax aa þaa Leid, er hañ beidde hañ um: Hier ræteft þad sem Esajas um hañ spaer, og Matth. 12. Itrekar, segiande: Hañ mun ecke deila og ecke kalla, og eingeñ mun aa Strætunum hañs Raust heyra; Eiñ brakadañ Reyr mun hann ecke sundurbrioota, og einn riwkanda Hor-Kveik ecke wtslockva, hins sama hefur þu ad vænta, christeñ Madur, hver hellst þu ert, hiaa Gude er eckert Mañgreinar-Alit, þegar þu med David kallar til Drotteñs aa þijnum Mootgaangs-Tijma, þaa þu uppriett-er þijna Hond aa Naattar-Þele og lætur ecke af, fyrer þvi ad þijn Saal vill ecke huggast laata, Ps. 77. Jaa, allra hellst þegar þu bidur um Fyrergiefning þinna Synda, þvi til þess er Guds Sonur i Heimeñ komeñ, ad hañ nidurbrioote Diofulsins Verk, 1. Joh. 3. A medal hverra Syndeñ er hid versta. Edur meinar þu ad hañ, sem liet þad ad Bæn Jairi, ad uppvekia hañs Doottur, aan hvers hañ kuñe þo hoolpeñ ad verda, ad hañ mune neita þier um Kvittun þiña Synda, nær þu hennar sorgfullur leitar, þar hañ veit ad þu kañt ecke aan heñar Saaluhiaalpena ad erfa, eñ hañ er þo i Heimeñ komeñ til þess, ad kalla synduga og ecke riettlaata til Yfranar, Matth. 8. Og vill ad aller Meñ verde Saaluhoolpner og komest til Sañleiksins Vidurkienningar, 1. Tim. 2. Af hiartgroonne Medaumkun og breñande Elsku til syndugra Manna, hroopade Jesus fordum Daga: Komed til mijn aller þier sem erfided og þwnga þiader erud, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Þvi kiemur þu þaa ecke til Guds, hvers Synder ad eru yfer þitt Hofud geingnar, og þier mikils til ofþung Byrde vordnar, þar þu veitst ad hañ svared hefur og sagt: A hverium hellst Tijma ad hiñ ogudlege snijr sier fraa sijnu ogudlegu Athæfe; So sannarlega sem eg life, hanns Misgiorninga skal ecke aa ei-

lijfu

lijfu minst verda, Ezech. 18. Slijka Hlute afrekar Umvondun Drottens hia syndugum Mońum, þa heñe er med audmiwku Hiarta teked, so vier meigum jata þad satt ad vera, sem Paulus til Hebræos segier, Cap. 12. Ad oll Typtan, medan hun aliggur, þyke oss hun Sorg og eingeñ Glede ad vera, eñ epter a giesur hun fridsamlegañ Avoxt Riettlæteßins. Jairus þesse, var eiñ Samkundu-Hofdinge, an Efa einn skriftlærdur og uppfræddur i Moysis Logmale, eñ i þvi fiñur hañ eckert Rad moote Daudanum, sem ei var. Von, þvi Bookstafureñ deyder enn Andeñ lijfgar, 2. Cor. 3. Bæde hañ og hañs Dootter hofdu syndgad a moote Logmalenu, eñ Logmaled skylldar þa alla under Daudañ, sem ecke uppfylla þad: So hofum og ecke vier synduger Menn neiñrar Hialpar ad vænta i Logmalsins Verkum, þo vier sieum þau skyllduger ad giora, þvi Logmaled er iñkomed so ad Syndeñ yfergnæfde, segier Paulus, Rom. 5. Þad er, ad hun yrde uppvijs, þvi an þess mundum vier ei Syndena þeckia. Þad er ei añad eñ eitt Brijne, a hveriu Daudeñ hvesser siñ Brodd, þar ed Syndeñ er Broddur Daudans, eñ Kraptur Syndareñar er Logmaled, segier Paulus, 1. Cor. 15. Þvi þad fordæmer þa sem hana drygia: Hvar hofum vier þa Lijfs ad leita? J Trwñe a hañ sem Logmaled hefr uppfyllt, Daudañ sigrad, og borid Syndir vorar uppa Tried, eñ fest þar Handskriftena þa sem moote oss var. Eñ so sem Palmavidureñ rietter sig upp under Þwngañum, so vex Trwenn i Krossburdenum; Jeg skal ecke segia hversu trwarsterkur ad Jairus hefur i fyrstuñe vered, þad sijnest hañ hafe ecke meint, ad Jesus Guds Sonur være, helldur Spamadur nockur, so sem Elias, edur Elisæus, sa ed kynne ad uppvekia dauda eins og þeir, annars munde hann ecke hafa meint, ad hann þyrfte ad ganga heim med sier, og leggia Hond yfer Doottur sijna: Hitt er vijst, ad hañs Trw hefur ecke so sterk vered, sem Kviñu þessarar, er hier umgietur, edur hinnar cananæisku, edur Hundrads-Hofdingians. O minn Herra Jesu! hversu nakvæm er þijn Lyknar-Hond til ad endurnæra hinn riwkanda Horkveik, hañ liet sier þad ecke nœg þykia, ad hañ bænheyrde hañ so fliott sem hinn kuñe ad bidia, og gieck strax af Stad, helldr a Veigenum styrkte hañ Trwhñs med þvi allra dadsamlegasta Krapta-verke, er hann giorde vid Kviñuna: Ad soñu hefde Frelsareñ kuñad ad lata þetta Almættis-Verk leint vera eins og oñur, er hañ bañade ad bera wt, eñ þad villde hañ ecke: Hañs Lijknar-Hond er friosssem: Hañ giorde hier tveñt i einu: Hañ læknade hina naudstoddu og farmadu Konu, er allre Aleigu siñe hafde forgiefens kostad uppa Læknara, og under eins styrkte hañ heñar og Jairi Trw: Þvi trwed mier til, ad hañ hefur ecke forgiefens talad þesse Ord: Þijn Trwa Giorde Þig Hella. Ja, enn þa framar, þegar Hws-Karlar Jairi ruñu i moote honum, so sem Lucas og Marcus skrifa, og sogdu: Omaka ecke Meistarañ; Þijn Dootter er salud, þa hefde honum matt til Hugar koma, ad þad være wte, eñ Jesus slepte ecke siñe Hende af honum, helldur sagde til hañs: Ottast ecke, trw þu alleina. Lat þetta Dæme vera þier jafnañ fyrer Augum, Chr. M. Þegar þijn Trwa tekur til ad veikiast i Moorganngenum, og þier kiemur

til

til Hugar med David, ad Gud hafe forgleymt myskunsamur ad vera, Ps. 77. Sia hier hvad trwr ad þinn Lausnare er; ad hann freistar einkis yfer Megn fram, 1. Cor. 10. Þu megnar ecke hinn allra minnsta Trwar-Neista ad kveikia i þier, Guds Verk er þad, er þad veik Trw, þa er þad þo Trw, Gud ann sijnum Giorninge, lat sia, ad þu alleina ecke slockver hann med Oþolenmædenne og Bænarleysenu, og vert so viss um, ad hann blæs sialfur ad þvi gloandeKole, et hann hefur lagt a Alltarer þijns Hiarta: Hann liet ecke Petrum sorkva, þo hann være trwarveikur, Matth. 14. Hann leisde ecke ad hanns Læresveinar forgeingiu: Þo þeir væru lijtil-trwader, Luc. 8. Hann uppvakte Lazarum þo Martha efadest um, ad hann munde fyrr uppriisa, enn a sijdasta Deige, Joh. 11. Og hversu opt atalde hann Læresveinana fyrer þeirra Twarleyse; So ad þeir beiddu hann, og sogdu: Herra, auk þu oss Trwna, samt ebldest Guds Kraptur so med þeim, ad þeir urdu þess Allshugar feigner, ad þeir mattu niota þeirrar Ærn, ad þola allar Hœdungar hanns vegna. Jeg vil ei tala um þad mikla Myskunar-Verk, er Jesus giorde vid hinn tunglsiwka, og Fodur hanns, er hann sagdi: Ef þu trwer, þa er trwudum allt mogulegt; En Faderenn æpte Hastofum og tarađist miog, segiande: Jeg trwe Herra, en hialpa þu Vantrw minne: Og Jesus rak Diofslenn wt af hinum tunglsiwka, took i Hond hans og reiste hann upp, Marc. 9. So lat þier nu og nægiast Drottenns Nad, christen Madur, þo þier finnest, ad þijn Trwa ecke sem sterkust sie, þvi hanns Kraptur fullkomnast i Breiskleikanum, 2. Cor. 12. Og er þetta nu so wt-talad um hid fyrra.

Epterfylger ad tala med fam Ordum um þad sijdara. Ecke minna Traust edur Hialpar Von stendur christnum Mane af þeirre Myskun, sem vor Frelsare giorde a þeirre aumu Konu, er med Trw sinne þa-te Heilbrygde af honum. Evsebius skrifar i hans Christendooms Sogu, og 7. Bookar 17. Cap. Ad hun hafe heiden Manneskia vered, fynnud wr Cæsarea Philippi. Þier kynne til Hugar ad koma, syndugur Madur, ad Christur hafi ecki giora viliad þvilijk Stoormerki, nema medal sijns Foolks og Gydinganna: Enn Dæme hinar cananæisku, Hundrads-Hofdingians, hina Diofulsoodu i Gergeseana Landamerkium, sijner allt anad; Og þvi skylde han neita þeim Krapta-Verkanna, hverium hann hafde adur fyrerhugad Nad Evangelii, so sem stendur hia Esa. 62. Ad Drotten mune framleida sitt Riettlæte og sijna Dijrd fyrer allar Þioodir: Þu segier, Gud gierer þo ecke Krapta-Verk Mana a medal a þessum Dogum: En seig mier, hvert er Krapta-Verk meira enn þad, ad hann hefur giort oss Abrahams Sonu af Steinum; þad er af Heidingium, þeim er Stocka og Steina dijrdkudu, og voru þeim sialfer lijker: Þesse vesæla Kvina var þwngum Siwkdoomum undervorpen, og ohrein kollud epter Logmalenu, hver hana snerte, skyllde ohrein vera allan Dag til Kvollds; en ecke skiede þad þar fyrer, ad Kvinurnar a þeim Tijma væru meir ohreinar i Guds Auglite, helldur en ein daudur Lijkhame, hvern eingen matte snerta, helldur so sem þad var boded i Guds Logum, til ad teikna oss andlega i Syndunum dauda, so

 var

var og hitt til ad miña oss aa Spillingu Naatturu vorrar; Eñ þo ad þesse særaada Manneskia være so aa sig komenn, samt fyrerlijtur ecke Jesus hana: Allt er hreinum hreint, Tit. 1. So var og honum, sem er hreinn og heilagur, og fraaskilenn Syndurunum: Þesse Kona var ohrein epter Levitanna Lögmaale, so ad eingenn maatte hana snerta, nie Klæde hennar; Enn strax sem hun hanns Klæda-Falld snerte, er siaalfur Levi Börn hrein giörer, þaa vard hun bæde hrein og heilbrygd. Tak þier þad til Huggunar, syndugur Madur, þegar Satan freistar þijn med Orvæntinguñe, kañ skie ecke fyrr eñ i þeim sijdurstu Andarslitrum, nær hañ er sem aakafastur, þvi hann veit hann hefur stuttann Tijma. Þitt Riettlæte er so sem Nidlags-Fat: Hvad munu þaa vera þijnar bloodugar Illgiörder? Enn siaa, hier er opnadur einn Bruñur Davids Hwse, og þeim sem byggia til Jerusalem, til Hreinsunar Syndaranum og bloodfallssiwkum: Þu ert ohreinn, so sem Kona þesse, og eckert ohreint maa innkoma i þaa himnesku Jerusalem; Enn hier er Blood Jesu, sem hreinsar þig af öllum þijnum Syndum, 1. Joh. 1. Þijnar Synder eru raudar sem Blood, Esa. 1. Enn Jesus er fyrer sitt eiged Blood einusinne inngeingenn i þad allra-helgasta, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Hebr. 9. Þar fyrer vill hann giora þær hvijtar sem Snioo. Þu hefur eckert Gude ad lwka fyrer Syndena: Þesse Kvinna hafde ecke helldur neitt ad gialda i Læknis-Laun, þvi hun hafde eidt þar til allre Eigu sinne, ad hun mætte heilbrygd verda, eñ foor þo jafnañ vesnande: Jesus æskte og aungra Launa af heñe, helldur sagde hañ: Vertu Hughraust Dootter, Þijn Trw Giörde Þig Heilbrygda. Hann krefur og ecke Endurgiallds af þier, þvi hvad maa Madureñ Gude giallda? Trw þu alleina þvi, ad hann sie Forlijkun fyrer þijnar, og ecke einasta fyrer þijnar, helldur og fyrer allar Veralldarennar Synder, 1. Joh. 2. Og heyr þau lijknarfullu Ord, er hann talar, Esa. 55. heyred, hver sem ad þyrstur er, kome til þessara Vatna, og hver sem eckert Gialld hefur, hañ kome og faae fyrer eckert; Komed, segie eg, komed og kauped fyrer utañ Peninga, og utañ Andvyrde, bæde Vijn og Mioolk; Hvar fyrer laate þier ydar Peninga wte fyrer Matleysu, og ydar Erfide fyrer þañ Hlut sem ei kañ ad sedia. Kona þesse gieck Bak vid Jesum, hun var ohrein, hun var or-faatæk, hun var ad öllu leite aumlega aa sig komeñ, hun þorde ecke ad yrkia Orde aa hann, og skamadest sijn ad bera sijna Kveinstafe fram fyrer slijkañ Herra: Æ hvad mætte Syndarenn þeynkia! saa er optlega hefur vellt sier i sama Saur, og eins og Hundureñ geinged aptur til Spijunnar? Mun hañ ecke fyrerverda sig, ad koma fram fyrer hañ, i hvers Auglite ad ecke eru Himnarner hreiner, fyrer hverium hiner dijrdlegu Cherubim hylia sijn Andlite? Saalega være þess meir eñ Von: Eñ fyrer Jesu Forþienustu Skulld, hvers Asioon þeir byrgdu, og hræktu i hañs Andlit, þaa meigum vier med fullu Trauste gaanga til Nadar-Stooisins, so ad vier Myskun odlunst, i hentugañ Tijma, Hebr. 4. Þo skaltu vita, syndugur Madur, Skylldu þijna, þegar þu sem ert Molld og Aska, dyrfest ad tala vid Drotteñ, ad honum ber Dijrdeñ og Heidureñ, eñ þier ber Blygdan þijns Andlitis;

So

so giorde þesse Kviña, þvi hlaut hun Myskun; So giordu hiner 10. Lijkþrææ, þeir stoodu fiærre, þvi urdu þeir hreinsader: So giorde hin bersynduga i Simons Pharisæara Hwse, med hverium Jesus var ad Heimbode; Hun kraup Bak til vid hañs Fætur, og þvode þæ med Tarum sijnum, og þerrade med sijnum Hær-Lockum, kyste þæ, og smurde med Vidsmiore, enn er Phariseus hneixladest þar æ i sijnu Hiarta, og meinte þad være Ohæfa, ad slijkur Stoor-Syndare skyllde snerta hañ, sem Foolked hiellt Spææmañ ad vera, þæ liet Jesus hañ sialfañ seggia Doomeñ æ, ad sæ munde elska meir, sem meira uppgiefed være, enn Drotteñ sagde til hañs: Af þvi hun elskade miked, þæ eru heñar mørgu Synder fyrergiefnar. Ad sijdurstu snerter Kona þesse hañs Klæda-Falld, epter þvi sem hun Raad fyrer giorde med sialfre sier; Nær þorde hun ecke ad gæuga, og er lijklegt, ad hun hafe ætlad ad dyliast, þar hañ stood midt i Mañ-Þraungeñe, og munde heñar þvi ecke giæta. Margur hefur Jesum snorted i þessum Hoop, enn eingeñ so hart sem þesse Kona. Þad stendur skrifad um̃ vorn Herra, ad þegar hann sæ aumur æ nockrum, ad hañs Ydur hafe komest vid i honum af Medaumkan, so hefur og hier vered, hañ fañ Krapt wt af sier gæanga, hanns fodurleg Giædska gat ecke leynt sier, Bruñur Myskunareñar vall hier upp sialfkrafa, og sialft Himnarijke þolde hier Ofrijke: Enn læt þier þad af þessu til Hugar koma, Guds elskulegt Barn, ad Jesus Christur er uppfareñ yfer alla Himna, og er ecke framar med oss ad Lijkhams Vistuni, samt uppfyller þo hanns Klæda-Falldur þad heila Mustere, sem er christeleg Kyrkia Guds hier æ Jordunne, þar um̃ spæer Zacharias, Cap. 8. Þad skal skie æ þeim Døgum, ad tiju Menn af øllum Tungumaalum skulu þrijfa i Klæda-Falld Gydingsins, og segia: Vier vilium fara med ydur, þvi vier heyrum ad Gud sie med ydur. Hvernig er hann þæ med sinne Kyrkiu hier æ Jordunne? J Ordenu og Sacramentunum, þad eru hanns Klæde, þar er hann ad finna, þangad ættu ad þrijfa med Trwarennar Hende, þæ ertu honum eins nærre, og enn þæ nær. enn þesse Kona, enn allra hellst skalltu til þessa Raads taka, þegar øll ønnur bila; Nær hinn sijdarste Mootgæangur Daudenn þier ad Høndum kiemur, og þijnar lijkhamlegar Hendur þreifa ei leingur; Haf þæ so fest þijna Trwar-Hønd æ þessum Jesu Klæda-Fallde, um̃ Nædar-Tijmann, ad þu slepper honum alldrei fyrr enn hann blessar þig og muñ i giegnum hann ofann fliota til Sælar þinnar Kraptur af Hædum, sæ ed hana heilbryngda giore af øllum Sælar og Lijfs Meinum: Enn hann sem eingann vill fræ sier reka, er til hanns kiemur, hann sem lofad hefur ad bænheyra medann þu ert ad bidia, hann sem sialfur þreytte vid Daudann, og took ækaflega ad bidia, og kann þar fyrer ad sampijnast Eymdum þijnum, hann, segie eg, mun svara Sælu þinne fyrer heilagann Anda, hver ed vitnar med þijnum Anda; ad þu siert Guds Barn: Vert Hughraust Mijn Dootter, Þijn Trwa Giorde Þig Hoolpna. Þad veite oss øllum goodur Gud, fyrer Jesum Christum, Amen.

# Tuttugasta og Fimta Sunnudag epter Trinitatis.

## Gudspialled, Matth. 24. Cap.

I Pañ Tijma. Jesus sagde til siña Lærisveina: Nær ed hier siaed Svijvirding Foreidsluñar (af hverre sagt er fyrer Spaa-Mañeñ Daniel) standande i helgum Stad. Hver sem pad les, hañ hygge þar ad. Hverier þaa eru a Gydinga-Lande, flije þeir a Fiøll, og hver hañ er a Rtaifre, fare hañ eige ofañ nockud ad taka wr sijnu Hwse, og hver sem a Akre er, snwe hañ ei aptur, ad taka sijn Klæde. Eñ vei þwngudum og Briooſt-Mylkingum a þeim Døgum. Eñ bidied, ad ydar Flootte verde ecke um Vetur, og eige a Pvott-Deige. Pviad þaa mun verda so stoor Hørmung, hvilijk ad eige var i fraa Upphafe Veralldareñar, allt til þessarar Stundar, og ei helldur mun verda. Og nema ad þesser Dagar verde stytter, verdur eckert Holld hoolped. Eñ fyrer wtvalldra saker, þaa skulu þeir styttast. Eñ ef nockur segier þaa til ydar: Siaed, hier er Christur eda þar, þaa skulud þier ecke þvi trwa. Pviad þar munu upprijsa Fals-Christar og Fals-Spaameñ, og þeir munu giøra stoor Tækn og Undur, so ad i Villu munu leidast (ef skie mætte) eirneñ wtvallder. Siaed, eg sagda ydur þad fyrer. Nu, ef þeir segia til ydar: Siaed, hañ er a Eydemørku, þaa gaanged ecke wt. Siaed, hañ er i Laun-Kofum, þaa trwed eige. Pviad lijka sem Ellding wtgeingur af Uppgaungu, og skijn allt til Nidurgaungu, lijka so mun og vera Tilkoma Mañsins Sonar. Pviad hvar hellst ad Hræed er, þangad munu og Ernerner safnast.

## Exordium.

Jesus bijdur sijnum Lærisveinum i þessu Gudspialle, ad þeir skule ei trwa, þo ad þeim sagt verde: Hier Edur Par Er Christur, Pvi Par Munu Upprijsa Marger Fals-Christar Og Fals-Spaameñ, med ødru fleira sem epterfylger, og i Gudspiallenu sier lijkast hermer. Allt rættest þetta strax epter hañs Daga, so af þessu maa siaa, ad þad satt er sem Paulus um hann segier: Ad i hønum sieu hulder aller Fiaarsiooder Vitskuñar. Ecke einasta fundust þeir medal Gydinga, er sig giørdu ad Christe, so sem var Bar-Cocaba er Anno 130. Safnade Ogriñe Her a moote Hadriano Keisara, og sagdest vera Stiarna sw, er Bileam um spaaer, Num. 24. Helldur og medal þeirra er sig christna kølludu, so sem var Simon hiñ fiølkuñe, og otal fleire, sem wt komu af hañs Skoola, og tøldu Foolkenu þaa Trw, ad þeir væru Heimsins Endurlausnarer, giørdu og mørg følsk Krapta-Verk, so sem af fornum Christeñdooms Søgum er alkuñugt; Vid þessum tekur Jesus Vara sijnum Lærisveinum, og ecke einasta þeim, helldur og øllum þeim, sem hann og hañs Kieñingar elska mundu, þvi so sem hañ sagde i Bæn-

eñe

eñe til sijns hImneska Fodurs: Eg bid ecke einasta fyrer þeim (hañ meinte Lærefveinana) helld-ur og fyrer þeim, sem ꜳ mig trwa munu, fyrer þeirra Ord: So hefur hañ og þetta øllum þeim sagt, er postuleg Kieñing boþud verdur, so sem hañ og med þerum Ordum segier hiꜳ Marcum i 13. Capitula: Pad eg segie ydur, þad segie eg øllum, vaked þier: Og fyrer þvi, ad Amiñing þesse heyrer og oss til, yfer hveria lijklegt er ad Heimsins Ender sie komeñ, þꜳ vil eg hana alleina med sijnum Lærdoomum stuttlega yfervega.

Hvar til oss adstode goodur Gud med Krapte sijns Anda, i Jesu Nafne, Amen.

## Utleggingeñ.

Alldrei kuñum vier Guds foþurlegre Giædsku þar fyrer ad fullþacka, ad hañ hef-ur Lande voru þyrmt fyrer Villum og Afgudadyrkañ, hañs Nafn sie þar fyr-er lofad og vegsamad um Allder Allda. Samt mun þo ecke Satan lꜳta oss hlutlausa, varne Guds millda Hond vid þvi, ad hañ deyde Sæler Mañaña med folsk-um Kieñingum, þꜳ leitar hañ til med illum Dæmum, med vondum Fortolum, og A-eggian til Lasta og vondra Verka, med Toomlæte og Hyskne i þvi ad vijsa þeim Guds Gotu, sem hana ecke sꜳ sialfer ratad: Litlu skipter med hveriu moote ad Fiandeñ og hañs Verkfære svijkia daudlegra Maña Sæler wr Guds Hende. Jll Heimsins Ept-erdæme, sierdeilis þegar þau ecke stroffud eru, þau eru sterkare til ad draga Taum And-skotans, eñ nockur Villu-Madur: Margur mun vera fyrer rꜳnga Trw fordæmdur, og þo kañskie ei færre fyrer illañ Verknad; Þar fyrer segier og Endurlausnareñ. Ve þeim Mañe, fyrer hvern ad Hneixlaneñ kiemur, Matth. 18. Epterdæmed er ein almeñe-leg Tunga, sem aller skilia. Pad var hallded Furduverk um Mitridatem Konung i Ponto, ad hañ hafde i Lide sijnu allrahanda Þiooder, og gat þo talad siñe Tungu vid hvern þeirra; Eñ þad er stærra Furduverk, ad eitt Epterdæme talar þegiande vid alla Meñ, sem þad heyra, og þo þad sie hlioodlaust sialft, giorer þad Þusund Tungur skijrt talande: Jll Dæme spilla bæde vondum og goodum: Vonda draga þau til Epter-breytne; Þvi hvad elskar sier lijkt. Þañ gooda til ad tala illa um þañ, sem þad af sier giefur, þvi fꜳer eru so rꜳdsetter, ad ecke hallmæle þeim sem illt adhefst; Jafnvel þo Verked byrie ad hata enn Mañeñ elska, og Meñ eige ad lagfæra þad sem illa fer, enn lasta ecke, so sem Paulus ꜳmiñer þꜳ i Galatia, segiande, Cap. 6. Brædur; Ef nock-ur verdur yferstijgeñ af einhverre Hrosun, þier sem andleger erud, leidrietted þañ sama med hoogværum Anda. Pad er ad vijsu satt, ad eingeñ er sꜳ ꜳ medal vor, er kienne Villu neina; Enn hvert ad vier kuñum þar fyrer ad hroosa oss af þvi, ad hin sanna Trw ꜳ Christum, fyrer hveria Meñ Sæluhoolpner verda, hvert ad hun drottne i allra Maña Hiortum, þar um mættu Meñ efast nærsta miog. Endurlausnareñ segier um Fals-Spꜳmeñena, ad af þeirra Avoxtum skulu Meñ þeckia þꜳ: Og hid sama þore eg ad segia um þꜳ, er hroosa sier af Gudhrædsluñe (Þad er af Christeñdoomen-um, so sem Paulus hañ ꜳ stundum nefner) enn afneita þo heñar Krapte, 2. Tim. 3. Hver er þꜳ christeleg Trw? Hun ed verkar fyrer Kiærleikañ, Gal. 5. Enn hvernig honum vared sie ꜳ þessum verstu og sijdnestu Dogum; Þad fiñur hver eirn, þegar hañ



stijng-

stijngur Hendenne i sinn eigeñ Barm, og spyr sitt Hiarta ad, hversu fws ad hañ sie aa ad tilgiefa sijnum Naaunga hanns Misgiorder: Hvad miked hann vill missa af sijnum Munum, til ad hiaalpa þeim auma og naudstadda: Hversu liwfur hann er aa ad afsaka sinn Broodyr, tala vel um̃ hann, og fæра alla Hlute til betra Vegar: Hversu kostgiæfner ad Forelldrar og Hwsbændur eru i þvi, ad ala upp Børn sijn og Hiw i Guds Otta og goodum̃ Sidum: Med hveriu Skape ad Børn og Þioonustu-Foolk hlijda Forelldrum og Hwsbændum, edur hiner undergiefnu þeim yferbodnu: Allt ætla eg þetta fare i Olestre hiaa morgum Mañe: Hver þad heyrer, hann hygge þar ad, edur hver er þaa Christeñdoomuren, er Meñ hroosa sier af, þegar Kiærleikañ vantar? Hver ad er Saal Trwarennar; So sem Jacob segier; Ad hun sie daud aan Verkanna, Cap. 2. Hier stendur i ondverdu Gudspiallenu: Nær þier lijted Svijvirding Foreydsluñar, standande i helgum Stad: Margar Getur eru aa þvi, hvad þetta vered hafe: Nockrer meina þad hafe vered Bijlæte hins Rømverska Keysara: Adrer neita þvi, og segia þad hafe alldrei innkomed i Jerusalems Mustere: Sumer ætla þad eckert annad sie, eñ Her Roinveria, af þvi, ad þegar Lucas skrifar um̃ þetta Efne, segier hañ: Þegar þier siaaed Jerusalem umkrijngda med Herskyllde; Edur og so Dalldar Flockur, saa, er skomu fyrer Eydeligginguna braust inn i Jerusalem, og saurgade Mustered med Morde, Mañdraapum, og allra Handa Svijvirdingum: Þesser voru Gydinga Kyns, og kolludu sig Zelotes, þad er Vandlætara, og var þad Svijvirding noogu stoor, ad þeir settu uppaa sig Nafn gudlegrar Vandlætingar, sem Guds Mustere smaanudu og svijvirdtu, verr enn nockurn Tijma Heidingiar. Til eru þeir sem hyggia, ad þesse Svijvirding Foreydsluñar hafe vered Gull-Orneñ sw, er Herodes Konungur liet setia uppaa Mustered, til Agiætis vid Roma Rijke, hvers Merke ad Orneñ var, og hofdu Roinveriar aa þeim Atrwnad mikeñ, þess gietur Tacitus i sinnar Añaala Bookar, Cap. 2. Er og all-lijklegt, ad þad hafe nockud þesshaattar vered; Þvi Svijvirding Foreydsluñar, sw er Daniel talar um̃, Cap. 11. Er aan alls efa Bijlæte Skwrgodsins Juppiters, er Antiochus Epiphanes liet setia inn i Guds Mustere, af hveriu raada maa, ad þesse, er Daniel um̃ spaaer, Cap. 9. Og Endurlausnareñ hier um̃gietur, mune hiñe fyrre aa einhvern haatt hafa lijk vered; Samt er allt þetta ad vijsu ovijst, og þo eg segie hier um̃ imsra Maña Meiningar, til Froodleiks þeim, er epter vilia taka; Þaa vardar oss, christna Meñ, nærsta lijted hier um̃; Eñ hitt byriade oss ad rannsaka, hvert ad Svijvirding Foreydsluñar kyñe ecke eñ nu ad fiñast i Guds Kyrkiu, ef vel er leitad. J Jerusalem hafde Gud sett Miñing sijns Nafns æfeñlega; Hin lijkhamlega er nidurbroteñ, Guds Reide-Stormur hefur heñe um̃ Koll kastad, eñ hin andlega mun verda hiaa oss til Enda Veralldar, Matth. 28. Enn hvert henne er alltijd so hreiñe halldeд, sem byriar, þar er vandlega adgiætande; Eg sagde, ad i Jerusalem hefde Gud sett Miñing sijns Nafns, þar bioo hañ yfer Cherubim, enn þad er ecke miñe Naad, ad hinn ædste Prestur hefur sagt til vor, Joh. 14. Hver sem elskar mig, hann vardveiter

er

er mijn Ord, og miñ Fader mun elska hañ, til hañs munum vid koma, og Vistar-Veru hiá honum giora. Eñ æ oss daudlega Meñ, under Syndeña sellda! Hversu lijtil er Miñing Guds Nafns hiá oss, þegar vier metum alla Hlute framar hañs Dijrd? Hversu lijted af vorum Gagnsmunum, voru Lijkhamans Epterlæte, vorum Virdingum, vilium vier á stundum missa fyrer hañs Elsku? Hvad opt metum vier Bod Mañaña meir eñ Guds, og hrædunst meir þá ed Lijkhamañ kuña ad deyda, eñ hañ, sem Lijfe og Sálu kañ ad kasta i eilijfañ Elld? Hvad opt giorum vier siálfa oss ad Gudum, er vier tilreiknum vora Hamingiu og Luckn-Lán Framsyne vorre og Erfidismunum, enn giætum ecke ad þvi, ad nema Gud vakte Borgernar, þá vaka Voku-Meñerner til forgiefens, nema Gud bygge Hwsed, þá erfida þeir ed byggia til onijtis? Ps. 127. Hvad lijtil er Miñing hañs Nafns hiá oss, þegar vier vanbrwkum hañs heilaga Nafn, sverium og liwgum þar vid, já, þyker þad eingeñ Synd vera, þvi þad sie daglegt Mál? Já, margur selur Jesum fyrer miña eñ Judas, sá ed leggur hañs Nafn vid hiñ allra miñsta Hiegooma: Hversu lijtil er Miñing hañs Nafns hiá oss, þá vier foroktum hañs heilaga Ord, og fordunst þángad ad koma, sem þad er um Hond haft? Hversu lijted miñunst vier þá á hañ, sem Mootmæleñ þolde af Syndurunum, til ad opeñbera syndugum Moñum Lijfsins Veg? Þegar vier vilium ecke liá vor oumskorenn Eyru til ad heyra þad, sem er þo Kraptur Guds til Sáluhiálpar ollum þeim sem trwa; Rom. 1. Meñ sitia á stundum under Heyrn Guds Orda, og vita ad heilagur Ande er i Ordenu, og þad er eins og eitt Mustards-Korn, hvert ad er hid miñsta medal Sádaña, eñ vex þo so hátt, ad Fuglar Himensins bwa sier Hreidur i Greinum þess, Matth. 13. Samt vilia Meñ ecke liá þvi hid allra miñsta Rwm i Akre sijns Hiarta, hvar inne þad frioofgast meige og Avoxt færa. So sitia vorer Bwgardar, vor Akneyte og allra Handa Hiegoome Veralldareñar þar, sem hin heilaga Guddoomsins Þrenningætte ad sitia, i sijnu Mustere, sem ad er vort Hiarta, 1. Cor. 3. Segied mier i Guds Nafne, segied mier; Er ecke þvilijkt Svijvirding Foreydslunnar standande i helgum Stad? Jesus hefur láted i sijna Kyrkiu hier á Jorduñe iñsetia sitt Vijslæte, þad er Kiærleikureñ, þad er hañs Mynd, þvi hañ er Gud, og Lioome sijns Fodurs og Jmynd hañs guddoomlegrar Persoonu, Heb. 1. Eñ Gud er Kiærleikureñ, 1. Joh. 4. Þetta sitt Vijslæte fieck hañ i Hendur sijnum elskulegum Læresveinum, er hañ sagde, Joh. 13: þar af skulu aller þeckia ydur, ad þier sieud mijner Læresveinar, ad þier elsked hver añañ. Þessa Lijknesskiu Jesu settu þeir iñ i hañs Kyrkiu hier á Jorduñe, med allre Trw og Dyggd, þvi skrifad er, Act. 2. Ad aller Hluter voru sameigenleger med þeim trwudu i Jerusalem; Þeir báru Eigur sijnar fram fyrer Postulaña Fætur, til ad skipta þeim upp medal naudþurfstugra, og aller voru þeir i Eindrægne Andans: O! hvad olijker þessum Tijmum; Þar Ráan og Stulldur, Okur, Harddrægne, Rangslætne i Kaupum og Solum, Myskunarleyse, Agg, Reidi, Fiandskapur, Osund og Drambsemi þykia sutera Manna á medal, annadhvert einger Okoster, edur og so smærer Lester

ad

ad vera: Er þad hañs Bijlæte, sem so heitt elskade oss ad hann doo fyrer oss rææng-
kææta, þaa vier vorum hañs Dviner? Rom. 5. Er þad hanns Lijking, sem ecke upplauk
sijnum Muñe, þegar honum var moormælt, helldur eñ Saudur til Slaatrunar leidd-
ur? Esa. 53. Er þad hañs Mynd, sem gieck i krijng, giorde gott og grædde alla, jaa,
allt giorde hann vel, þvi daufa liet hann heyra, og maallausa tala? O vei! O vei! Jeg
þore ad segia; þar er onnur Mynd innkomenn; ecke hins romverska Keysara edur
hanns Merkes, helldur Andskotans og hanns Merkes, sem er Syndenn, hveria ad
Madurenn lætur drottna i sijnum daudlegum Lijkhama, og lær Limu sijna henne til
Vopna: Þier erud af Fodurnum Fianda, og leitest vid ad fyrer kosna mier, segier
Jesus vid Gydinga, Joh. 8. Enn þeir ed eru hardbrioostader, ææsælner, sierplægner,
og ecke þyrma hanns Limum, munu þeir ecke strijda under sama Merke og þeir ed hann
hotudu og af Lijfe tooku? Edur hvad er þad sem Raustenn af Himne sagde vid Paal,
Act. 9. Er hann foor med Hernade og Ofride til Damascum, aa moote Guds Sofn-
ude: Saul, Saul, þvi ofsæker þu mig? Edur þad sem Doomare lifendra og daudra
vill segia til hinna gudlausu, þegar hann kiemur i Skijum Himens med Makt og mikilu
Vellde, a hinum strææuga Deige alls Holldz: Hvad þier giordud einum af þessum
mijnum minnstu Brædrum, þad giordud þier mier, Matth. 25. Andskotenn kom i
Orms Lijke, þegar hann sveik vora fyrstu Moodur, þad var hanns Mynd; Enn Christ-
ur nefner þaa Eytur-Orma og Nodru-Kyn, Matth. 23. Sem ad utsijuga Hws Eck-
na og fodurlausra; Þeir ed tijunda Mintu, Anis og Cumen, Hlute sem eckert var ispuñ-
ed; Enn gleymdu þvi sem hellst er i Logmaalenu, Trwnne og Myskunseminne: Mun
ecke þesse Hoggormsins Mynd allvijda vera skridenn inn fyrer Drottens Altare, sem
er Mannsins Hiarta? Þar Flaattskapur og Underhyggia spunnenn samann vid A-
gyrne og Fitdtrætt, og adra þvilijka Leste, þyker framsyne ad vera, og saa Vitfyrring-
ur, sem ecke kann ad fleita sier i þessu. Christur segier hier i Gudspiallenu; Ad Hææske
þeirra Tijma, sem koma mune epter Jerusalems Eydeleggingu, mune so mikell verda;
Ad i Villu munde jafnvel leidast, ef skie kynne, utvallder; Og þad vegna Fals-Spaa-
mannanna, þeirra er opndu epter Guds Almætte, og sviku margar Saaler fraa hon-
um: Svoskiedur og aa þessum vondu Dogum alltijtt og allvijda; ad þeir sem annars
mundu froomer vera, þeim tekst þad ecke vegna hiña rææugsnuenu og hreckvijsu i Ver-
olldenne, um hveria Salomon talar, Prov. 1. Ad þeir segie: Kom med oss, vier vil-
ium umsitia Blood, og hylia oss ad osekiu fyrer hinum meinlausa; Vier skulum eign-
ast mikel Audæfe, og fylla vor Hws med Herfææng, legg Fe-Lag med oss, vier skulum
aller einn Siood hafa. Einga argare Fals-Spaamenn þarf, eñ þvilijka Belials Syne,
og so spillta Naatturu vora, þvi hver eiñ freistast þegar hañ af siñe eigeñ Gyrnd verdur
tældur og afvega leiddur, þar epter Gyrndeñ, nær hun er frioofsom vordeñ, fæder hun
Syndena, eñ þegar Syndenn er giord, fæder hun Daudann, segier Jacob, Cap. 1.
Drage eingeñ sialfañ sig aa Taalar þar med, þo ad slijker umgæængest med sama

Hætte

Hætti og adrer i Guds Christni; Þeir heyra Orded, eñ færa ei Avöxt þar af, þeir brwka Sacramenteñ, eñ þo sier til Dooms-Afellis; Þeir segia, Herra, Herra, enn giora þo ecke Födursins Vilia, þvi vill og Doomareñ til þeirra segia ꜳ hinu mikla Allsheriar-Þijnge; Ecke þeckta eg ydur. Jesus segier um̃ Fals-Spꜳmennena, ad þeir kome i Sauda-Klædum, eñ iñra sieu þeir glepsande Vargar: So eru og þeir, ed locka einfalldar Sꜳler frꜳ Gude med vondum Fortolum; Þesser eru þeir er St. Judas um̃talar i hañs Pistle segiande: Þesser eru Bletter i ydar Kiærleiks-Veitslum, nær þeir hallda Samsæte med ydur: Fædande sialfa sig hyggiulaust, Sky fyrer utann Vatn, hveriu Vindureñ i krijng feyker, rotnar Eykur og ꜳvaxtarlausar, tvisvarsinnum daudar og upprættar; Og ef þañ Veg var hꜳttad ꜳ hinum fyrstu Christnennar Dögum, þegar ad Krapta-Verkeñ fylgdu eñ þa Kieñinguñe; Hvad mun ei nu vera, þar ad þvi mun lijda, ad Mañsins Sonur ecke fiñe Trw ꜳ Jordu? Luc. 18. Og lijklegt er, ad þeir Tijmar nu yferstande, sem Röddenn af Himne spꜳer um̃, Apoc. 12. Vei ydur sem ꜳ Jorduñe bwed og ꜳ Sioonum, þvi Diofulleñ er ofañ til ydar fareñ, hafande Bræde mikla, af þvi hañ veit hañ hefur stuttañ Tijma. Nu fyrer þvi, christner Meñ, ad hier er slijkur Vode ꜳ ferdum, þꜳ verdum vier af hinum gooda Meistara ꜳminnter i þessa heilaga Dags Evangelio; Lꜳtum oss ecke feikia af hverium Vinde Lærdoomsins, Eph. 4. Edur teigia med Hafgyiu-Saung Veralldarennar i Snörur Diofulsins. Jesus giörer þad hier bert med skijrum Ordum, hvernig hann og hañs Kieñingu þeckia meige frꜳ annarlegum Lærdoomum. Ef Þeir Segia Hañ Sie A Eydemörku, stendur hier; Ad sonnu kiende Jesus i Eydemörku, þo i margra Þusunda Aheyrn, ecke i Laun-Kofum, þvi hann talade eckert i Afkimum, helldur kiende hañ opeñberlega i Musterenu, þar fyrer lijker hañ Tilkomu siñe vid Elldingu þꜳ, er wt fer af Uppgaungu, enn skijn allt til Nidurgaungu, hvad eg hygg ad ecke sie ad skilia um̃ hañs Tilkomu til Doomsins, helldur um̃ hañs Nꜳdar-Tilkomu i Ordenu, og Leyptran Evangelii, hvers Byrta ad strax epter hañs Himna-For, og allra hellst epter Jerusalems Eydeleggingu upplijste mikenn Part Veralldar frꜳ Austre til Vesturs; Og þad dreg eg þar af, ad hier talast ecke um̃ Skiootleik Elldingareñar, helldur um̃ heñar Byrte, og Jesus er hier um̃ Kieñingar ad tala, enn ecke um̃ sijna Tilkomu til Doomsins, fyrr eñ sijdar i þessum sama Capitula. Um̃ þessa Byrte Guds Evangelii og siñar Predikunar talar Paulus, 2. Cor. 4. Segiande: Þar fyrer höfum vier afsalad oss þau Fylsne, er Meñ meiga skamast sijn fyrer, ecke gꜳngande med Underhyggiu edur falsande Guds Ord, helldur i Opeñberun Sannleikans, giörande oss i allra Manna Samvitskum velþockada fyrer Gude; Þvi ef vort Evangelium er huled, þꜳ er þad þeim huled sem tapader verda. Nu fyrst ad Guds födurleg Giædska hefur so vijdt wtbreidt Þeckingu sijns Nafns, so þad Foolk sem sat i Myrkrunum hefur sied Lioos miked, Marh. 4. Og hun er einnig til vor komeñ, sem bwum under þessu ytsta Heimsins Skaute, sꜳ ad segia ꜳ Foot-Skor Veralldareñar, þꜳ lꜳt þiñ Foot vera fwsañ, christ-

enn Madur, til ad gaanga i Guds Hws, þar sem hanns Ord er um Hond haft, og lijd ecke ad Saalu þijna velge vid þvi so sem odru Liettmiete, þvi þad er Foodur hennar, enn hvers henne mun med eilijfu Hwngre saalgad verda i Helvijte, hvar fordæmder ecke faa munu einn Dropa Vatns til ad kiæla Twngu sijna med, þar þeir kveliast i þeim Loga, Luc. 16. Hvar sem ad Hræed er, þaangad safnast Ernirner: Þetta talar Guds Sonur ann alls Efa um sialfann sig. O minn Herra Jesu! Þvi er so adkveded þijnum blessada Lijkhama? Hvern ad jafnvel Englarner og Hofud-Englarner eigna: Fyrer hverium ad Kraptar Himnanna bifast: Fyrer hverium oll Verolldenn leikur a Reide-Skialfe: J hverium ad bijr oll Fylling Guddoomsins lijkhamlega, Col. 2. Hann verdur hier Hræ nefndur: Hvar fyrer er þetta skied, christner Menn? Jeg minnest a mijnar Synder a þessum Deige, sagde Skeinkiare Pharaonis fordum i Egyptalande: Og þvi munde oss þa ecke ollu skylldara vera, ad minnast a vorar Jllgiorder, sem hafa Guds Son kvaldann, og Hertoga Dijrdarennar a Krossenn festann? Þvi sannlega bar hann vorar Synder, og vorum Orkumslum hlood hann a sig, Hegningenn hefur a honum leiged, og fyrer hanns Benjar erum vier heilbrygder vordner: Hann er ordenn hinn fyrerlitlegaste og forsmaanarlegaste, fullur Eymda og Kraankleika; So sem saa, ed hylde sitt Andlit fyrer oss, og þar var eckert a honum, sem vier virdtum, Esa. 53. J einu Orde ad segia: Hann var so sem eitt wtkastad Hræ, so sem Madkur og ecke Madur, fyrer vora Skulld, sem laaum i voru Bloode, wtkastader a Vijdavaangenum, og þar var ecke eitt Auga sem myskunade oss, þegar hann sagde til vor, i voru Bloode, ad vier skylldum lifa, Ezech. 16. Enn þenna Maalshaatt framsetur vor Drottenn til þess, ad kienna sijnum Læresveinum, hvar hann sie ad finna, sem er, i hinne sonnu christelegu Kyrkiu, er hann hefur stiptad hier a Jordunne, þar er hanns ad leita i Ordenu og Sacramentunum: Þaangad sækia aller hanns Elskendur: So sem Ernerner ad Hræenu. Ef eg verd upphafenn fraa Jordu, þaa mun eg draga alla til mijn sialfs, segier Jesus, Joh. 12. Hann meinar ann alls Efa, þegar hann yrde upphafenn a Krossins Gaalga; Þvi Johannes skrifar: Ad hann hafe sagt þetta, teiknande med hverium Dauda hann deya munde.

J þessum Jesu Dauda hafa allar harmþrwngnar, allar sann-ydrandi Manneskiur, allar þær sem hwngra og þyrsta epter Riettlætenu, þær hafa þar, segie eg, eitt andlegt Foodur, ecke sijdur enn Ernerner i Hræenu. Heilagur Johannes, saa ed þetta skrifar, um hvern og segiest, ad Jesus hafe hann elskad, hann verdur samlijktur einum Erne, og þad þess vegna, ad hann hefur med hanns andlegum Skilninge so haatt floged, ad eingenn hefur so greinelega talad um þann orannsakannlega Leyndardoom Guddoomsins Þrenningar, og Holldtekiunnar Christi, sem hann i hanns Evangelii og Pistils fyrstu Capitulum. Ein riett-christenn Saala er einn sannur Christi Læresveinn, hvern hann elskar, hennar Umgeingne er a Himnum, hvar hennar Fiesioodur er, þar er hennar Hiarta, enn hennar Fiesioodur er a Himnum, hverium ei kann Molur nie Rid ad granda, Matth. 6. Hun flijgur upp i Hæderner med Trwarennar Vængium, under hverrar Hlijdne

hun giefur sijna Skilningu faungna, þar finnur hun sitt Foodur, þvi hanns Holld er sannarleg Fæda, og hanns Blood sannarlegur Drycku: Þetta sitt Holld og Blood gaf hann sijnum elskulegum Lærisveinum til Nautnar i Drottenlegre Kvølldmaaltijd, skommu ádur enn hann lijflaatenn var; og giørdest so sem eitt Hræ fyrer vorra Synda saker; þanngad safnast eirn nu i Dag, epter hanns Bode, aller þeir sem erfida og Þwnga eru þiader, til ad endurnæra Saaler sijnar og ad minnast Dauda Drottens, med hverium þeir forlijkter eru vid hinn lifanda Gud, hann sedur þinn Munn med Giædum, og endurnijar þinn Ungdoom, so sem Arnarenar, segier David, Ps. 103. Hverge skiedur þad helldur, enn i Medtøku Christi Holldz og Bloodz, þaa Madurenn þess neyter under eins med Trwarennar Munne, og einn harmþrwngenn Ande smackar hvad sætur ad Drottenn er, þvi Jesus segier: Eg er hid lifanda Braud, sem af Himnum ofann kom: Ef nockur etur af þessu Braude, hann skal eilijflega lifa: Enn þad Braud, er eg gief, er mitt Holld, sem eg mun utgiefa fyrer Lijf Veralldarennar, Joh. 6. Hann meinar hier samt hina andlegu Nautn, sem med Trwnne skiedur: Fyrer þvi segier hann aptur so, Joh. 11. Eg em Upprisann og Lijfed; Hver sem aa mig trwer, þo hann sie daudur, þaa skal hann samt lifa: Jaa, af þessare Andlegre Nautn, verda þeir himnesku Erner, sem eru christnar Saaler andlega endurnijader, og alltijd ein nij Skiepna i Guds Auglite, þvi af henne vidurkveikest Trwenn, af Trwnne kiemur Elskann, af Elskunne fædest Kiærleikurenn til Naungans, af hverium ad uppspretta allar christelegar Dyggder og Mannkoster; Þar fyrer segier Jesus enn þaa, Joh. 6. Saa sem etur mitt Holld og dreckur mitt Blood, hann blijfur i mier, og eg i honum: Enn saa Madur er blijfur i honum, og hann i Mannenum, hann ber mikenn Avøxt, Joh. 15. Eg hygg Jesus hafe teked þenna Ords-Haatt af Jobs Bookar, Cap. 39. Þar ed Drottenn segier vid hann umm Ørnena, hun bijr i Klettunum og i Fiøllunum, og i Turnunum, þadann skygnest hun epter Ætum laangt aa Leid med Augum sijnum: Hennar Ungar drecka Blooded, og hvar sem Hræenn eru, þanngad flijter hun sier. Minn Herra Jesu! hver er hann, sem segier, Cant. 2. Mijn Dwfa, þu sem i Biargskorunum bijr, og i Fylsnum hinna þverhnijptu Klettanna: Sijn mier þitt Andlit, og laat mig heyra Raust þijna, þvi þijn Raust er fogur, og þijn Asijnd lysteleg: Ertu ei sialfur þad, minn Herra Jesu? Hver er hin sæta Raustenn? Þad er þad Lofed þu hefur þier tilreidt af Munne Smaa-Barnanna, sem mylkia sinnar Moodur-Briost, og þinnar Unnustu. Hver er hin fagra Asynd? Þad er sw, sem þu oss afrekader, þegar þijn Asiaana vard afskræmd, meir enn annarra Manna. Hver er þijn Dwfa, minn Herra? Þad er þijn christeleg Kyrkia, sem hier verdur i Evangelio Ørn kølltud. Hveriar eru Biargskorurnar? Þad eru þijnar blessadar Under, þu sem ert vort fasta Biarg, og Hella vors Hiaalpræd is. Hverier eru hennar Ungar? Þad eru þijn og hennar Børn, þijn Børn, sem Drottenn hefur giefed þier, Es. 8. Og ecke epter Holldsins Villd, edur Mannsins Vilia, helldur epter Gude eru fædd, hveriumm þu hefur og Magt giefed Guds Børnum ad vera, Joh. 1. Hvert er þad Blooded, er þeir lepia?

Þad er þitt Blood, O Jesu! sem hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hvert er þad Hræed, er þeir safnast ad? Þad er þiñ blessadur Lijkhame, sem er sañarleg Fæda, Joh. 6. Og a Gaalgañ var fyrer vorar Jllgiørder heingdur; Þangad viljum vier safnast, þar viliumr vier Sadning finna Saalum vorum, þar viliumr vier lifa og deya: J þessum Biarg-Skorum viliumr vier hylia oss a hinum stranga Deige, medañ Reideñ fram hia heingur, og ecke segia til Haalsaña, hylied oss, edur Fiallaña, hrinled yfer oss, þvi þu Drotteñ ert vor Kastale, vort orugt Vijge, vort fasta Biarg.

Þier med Fødur og heilogum Anda, sie Lof, Prijs, Heidur og Vegsemd og Æra, af øllum utvoldum Englum og Mønnum sogd og sungeñ, um Allder Allda, Amen, i Jesu Nafne, Amen.

# Tuttugasta og siøtta Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 11. Cap.

Á Þañ Tijma. Jesus andsvarade og sagde: Eg þacka þier Fader og Drotteñ Himens og Jardar, ad þu dulder þetta fyrer Spekingum og Vitringum, og opeñberader þad Smælingium. Ad soñu Fader, þviad þad var so þægelegt fyrer þier. Aller Hluter eru mier i Valld giefner af mijnum Fødur. Og eingeñ þecker Soneñ nema Fadereñ, og eingeñ þecker Føduren nema Sonureñ, og hverium Sonureñ vill þad opeñbera. Komed aller til mijn, þier sem erfided, og Þwnga erud hladuer, eg skal endurnæra ydur. Taked a ydur mitt Ok, og læred af mier, þviad eg em hoogvær og af Hiarta lijtelatur, og munud þier fiña Hvijld Saalum ydrum, þviad mitt Ok er sætt og mijn Byrde er liett.

## Exordium.

Valla trwe eg, ad nockur huggunarsamlegre Grein fiñest i heilagre Ritningu, eñ þau dijrmætu Ord Frelsarans, er standa i þessu blessada Evangelio, med hverium hañ hefur tilbodid Naadar og Endurnæringar boded øllum þeim, sem Erfide drijgia, og Þwnga eru hlader. Hvad kañ sa gledelegra ad heyra, sem allskins Syndum hladeñ er, og einkis a Von nema eilijfra Pijsla, helldur eñ þad, ad hañ sem allt Valld er giefed a Himne og Jørdu, Matth. 28. Hañ bijdur til sijn ad fyrra Bragde soddañ eiñe voladre og tapadre Mañeskiu, og ecke einasta bijdur heñe til sijn, helldur og lofar ad hañ vilie endurnæra hana? Þetta er so dijrmætt Ord, ad eckert kañ fagnadarsamara ad hugsast edur talast: Eñ hverier ad sieu meinter med þessum Lausnarans Ordum, þar um er ecke allra Meining eins. Sumer ætla ad Drotteñ hafe talad hier um þa sier i lage, sem ad leitudu Saaluhialparenar a þeim Døgum i Kyrkiu-Sida Løgmaalenu, i Fedraña Setningum, og i Verkum Løgmalsins, eñ kuñu þo einga Hvijld ad fiña Saalum sijnum þar af. Þesse Meining er Guds Orde samhlioda, þvi Esajas Cap. 9. kallar Løgmaaled Byrdar Þwnga. Adrer meina ad hier med sieu þeir meinter, sem under Krossenum stynia, og bera Christi Ok a Herdum sier, eñ briota þo ecke Oked i sundur, edur þverskallast a moote Gude, sem þad aleggur. Ad sijdustu ætla nockrer, ad þad sieu þeir,

sem

sem stynia under Byrde Syndaña, og skielfast fyrer Guds Reide og eilijfre Fyrerdæmingu. Nu fyrer þvi, ad hiñ stoore Biskup med þau vellærdu Twnguna plagade ą sijnum Hiervistar Dogum mikla og marga Hlute i faum Ordum iñe ad binda, þa hygg eg ad allt þetta, sem aldur er umgieted, sie foolged i þessu Maale, hañ bijdur øllum til sijn, þad er øllum þeim, sem ą einhvern hatt eru mædder edur Þwnga þiader, jafnvel ogudlegum; ydrunarlausum og Þverbrotuum, hverium hin mesta Byrde ą Herdum liggur, þo ei fiñe þeir til heñar, þar hañ er fyrer alla dauñ, 2. Cor. 5. Og fyrer hveria hañ dauñ er, þeim hefur hañ til sijn boded, þvi eingeñ vill hañ tapest, helldur ad aller komest til Sañleikans Vidurkieñingar, 1. Tim. 2. Eñ søkum þess, un er eingeñ sa medal vor, sem leite ad Saaluhiaalpeñe i Lögmaals-sins Verkum edur Setningum, eñ um Krossburd Drotteñs hefe eg nockrum finum adur talad. Þa vil eg i þetta siñ tala um þa, sem under Byrde Syndaña þreitter eru, og hvad þad sie hellst, sem oss eige ad leida til ad taka feigens Hende ą moote þessu unadarfulla Tilbode. Eñ þu giædskurijke Fader, sem øllum hefur til þiñar Myskunar boded, styrk oss med Krapte þijns Anda til þessa Verks, fyrer Jesum Christum, Amen.

## Utleggingeñ.

So þar eckert añad være, sem kynne ad hræra oss til ad fagna þessu giædskurijka Bode, þa er þad vor eigeñ Eymd: Hver er so þyrstur, ad hañ verde ecke feigeñ ad drecka, hwngradur ad mettast, þreyttur ad hvijlast, sioohrakeñ ad na Hofnteñe, siwkur, ad hañ ecke giefe Aleigu sijna til, ad hañ meige heill verda, og sa ed i Fangelse situr, ad hañ kaupe ecke Lausn sijna dijrum Doomum? Enn nu er þad audvitad, ad Mañeskiuñe ą medañ hun er under Guds Reide, heñe er midur fared eñ øllum þessum. Eingeñ Þorste, Hwngur, Erfide edur Siwkdoomur kañ ad jafnast vid þad, ad eiga Von ą hañs Oblijdu, fyrer hvers Auglite ad skialfa Fiskar Siaafarens, og Fuglar Himenseus, og Dijr Merkureñar, og øll Skridkvikinde ą Jorduñe, og aller Meñ, sem ą Jorduñe eru, Fiolleñ klofna, Biorgeñ hrynia, og aller Mwr-Vegger munu til Jardar falla, Ezech: 38. Eckert Haf-Root er so sem Belials Becker, Ps. 18. So sem þau Votneñ, sem gaanga iñ ad Saalu eins aumgraads Syndara, Ps. 69. Hver eru þau Bond og Fiotur, sem meige jafnast vid Myrkraña Hlecke, 2. Pet. 2. Vid þad Dijke sem vellur af Ellde og Breñesteine? Apoc. 21. Og kunnum vier ecke ad efast uñ, ad allt þetta er Syndaranum bwed, þegar vier lesum i Logmaale Drotteñs, Devt. 27. Ad saa skule bolvadur vera sem ecke helldur allt þad sem þar er iñe skrifad: Segied mier þa, Born mijn, hvilijk Faasiña er þad, ad taka ecke ą moote honum med allskonar Blijdu, sem bijdur Moñunum ad giora þaa kvitta vid Offop þesse? Hiaa hverium øll Verallldareñar Ogiæfa, Hwngur, Fatleyse, banvænar Sootter, Orbyrgd, Utlegd, Offookner, Ellds-Naud, Sverds-Eggiar, og jafnvel sialf Fiorbroteñ i Daudanum; Þo allt þetta i einu hladest ą eina Mañeskiu uñ allañ Heims Alldur, þa være þad, segie eg, hid mesta Epterlæte og Sæla hiaa hinum eilijfu Hormungum, er Syndeñ hefur tilnñed. Og være nu þetta Tilbod ecke so mikels virdande, ef vier hefdum nockud til þess uñed, edur vitudum þess ad fyrra Bragde, þvi þad kynne þa ad heita so sem nockurskonar Verdkaup, so sem ef eiñ Þienare giorer eitthvad þad, sem einum Hofdingia vel lijkar,

ad hann setur hañ vid sitt Bord, og sæmer hañ Gløfum, jafnvel meir eñ hañ hafde til-uñed: David giorde vel vid Mephibozet, og liet hann eta Mat vid sitt Bord, sokum Vinaattu sinnar vid Jonathan Fødur hanns, 2. Sam. 9. Vidlijkt giørde hañ og vid Son Barzillai wr Gilehad, 1. Reg. 2. Enn þvi er ecke til ad segia hiaa oss; Eingeñ leitar ad Gude þegar hañ kiemur i þeña Heim, sialfur bijdur hann oss til sinnar End-urnæringar i Skijrneñe: Þad maa um̃ alla Menn segia, sem Ritningenn segier um̃ hina Vantrwudu Verolld, ad allt Holld hafe fordiarfad sijna Vegu, Gen. 6. Reidennar Børn fædumst vier, Eph. 2. Reidennar Børn mundum vier uppalast, og deya Reid-ennar Børn, nema Gud fyrer Jesu Dauda hefde meire Myskun aa oss giørt. Eg heyre ecke i Gudspiallenu, ad þad Foolked sem var samannkomed ad heyra þessa Predikun, þau hafe leitad epter þessu Tilbode. Hann blessadur var i þessare Rædu ad straffa þær ogudlegu Borger Corazin, Betzaida og Capernaum, i hverium giord voru flerst hanns Kraptaverk, og er hann sem mest aangradest af Mannanna Oþacklæte, þaa spratt upp þesse lijknarfulla Vatns-Æd af Brunne Myskunarennar, og skulum vier ecke meina, ad hann hafe þad alleina talad til þess Foolksins, er þaa naalægt var, helldur og til vor, sem Ord hañs heyrum eñ nu i Dag. Dæmed þier nu sialfer, Brædur mijner, ef eiñ naud-staddur og allskonar Eymdum hladeñ visse sier Hæle vijst, og villde þess ecke leita, jafn-vel þo ecke være honum þad boded, jafnvel þo hañ mætte hafa stoora Eptergaangsmune þar fyrer, munde hañ ei raadlaus hallldeñ af øllum Moñum? O! hvad tefur oss þaa ad reña aa moote vorum Brwdguma, er ad fyrrabragde hefur oss Glæpa-Moñum og Ovinum sijnum þessa dijru Heilsu-Giof framboded, og liett af oss þessu Oke? Þu seg-ier kañskie i Hiarta þijnu, eg fiñ ecke til þessarar Byrdar, vel fer um̃ mig, og eg kieñe mijn einkis Meins; Þetta er allt offatt, hvad Gud naade, findu Menn til Meina sinna, þaa mundu fleire heilbrygder verda: Þu typtar þaa Drotteñ og þeir fiña þar ecke til, sagde Jeremjas, Cap. 5. Um̃ Foolked i Jerusalem; Sama maa eg segia um̃ þaa, sem Guds heilaga Logmaals Reidar-Þrumur slaa um̃ Eyrun, og þeir finna þar ecke til, þo þar-flwge einn Skruggu-Steiñ af Synai i hveriu Orde. O þu vesæll Madur! giæt þo þess, ad betra er eitt miked Saar, ef þad er lifande, helldur enn lijtel Skeina daud og swæñ; Betre voru allar Raanglætingar Tollheimtumañsins þegar þær voru jaatadar, helldur enn allt Phariseearans Riettlæte, sem hann stærde sig af, Luc. 18. Betre vo-ru Synder hiñar bersyndugu, sem þvode Jesu Fætur i Taarum sijnum, helldur enn Vandlæte Simons, er kallade þad Ogiorning, ad snerta hana, Luc. 7. Þu ert þier eing-ra Stoor-Glæpa medvitande, muntu þar fyrer vera saklaus fyrer Gude? Veitstu ecke ad Himnaña Himnar eru ecke hreiner i hañs Auglite? Joh. 15. Þvi muntu þaa vera, sem daglega syndaar, og viñur ei nema til Hegningar? Veitstu ecke ad jafnvel hin minsta Synd steiper Mannenum i eilijfa Glotun, nema Sonur Guds hefde bætt fyr-er hana? Ecke eingasta hañ, sem giorer Stoorverkeñ af þvi sem bañad er i Logmaal-enu, helldur og saa, sem ei giorer allt þad sem i þvi boded er, hann er bolvadur. Gal. 3.

Muntu

Muntu þaa ecke vid Gud sekur verá; Þo ei veger þu Maň, edur kreinker Egta-Kvinnu þijns Naunga, edur steler med Launung hañs Femunum? Edur er þad forgiefens, sem hann hefur sagt, Matth. 5. Hver sem lijtur eina Konu til ad gyrnast hana, hann hefur allareidu drygt Hoor med henne i sijnu Hiarta; Og hver sem reidest Broodur sijnum, hann er Raads sekur?

O Gud giæfe! ad Menn væru so kostgiæfner i þvi, ad rannsaka sialfa sig, so sem ad hnijsa uñ annars Hattseme, þad er oss ecke so forult ad giora, jafnvel þo eckert sie oss þarfara edur naudsynlegra, til ad nalægiast vorn Frelsara med christelegre Ydran, þad er so omissande, ad ef vier vilium þad ecke giora, þaa giorer hann þad sem ad Hiortun og Nijrun rannsakar: Þvi segier hann hia Zophon. 1. Cap. Þad skal skie a þeim Deige, ad þegar eg rannsaka Jerusalem med Lioose, ad eg skal straffa þaa Menn, sem eru samanngrooner vid þeirra Saurende; Ecke þess vegna, ad Drottenn hafe Þorf ad rannsaka vorar Hugrenningar, aller Hluter eru berer og nakter fyrer hanns Augum, Ebr. 4. Helldur ad hann auglijse Fatleyse vorrar Blygdunar, Apoc. 3. Nær vier hana ei sialfer þeckia vilium, og kasta vorum eigenn Þreck i vorar Asioonur, so sem Malachias ad Orde kiemst, Cap. 2. Þegar vier vilium ecke þvo hañ af med Taarum vorrar Idranar: Vite þvi aller Menn, ad eingenn er so heilagur, ad ef hann a fram fyrer Gud ad koma, ad hañ ecke a einhvern Haatt meige lietta af sier Byrde Syndaña; Eñ hvernenñ maa hañ henne aflietta, hafe hann alldrei til hennar funded? Og so leinge hañ ecke til hennar fiñur, so leinge er hann Gude og hañs Syne fiarlægur; Hañ er komeñ ad kalla synduga og ecke riettlaata til Ydrunar, heiler hafa ecke Læknarins Þorf, Matth. 9. Guds Sonur er i Heimeñ komeñ til ad lækna þad sem sundurmarded er; Enn hvernenn maa hann þitt Hiarta lækna, ef þad er heillt, og þu fiñur til eingra Meina? Eg heyre hier i Gudspiallenu, ad hann bijdur til sijn Ollum: Þeim Sem Erfide Drygia, Og Þwnga Eru Hlader, þad er ollum þeim, sem eru sundurkramder af Megne Samvitskunnar, fyrer þeirra Afbrota Saker, hverier ed erfida i Taarunum, og væta um Nætur sijna Sæng med David, hverium Guds Hond er of-þwng vordeñ, og þar er eingenn Maattur i þeim fyrer hanns Ognun, Ps. 38. Og langar so epter Drottne a Þurlendenu, Ps. 63. Þessum bijdur Jesus til sinnar Endurnæringar, eñ ecke þeim sem hroosa sier af þvi, ad þeir sieu ecke eins og adrer Meñ, Luc. 18. Ei helldur hinum, hverier þo ad þeir sieu hinum verstu og swlustu Klækium og Skomum hladner, þaa finna þeir ecke meira þar til enn Kletturenñ; Þo Meñ legge heilañ Skipsfarm edur alldrei so mikeñ Þwnga ofañ a hañ, so maattugur er Diofullenn i þeirra Vantrw, Eph. 2. Þar fyrer, syndugur Madur, vilier þu niota þessa Tilbods, og allra helst i heilagre Drottenns Kvolldmaaltijd (hvar Endurnæringeñ er aan Mæling ar frambodeñ ollum þreyttum og ollum sorgbitnum) Vilier þu þessa Not hafa, segie eg, þaa kvel Hiarta þitt med Ihugan þiña vondu Verka, og Guds heilaga Logmaals: Alldrei eru þau so faa, ad ecke meige þau ofbiooda þier, nær þu hugleider þiñ Overdug-

leik

leik og hanns Riettlæte. Tem þier slijkt Hugarfar, og slijt Hiarta þijnu med soddañi Þaunkum daglega, þꜳ muntu brꜳdlega erfida þig moodañ, og so mikenn Þwnga fiña, ad þu munt valla sꜳ under rised, þꜳ ertu og fyrst hæfur til ad taka ꜳ moote þessu Bode, þvi Gialld Peningureñ verdur ecke giefeñ þeim, sem illt adhafast, et helldur þeim, sem eckert vinna, helldur þeim, sem bera Hita og Þwnga Dagsins, Matth. 20. Þo sumer bere hann skiemur enn sumer, og þo i þeim Stad tale Frelsarenn um̃ hid eilijfa og oforþienta Verdkaup ꜳ Himnum, þꜳ er þo sw Endurnæring, sem eitt ydrande Guds Barn finnur i Vitnisburde heilags Anda þar um̃, ad þad sie Guds Barn, hun er, segie eg, Pantur þeirrar eilijfu Endurnæringar, sem Johañes um̃talar, i hañs Openberana Cap. 14. Þar hañ prijsar Sælu þeirra, sem i Drottne dauder eru, þvi þeir hvijlast edur endurnærast af Erfide sijnu, jꜳ, ef þier so giored, Born mijn, þꜳ mun ydur brꜳdlega lꜳnga epter Gude, so sem Hiorteñ epter fersku Vatne, Ps. 42. David lꜳngade eitt Siñ i Bruñeñ i Betlehem, eñ þegar þeir færdu honum Vatned, þꜳ villde hañ ecke drecka, helldur wthellte þvi fyrer Drottne, 1. Paral. 12. Eñ þegar þier wthelled ydar Tꜳrum fyrer Gude, sem Þecking Syndaña hefur kreist wt af ydar Augum, þꜳ mun hañ endurnæra ydur med þeim himneskn Vatns-Straumum, sem fram fliota af Stoole Guds og Lambsins, Apoc. 22. Hver sem þar af dreckur, hañ skal ecke smacka Daudañ ad eilijfu. Komum þvi til þessara Vatna, giegnum þessu Tilbode; Komum og kaupum fyrer alls eckert, bæde Vijn og Mioolk, Esa. 55. Og þo ad Angist Syndaña kunne ad þrijsta so miog ad Hiarta Syndarans, nær hann stendur under Ransake Samvitskuñar, ad hann telie sig overdugann Guds Nꜳdar, þꜳ gior ei þijnum Frelsara þañ Oriett, ad þu efer um̃ hanns guddoomlega Myskun, sem er eins stoor og hañ er siꜳlfur, hversu sem þu ert hinum verstu Syndum hladeñ, ef þu ydrast af Hiarta, og lætur af þeim, hver sem þad efar, þad er eins og hañ villde setia Christ af Tign siñe, þvi hañ er þess vegna Konungur vor Syndaraña, ad hann hefur sigrad vora Ovine, enn keypt oss Gude til Handa med sijnum Dauda. Seig mier, hvad skal sꜳ hafa til ad bera, sem einum skal myskuna, nema Mꜳttenn og Viliann? Enn um̃ hvertveggia þetta tekur Drotteñ allañ Efa frꜳ Syndaranum i þessu heilaga Gudspialle. Fyrst segier hañ: Aller Hluter eru mier ofurgiefner af mijnum Fodur: Þetta talar Christur epter Manndoomenum, þvi epter Guddoomenum er hann Siꜳlfrꜳde allra Hluta, frꜳ Eilijfd til Eilijfdar, med Fodur og heilogum Anda: Enn fyrst honum er allt Valld giefed bæde ꜳ Himne og Jordu, af honum sem þad alleina hefur, og sem alleina kañ ad fyrergiefa Syndernar, þvi skyllde hañ þꜳ ecke kuña ad tilgiefa þier þijnar Synder, hversu sem þær liootar eru og andstyggelegar, nær þu hatar þær, og villt af þeim lꜳta? Hañ sagde fordum þegar Judar hneixludust ꜳ þvi, ad hann sagde vid hiñ hꜳlfvisna; Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, hvert er liettara ad segia, Þier eru þijnar Synder fyrergiefnar, edur ad segia, statt upp og gack? Matth. 9. Minn Herra Jesu! meira kostade þig þad, ad endurskapa mig af Andskotanum vanskapadañ,

adañ, helldur eñ ad skapa hönum Heilsuna, sem þu hafder i fyrstunne i Moodur-Lijfe skapgd, eñ fyrst þu sijnder med þessu Kraptaverke, ad Mañsins Sonur hefde Magt til, ad fyrergiefa Synder æ Jordu, þæ giet eg ecke efast um̃, ad þu kuñer mijnar Synder ad tilgiefa, hvörsu sem þær stoorar eru: Þu sem sagder til eins hæalfvisna: Statt upp, tak Sæng þijna og gack burt, Matth. 9. Eg veit og ad þu gietur hiælpad mier med Næd þijns Anda, ad rijsa upp af þeim Syndanna Bed, er eg so leinge hefe sofed æ, Gud er alleina sæ, sem Dæmdsemdar-Verkeñ giorer, Ps. 72. Hañ er og sæ alleina, sem tilgiefa mæ Syndena: Hvertveggia giorer þu hier, Drotteñ miñ, þvi giet eg ecke um̃ Valld þitt efast; Eñ um̃ Viliañ miklu sijdur, þvi hañ segier hier i Gudspiallenu: Komed Til Mijn Aller. Þá veit eg ad þetta Tilbod nær og til mijn, þo eg være syndugre enn aller Menn; Þegar eg erfida i Þeckingu og Jætningu Synda miña, i hverium þu miñ Frelsare hefur erfidad, Esa. 43. Þegar eg var þiñ Ovinur, Rom. 5. Þvi þu segier: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided, og þegar eg stin under Þvonganum, er þu barst minna vegna, þegar Hegningenn læ æ þier, enn eg vard heilbrygdur fyrer Beniar þijnar, Esa. 53. Þvi þu segier: Komed Til Mijn Sem Þwnga Erud Þiæd-er, til hvers? Ecke til þess, ad skipa mier ad borga hiñ sijdarsta Pening, þvi Gud hefur fyrer þijna Skulld uppgiefed mier alla Skulldena: Ecke til þess, ad eg lwke þier þæ Handskriftena er þu hefur æ Krosseñ neglt, Col. 2. Helldur til þess, ad þu taker æ mooti mier fæmædre Mañeskiu, so sem Fadereñ vid hinum auma Syne, er siñe Arfleifd sood-ad hafde, Luc. 15. Þvi vil eg Alls-Hugar feigeñ koma, O Herra Jesu! og þvo Fæt-ur þijna med Tæarum mijnum, og smyria þæ med Angre mijns Hiarta og Elskuñe til þijn, er mier hefur so margar Synder tilgiefed, Luc. 7. Ef eg þess verdugur verda mætte fyrer þijna eigeñ Forþienustu. Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided, seg-ier Bruñur Giædskuñar: Þetta mætte tilheyra jafnvel hinum allra heilogustu Moñ-um, Noe, Abraham, Job, Esiæ, Johañi Baptista, og jafnvel Guds Moodur sialfre, so heilagur er Gud, so er hann riettlæatur, ad hann mæ ei lijda hid minnsta Grand æ Mañeskiuñe, æn fullkomens Endurgialld fyrer Syndena, eñ þad verdur ei gollded nema i Christi Forþienustu, og af heñe hafa Meñ eingeñ Not, utañ Meñ ydrest Synd-aña af Hiarta, enn ad ydrast Syndanna, kostar þann alltijd nockurt Erfide, sem þecker Guds Hæatign og siñ Veikleika, þar fyrer skulu hañ aller Kvittunar bidia, Ps. 32. A þeim Tijma nær Reikningurenn skal halldast, fyrer þvi hrædest Job öll sijn Verk, einn-ef hañ hrædest þau, og jafnvel hin bestu, þæ mun þeim Guds Mañe þott hafa, ad hann þyrfte Ydranar vid, hver alldrei geingur erfidislaust af, eige hun Gude ad lijka, þar um̃ ber liosast Vitne hañs sijdarsta Jætning fyrer hönum, Cap. 42. Eg strafa sialfañ mig, og ydrast i Molld og Ösku: Þetta sagde Job, um̃ hvern Gud vitnade æ moote Satan, ad eige være hañs Lijke i Landenu, ad hñ være fullkomeñ, riettvijs, gudhrædдur, og fordadest þad vonda, Job. 2. Hvar af Meñ siæ, ad þad satt er, sem Pæll segier: Ad allur Heimurenn sie fyrer Gude sakfallenn, Rom. 3. Og ad eingenn sie so hei-

lagur, ad hañ ecke Allshugar selgeñ meige taka þessu naadarfulla Lausnarans Tilbode; Eñ þar miñ Herra segier: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Þwnga Erud Þiaader, þaa kalla eg mier boded med þessare gudlegu Raust, og øllum Stoorsyndurum, sem mikeñ Part Æfe siñar hafe i Þriooskuñe og Glæpunum aled, eñ fyrst hañ hefur þad talad, hvers Blood ad hreinsar oss af øllum vorum Syndum, 1. Joh. 1. Hañ sem er Forlijkun fyrer allar Veralldareñar Synder, 1. Joh. 1. J Krapte þeirrar Foornar, i hverre Gud forlijkade Heimeñ vid sialfañ sig, 2. Cor. 5. Þaa giet eg ecke ætlad, ad hañ sem alleina er sañordur, Rom. 3. Ad hañ mune spyrna mier syndugum Orme i burt af Skor Foota siña, nær eg þar ligg med sañre Ydran, og fullum Asetninge til Yfirbootar, Þvi skyllde eg þaa laata mijnar Jllgiørder og bloodug Afbrot hindra mig fraa, ad taka þessu giædskufulla Tilbode med hinum mesta Føgnude mijns aangraada Hiarta, i þessu styrkia mig hanns blessud Fyrerheit, þar hañ svared hefur, ad hañ ei vilie Syndarans Dauda, helldur ad hann snwe sier og life, Ezech. 33. Uñ þetta taka allann Efa fraa mier þau dijrmætu Ord, er hañ talad hefur, ad hañ vilie eingañ fraa sier reka þañ sem til hañs kiemur, Joh. 6. O! Þvi skyllde eg vera þaa so myskunarlaus vid sialfann mig, ad eg ei skyllde leita hañs Naadar, þar eg veit hann er so myskunsamur? Þad er kuñugt hversu ad Juda hafde reitt Drotteñ til Reide, og hversu ad hañ neyddest til ad reka þaa wt wr þvi Landenu, er hañ hafde giefed Fedrum þeirra; Enn þegar hann hafde teked þaa i Saatt aptur, þaa segier hin eilijfa Giædska, Zach. 10. Eg skal myskuna þeim, og þeir skulu vera eins og eg hefde þeim alldrei i burtkastad; So laangt er fraa þvi, ad Gud tilreikne sañydrande Mañe drygdar Synder, þegar hañ snijr sier til hañs af øllu Hiarta, og þo so meige tilbera, ad Drottenn leggie aa þig tijmanlega Refsing, christenn Madur, þu sem aa Jesum trwer, fyrer undaunfarnar Synder, til þess ad þu ecke meiner þig saklausañ ad vera, þaa laat þier ei hugfallast, edur ætla ad hann mune burtreka eilijflega. Valla nockur Þiood i Heimenum hefur so þwngre Hegningu sætt af hañs volldugre Hende, so sem hañs frumgietenn Sonur Jsrael, Exod. 4. Uñ nockra Stund; og þo segier Fadir Myskunsemdaña, Jer. 31. Heyrid þier Ord Drotteñs, O þier Heidingiar! og kuñgiørid þad i fiarlægum Løndum, og segied: Hañ ed sundurdreifde Jsrael, hann samannsafnar hønum, og vardveiter hañ so sem Hyrder Hiørd sijna, þvi Drotteñ endurleyser Jacob, og frelsar hañ af þess Hende sem er sterkare hønum. Þacker sieu þier þu Dijrdareñar Konungur, ad þetta Fridar-Bod er og komed til vor þiña aumustu Vesælinga, sem bwum aa Hala Veralldareñar, þvi vilium vier Allshugar fegner heyra hinns gooda Hyrders Raust, sem til sijn bijdur øllum þeim Sem Erfide Drygia, Og Þwnga Eru Þiaader. Hver er saa Þioon, ef hañ misbrijtur nockud vid siñ Laanar-Drotteñ, og hafe hañ nockra Æru-Tang i sier, edur hyrde uñ Velferd sijna, ad ecke leite hañ Saatta til hañs aa alla Vegu, sierdeilis ef hañ aa Fyrergiefningar Von. Nu þo vier aa hverre Stundu, hveriu Augnablike, styggium Drotteñ Himens og Jardar; Þvi skylldum vier þo ecke samt leita Forlijkunar hiaa hønum,

Er vier vitum ad er so audveldur ad taka vid Syndurunum, ad hañ segier, Zach. 1. Snwed aptur til mijn, og skal eg snwa mier til ydar. Hier þarf ecke Joab ad brwka Vijsdooms Konuna af Thecoha til ad frida fyrer Absalon hiaa David, 2. Sam. 14. Ecke þarf hier Paulum til ad sætta Onesimum vid Philemonem, Philem. v. 10. Enn hier er Jesus Christus Gud og Madur, sa einaste Medalgaangare millum Guds og Manna, 1. Tim. 2. Hañ segier i Krapte þess Umbods, er hañ hafde af hinum alvallda Konunge, til ad sætta Mañkyned vid hañ og sialfañ sig; Hañ segier med fullum Myndugleika: Komed Til Mijn Aller Þier Sem Erfided Og Þwnga Erud Þiaader, Eg Vil endurnæra Ydur. Þad er eitt miked Fyrerheit, sem Gud giefur Jacob edur Israels Hwse, Jer. 30. Hañs Hofdinge skal af honum koma, og hañs Drottnare skal af honum framgaanga, hverium eg biooda mun ad hañ nalægest mig; Þvi hver er sa, sem þore ad lofa sier i sijnu Hiarta, ad hañ vilie naalgast mig, segier Drottenñ. Hver er sa Hofdinge? Þad ertu Dijrdareñar Konungur, Jesu Christe. Hver er sa Drottnareñ? Þad ertu Guds og Mariu Sonur, þu sem af Meyar Lijfe ert wtgeingeñ, af Lijfe Doottur Jacobs, jafnvel þo þinn Utgaangur sie þo fraa eilijfu, Mich. 5. Hverium eg mun biooda til mijn ad koma, segier Drotteñ, þvi skal hann til þijn koma, O! Herra? Hañ sem bijr i þijnu Skante fraa Upphafe Eilijfdareñnar, Joh. 1. Og epter Mañdoomenum er hañ sa Madur sem þier nærstur er, Zach. 13. Vor vegna hefur hañ naalgast þig, O Gud! sem fiarlæger vorum, laangt fraa þijnu Auglite, og fraa Vellde Dijrdar þiñar, Eph. 2. Hverium kasta atte i hin ytstu Myrkur. Vor vegna er hañ þier naalægur vordeñ, so sem Kieñemadur epter Skickan Melchizedechs, Hebr. 5. Jñgeingeñ i þad allra-helgasta, i Himeneñ fram fyrer þig, med eina Foorn, ad wtvegadre eilijfre Endurlausn, Ebr. 9. Hver er sa, sem þyrde ad lofa i Hiarta sijnu, ad hañ villde naalgast þig? Hver villde taka sier þann Heidur til? Eingenn syndugra Maña. O Drotteñ! Hvad munu Haalm-Stræañ bwa vid eiñ forteærande Elld? Edur Riked vid Stormeñ af Eydemorkuñe? Hvad Leyreñ vid Jaarn-Spijtuna? Hvad Vatns-Booläñ; Hvad Gufa Jardareñar vid Reidarslog Himensens? Hañ eiñ, hañ eiñ maa þig naalægiast, fyrer hverium Troonarner og Magtarvollldeñ skialfa, og hañ tilbidia, Ebr. 1. Hver alleina i Himeneñ uppstijgur, Mañsins Sonur sem ofañ er stijgeñ af Himne, og þo a Himnum, Joh. 3. Og med honum munu uppstijga aller þeir sem hañ hefur med sier dreged, þaa hañ upphafeñ var, þad eru aller ydrande Syndarar; Aller Þeir sem erfida og Þwnga eru þiaader; Jaa, aller þeir sem trwa a Nafn eingietens Sonar Guds, Act. 10. Enn þess er ad giæta, Bræður mijner, ad þessu naadarfulla Tilbode fylger Skilmaale nockur. Taked A Ydur Mitt Ok, Og Læred Af Mier, Þvi Eg Em Hoogvær, Og Af Hiarta Lijtelaatur. Eg vil nu i þetta siñ ecke tala margt um Ok Drotteñs, er sier i lage nefnest hanns Kross, og er innefaled i Mootlætingum þessara Tijma, helldur vil eg tala um þad, sem hlijder þvi Efne, er eg i Ondverdu hoof um ad tala, sem i tveim Hlutum er foolged; Þad er i fyrstu

ad plaga Saalu sijna med hræsneslausre Jaatningu og Tilfinningu Syndarennar, hvar af Ydranenn kiemur. Og i annann Maata, ad krossfesta hinn gamla Mannenn, Rom.6. Er sig fordiarfar i Gyrndum Villudoomsins, Eph.4. Þesse Krossburdur er Gude hvad kiærastur, og ef Manneskiann temde sier hann dagliga, þaa munde þad afstijra mörgu utvortis Mootlæte, jafnvel þo Drottenn aa stundum virde sijna bestu Astvine med Teikne sijns Sonar.

Vier skommunst vor ad sönnu, ad jaata Synder vorar fyrer Monnunum: Vier dyljum þær hvad mest vier kunnum, jafnvel fyrer þeim sem verre eru enn vær (nema þeir sem Diöfullenn hefur so bared Siggi, ad þeir hafa mist alla Tilfinningu, so þeir stæra sig af Glæpunum) Og þad velldur þvi, ad Syndenn er so lioot, ad jafnvel marger þeir sem ohlutvander eru, hata hana og lasta aa ödrum; Enn þvi munu Menn vilia dylia hana fyrer Gude, eins og aller Hluter sieu ecke berer og nakter fyrer honum? Ebr.4. Enn þetta giorum vier ecke einasta, nær vier ecke jaatum Syndernar, helldur og nær vier ecke rannsökum þær; Leitum ecke epter þeim smaasmuglega i innstu Fylsnum vors Hugskots, og ecke ydrunst þeirra af Hiarta, nær vier hösum funded þær. Enn þvi dylium vier Siwkdoomenn fyrer Læknaranum? Edur Þorsena og Vanmaattenn fyrer honum, sem er alleina rijkur? Þyrmer þu sialfum þier, þaa mun hann þier misþyrma, ef þu hylur, þaa mun hann openbera, þvi skyllde eg ei vilia aangrast fyrer honum, sem gledst af þessu Angre, og vill mier þad launa med þusundfalldre Glede? Þvi eg vil endurnæra ydur, segier Lausnarenn: Þvi mun eg skyrrast vid ad jaata Synder mijnar i Augsyn heilagra Engla, þar meire Glede er i Himnenum yfer einum syndugum, sem Ydran giörer, enn yfer niju og nijutiju riettlaatum? Luc. 15. Menn hafa alldrei heyrt, ad Gud hafe deilt Ill-Deilum vid eirn sannydrande Vesæling, enn umm hina segier hann, Jer. 2. Eg skal þraatta vid þig, af þvi þu segier: Eg hefe ecke syndgast; Enn hvar med þraattar hann? Ecke med Ordum toomum, ecke med Overgmaals-Hlioode, so sem Spaamadurenn ad Orde kiemst, helldur med Drepsoott og Manndraapum, Ezech.38. Og jafnvel med Ylfre og Tannagnijstran vid þaa, sem ecke skipast vid þetta Naadar Tilbod. Þar fyrer, Brædur mijner, þess betur sem vier þeckium Guds födurlega Giædsku, i þvi, ad taka vid Syndaranum, nær hann ydrast, og þess meire Haaska sem vier vitum oss bwenn vera, nema vier ydrunst: Þess helldur leggium allt Kapp aa, ad bleita vor Hiortu fyrer Gude, so heilagur Ande fae þar inn-bwed, aann hvers vier ecke getum til Jesum komest, so sem vier medkiennum i vorre Trwarjaatningu, og er þad ecke noog, ad aangrast fyrer Syndernar umm stundarsaker, þad er eins og Elldur i Sinu hlaupe, ad laata sier volgna nockra Stund umm Hiartaræturnar, nema Ydranenn verde oss so sterk, ad vier hötum þær Syndernar, er oss aadur hafa hvad kiærastar vered. Hvad gagnade þad hinum volldugu i Jerusalem, ad þeir gaafu lausa Þræla sijna og Ambaatter; Þegar Nebuchadnezar hafde lagst umm Borgena, enn hneptu þau aptur i Þrældooin, nær hann var burt vikenn umm stundarsaker, Jer.34. Eins er þeirra Manna

Ydran

Ydran, sem græta Synder sijnar fyrer Gude, eñ hverfa þo aptur til hiña sömu: Sodd-
an Ydran fordæmer Mañeñ meir, enn afsakar; Þvi hun sijner þad, ad hañ hefur þeckt
Syndena, og vill þo ecke af henne lâta. Drotteñ hefur kient syndugum Mañe eirn
Skriftagang hiâ Jeremiam. Hann skÿllde oss alldrei wr Minne falla: Þier skulud
hafa Leidá â siâlfum ydur fyrer ydar Ranglætinga saker, og skamast ydar fyrer yd-
ar Svijvirdingar, og blygdast fyrer ydar Vegu. Ef Meñ lietu sier þetta hugfast verá,
þâ mundu þeir ecke lâta sier þykia so vænt um Syndena, ad þeir vellte sier i henne
aptur strax, sem þeir eru geingner frâ Prestsins Kniâm. Good Uppbyrian er þad ad
söñu, ad ausa wt Hiarta sijnu fyrer Gude med Jâtningu Syndaña, og ecke skiedur
þad nema fyrer Verkan heilags Anda: Enn St. Páll amiñer þâ i Tessalonica, 1.
Tess. 5. Ad þeir ei skule slöckva Andañ, og nu hañ þad viliad hafa öllum sagt; hrygg-
ed ecke heilagañ Anda Guds; J hveriũ þier innsiglader erud til Dags Endurlaus-
nareñar, segier hann, Eph. 4. Hvar af audsært er, ad Madur kann med Apturhvarfe
til Syndareñar ad fæla Guds Anda frâ sier. Eins og Dwfurnar flya Reikeñ; So
flijr Guds Ande syndsamlegar Hugsaner, eñ þegar heilagur Ande er burtvikeñ; Hvad
liggur þâ fyrer vesælle Mañeskiu? Ecke añad enn fyrer Saul Konunge, 1. Sam. 16.
Ad þegar Gud took sinn Anda frâ honum; Þâ þuste yfer hann Guds vondur Ande,
jâ, ecke annad enn ad einn ohreinn Ande tekur sio adra Anda sier verre, og hverfur
aptur i Hws sitt hvadañ hann kom; Og verdur so þess Manns hid sijdara argara
hinu fyrra, Luc. 11. Jâ, þad kann ad koma þar, ad sâ sem so tijdt forsmaaer Anda
Nâdareñar, Ebr. 10. Ad Gud verde honum so reidur uñ sijder, ad hann yfergiefe
hann i frâleitt Sinne: Eins og Páll talar uñ Heidingiana, Rom. 1. Þad er
Mâlshâttur Guds optlega i Ritninguñe, ad þegar Manneskiañ lætur sig angra
Syndena, þâ vilie hañ ydrast þess illa, er hann hugde ad giora henne; Eñ þesse fodur-
leg Giædska hiñs mÿskunsama Guds, sem ætte ad draga oss til Ydrunar, hun aflar
morgum Dâra enn meire Þverwdar, so þeir hverfa aptur til Spijuñar, sem Petur
ad Orde kiemst, 2. Pet. 2. Af þvi Gud hefur so tijdt forlâted þeim Syndena; Enn
siâe þeir til, sem þañeñ hafa vaned sig til ad misbrwka Guds Þoleñmæde, ad ecke verde
þeim sagt eins og Jerusalem: Þu hefur yfergiefed mig; Þu ert â Bak aptur horfeñ,
þar fyrer vil eg wtrietta mijna Hond moote þier, til ad farga þier; Eg em vordeñ
þreyttur af ad ydrast, Jer. 15. Gud giæfe, ad þeir sem einuñiñe hafa smackad hid gooda
Guds Ord, og Krapt epterkomande Alldar, þeir villdu hugleida hvad miklu ydudæle er,
jafnvel sw Hryggd, sem ad er epter Gude, 2. Cor. 7. Helldur enn allur Heimsins Mu-
nadur; Þegar hann geingur sem hædst, þvi ef hid heidna Skâlld segier, ad þar sie
nockur Vellyst i þvi ad græta, hvad mun ei þeim þykia, sem Ande Fagnadarens
pressar Târeñ wt af Augunum. Taked â Ydur Mitt Ok, segier Frelsareñ hier i Guds-
spiallenu, Þvi Mitt Ok Er Sætt, Og Mijn Byrde Er Liett. Eg vil ecke i þetta siñ tala
so eigennlega uñ Kross-Byrde Drotteñs i utvortis Mootlætingum, og þâ Hug-

ſvolun hiñs gooda Anda, ſem heñe jafnañ fylger, helldur vil eg tala hier um̃ Deydingu Holldſins, og Kroſsfeſtingu hiñs gamla Adams, ſem bijr i oſs; Segie mier þeir, ed einuſiñe hafa kieñt a hvad ſætur ad Drotteñ er: Mun nockur Aſſverus i ſijnu ſtoora Heimbode, Eſth. 1. Mun nockur Baltazar i ollu ſijnu Ohoofe, Dan. 5. Nockur Herodes i ſijnum Hoortu-Danſe, Matth. 14. Nockur Benhadad i Herbwdum ſijnum, 1. Reg. 20. Munu þeir, ſegie eg, una ſo vel ſijnum Hag; So ſem riett-trwads Manns Saala i Jaatningu Synda ſiña fyrer Gude; Þegar Ande Drotteñs ber heñe Vitne um̃, ad hun ſie Guds Barn? Rom. 8. Alldrei hefur hinn gamle Madureñ ſo mikel Um̃brot, ad ecke ſie þad Yndæle þeim ſem i Guds Herſkrwda berſt, Eph. 6. Ad ſigra hañ, og hañ gledſt af Logmaale Drotteñs, ſegier Paall, Rom. 7. Jafnvel þo hann ſiñe þykeſt eitt annad Logmaal i ſijnum Limum, ſem hertake hann under Syndarennar Logmaal: Ad ſonnu kuña hiner ad klædaſt Pelleog Purpura, og hafa koſtulegt Bordhalld, Luc. 16. Margur mun ſaa vera, er ſegier til Saalar ſiñar, þegar hañ hefur alls Nægter misjafnt wtvegadar: Et og dreck Saala mijn, þvi þu hefur til margra Ara ſafnad, Luc. 12. Enn alldrei kann þetta ad jafnaſt vid þaa Naadar-Mola, er detta af þvi himneſka Borde ofañ a Foot-Skor Drotteñs, Matth. 15. Hvar vier ſynduger Ormar ſkrijdum og mænum i Himeneñ, epter hiñe eilijfu Hugſvolun, er Guds Ande heiter oſs fyrer Paals Muñ, ef vier berum Chriſti Ok med Poleñmæde. Læred Af Mier Þviad Eg Em Hoogvær Og Af Hiarta Lijtelaatur. Hvar fyrer? Hier um̃ talar Poſtuleñ, Hebr. 5. ſegiande: Þo hann Sonur Guds være, þaa hefur hann lært Hlijdnena, af þvi, ſem hañ lided hefur. Segied mier nu, þier ſem erud Ættleidingar, og ecke Guds einka Syner, eins og hann var: Munud þier nockurn Tijma leggia þañ Kroſs a hiñ gamla Adam, ad ecke hafe Drotteñs Kroſs vered honum þijngre, ſem hañ bar a ſijnum Lijkhama, ſamlijkur Holldenu Syndenne undervorpnu, þegar hañ var af ollum yfergiefenn; Og jafnvel af ſijnum himneſka Fodur? Marc. 15. O! hvilijk Mijnkun er nu þad, ad vier ſkylldum ei vilia vaka eina Stund med honum, til ad þær Saaler vorar med chriſtelegre Ydran, og Deydingu vorra vondra Gyrnda; Þar hañ hefur lofad oſs ſijns Anda Hugſvolun, nær vier ſo giorum. Taked a ydur mitt Ok, ſegier Drotteñ hier: Enn hvad er Chriſti Ok? Þad er allt þad, ſem Meñ bera med Poleñmæde, hvert helldur þad kiemur fraa Gude ſiaalfum, ſo ſem eru Siwkdoomar, Aſtvina-Miſſer, Skade ſaa, er vier meinum ad kome ad Hendingu, edur añad þvilijkt, ellegar hañ kiemur fraa Moñunum; So ſem er Oriettur, Forſmaan, Ofſookner, og þeſshaattar: Edur og ad þad er Straff vorra eigeñ Synda, er vier ſiaalfer a oſs leggium i Ydranareñar Verke, og Baraattuñe moote Holldſins Gyrndum. Allt er þad Chriſti Ok, ef Meñ bera þad ſo ſem hañ ſkipad hefur, þvi eckert af þeſſu kañ ad henda oſs, ſem vier ecke forþienad hofum med Syndeñe edur añadhvert fyrer hañs Tilhlutan edur Tillaatſeme; Eñ ef vier koſtum Okenu i burt med oleyfelegum Hætte, Jer. 2. Þaa verdur þad heilſuſama Drotteñs Ok ad Dioſulſens Oke; Ef vier erum oþoleñmooder i

Siwk-

Sjwkdoomenum, moglunarsamer i Orbyrgdeñe, ef vier giolldum eiñ Oriett med odrum, og bætum vorn Skada med Skada Naungans; Þegar vier þañ Veg breitum, þaa hofum vier eingrar Endurnæringar, eingrar Hugsvolunar ad vænta Saalum vorum, þaa hverfur Sætleike saa, er Christi Oke, og hañs Byrde fylger; Jaa, hvad meira er, ad þad Ok, sem oss verdur uppaalagt fyrer Heimsku vorrar og Synda Saker, þad kuñum vier ad giora ad Drotteñs Oke; Ef vier berum þad med Hoogværd og christelegre Þoleñmæde. David er oss til Epterdæmis hier i: Eg efast ei um̃, ad þad hefe geinged hønum til Hiarta, þegar hañ var rekeñ fraa Rijke af sijnum eigeñ Syne, 2. Sam. 15. Og þegar Mord-Engelleñ sloo Foolked sokum hañs Yfersioonar, 2. Sam. 24 Þo vañ hañ so miked aa med sañre Ydran og Audmykt Hiarta sijns, ad Gud leidde hañ heim aptur, med Sæmd og Heidre, 2. Sam. 19. Og linade Plaagurnar, 2. Sam. 24. Laatum oss þesse Dæme til Christum leida, audmijkium oss under vollduga Guds Hønd, 1. Pet. 5. Veigeñ vitum vier, sporum ecke ad gaanga hann, tokum aa oss hid sæta Ok Christi, og skiootum oss ecke undann hanns Byrde, so vier meigum finna eilijfa Endurnæring, eilijfa Hugsvolun Saalum vorum, og gaanga inn til hanns Hvijldar.

Þad veite oss goodur Gud, fyrer sijns Sonar blessada Forþienustu, Am̃.

# Tuttugasta og siøunda Suñudag epter Trinitatis.

Gudspialled, Matth. 17. Cap.

A Þeim Tijma. Og sex Døgum þar epter, took Jesus med sier Petrum og Jacobum, og Johañem Broodur hañs, og hafde þaa affsijdis uppaa hatt Fiall, og um̃myndadest fyrer þeim. Og hañs Asiaana skein sem Sool, eñ hañs Klæde urdu so biørt sem Lioos. Og siaa, ad þeim byrtust þeir Moyses og Elias, og tølndu vid hañ. Eñ Petur ansade og sagde til Jesu: Herra, hier er oss gott ad vera. Ef þu villt, þaa vilium vier giora hier þriaar Tialldbwder: Þier eina, Moysi eina, og Eliæ eina. Og þaa hañ var þetta ad tala, siaa, ad biart Skij um̃skygde þaa. Og siaa, ad Rødden wr Skijenu sagde: Þesse er Sonur miñ elskulegur, ad hverium mier velþocknast, hlijded þier hønum. Og er Læresveinarner heyrdu þad, fiellu þeir fram̃ aa sijnar Asiaaner, og urdu miøg hrædder. Eñ Jesus gieck til þeirra, took aa þeim, og sagde: Standed upp, og vered ei hrædder. Eñ þaa þeir litu upp, saau þeir aungvañ nema Jesum alleinasta. Og er þeir geingu ofañ af Fiallenu, baud Jesus þeim, og sagde: Þier skulud eingum þessa Sijn segia, þar til ad Mañsins Son er upp aptur riseñ fraa daudum.

Exor-

# Exordium.

Þeirra Guder eru Fiallaña Guder, søgdu fordum Þienarar Benhadads Syrlands Konungs, er þeir voru ellter af Israels Mønnum; Graatlegt er til þess ad vita, hverneñ Satan hefur blindad Maneskiñna, ad Skynseme Holldsins smijdar sier so daarlega Þanka um̃ Guds Hátigu, so sem ad hans Rijke sie ecke eins rijkt i øllum Attum hans Velldis, eñ hverneñ sem þvi er nu vared, þa sia Meñ þo, ad Gud hefur sig hvad mest openberad Mañkyneñu a Fiøllunum: A Fiallenu Sina utgaf hañ sitt Løgmaal, Exod. 20. A þvi sama Fialle talade hañ vid Eliam i Hellrenum. A Fiallenu Moria talade Guds Sonur vid Abraham, er hañ villde hafa offrad Gude Syne sijnum Isaac, Gen. 22. A þvi Fialle stood Jerusalems Mustere, hvar Gud hafde siñ Elld og siñ Ofn, Esa. 31. Og maa sijnast, ad Gud hafe teiknad med þessu, ad hañ være hiñ allra hæste, og bygger i Hædunum, so ad Dioffulleñ hefur og apad epter þessare Guds Dijrdkan, eins og i mørgu ødru, og lated sier a Hædum þioona: Þad vitna þær Hædernar medal Guds Folks, er hañ so miøg til Reide reittu, a hverium hañ segier, ad ei sieu nema Þretter. Eñ i þessa Dags Evangelio heyrum vier hina allra dijrdlegustu og huggunarsømustu Openberan, þar hinn eingietne Sonur Fødursins, iklæddur voru Hollde, um̃myndadest synelega fyrer Læresveinunum a Fiallenu helga, hvert ed hiner gømlu Lærefedur Christneñar hafa meint ad vera Fialled Tabor i Galilæa. Af Fiallenu Nebo i Moabs Lande sijnde Drotteñ Moyse alla Fegurd og Giæde Canaans Lands, eñ a þessu Fialle hefur hañ sijnt Læresveinunum, og øllum þeim er a Soneñ trua fyrer þeirra Ord, iñ i þad himneska Canaan, er hann nefner sijna Hvijld, Hebr. 3. Og til frekare Vitnis þar um̃, þa vil eg kvedia ydur, Guds Børn, til ad gainga afsijdis med Christo og hans Læresveinum, til ad hugleida þessa dijrdlegu Openberan, i hverre tveñt er ad athuga, sem er. 1. Siaalfa Forklaarunena. 2. Vottana sem naalæger voru. Drotteñ, vertu i Verke med oss, og Naad þijns Anda, fyrer Jesu Forþienustu, Amen.

# Utleggingeñ.

Hañ Um̃myndadest Fyrer Þeim, segier Texteñ: Ecke er þad so ad skilia, ad hans mañdoomleg Naattura hafe umbreytst a nockurn Haatt, helldur forklaaradest hun; Hin dijrdlega Guddoomsins Fylling, sem i hønum bioo, skaut ut Geislum sijnum i mañlegu Hollde, so þeir kyñu ad sia hans Dijrd, Dijrd so sem eingietens Sonar af Fødurnum; Hañ afklæddest, so ad segia, Þioons-Myndeñe um̃ Stundar Saker, eñ ecke Naatturuñe. Tak þad til Hugleidingar af þessu, Guds Barn, od odur eñ þu maatt samlijkt verda þessare dijrdlegu Mynd þijns Frelsara, sem hier um̃ gietur, þaa byrlar þier ad um̃myndast epter hans Mynd, sem þig skapad hefur, þad er, endurnyast i þijnu Hugskote, þvi so segier Frelsareñ, nema þier um̃myndest, og giørest so sem þetta Ung-Barn, þaa kuñed þier ecke ad iñgaanga i Guds Rijke. Matthæus skijrer fraa þvi i Textanum, hvilijk ad vered hafe Forklaaran þesse, þar hañ segier, Ad Hans Asiaana Hafe Skyned Sem Sool; Og skulum vier þo ecke ætla, ad Sool Riettlætesins, Mal. 4. Hafe þo ecke ollu fegur skyned, eñ þesse er a Himnenum lioomar; Þvi heñar Byrte kuñum vier aller ad standast, eñ þegar Læresveinunum gafst Sijn þesse en mikla, þaa skrifar Marcus, Cap. 9. Ad þeir hafe vorded ottaslegner, so ad Petur visse ecke hvad hañ talade, so sem bæde hañ og Lucas Cap. 9. skrifa, helldur tekur Gudspiallamadureñ Lijking af Sooluñe, þvi hañ hafde eckert biartara, ad jafna vid, sem daudlegum skiliast kuñe, og ei skulum vier helldur meina þetta hafe vered sw

Dijrd,

Dijrd, er Gads Sonur ætte hia sijnum Fodur, ædur eñ Grundvollur Veralldarennar var lagdur; Þvi jafnvel ⟨?⟩ walldet skulu skijna eins og Sool i Rijki sijns Fodur, Matth. 13. Eñ hvilijk sw Byrte mune vera, er þar af audsært, ad vier skulum verda Englunum jafner, hverra Sioonter ad daudleger Menn þo valla stadest sa, þvi sagde Manoha; Vid munum sannlega deya, þvi vid hofum sied Engel Drottenns; Og skulum vier þo vita, ad Dijrd og Hœtign Guds Sonar yfirgeingur so miked Englaña Dijrd, sem hañ hefur þeim ædra Nafn odlast. Framar segier Texteñ, Ad Hañs Klæde Hafe Vorded So Biert Sem Lioos: Þegar Moyses kom ofañ af Fiallenu Sina med Logmaaled, þa skrifar Paulus, ad hañs Asiaana hafe vered so biert, ad Israels Syner hafe ei mætt lijta i giegn heñe, alleina af þvi, ad hañ hafde vid Gud talad, og þo fieck Moyses hana byrgt med Skijluñe, er hañ hringde fyrer sitt Andlit; Eñ þetta yfirgnæfer, hier sa ecke Klædeñ innelukt hañ skiæra Guddoomsins Fegurdar Liooma, sem bioo i Christi forklarudu Hollde, helldur skein hun i giegnum, so þau urdu fogur eins og Lioos. O miñ Herra Jesu! er þetta sw Mynd, sem ad hieck a Krossenum, þegar þu giordest Bolvan fyrer mijnar Synder? Sw sem Esajas umtalar i 53. Capitula, segiande: Þar er eingeñ Mynd edur Fegurd a honum, og þegar vier lijtum hann, er þar eckert Alit, sem vier gyrnunst, hann er forsmaadur og Manna audvirdelegastur, hañ er plaagadur af Meinum, og Krankdæmenu alvanur, og so sem eitt Madur er byrger sitt Andlit fyrer oss, so foracktanlegur, ad vier virdum hañ einkis? O þu saklausa Guds Lamb! hvilijk voru nu þesse Umskipte, Drottenn miñ? Hvad vorum vier syndugar Ormar, ad þu Lioome Fodursins Dijrdar skylldet so bera vor Krankdæme? Hvad þrijste þier til þess, minn Lausnare, ad þu skylldet breyta þessare Dijrd i þa hersalegu Asionu, er Spaamaduren talar um? Eckert añad eñ þijn guddoomleg Elska, þijn djupu Myskunar-Ydur, i hverium þu vitiader vor Uppruna af Hædum. Enn þu Guds Barn, sem heyrer þeña dijrdlega Atburd, tak þier hiña mestu Huggun af honum, þegar Guds fodurleg Giædska virder þig med sijns Sonar Krosse, ad so dijrdlegur sem hañ giordest hier fyrer Augum Læresveinanna, so vegsamlegur og ollu vegsamlegre muntu verda, nær þu iñgeingur i þijns Herra Fognud, ef þu tekur hañs Ok a þig, og fylger honum epter, þvi þessa hañs Dyrd saau þeir daudlegum Augum, so sem bæde Petur og Johañes votta; Enn þad hefur ecke Auga sied, og ecke Eyra heyrt, og ecke hefur þad i nockurs Mañs Hug edur Hiarta komed, hvad Gud hefur þeim tilbwed sem hann elska: Eñ Elskan til hañs siest alldrei betur eñ i Mootlætenu, þar reyneft hun so sem Gulled i Ofnenum, þar er sa Leik-Vollurenn, hvar ed hinar andlegu Kiempur eiga ad sijna Frækleik siñ; Þar er Skeid-Floturen, er allar þeir eiga ad hlaupa med Pwle, sem vilia Hnossed odlast. Lucas eiñ hefur sagt oss þad, hvert ad vered hafe Iñtak þess Samtals, er þeir Moyses og Elias attu vid Drotteñ a Fiallenu helga, sem var um þa Utfor, er hañ skylldi fullkomna i Jerusalem, þad er sw Burtfor til Fodursins, er hañ nefner hia Johañem i 16. Capitula, i

þeirre Hiartnæmu Predikun, er hañ talade fyrer Læresveinunum under sijna Pijslar-Gaungu, þaa ed hañ fullkomnade og batt fullañ Enda aa það, sem hañs Fader hafde honum umboded. Ecke hefur þesse Sijn edur þetta Samtal skied fyrer Christi Skulld, þvi sialfur visse hann allt það er yfir hañ ætte ad koma; Sialfur þeckte hann og Guddoomsins Hæatign og Vegsemd, sem ad i honum bioo, helldur Postulaña vegna, hverier ed sijdañ mættu þola so miklar Hormungar, Fiotur, Hwdstrokur, Offsookner, Umsæatur, jaa, sijta og græata, þegar Heimureñ fagnade, og það fyrer Christi Nafns Saker, so ad alltijd nær þeir i Hormungunum uñtust og þessa dijrdlegu Openberan, skylldu þeir hafa það þeir kynnu ad endurnæra Hiarta sitt med, sem var ein Fullvissa um þvilijka Dijrd, er þeir sáu nu fyrer Augum sier, og þvi er ecke ad undra, þo ad þeir og þeirra Lagsmenn geingiu glader wt fraa Raadenu, nær þeir hwdstrykter voru, jaa, ecke þo ad St. Paall. være vel til Frids i Offsooknunum, i Angistenne, i Naudunum, þar hann hefur ecke einasta þessa Sijn heyrt, helldur og var sialfur i hinn þridia Himen uppnumenn. Petur hafde fyrer skomu spurt Drottenn ad, hvad þeir skylldu i Laun hafa, sem ad yfiergæafu alla Hlute, og fylgdu honum epter; Enn Drottenn sijner honum hier aa Fiallenu, ad so miklu leite sem hañ faa kunne, i þessu daudlega Hollde, hvers hann ætte Von fyrer sijna Pioonustu, og er það Maala sannast; Petre þootte so miked til þessa koma, jafnvel þo ecke være það meira hjaa hinne eilijfu Dijrd, helldur enn Rikte Salomonis fyrer Drottningunne af Arabia, honum þootte so miked til þess koma, segie eg, ad haun sagde, Hier Er Oss Gott Ad Vera: Hann var fæddur i Judæa, einu Lande, sem er Paradys af Verolldeñe, hañ hafde vijda vered med Christo, bæde þar og i Galilæa, hañ hafde sied Jerusalems Mustere, og hina kostulegu Guds Pioonustu þar iñe; Eñ ollu gleymde hañ þvi sem til baka var, hier þockte honum alleina gott ad vera. O hversu munu þeir þaa gleyma ollu Oslæte Veralldar! ollu Epterlæte og Fagnade i Heimenum, er sitia Lambsins Brwdkaup i Himnenum? Ad vijsu, var Sijn þesse mikel, er Postulunum gafft, og sæla mun þaa kalla af heñe, eñ þo er þeim ei miña veitt, sem Drottenn auglijser sig i Hiartanu, þvi sæler eru þeir sem ei siaa og trwa þo, sagde Lausnareñ fordum vid Thomas; Það sie eg aa so morgum Þusundum Pijslarvotta Drotteñs, um hverja það sañkveded er sem Esajas spaær, Cap. 24. Ad þeir prijsudu Drottenn midt i Elldenum. Petur var vidstaddur þessa Openberun; Hañ heyrde Moysen og Eliam tala um Fullkomnan Drotteñs Utfarar, og þar ad auke heyrde hañ Fodursins Raust, þo gleymde þesse Guds Vinur ollu þessu skomum Tijma þar epter, i Biskups-Holleñe, ecke varde þesse Uñmyndan Drotteñs leinge hjaa honum; Enn þegar Christur var i honum til fulls myndadur, so sem Paulus ad Orde kiemst, þaa munde hann fyrr hafa þolad hinar skielfelegustu Pijsler. Verolldar, eñ ad falla fraa Christo, og gafft Raun þesse optlega sijdañ: Og þetta er nu sw Sioon aa Jesu Christo, er vier eigum ad kosta Kapps um ad naa, aa allre vorre Reisu fraa Vogguñe til Grafareñar: Það er það heilaga Fiall, er vier eigum ad klifrast uppaa,

medañ

medañ vier lifum. Saa sem þannig hefur komed Auga aa Christum, hañ kallar Drotteñ fyrer sitt Hlutskipte, þo ad Saal og Lijf vanmegnest, og nær hann Gud siñ hefur, þaa skeiter han: hverke um Himen nie Jord. Enn so sem ad þetta er eitt miked Hlutskipte, hver sem þvi nær, jaa, so miked, ad Himen og Jord meiga i eingañ Samjöfnud koma; So skal og miked til þess vinna, ef vier vilium verda niootande Arfskiptis heilagra i Lioosenu, Col. 1. Ef vier vilium þocknast Gude i Lioose lifande Maña, Ps. 56. Þaa byriar oss ad skrijdast hvijta-Vodum, ecke sijdur eñ þeir i Fyrndeñe, sem Skijrn og Christne taka villdu, þad er, ad vier iklædunst Herklædum Lioossins, ad vier iklædunst einum nijum Manne, ad vier iklædunst Guds Herskrwda, þad er; i einu Orde ad segia, med Paals Ordum, Col. 3. Ad vier iklædunst so sem utvallder Guds H. og elskuleger hiartgrooeñe Myskunseme, Goodgyrneñe, Lijtelætenu, Hoogværdeñe, Þoleñmædeñe. Eg veit ad þad maa þykia undarlega til Ords teked, ad Postuleñ temur sier þeña Ordshaatt, ad iklædast Dyggdunum, eñ valla kañ þo nockur betre ad finnast: An Klædaña gietum vier ecke lifad, þau eru þad sem veria oss Fryste og Kulda; So kuñum vier ecke helldur ad lifa andlegu Lijfe fyrer utañ þeña Sakleysessins Skrwda: Hann varnar oss vid Helvijtis Brune. Klædnadur Drotteñs vard fagur og leiptrande af þvi, ad Guddoomsins Byrte, sem i hañs Hollde bioo, hun skein i giegnum þau, eins og Sooleñ Glered, so eigum vier ad laata þad siaa i vorum Lijfernis Haattum, Ordum og Athofnum, ad Gud bwe i oss fyrer Trwna, þad bijdur Frelsareñ Læresveinunum, Matth. 5. Med þessum Ordum: So lijse ydar Lioos fyrer Moñum, ad þeir siaae ydar Goodverk, og dyrdke ydar Fodur, sem aa Himnum er: Enn fyrer þvi, ad daglega slettest uppaa vort Skijrnar-Klæde, aa medañ vier gaungum i giegnum Forod Veralldar þessarar, þaa maa þad daglega þveiged verda. Marcus skrifar um Klædnad Drotteñs, Cap. 9 Ad hann hafe so biartur vered, ad eingeñ Þvotta-Madur aa Jordu kunne þvilijkt ad giora: Og sama er ad segia um vort Brwdkaups-Klæde, þad kann eingeñ so hreint ad giora aa Jordu, ad i Guds Augum byrtast meige: Þad maa um oss alla jaata, sem Drotteñ segier um sitt Foolk, Jer. 2. Þo þu þvoer þig i Sallt-Petre, og safnar þier mikillre Saapu, þaa ertu samt ohreinn fyrer mjer: Hann einn, hann einn gietur þau ad fullu hreinsad, sem er eins og Keper Smidsins Elldur, og eins og Saapa Þvotta-Maña, Mal. 3. Þad er þitt dijrmæta Blood, minn Frelsare, i hveriu ad aller heilager hafa þveiged sinn Skrwda, Apoc. 7. So kanntu og Drotteñ minn, ad giora jafnvel Synder mijnar hvijtar eins og Snioo, þo þær sieu raudar sem Blood, og Ullhvijtar, þo þær Purpura raudar sieu, Esa. 1. Jaa, eg em þess fulloruggur, ad nær þu breider þinn lioomande Klædafalld wt yfer mijn saurug Totur, þaa mune þeirra ei giæta, Guddoomsins Fylling sem i þier bioo lijkhamlega, hun skein i giegnum þiñ Klædnad aa Fiallenu helga, enn Sorte mijnnar Illsku mun allrei gieta brotest i giegnum þessa Byrte inn i Augu þijns himneska Fodur: Þessu fulltreiste eg Drotteñ minn, þvi eg veit, ad þu ert komeñ til

ad leita ad þvi sem tapad er, og ad kalla syndugä, og ecke riettlata til Ydranar; þier sie Lof, Æra, Makt og Dijrd, ad eilijfu, Amen.

J Muñe tveggia edur þriggia skulu oll Ord standa, sagde Drottenn i Log-Book sinne fordum: Eñ um þetta Þijng man eg segia þad, er Johañes segier i hanns fyrsta Pistils fiñta Capitula. Þrijr eru þeir sem vitna a Himne, og þrijr eru þeir sem vitna a Jordu. Hier eru þrijr Vottar jardneskir, og adrer þrijr himneskir. Eg vil tala fyrst um þa jardnesku, þvi Textenn gietur fyrr um þa. Þad voru Petrus, Jacobus og Johañes, þesser voru eingver Smælingiar i Guds Hwse, jafnvel þo þeir være halldner Afrak og Hreinsunar-Foorñ hia Verolldenne. Petur var sa ed fyrstur allra Postulaña þeckte, ad Jesus være Christur Sonur Guds lifanda, Matth. 16. Hann var sa ed Drotteñ fyrstum afhendte Lykla Himnarijkis, til ad leysa og binda, ecke þad, ad Petur afhendte þa hinum Postulunum wt af sier, helldur giorde Drotteñ þad sialfur sijdañ: Hañ lagde Lijfed ofañ a sijna Medkieñingu um Jesum, þvi jafnvel þo ecke hafe Meñ so vissar Sogur um hanns Lijflat, þa kieñer Johañes oss þad, ad Lausnaren hafe spaad honum þvi; Ad hann munde Gud med sijnum Dauda dijrdka. Jacob var sa, er fyrstur allra af þeim toolf liet Lijf sitt fyrer Vitnisburdeñ Jesu, og underskrifade hann med sijnu saklausa Bloode. Johannes var sa, ed sa fyrer fram añ Drotteñ um Kvolldmaaltijdena, honum auglijste hañ Svikarañ, hann er sa Lære-sveiñ, um hvern skrifad stendur, ad Jesus hafe hann elskad; Hann hefur og greine-legast af ollum Gudspiallamonnunum talad um Persoonu Frelsarans, honum auglijste Drotteñ þa miklu Hlute, er skie skylldu a eptersylgiande Tijmum; So sem kiooft er af hanns Openberunum: Hann lifde og leingst allra Postulaña, til ad mootstanda þeim Ebioni og Cerintho, er neitudu Guddoome vors Frelsara. Og þess vegna er þad afgudlegt Forsioon skied, ad hann feinge hanns Hatign Augum, ad lijta i þessum Stad, so hann þess betur kynne þar um ad vitna. Mooder þeirra Jacobs og hanns beidde Frelsarañ um, ad añar Sona siña mætte sitia honum a hægra Veg, eñ añar a vinstre, Drotteñ svarade heñe; Þier vited ei hvers þier bidied: Eñ þo sijnest mier, ad hañ blessadur hafe ad nockru leite orded vid Boon heñar i þessum Stad, þar hañ took þa framar odrum med Petre, til ad sijna þeim so sem aleingdar iñ i þa Dijrd, sem hann a hia sijnum himneska Fodur. Enn af þessare veglegu Sioon hafa þesser Guds Menn lært, þar þeir valla giatu stadest haña, ad ei munde þeim hendt i þessu dauolega Hollde ad sitia honum a hægra edur vinstre Hlid i Dijrd Himnaña, og þvi sporudu þeir ecke sijna dauolega Lijkhame sijdann fyrer hanns Skulld, þegar þeir vaxner voru epter fullkomnum Mæler Christi Alldurs, so þeir med Paulo, Phil. 3. na kynnu i Upprisu hinna daudu, Hnossenu þeirrar Kollunar, sem þar uppe er i Jesu Christo. Eñ vier sem nu heyrt hofum Vitne þeirra um Forklaran Drotteñs, og vitum ad þeir inngeingner eru i Dijrd sijns Herra; Vier skulum leggia allañ Hug a, ad vera eins synder og þeir, ad vier hölldum alla Hlute Þreck ad vera, og jafnvel sialft Lijfed,

so vier œdlunum Christum, Phil. 3. Þvi hver sem ad hatar Saalu sijna i þessum Heime, hañ mun vardveita hana til eillifs Lijfs, Joh. 12. Og þesser eru nu hiner jardnesku Vottar ad Stoormerke þessu, sem teked hafa vid Vitne þeirra himnesku: Uñ hveria eg hefe hier epter neckud ad tala.

Drotteñ sagde fordum under sijna Pijnu, Joh. 12. Fader, vegsama þitt Nafn, og Raustteñ af Himne svarade honum: Eg hefe vegsamad, og eg skal aptur vegsama, þaa sagde hañ vid Lærisveinana: Þesse Raust skiede ecke vegna mijn, helldur ydar vegna. So maa eg og segia uñ þaa himnesku Votta, sem Texteñ uñgletur, ad ei byrtust þeir Drottne fyrer hañs Skulld, helldur þeirra sem med honum voru, jaa, vegna allra þeirra, sem epter þeim heyra mundu þeña Tilburd. Vottarner eru þrijr af Himnunum, Moyses, Elias, og sialfs Fodursins Raust, er vitnade af Skijenu. Moyses var eiñ trwr Raads-Madur i ollu Guds Hwse, hann valde Gud til ad wtleida sitt Foolk af Egyptalande, hañ talade vid Gud i Horeb, þegar Jsrael villde hafa sig undañ þeigeñ ad heyra Raustena Drotteñs Guds sijns, hañ medtook Logmaaled af hañs Hende, og talade vid hann optlega eins og Madur vid Mann talar. Hvert Moyses hafe vered hier med Saal og Lijkhama, skal eg ecke margt uñ tala, þad er vijst, ad hañ doo aa Fiollunum Habarim, hvadañ Gud sijnde honum Landed Canaan, og Gud groof hañ i Dalnum, segier Ritningeñ, Deut. 34. Þo er lijklegt, ad Moyses hafe hier allur vered, þvi uñ Eliam er þad vijst, ad hann foor med Ond og Lijkhama til Himnens, enn eingañ Mun giorer Matthæus edur hiner Gudspiallameñerner þeirra i sijnu Rite uñ þessa Opeñberan. Nockred fæera til ad styrkia þessa Meiningu, þad sem stendur i Judas Pistle, v. 9. Ad Michael Hofud-Engell hafe þrattad vid Satan uñ Lijkhama Moysis, so sem ad villde Andskoteñ hafa feinged Valld hañs, enn Gud hafe hann uppnumed, og ad vijsu lijtur Petur til þeirrar Sogu, er þar skrifud stendur, i sijns sijdara Pistils odrum Capitula. Enn hverneñ sem þessu er vared, þaa veit eg, ad hann sem uppvakte Son Eckiunnar af Sarepta, og hinnar Sunamitisku, hann sem Lazarum leidde wt af Grofenne, hann sem uppreiste Doottur Jairi, hann sem liet marga framlidna gaanga wr Grofunum i Christi Upprisu, honum var ecke uñ Megn, ad laata Moysen koma til þessarar Hatijdar aa Fiallenu helga med Ond og Lijkhama; og þesse var nu hinn annar himneskra Votta af Monnum. Enn hinn var, ad sijnu leite eingu minne, Elias, hver med ollum Riette maa nefnast hinn yppurste af Spaamonnunum, hann var hinn meste Vandlætare vegna Guds Nafns, hann liet slaatra Jessabels Spaamonnum vid Lækenn Kischon, honum sende Gud Elld af Himne yfer þaa tvenna fimtiju Achabs Sende-Menn, hañ fieck med Bæn af Gude Dogg af Himnenum, þaa ecke hafde rignt i heil þriw Ar, hañ foor med elldlegum Hestum og Vognum til Himna, hann talade vid Gud aa Fiallenu Horeb, eins og Moyses, og bader fostudu þeir i 40. Daga og 40. Nætur, eins og Christur i Eydemorkeñe, beggia þeirra gietur og Malachias i þridia Capitula

sinnar Maala Bookar, under eins og hann endar hid gamla Testament. Slijka Votta byriade Guds Syne ad hafa til Dijrdar sinnar, er hann forklaradest; Og skulum vier vita, ad Gud giorer eckert forgiefens, auk helldur so mikla Hlute, sem þesse var, oll var og Þorf a þvi; Sw Tijd var nærre komenn, ad Gud munde sla Hyrderen, og ad Sauder Hiardarennar mundu sundur tvistrast; Enn hverssu ad Læresveinarner hafe vered bwner under þaa Ogn, þad sijna oss Gudspialla Sogurnar. Ad sonnu hafde Petur lijst þvi skomu adur, Matth. 16. Ad Jesus være Christur Sonur Guds lifanda, og kallade Frelsaren hann sælan þar fyrer; Þvi Holld og Blood hefde honum þad ecke opennberad, helldur Ande sijns Fodurs; Enn þo took Holldeds so ad raada skomu þar epter, er Jesus talade um sijna Pijnu, ad Petur atalde hann, og sagde: Spara sialfann þig ad ei verde þier þetta; Ja, þegar hann heyrt hafde, ad Moyses og Elias toludu vid Drottenn um hanns sijdurstu Utfor fraa Jerusalem, þaa var þo Einfelldnenn so rijk i Holldenu, ad hann sagde: Vier Viliumm Giora Hier Priaar Tialld-Bwder: Þier Eina, Moysi Eina, og Eliæ Eina, og þo hann hefde Maal fyrer hinum Postulunum, þaa er audvitad, ad þeir hafa eins saa kiæner vered. Hier maa nu segia þad sama um þenna Guds Astvin, sem Paulus um sig segier: Þegar eg var Barn, giorda eg sem Barn, og eg talade sem Barn: Petur var enn nu ecke fullvaxenn i Christendoomenum, og þvi talade hann bernskelega. O þu Guds Madur! munde hann nockud þurfa Tialld-Bwdar vid, hvers Asiaana ad skein sem Sool, og hanns Klæde voru biort eins og Lioos? Munde hann ætla sier ad eiga langa Dvol a þessu Fialle, sem adur sagt hafde: Ad hann munde lijflatenn verda i Jerusalem, hvad þu og heyrder, Guds Vinur, af þessum tveimur himneskum Vottum? Var þesse Opennberan til þess gior, ad hun skyllde leinge vara, og ei miklu helldur til ad vera Forsmeckur hinnar eilijfu Dijrdar? Þvi skyllde Moysi og Eliæ giora Tialldbwd, eins og ad ei være i Jesu einum Sælann full? Riett hafa þeir nu Marcus og Lucas, skrifad um þetta Framfræde Peturs, ad hann hafe ecke vitad hvad hann sagde, kannskie þvi, ad Felmtur var yfer þaa komenn: Enn i þvi maa marka Elsku þaa og Traust, er hann hafde a Drottne, ad hann giorer ei Raad fyrer neinne Tialldbwd handa sier edur sijnum Lags-Monnum, þvi hann hefur vered fulltrwa þar um, ad þar sem hanns Herra være, þar mundu og þeir verda. So skulum vier og lynder vera, christner Menn, þegar vier erum visser um Christs Vinattu, þaa verum ecke hugsiwker fyrer Lijfe þessu. Hvar kunnum vier so ad vera hia Jesu, ad oss illa lijde? Hvar meigum vier so være fyrer utann hann, ad oss vel lijde? Vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa Drottenn, hann mun þvi vel til Vegar koma. Og þesse var nu Veikleike Peturs og hinna Læresveinanna; Enn til þess ad bwa þaa under hina miklu Freisting, sem a epterfylgde; Þaa skiede nu þesse dijrdlega Jardteikn, og þo þeim sialleft miog so Hugur, þegar i Raunernar rak, þaa er þad vijst, ad þeir hefdu miklu midur haft sig, hefde þeir aan hennar vered.

Þesser

Þesser voru þeir þrijr Læresveinar er Jesus took afsijdis med sier, og þeirre Nott er hañ forraadeñ var, þegar Kvoleñ hoofst. Gud Naade oss auma og synduga! Vier gietum hverke þolad heitt nie kallt med Jesu; Þessa dijrdlegu Syn gaatu þeir valla stadest, enn i Kvolenne svaafu þeir, þaa yfirgaafu þeir hann aller: Enn Þacker sieu þier, hin guddoomlega Speke, þu kannt ad midla fyrer oss bæde Medlæte og Mogtlæte, epter þvi sem þu veitst ad med Mañenum bijr: J þiñe dijrdlegu Forklaaran lietstu þijna Postula sioa þijna Dijrd, ad so miklu leite, sem þeirra daudleg Augu gaatu þolad, enn i Kvolenne leyfder þu þeim ad sofa uñ Hrijd; Þu gafst þeim og Fararleyfe þegar Hoopur Manna var yfir þig komienn, so þad maa jaata, Drottenn miñ, ad þu ert einn Biskup freistadur a allann Haatt lijka sem vier, þo aan Syndar; Þar fyrer kannt þu ad sampijnast Eymdum vorum.

Adur eñ eg skilst vid þetta Maal, þaa vil eg þar uñ tala, ad Postularner þecktu þaa Moysen og Eliam, er þeir alldrei hofdu þo aadur sied: Lijkleg er þeirra Gaata, er meina, ad af Samtalenu hafe þeir maatt þeckia þaa: Enn hverke Moyses nie Elias hofdu greinuglegar spaad uñ Drottenns Pijsler, helldur enn David og hiner Spaamennerner, sierdeilis Esajas, nema hann hafe þaa vid Nafn kallad, hvar uñ eckert er skrifad, þvi helld eg þad lijklegra, og nærre þvi fyrer satt, ad Guds Ande hafe þeim þad opennberad i þad sinn, þvi haim sem liet Samuel þeckia Saul Konung, aadur enn hann hafde hann sied, sem liet Johannem þeckia sinn Herra i Moodur-Lijfe, hann gat og audvelldlega giefed Christi Læresveinum þessa Þeckingu a Moyse og Elia, og er þad ecke lijtil Huggun fyrer christna Menn, ad hver einn mun þeckia ecke einasta sijna Ast-Vine, i þeirre himnesku Glede, helldur og alla utvalda, sem hafa yfirunned fyrer Lambsins Blood, fraa þeim fyrsta til þess sijdarsta, sem inngeingur i Fognud sijns Herra, og med þeim eilijflega glediast, og Gude Lof sijngia a þessu Fagnadarens Lande, og er nu þetta sagt uñ Moysis og Eliæ Vitne, sem voru fraa Himnum. Eñ hier kiemur eiñ ollum meire, sem uppfyller bæde Himen og Jord, þad er Fader Drotteñs vors Jesu Christi, sem hier vitnar, Þesse Er Sonur Miñ Elskulegur, Honum Skulud Þier Heyra. Riett er Gaata Hieronymi Lærefodur, ad minne Hyggiu, er hañ skrifar ad Moyses og Elias hafe þess vegna vered sveipader i Skije þvi hinu biarta, aadur enn Rausteñ kvad vid, ad ei skylldu Postularner meina, ad annarhver af þeim være saa, er til var talad: Og þegar þeir uppstoodu, þaa saau þeir eingann nema Jesum: Þeir saau hann alleina, i hverium alleina er Saaluhiaalpenn: Þeir saau hann alleina, sem er hiñ einaste Medalgaangare mille Guds og Maña: Enn hvilijkur er nu Vitnisburdurenn? Þesse Er Miñ Elskulegur Sonur. Jesus stood hier i sijnum fullum Manndoome, fullum af Guddoomenum, og þo segier Faderenn: Þesse er Minn Elskulegur Sonur, hvar af audsært er, ad Christur er Guds Sonur, bæde epter Guddoomenum og Manndoomenum. Minn Frelsare, Þeir kolludu þig Tymburmannsins Son, þinn Fader segier: Þesse Er Miñ Elskulegur Son,

ur. Þeir sogdu ad þu giorder þig ad Gude, af þvi þu kallader Gud þinn Fodur, eins Gud segier hier: Þesse Er Minn Elskulegur Sonur: Þeir sogdu: Vier vilium ecke láta þenna Drottna yfir oss, enn Drottenn allra Drottna, þinn Fader, er þeir kolludu sinn Gud, enn þecktu hann þo ecke, Hann segier: Þesse Er Minn Elskulegur Sonur, Honum Skulud Þier Heyra. Moyses hafde ádur fyrer sagt, Devt. 18. Spámann mun Drottenn uppvekia ydur af Brædrum ydar, honum skulud þier heyra: Enn sá hinn same kom til sinnar Eignar, og hans eigenn þecktu hann ecke. Moyses lærde og siálfur meira hier, helldur enn hann siálfur hafde fyrerspád: Ad sonu vissade hann til hans i greindum Spádoome, enn hier sá hann þad, sem bæde hann og marger Spámenn gyrntust ad siá, og sáu þad ecke. Abraham sá hans Dag ad sonu, enn ei sá hann Drottenn voru Hollde iklæddann, elns og Moyses i þessum Stad. Allra sijdarst vil eg giæta þess Mystunar-Verks, er Drottenn giorde á Læresveinunum, er þeim var lided i Briostt af þessare Dijrdar-Sioon, ad hann gieck ad þeim, og snart þá, og sagde: Standed Upp Og Vered Ohrædder. Hann sem alvanur var Dijrdenne, og þo i mannlegu Hollde opennberadur, hann kunne best ad vægia Holldsins Veikleika: Þad sijner hans Manndoom, ad hann snart þá, þad auglijser hans Guddoom, ad hann reiste þá á Fætur med þessu Atvike. Minn Herra Jesu! eg veit ad þu ert ei sijdur máttugur nu enn þá, og eckert Manngreinar Alit er hiá þier: So þegar vier follum i andleg Omegie, og hofum eingann Mátt edur Frid i vorum Beinum vegna Syndanna, þá gietur þu snorted oss, og reist oss á Fætur aptur, já, Drottenn, þegar hid sijdarsta Aungvited lijdur yfir oss i Daudanum, snert oss þá minn Frelsare, og seig til Sálar vorrar: Statt upp og vert ohrædd, og leid oss so inn i þijna Dijrd, þar er oss gott ad vera, þar vilium vier eilijflega med þier bua, þier, Fodurnum og heilogum Anda eendanlegt Lof sijngia, um Allder Allda, Amen.

Med Forlage og Fyrersogn Biskupsins, þess sæla Herra Sigurdar Steffanssonar: Er nu (med Guds Hiálp) ad niju þryckt hier á Hoolum i Hialltadal Huss-Postilla Biskups Mag. Joons Þorkiellssonar Widalin. I Ost og Von ad verde Gudi til Dijrdar, og hans Kyrkiu og Sofnude hier i Islande til allssamt arlegs Gagns og Gooda.

Hoolum i Hialltadal Dag. 7. Martii. 1799. Peirri Ost Sigur.

Þau Prent-Feil sem finnast kunna i þessare Book, er goodsws Lesare umbedenn ad lagfæra og lesa i Máled.



